

ABRAHAM LINCOLN

Mynd þessi er tekin 5. apríl 1865,
nokkrum dögum fyrir dauða hans.

# SAGA
# ABRAHAMS LINCOLNS

## BANDARÍKJAFORSETA

SAMIÐ HEFIR

BJARNI JÓNSSON

KENNARI



ÚTGEFANDI: BÓKAVERZL. EMAUS, REYKJAVÍK — 1923



## I. KAPÍTULI.

### *Fæddur til fátæktar.*

ABRAHAM LINCOLN hét maður. Þegar fyrst fara af honum sögur, þá var hann landryðjandi og jarðyrkjubóndi í ríkinu Virginia í Bandaríkjunum.

Af ætt hans og uppruna fara óljósar sögur. Mælt er að forfeður hans hafi flutst til Vesturheims frá Englandi með kvekaraforingjanum W. Penn (1682) og heyrt til sama trúarflokki. Víst er það, að þeir frændur voru alvörugefnir trúmenn og frábærlega þrautseigir, hófsamir og starfsamir, eins og kvekarar voru að jafnaði. Frá Pennsylvaníu (Pennskógum) fluttu þeir síðan og tóku sér bólfestu í ríkinu Massachusetts, og þaðan svo loks til Kentucky.

Hvorki höfðu þeir frændur auð né ættgöfgi sér til ágætis. Þeir voru flestir óbreyttir landryðjendur, eins og Abraham; einn var málari, einn járnsmiður og einn vefari.

Sonarsonur Abrahams, sá er þessi saga er frá sögð, vissi engin glögg deili á ætt og uppruna afa síns. Og þó að einhverjir byðust til að grafa það

upp fyrir hann, þá lét hann sér það í léttu rúmi liggja. »Mig varðar mestu«, sagði hann, »hvað úr sonarsyni hans verður«.

Það var árið 1780, sem Abraham Lincoln eldri fluttist frá Virginíu til Kentucky og tók sér þar bólfestu.

Kentucky hafði þá til skamms tíma verið órutt og óyrkt villimannaland eða eyðibygð; þar hafði enginn hvítur maður fyr fæti stigið. — Um þær mundir, sem Abraham fluttist þangað, voru nokkrir hugdjarfir og þrautseigir landryðjendur farnir að setjast þar að í skógunum. *Daniel Boone* er sá nefndur, sem fyrst ruddi sér þar til lands. Daniel segir svo frá, að hrikalegir vísundar hafi þá verið tíðari þar á gresjunum en kvikfé landnema. Þeir hafi brutt laufið af reyrnum eða kroppað grasið á hinum víðáttumiklu gresjum. Þar hafi þeir rásað fram og aftur óttalausir, því að þá hafi alt verið þar kyrt og óvant manni.

Þó voru þar fyrir herskáir og rángjarnir Rauðskinnar eða Indíánar; gjörðu þeir landnemum einatt þungar búsifjar; þeir lágu í launsátri fyrir þeim í skógunum og gjörðu þeim allan þann óskunda, sem þeir gátu. Þeir vildu sitja einir að landi sínu. Landnemar höfðu því einatt með sér langa laghnífa og kúlnabyssur, er þeir fóru út af heimilum sínum, vitandi, að þeir gátu alt af átt líf sitt að verja. Og ekki voru þeir heldur óhultir heima fyrir.

Marga ævintýrasöguna kunnu landnemar frá því að segja, er þeir hjuggu þjóðmenningunni braut í gegnum skógana vestur yfir fjöllin og áttu í harða höggi við Rauðskinnana og stöktu þeim á flótta.

Það voru þessir þrautseigu menn, er síðar ruddu sér og þjóðinni til landa alt vestur að Kyrrahafi.

Abraham Lincoln eldri var einn af þessum hraustu brautryðjendum. Hann settist að skamt þaðan, sem nú er borgin Louisville í Kentucky. Þar reisti hann sér bjálkakofa til íbúðar, eins og aðrir landnemar í þá daga.

Þegar hann var búinn að vera þar þriggja ára tíma, og ryðja land sitt að nokkru með óþreytandi elju, þá bar svo til einn morgun, er hann gekk til verka með sonum sínum þremur, að Rauðskinni sat fyrir honum í skógarjaðrinum og skaut hann til bana.

Landnemar í Kentucky áttu sér hvarvetna vígi, er þeir gátu flúið í, ef á þá var ráðist. Einn af drengjunum hljóp þá til næsta vígis og beiddist hjálpar af þeim, er í víginu sátu; en annar hljóp heim eftir byssu. En er honum varð litið út úr kofanum, sér hann hvar Rauðskinninn stendur bograndi yfir yngsta bróðurnum, þeim er skilinn hafði verið eftir hjá líki föður síns. Nú þurfti við snarræðis; drengurinn var í heljar greipum; bróðir hans tók það þá til bragðs að skjóta á Rauðskinnann út um smugu á kofaveggnum, jafnvel þótt eins gæti svo farið, að hann hitti bróður sinn; hann miðaði þá á hvíta djásnið á brjósti villimannsins og hitti; hann kollsteyptist og var steindauður. Svona slapp þá hinn ungi sveinn nauðulega úr höndum föðurbana síns. Þessi drengur hét *Thomas* Lincoln og var yngsti sonur Abrahams.

Eins og nærri má geta, þá var þeim sonum Abrahams óbætanlegt böl að missa föður sinn, svo

ungir sem þeir voru. Móðir þeirra tók sig þá upp þaðan og fluttist í annað hérað með sonu sína. Abraham var orðinn allvel efnaður, enda var hann hinn mesti atgjörvismaður, bæði til sálar og líkama; hann hefði heldur eigi að öðrum kosti gjörst landryðjandi í Kentucky, því að það var ekki heiglum hent. Ekkja hans seldi kofann, ekrurnar og gripina fyrir 600 dali (dollara); þótti það gildur bústofn í þá daga.

Það voru þá lög, að elzti sonurinn skyldi erfa meginhlutann af föðurleifðinni. Og svo fór hér. Th. Lincoln, yngsti bróðirinn, gekk slyppur og snauður frá skiftum og fór á mis við alla uppfræðingu. Hann varð því flökkudrengur í æsku, vann sitt handarvikið fyrir hvern til þess að fá bita og sopa. En líkamlegt atgjörvi hans var mikið; hann var hraustur og rammur að afli og nærfelt þrjár álnir á hæð. Gagnráðvandur var hann og gætti hófs í öllum greinum.

Ekki var Thomas framgjarn maður, og munu æskuraunir hans hafa miklu um það valdið; hann komst því ekki í neina málsmetandi stöðu; trésmíði lærði hann þó að lokum og gekk að því búnu að eiga *Nancy Hanks*, frændkonu meistara síns. Frændur hennar, Hank-arnir, höfðu orðið föður Thomasar samferða til Kentucky.

Nancy Hanks hafði orðið að sæta svipuðum kostum í æsku og unnusti hennar; hún fór manna á milli, munaðarlaus. Fríð var hún talin á yngri árum. Einn af nágrönnum foreldra hennar sagði einu sinni löngu síðar um þær Hanksstúlkur: »Þær voru öðrum fremri á útisamkomum; þær sungu

sálmana betur og hrópuðu hærra en nokkur annar í sveitinni okkar«.

Thomas Lincoln kvæntist 12. júní 1806. Brúðkaupsveizlan fór fram að siðum landnema í þá daga, og mundi nú mörgum þykja það hafa verið heldur draslaralegt veizluhald. Á borð var borið bjarndýrakjöt og villibráð og kjöt af villiöndum og kalkúnum. Þar var hlynsykri sveiflað að gestunum á þræði, og beit hver sinn bita af þræðinum, með kaffisopanum sínum eða brennivíninu. Þar var og borið fram síróp í stórum ávaxtakerum og ferskjur og villihunang; kind var soðin í heilu lagi yfir kolagröf og síðan á borð borin.

Fátækur var Thomas, þegar hann byrjaði búskapinn; en þó átti hann eina kú, dágott fjaðrarúm, vefstól og rokk. Hann settist nú að með konu sinni í þorpi einu í Kentucky og kom sér upp bjálkakofa; en ekki var innanrúmið þar meira en í meðalherbergi.

Nancy var nú 23 ára, en Thomas 5 árum eldri; en þó var hún bónda sínum miklu fremri að andlegu atgjörvi; hún var bæði læs og skrifandi, en hann var hvorugt; gjörði hún sér því alt far um að kenna honum hvorttveggja, en ekki komst hann þó lengra, að því er skriftina snerti, en svo, að hann gat með naumindum klórað nafnið sitt og kunni þó aldrei að stafsetja það rétt, heldur skrifaði ýmist »Lincern« eða »Lincorn«.

Þegar þeim hjónunum fæddist fyrsta barnið, þá þóttust þau sjá fram á, að Thomas mundi ekki geta unnið fyrir sér og sínum með handiðn sinni,

trésmíðinni, því að flestir bygðu kofa sína sjálfir, enda voru þeir kofar sjaldnast neitt listasmíði.

Thomas tók sér nú landskika einn nálægt þorpinu til yrkingar. Þar var mjög ófrjó akurjörð, og á þessum bletti bygði hann sér klamburslegan bjálkakofa. En hann átti fyrir sér að verða frægur kofinn sá, því að þar fæddist hinn nafntogaði sonur hans, *Abraham Lincoln*, 12. febrúar 1809.

Ekki sýndist annað liggja fyrir hinum unga sveini en að hann mundi alast upp í fátækt og lærdómsleysi. En mjór er mikils vísir. Enga átti hann vöggu, nema arma móður sinnar, og engan til að leika sér við, nema Söru, systur sína; leiksviðið hans var frumskógurinn í kringum kofann; leikföng átti hann engin, því að leikföng kosta peninga, og peninga höfðu foreldrar hans sjaldnast handa milli.

Að líkindum hefir Nancy Hanks aldrei hugsað svo hátt, að þessi sonur hennar mundi verða fremstur þar í nágrenninu og hvað þá, að hann mundi verða fremstur meðal þjóðar sinnar. Hún fæddi heiminum þennan son; meira vissi hún aldrei, því að hún dó áður en hann komst til mannvirðinga. Það var ekki að sjá, að neitt mikið lægi fyrir honum, svo kröpp sem kjör foreldranna voru.

Nancy var skynsöm kona og frábærlega trúrækin og guðrækin. Henni var það fyrir öllu, að drengurinn hennar yrði góður og ástúðlegur við foreldra sína, Söru systur sína og nágrannana, sem bjuggu á víð og dreif úti í skógunum.

Thomas var þolgóður og hjartanlegur og vildi

öllum vel; en úrræðalítill var hann og mentunarlaus með öllu; konu sinni var hann svo góður sem hann hafði vit á. Aldrei drakk hann vín né blótaði eða spilaði og aldrei átti hann í neinum ryskingum, og þó var drykkjuskapur, blót og formælingar og þras og þjark mjög títt hjá landnemum í þá daga. Vinsæll var hann af nágrönnum sínum, því að hann var alt af boðinn og búinn til hjálpar.

Þótt frumbyggjar þessir hefðu engan prest né kirkju, þá áttu þeir sína farandprédikara. *Pétur Cartwright* var einna nafntogaðastur og áhrifamestur af þeim prédikurum um þær slóðir. Þeir prédikuðu afturhvarf af svo miklum krafti og andagift, að syndarar fleygðu sér flötum niður, en stóðu síðan upp aftur sigri hrósandi yfir synd og djöfli. Þessi »kraftur« hafði komið yfir þau hjón bæði oftar en einu sinni. Og víst er um það, að þessi trú þeirra kom fram í breytninni; það var sannnefndur verknaðar-kristindómur. Bæði trúðu þau á »líf hjartans« og töluðu um það. Og á tjaldasamkomunum heyrðu þau mest um það líf talað og á útisamkomum prédikaranna. Og hvað sem kann að hafa brostið á fræðslu Lincolns hins unga þarna úti í skógunum, þá skorti hann ekki sanna hjartamentun.

Nancy þráði það daga og nætur döprum huga, að henni mætti auðnast að fá hlýrri og hagfeldari kofa til íbúðar en þann, sem þau áttu; en á því réðst engin bót; en í þess stað bygði hún sér í allri auðmýkt og lítillæti fegri höll en hún hafði hugboð um, með því að kenna *Abe* (eib) litla að

vera ástúðlegur og sannur og trúr. Og sæl mundi hún hafa orðið, ef hún hefði getað vitað fyrir fram, að hann mundi verða hvatamaður til góðra verka eða prédikari meðal frumbyggjanna. En þrátt fyrir alla fátæktina hið ytra og alla ófræðina, þá fékk hún syni sínum lykilinn að hinu mikilfenglegasta lífi verklegs kristindóms, sem nokkur maður hefir lifað.

Ástúðin frá hjarta hins unga sveins barst þegar í bernsku til foreldra hans og systur. Þau systkinin unnust hugástum og ávalt þótti Söru mikið til bróður síns koma. Á hinum löngu rökkurstundum hafði móðir þeirra þann sið að lesa fyrir þau, ýmist í biblíunni eða í »För Pílagrímsins« og örfáum bókum öðrum, því að fátt var þá um bækur í Kentucky.

Ekki höfðu þau hjónin annað til matar en kornið og jarðeplin, sem Thomas ræktaði, og veiðidýrin, sem hann skaut, og eigi annað til fata en það, sem Nancy spann og óf með iðnum höndum.

Ekki voru þá frískólarnir í Kentucky handa fátækum börnum. En þó að Nancy væri fátæk, þá vildi hún ekki annað heyra en að Abe litla og Söru væri komið til farkennara. En úr því varð þó ekkert að því sinni.

Skamt frá bólstað Thomasar var fljótskvísl ein mikil, kölluð *Syðrikvísl hin mikla;* þar átti hann veiðirétt og veiddi sér þar fiska til matar.

Nú er frá því að segja, að árið 1812 kom enskur herfloti til Bandaríkjanna og lokaði hverri höfn með ströndum frammi; var það árás af hendi

Breta, því að enn var grunt á hinu góða með Bretum og Bandamönnum út af því, að Bandaríkin brutust undan valdi Breta. Bandaríkin svöruðu árásinni með því að gjöra út víkingaskip; gjörðu þau Bretum tjón svo mikið, að þeir urðu að hverfa heim aftur við svo búið.

Við þennan atburð vaknaði þjóðernistilfinningin á heimili þeirra hjóna og fór úr því sívaxandi. Einu sinni sem oftar var Thomas að veiða í Syðrikvísl; en er hann var á heimleið með smábröndu eina í hendi, sem hann hafði veitt, þá hitti hann hermann einn. Nú hafði honum verið sagt og kent, að hann ætti að sýna hermönnum alla góðvild, því að þeir ættu helgri skyldu að gegna við föðurlandið. Thomas sýndi þá þegar þjóðrækni sína í verkinu og gaf hermanninum fiskinn sinn.

Thomas barðist nú þarna nokkur ár fyrir lífi sínu og sinna. En þá fór honum að leika hugur á að nema nýtt land í *Indiana*, sem þá var nýtekið í tölu ríkjanna. Aðalástæðan til þess, að hann vildi hafa bólstaðaskifti, var það, að brigður voru bornar á heimildarrétt hans til þess lands, er hann bjó á; en hann hafði ekki efni á að kaupa sér land, því að Kentucky var því sem næst alnumið og albygt, og þar voru frjóar lendur dýrar. Annað var það líka, sem hann hafði megna óbeit á, og það var þrælahald nokkurra bænda þar í ríkinu, þeirra er áttu víðáttumiklar lendur. Að sönnu héldu fáir þeir bændur þræla, sem voru í nágrenni við Thomas, því að lendur þeirra þar voru svo ófrjóar, að ekki þótti tilvinnandi að láta þræla hafa akurgjörð, af því að þeir unnu svo illa. En

þrátt fyrir það vildi Thomas vera sem fjarst slíkri óhæfu, sem þrælahaldið var. Að minsta kosti er það haft eftir syni hans.

Thomas seldi nú ekrur sínar og kofa fyrir 1600 potta af kornbrennivíni og 20 dali í peningum, og jafngilti það alls 300 dölum.

Um þessar mundir lagði stjórnin engan toll á áfenga drykki; var því hverjum bónda frjálst, að gufuseyða svo mikið af korni sínu, sem hann vildi og breyta í brennivín. Bændur höfðu líka lítinn hag af miklum kornbirgðum, því að engin var þá járnbrautin, svo flytja mætti korn til markaðar. Það þótti gott, ef hægt var að selja tvær skeppur af korni fyrir 10 sent (cent). En væri brennivín bruggað úr korninu, þá var hægðarleikur að selja það, því að brennivínið var því sem næst jafngilt peningum, en peningar voru þá torgætir.

Thomas gjörði sér nú timburfleka, og út á hann bar hann svo alt sitt brennivín, og tólaskrínu sína, og lét svo berast niður eftir Syðrikvísl og út í Óhíó-fljótið, og kom að landi í Indíana og kaus sér þar þéttan timburskógteig til bústaðar.

Þegar hann kom til baka, þá var kona hans tilbúin að fara með honum til hins nýja bólstaðar. En áður en hún færi, inti hún þó það dapurlega skylduverk af hendi að leiða Abe litla og Söru að litlu leiði; undir því lá annar drengur, sem hún hafði átt og mist. Og er hún gekk frá leiðinu, þá hrundu henni tár af auga, því að nú átti hún aldrei að fá að sjá það framar. En hvað litla leiðið var eyðilegt, því að enginn minnisvarði var reistur á því og nú var enginn til að hlúa að því framar.

Þó að Abe litli væri þá ekki nema 5 eða 6 ára, þá var hann farinn að starfa fyrir móður sína og föður sinn og vann bæði lengi og kappsamlega. Helzta verkið hans var að höggva ilmviðargreinar og bisa við að draga þær heim, til þess að glæða með þeim eldinn á arninum á kvöldin, til þess að mamma gæti þá lesið eitthvað fyrir þau systkinin. Ilminn af viðinum lagði svo um allan kofann. Birtan og ilmurinn af þessum bernskuminningum Lincolns bjuggu alla æfi í sálu hans.

## II. KAPÍTULI.

### *Lífið í Indíana.*

Það var árið 1816, sem Thomas flutti búferlum til Indíana. Þá var Abe 7 ára. Allar eigur sínar fluttu foreldrar hans á tveimur lánshestum, þær sem eftir voru. Þar hét *Litla-Dúfnavík*, sem Thomas hafði valið sér bólstað; var það skamt frá Óhió-fljótinu, en samt voru þau þrjá daga á leiðinni. Thomas varð nefnilega svo víða að höggva sér veg gegnum skóginn með öxinni sinni. Ekkert skýli áttu þau enn yfir höfuð sér. Það var því fyrsta verk Thomasar að fella ungviði og búa til úr því stangaskýli. Þetta var þá híbýlið, en skýldi þó ekki nema á þrjá vegu; ein hliðin á skýlinu var opin og var því kallað »Opingátt«, og var það sannnefni.

Þegar Thomas var búinn að koma upp skýli þessu, fór hann óðara að ryðja landið í kringum það, til að geta sáð þar korni og ræktað jarðepli

til matar. Þó að Abe væri ungur, þá rétti hann þó föður sínum hjálparhönd, því að hann var bæði stór og sterkur eftir aldri og gat látið öxina ríða að furðu hart. Faðir hans réðst á stórtrén, en Abe á hin minni. Þegar þeir voru búnir að fella trén á fyrirhugaðri akurskák, þá sáði Thomas sæði í skákina, en full var hún þó af rótarhnyðjum. Ávalt hyltist Thomas til að sá í tunglsljósi, en jarðepli setti hann aldrei niður nema í niðamyrkri, eins og allir aðrir hygnir bændur gjörðu um þær slóðir. Allir voru þessir landnemar fullir af gamalli hjátrú; alt hið daglega líf þeirra og hættir stjórnaðist af táknum og fyrirburðum.

Indíana var villimannaland. Þar voru Indíánar einir fyrir. Dómþing landnema var háð í bjálkakofa; dómnefndin, eða kviðurinn, sat á viðarbol úti í skógi, er mál átti að reifa og dæma. Landnemar sömdu sig að háttum Indíána að klæðaburði. Það er sagt um kviðdómsmennina, að enginn þeirra hafi haft stígvél á fótum, heldur hafi allir haft sólalausa Indíána-skó á fótunum; þeir klæddust og dádýrafeldum, eins og Indíánar. Aldrei fóru þeir svo út af heimilum sínum, fremur en í Kentucky, að ekki hefðu þeir með sér byssur sínar og laghnífa. Ekki áttu bændur önnur áhöld en öxi, trésleggju, plóg og sigð. Konur höfðu eigi aðra títuprjóna í búnaði sínum en þyrna af villirósum. Te sitt brugguðu þeir af villirótum, sem þeir grófu sér í skóginum.

Landnemar bjuggu mjög dreift. Dægurskemtanir þeirra voru einkum ræktun korns og jarðepla kringum kofana og svo veiðifarir, nema þá sjald-

an, er brúðkaup var haldið. Þá komu þeir óboðnir hvaðanæva og eltu brúðhjónin á röndum nætur og daga með allskonar háværum leikaraskap og gamanbrögðum. Veiðidýr sín ráku þeir allir í eitt áheldi og slátruðu þeim svo þar. Þeir höfðu einatt veiðimat í hverja máltíð. Nálægt kofa Thomasar var saltlind í Víkinni. Þangað sóttu dádýrin, og þurfti Thomas því eigi langt að fara til að skjóta sér dádýr til matar.

Abe var ekki gefinn fyrir veiðar. Hann segir sjálfur svo frá, að fáum dögum eftir það er hann var fullra 8 ára, þá hafi kalkúnahópur komið þjótandi heim að kofanum, þegar faðir hans var ekki heima; hann tók þá byssu og skaut á hópinn út í gegnum rifu á kofanum og drap einn kalkúnann. Upp frá því skaut hann aldrei á nokkra skepnu.

Kofinn þessi var þá nýbygður. Thomas bygði hann annað árið sem hann bjó í Indíána, því að allan fyrsta veturinn hafðist fjölskyldan við í »Opingáttinni« í öllum vetrarnæðingunum. En vorið eftir lét Thomas hreysi þetta af hendi við einn af ættingjum konu sinnar, sem fylgst hafði með þeim frá Kentucky; þá settist Thomas að í nýbygða kofanum. En svo voru rifurnar á honum víðar, að skjóta mátti kalkúna út um þær. Í kofa þessum var hvorki gólf né gluggi. Þau lágu þarna á beru moldargólfinu. Og þegar hláka kom að vetrinum, þá varð moldin ein forarefja. Og þó að snjór væri og slydda, þá var ekki einu sinni hengt fyrir smugu þá, sem átti að heita dyr. Ekki var nema ein vistarvera í kofanum. Í einu horninu

var tveimur stöngum stungið út á milli bjálkanna uppi undir lofti; það átti að vera rúmstæði; ofan á stangirnar var settur haugur af trjálaufi. Þarna var Abe litli látinn sofa; á kvöldin hoppaði hann eins og köttur upp í þetta bæli sitt eftir hælum, sem reknir voru í vegginn. Samskonar rúm átti móðir hans, en ekki eins hátt uppi. Ekkert leirílát var til í kofanum; allur borðbúnaður var úr tini og pjátri, og að auki voru ávaxtaker úr gleri.

Það var nú mark og mið Thomasar og fleiri landnema, að yrkja eigi meira korn en til heimilisþarfa, t. d. ekki meira hveiti en þurfti í kökur á sunnudögum. Það gaf svo lítinn arð kornið, af því að þeir voru svo langt frá sölustöðum. Thomasi var annars alt annað en sýnt um búskap. Stundum höfðu þau ekkert til matar, nema jarðepli og voru þau stundum etin hrá, því að ilt var að halda eldi lifandi í þá daga og eldspýtur voru þá ófundnar. Abraham sagði það líka síðar með döpru bragði, að um þær mundir hefði hann sannlega búið að hörðum kosti.

Landið í Indíana var lágt og flatt og vatnsagi mikill í skógarrjóðrunum. Upp af þessum mýraflóum lagði óhollustuloft mikið í sumarhitunum og varð af því mannskæð drepsótt (malaría). Landnemar kunnu ekki að verjast drepsótt þessari; greip hún nú einn af öðrum og kölluðu þeir hana »mjólkursýki«, því að hún lagðist líka á búpening þeirra. Kona Thomasar var nú orðin lömuð bæði á sál og líkama af harðrétti því og vosbúð, er hún hafði orðið að þola undanfarna tvo

vetur, og þess vegna varð hún þessari skæðu drepsótt að bráð, sem sveikst að fólki eins og Indíáni.

Til læknis var ekki hægt að ná; hans var of langt að leita; hitasóttin brendi því lífið úr æðum konunnar, og Thomas og börnin vöktu því hjá rúmi hennar og gátu engar bjargir veitt henni. Þegar hún var að fram komin, þá kraup Abe litli hjá móður sinni; lagði hún þá höndina á höfuð honum og réð honum og systur hans síðustu heilræðin, sagði þeim, að þau ættu að vera góð hvort við annað, og annast veslings pabba sinn, og áminna alla um að elska hver annan, elska ættmenn sína og tigna Guð. Þessu lét hún þau lofa sér að skilnaði. Nancy dó 5. des. 1818.

Þegar hin þreytta sál var gengin inn til hinnar eilífu hvíldar, þá komu ættmennirnir saman og jarðsettu hana í skógarjaðrinum utan við akurteiginn. Thomas feldi furutré og hjó úr því borð og Abe litli hjálpaði honum til að höggva þau til og negla þau saman með trénöglum. Það var sannlega óhefluð kista, en nú höfðu þeir ekki betra að bjóða ástríkri konu og móður. Að því búnu jarðsettu þeir hana í grunntekinni gröf á dálitlum hóli. Enginn prestur kom þar nærri, engin bæn var beðin, en börn og ættmenn grétu sáran. Nú fékk þá hin látna að njóta þeirrar hvíldar, sem lífið hafði synjað henni. Alla æfi mintist Abraham móður sinnar með djúpri lotningu og kallaði hana »móðurengilinn« sinn.

Það er mælt, að fyrsta bréfið, sem hann skrifaði, hafi verið bónarbréf til gamals »prests«, sem *Elkin* hét; sá prestur hafði kynst móður hans á

»gamla heimilinu í Kentucky«. Nú sárbændi hann prestinn að koma og halda ræðu yfir grasgrónu leiði móður sinnar á hólnum. Þetta gjörði gamli, góði presturinn svo árið eftir. Það voru engin undur, þó að hinn hugsunarsami og þakkláti sveinn hafi geymt minningu móður sinnar í hlýju hjarta, því að löngu síðar sagði hann af miklum innileik við einn af vinum sínum:

»Alt, sem eg er, og vona að verða, á eg blessaðri móður minni að þakka«.

Þegar húsmóðirin var hnigin í valinn, þá var heimilið auður sorgarstaður; móðurina vantaði, elsku hennar og guðrækni. Thomas var ógn einmanalegur, eirðarlaus og geðstirður. En þó að þau Abe og Sara væru sárhrygg sjálf, þá gjörðu þau alt, sem þau gátu til að hugga og gleðja föður sinn. Dennis Hanks, móðurfrændi þeirra, segir svo frá:

»Abe var stundum að skrifa með spýtu, sem var kolbrend í annan endann, bæði á gólfið inni og girðinguna úti. Við gátum svo náð í lítilsháttar af pappír í einu sveitaþorpinu handa honum. Eg bjó honum til blek úr rósviðarrótum og lét saman við það vitund af blásteini. Eg skar fyrsta pennann handa honum úr fálkafjöður. Stundum skrifaði hann með spýtu á hvítan sandinn niður við Víkina og lét svo þá stafi standa, þangað til fljótsöldurnar skoluðu þeim burtu«.

Veturinn fór nú í hönd. Thomas og börnin sátu í sorgum sínum. En hann mun þó hafa séð, að ekki mátti við svo búið standa. Og einn daginn hvarf hann og var að heiman nokkrar vikur.

Börnin héldu, að hann hefði farið í veiðiför, en sú för orðið í lengra lagi.

En hið sanna var, að Thomas hafði brugðið sér til Kentucky, til að leita sér þar að nýrri húsmóður og móður handa bágstöddum börnum sínum.

Og hann var hygginn í konuvalinu. Hann hitti þar konu, sem hann hafði kynst á yngri árum, en nú var ekkja. Hún hét *Sara Bush*. Þessarar konu bað Thomas og festi sér til eiginorðs, og svo hafði hann hraðan á borði, að morguninn eftir var hann stríðgiftur (2. des. 1819).

Þegar Thomas hvarf aftur heim til Dúfnavíkur með konu sína og Jón son hennar og dætur tvær, þá þurfti hann að fá fjóra hesta að láni undir muni hennar, því að hún var efnuð í samanburði við bónda sinn. Veslings Abe var nú sem munaðarlaus; enginn hirti um hann. Honum varð nú heldur starsýnt á þessa hávöxnu og hrokkinhærðu konu föður síns, og enn starsýnna varð honum á húsgögnin hennar fallegu. Eitt af þeim var skrifborð með hólfum, sem sjálfsagt var 50 dala virði. Nú skifti um fyrir honum. Nú átti hann að fá fiðursæng í staðinn fyrir laufabeðjuna og kodda undir höfuð sér. Svo hafði hún líka með sér tvær heimaunnar ullarábreiður og enn aðrar ábreiður stungnar og troðnar, hörrokk og þvottaketil.

Abe feldi brátt ást til stjúpu sinnar, og hún var ekki lengi að komast að því, að »Abe var ekki eins og drengir alment gjörast«. Mörgum árum síðar lýsir hún sambandinu þeirra milli með þessum orðum:

»Eg get sagt það, sem ein móðir af þúsund gæti varla sagt. Abe talaði aldrei aukatekið orð til mín, né gaf mér ilt auga, og aldrei færðist hann undan, hvorki í sjón né raun, að gjöra neitt það, sem eg bað hann að gjöra. Eg átti son, Jón að nafni, og ólust þeir upp saman. Báðir voru þeir góðir drengir; en það hlýt eg að segja nú, er þeir eru báðir dánir, að Abe var beztur allra þeirra drengja, sem eg hefi nokkurn tíma hitt eða búist við að hitta fyrir«.

Sara Bush hafði góða og gilda ástæðu til að ljúka þessu lofsorði á hlýðni og hollustu og elsku Abes litla. Hann var henni síþakklátur fyrir samhygð hennar og ástúð þá, er hún sýndi honum á æskuárum hans.

Þessi nýja húsmóðir skipaði nú að setja þvottaborð fram við kofadyrnar. Börnin laugaði hún frá hvirfli til ilja og fékk þeim nýjan fatnað. Abe fékk nú ullarskyrtu í staðinn fyrir dádýraskinns-skyrtuna gömlu. Sara rak mann sinn líka til að setja hurð á hjörur fyrir kofadyrnar, leggja gólf í kofann, höggva á hann glugga og setja í hann skjá úr pappír vættum í fitu, til þess að hann bæri dálitla birtu.

Abe var nú búinn að týna hinu litla, sem hann hafði lært hjá farkennaranum í Kentucky; hann kunni nú varla að draga til stafs; en einhvern veginn hafði hann þó komist fram úr því að halda búreikningana fyrir föður sinn.

En að sleptum skóla og bókum hafði hann ekki önnur tök á að fræðast en að spyrja ferðamenn spjörunum úr; sýndi hann þá bezt, hve fróðleiks-

gjarn hann var. En faðir hans kunni þessu illa, því hann gat engan þátt tekið í þessari fróðleiksfýsn sonar síns. Abe sat löngum á girðingunni fyrir framan kofann og spurði svo lengi sem nokkur fór þar fram hjá og vildi standa við til að gegna honum, eða þangað til faðir hans kom að og rak hann þaðan.

Einu sinni brotnaði vagn hjá manni úti á veginum skamt frá kofanum. Kona mannsins, sem átti vagninn, fékk að sitja inni í kofanum, þangað til búið var að gjöra við vagninn. Abe mintist þess síðar, að konan þessi hafði með sér bækur og las upp úr þeim sögur fyrir börnin. Það voru fyrstu sögurnar, sem Abe hafði heyrt. Í kofann kom aldrei nokkur bók eða blað; þess vegna gat Abe ekki gleymt bókunum né konunni, sem las fyrir hann sögurnar. Þetta atvik með vagninn varð því til að opna fyrir honum nýjan heim — bókmentaheiminn.

Þegar hin ráðdeildarsama og þrekmikla húsmóðir tók við stjórninni, þá óx hagsældin og vonirnar vöknuðu í brjóstum hinna ungu. Það var þó alt annað en lítið, sem hún hafði á hendi, því að nú voru 9 manns í heimili: þau hjónin og börnin þeirra fimm og tveir frændur fyrri konu Thomasar. En allur þessi hópur bjó nú í friði, ást og eindrægni í einni og sömu vistarveru, og sannaðist þar hið fornkveðna, að þröngt mega sáttir sitja.

Þau Abe og stjúpa hans voru sérstaklega samrýnd. »Sál hennar og mín sál — sem lítil var — virtust renna saman í eitt«, sagði hann síðar. Hún skifti hjarta sínu milli barna sinna og barna

mannsins síns, og með því helgaði hún stjúpmóðurnafnið.

## III. KAPÍTULI.

### *Mentunarþráin vaknar.*

Lincoln segir sjálfur svo frá:

»Það var villigeimur, þar sem eg ólst upp. Alstaðar var krökt af björnum og öðrum villidýrum. Skólar voru þar að nafninu til; af kennurunum var ekki meira heimtað en að þeir gætu kent að lesa og skrifa og reikna út að þríliðu. Ef einhver settist að þar í nágrenninu, sem eitthvað kunni í latínu, þá var hann álitinn vera fjölkunnugur. Þar var alls ekki um neitt að ræða, sem vakið gæti mentunarþrá hjá ungum manni«.

En þrátt fyrir þetta vaknaði þó mentunarþráin hjá Abe. Þarna úti í frumskógunum skapaðist hið ótrauða, seiga eðli hans við fátæktina, stritið og sorgina — þar skapaðist manndómur hans. Það var eins og hann væri sprottinn upp úr sjálfri jörðunni. Frumskógurinn var háskólinn hans; þar lærði hann meira en margur drengurinn lærir á reglulegum háskóla, því að þar lærði hann að nota höndina jafnt sem höfuðið, að hugsa og starfa af sjálfsdáðum. Sálargáfur hans voru seinþroska; þær voru að þroskast alla æfi hans. En að siðgæði virtist hann vera fullþroska þegar á barnsaldri.

Það var hin góða og göfuga stjúpa hans, sem hvatti hann til að lesa og nema. Það var hún, sem hafði það fram, að öll börnin voru látin ganga í

skóla, þótt ekki væru það nema fáar vikur í senn, og þótt skólagjaldið þyngdi dálítið á herðum Thomasar. Thomasi var eins varið og ómentuðum og fávísum nágrönnum hans. Hann vissi ekkert, hvað skóli var og skeytti ekki um neitt; hann hélt, eins og grannar hans, að Abe væri farinn að liggja í bókunum til þess að koma sér hjá störfum, og kvað skólann vera órækan vott um »hreina og beina leti« og skólagönguna ekki annað en helbera tímaeyðslu; hann sagði sér væri öll þörf á því, sem drengirnir gætu unnið fyrir. Og hve nær sem hann gat fundið minstu átyllu til, þá tók hann Abe úr skólanum, ef hann annars hafði slept honum þangað. En þótt Abe væri stór og sterkur og ynni af öllum kröftum, þá gat hann aldrei fengið meira en 25 sent fyrir dagsverkið. Og þetta vesala kaup tók svo faðir hans alt af og hélt því; aldrei fékk hann einn eyri handa sjálfum sér.

Flestir unglingar mundu nú heldur hafa farið úr föðurgarði en að sæta þessum kjörum. En Abe brást ekki föður sínum, heldur hjálpaði honum eins og hetja, og gjörði stjúpu sinni lífið viðunanlegt og jafnvel glatt, þegar hún átti í basli út af úrræðaleysi föður hans.

Ekkert skólahús var þarna á suðurmærum Indíanaríkis. Farkennarinn hélt skóla sinn í einhverjum bjálkakofa. En þótt lítil tök væru á að njóta fræðslu í öðru eins greni, þá var Abe sífús að labba þangað. Einu sinni þurfti hann að ganga tvær mílur vegar til skólans til og frá á hverjum degi.

Vegurinn, sem hann fór, var lítið annað en dá-

dýraslóðir úti í þessum eyðiskógi; en Abe var nú alt af gefinn fyrir einveruna. Miðdegismatinn sinn hafði hann í vasa sínum; var hann eigi annað en kökubiti úr grófgjörðu mjöli. Alla sunnudaga sat hann yfir bókum sínum, því að ekki töfðu kirkjuferðirnar fyrir honum. Og hve nær sem hann komst höndum undir í laugardagsönnunum, þá tók hann kenslubækurnar sínar. Faðir hans hafði megna óbeit á svo gagnslausum hlutum, sem bækur væru, svo að stjúpa hans varð að sárbiðja föður hans að lofa honum að lesa heima.

Abe æfði sig í reikningi með því að skrifa dæmin sín á trérekublað með viðarkoli, því að ekkert átti hann spjaldið og pappír var af skornum skamti, og enginn var blýanturinn til heldur. Þegar hann var búinn að reikna út alt rekublaðið, þá skóf hann allar tölurnar af aftur. Hann hripaði líka setningar úr bókum sínum á alla bjálkana í kofanum og á hvern borðbút, sem hann náði í. Fyrir þessa kappsmuni varð hann auðvitað efstur í sínum bekk í einu stökki. Í stöfun varð hann brátt svo leikinn, að hann »stafaði allan bekkinn niður fyrir sig«, eins og hann komst að orði. Og sagt er, að hann hafi á endanum verið útilokaður frá hinum stöfunarbörnunum, því að hann mun eigi hafa þótt eiga samsuðu með þeim. Skrift var honum kærust af öllu námi, enda náði hann góðri og skýrri hönd. Það varð til þess, að hann var fenginn til að skrifa hvert bréf fyrir heimilisfólkið og nágrannana, þá er eigi voru sendibréfsfærir. Elzta handritið hans, sem nú er til, er forskrift, sem

hann gaf æskuvini sínum, og er hún svolátandi á ensku:

»Good boys, who to their books apply,
will all be great men by and by«.

(Góðir drengir, sem stunda bækur sínar, verða allir miklir menn smám saman). Þessar hendingar minna á gömlu íslenzku vísuna:

»Að lesa og skrifa list er góð« —.

Jafnskjótt sem Abe var orðinn læs, þá varð hann ólmur í bækur. Engin bók var þó til á heimilinu og ekkert alþýðubókasafn var til heldur. En hve nær sem Abe heyrði einhverrar bókar getið fjær eða nær, þá lagði hann af stað til eigandans og fékk hana að láni, þangað til hann var búinn að drekka hana í sig alla spjaldanna milli. Með þessum hætti komst hann yfir og las eftirtaldar bækur: Dæmisögur Esóps, För pílagrímsins, Róbinson Crusoe og sögu Bandaríkjanna.

Til þess að geta ritað hjá sér þær málsgreinar úr bókunum, sem honum þóttu beztar, þá keypti hann sér vasabók og ritaði þær í hana. Frá blekinu og pennanum er áður sagt.

Einu sinni barst honum orðabók í hendur. Þá bók las hann orð fyrir orð, dag eftir dag fram í rauðamyrkur. Á efri árum sínum sagði hann frá því, að hann hefði alt af reiðst, ef hann heyrði einhvern nota orð eða orðtak, sem hann skildi ekki; kvaðst hann oft hafa gengið um gólf langt fram á nótt til að reyna að fá skilning á einhverju, sem hann hafði heyrt, eða stokkið fokvondur upp

í bælið sitt oftar en einu sinni. Og ekki gat hann sofnað, fyr en hann var búinn að ráða gátuna og finna leið til að segja hið sama með hinum einföldustu orðum; gæti hann það ekki, þá reiddist hann dulmælum þessum.

Einu sinni urðu stjórnarskipunarlög Indíanaríkis honum að herfangi. Og það var ekki ónýtt, að hann komst yfir þá bók, því að í sömu bókinni var stjórnarskrá Bandaríkjanna og yfirlýsingin um það, að Bandaríkin væru óháð Englendingum, og skipun ein (frá 1787), þar sem Indíana og alt landið milli Óhió og Missisippi var helgað sjálfstæðinu og frelsinu með þessum augljósu og nú alkunnu orðum:

»Á nefndu svæði skal hvorki vera þrælahald né skylduherþjónusta, nema hegning sé fyrir glæp og hafi sakborningur reynst sannur að sök að lögum«.

Það má með sönnu segja, að þessi bók, þótt slitin væri og óeiguleg, veitti Abe betri skilning á stjórn Bandaríkjanna en margur stórskólinn veitir lærisveinum sínum nú á dögum.

Maður nokkur, Crawford að nafni, lánaði Abe »Æfisögu Washingtons« eftir Weemes. Þar átti hann kost á að lesa hina ógleymanlegu sögu frelsisstríðsins, er Bandaríkin brutust undan yfirráðum Breta. Þar gat hann fundið mörg göfug dæmi til eftirbreytni. Þessi dæmi urðu hinum unga manni einkar hugstæð. Heilum mannsaldri síðar mintist hann á sögurnar í þessari bók, á orusturnar, sem háðar voru og mannraunirnar, sem hermenn Washingtons urðu að þola árið 1776. Á þetta mintist

Lincoln í ræðu, er hann hélt til hermanna sinna (1861).

»Þér vitið það allir«, sagði hann, »því að þér hafið allir smádrengir verið, að lengi man það, er ungur getur, lengur en nokkuð annað, og áhrifin af því vara lengur en nokkur þau áhrif, sem vér verðum fyrir síðar á æfinni. Eg man eftir því, að þegar eg var barn að aldri, þá hugsaði eg með mér, að það hefði verið eitthvað meira en þetta hversdagslega, sem þeir hefðu barist fyrir. Mér er það hið mesta áhugamál, að því, sem vér nú höfum staðráðið að gjöra, verði haldið áfram í fullu samræmi við frumhugsjónina, sem þá var barist fyrir«.

En Lincoln hafði líka aðra ástæðu til að minnast þessarar sögu. Hann var svo hrifinn af sögunni, að hann hafði hana með sér upp í bælið sitt og las svo þangað til kertið hans var brunnið upp til agna. Að því búnu stakk hann bókinni út í rifu á veggnum, til þess hann þyrfti ekki annað en rétta höndina eftir henni, þegar hann vaknaði morguninn eftir. En um nóttina skall á stormur með stórrigningu, svo að bókin rennvöknaði. Crawford, sem nágrannar hans kölluðu »Blánef hinn gamla«, krafðist skaðabóta fyrir bókina og dæmdi Abe til að draga fyrir sig fóðurgras heim af akri í þrjá daga fyrir 25 sent um daginn og borga svo með því bókina! En Abe lét sér ekki segjast við þessa ráðningu: hann fékk bækur léðar til hægri og vinstri eftir sem áður, þangað til hann var genginn úr skugga um, að hann væri búinn að

lesa hverja bók, sem þar væri til á 12 fermílna svæði.

Skólavistin hans var ekki fult ár öll til samans. Þó var hann í skóla við og við, þangað til hann var 19 ára gamall; en í hvert skifti, sem föður hans þótti við þurfa, þá tók hann Abe úr skólanum eftir fáar vikur. Og þyrfti faðir hans ekki á honum að halda við heimastörfin, þá fanst honum hann gæti ekki án verið senta þeirra, sem Abe gæti unnið fyrir hjá nágrönnunum, því að alt af var skorturinn fyrir dyrum hjá Thomasi.

En þótt skólaganga Abes væri ekki löng hvern veturinn, þá eru margar sögur sagðar af gjörðum hans þar. Það voru engin strákapör né heldur neinar fádæma framfarir í náminu, heldur voru það ýms líknarverk við menn eða skepnur. Fyrsta ritgjörðin hans í skólanum var alvarleg andmæli gegn *illri meðferð á skepnum.*

Abe var snemma vörður og verndari þeirra, sem enga vörn gátu veitt sér. Hann gat ekki horft á að nokkur skepna yrði fyrir illri meðferð, hversu lítilmótleg sem hún var. Einu sinni sá hann strákaprakkara hafa sér það að gamni að leggja glóandi kol á bakið á veslings mýraskjaldböku. — Strákarnir, og stelpur nokkrar, sem með þeim voru, hlóu dátt að skjaldbökunni. Hún þrammaði áfram með glæðurnar á bakinu, alveg forviða, og kendi auðsjáanlega til. Þegar Abe litli sá þessar aðfarir, stökk hann inn í strákahópinn fokvondur, þreif þakspóninn af forsprakkanum og þeytti glæðunum með honum af baki skjaldbökunnar, barði svo strákana á eftir með spæninum. Þegar hann var

búinn að tvístra þeim til hægri og vinstri, þá sagði ein stúlkan, sem var sjónarvottur að þessari viðureign, að hann »hefði prédikað gegn slíkri grimd«, og sagt við flíssandi strákana, með tárin í augunum og sárreiður: »Hverjum maur eða ánamaðki er jafnkært sitt líf og oss er vort líf«. — Abe kendi í brjósti um alla ógæfumenn, sérstaklega þá, sem aðrir ömuðust við og sögðu hafa verðskuldað hlutskifti sitt.

Einu sinni var hann á ferð seint um kvöld með nokkrum kunningjum sínum; gengu þeir þá fram á mann, sem lá í forinni utan við veginn dauðadrukkinn í helkulda og frosti.

»Sá hefir búið um sig«, sögðu félagar hans, »látum hann liggja, eins og hann hefir um sig búið«. En Abe hrylti við þessum ummælum þeirra. Þeir skildu þá við hann og fóru hver heim til sín; þóttust þeir vita, að engum væri þökk á, að þeir færi að bjarga þessum drykkjuræfli. En Abe sá, að veslings maðurinn hlyti að frjósa til bana, ef hann væri látinn liggja þarna. En hann var bæði stór og þungur, eins og dauður væri.

Einn af vinum Abe's sagði svo frá þessu líknarverki hans:

»Þegar Abe sá, að enginn vildi rétta honum hjálparhönd, þá beygði hann sig niður, stóri og sterki drengurinn, og tók manninn á sína löngu og styrku arma og bar hann all-langan veg heim að kofa Dennis Hanks. Þar kveikti hann eld og vermdi manninn og núði og hlynti að honum alla nóttina.

Maðurinn mintist oft á þetta síðar við Jón Hanks: »Rösklega var það gjört af Abe, þegar hann bar

mig heim og vermdi mig við eldinn þá frostköldu nótt«. Maðurinn var þess fullviss, að Abe hefði bjargað lífi sínu með þessari aflraun sinni og aðhlynningunni, sem hann veitti honum.

Og ekki var Abe langrækinn. Skömmu síðar en »Blánefur gamli« hafði leikið hann svona hart út af sögubókinni, sem skemdist, þá varð hann vikadrengur hjá honum. Sara systir hans var þá fyrir hjá þeim hjónum. Abe undi sér hið bezta hjá »Blánef gamla«, bæði af því að systir hans var þar fyrir, og svo sérstaklega af því, að honum gafst færi á að kynnast konu Blánefs, því að hann fékk hinar mestu mætur á henni.

Hún kunni margar sögur að segja af Abe, meðan hann var hjá þeim: »Abe var viðkvæmur í lund. Alt af var hann á sínum stað stundvíslega, og aldrei kom hann þar, sem ekki þurfti á honum að halda. Hann var ljúflyndur og góður í sér, eins og systir hans; en hún var nokkurskonar alt í öllu hjá mér um sömu mundir. Ávalt lyfti hann hattinum og hneigði sig, þegar hann kom einhversstaðar að. Og þegar hann kom inn, til að »hitta ungu stúlkurnar«, þá kom hann með stærstu kvistina og fleygði á eldinn í arninum, til þess að hann logaði þá sem skærast. Svo sat alt ungviðið kring um arninn og sagði sögurnar af því, sem á dagana hafði drifið og horfði um leið á neistana, sem hrukku í allar áttir frá arninum. Enginn gat verið vikaliðugri en Abe innanhúss; hann hjálpaði til að taka hýðið af eplunum og brjóta hneturnar«.

Abe vildi helzt þá barnaleiki, þar sem margir krakkar gátu leikið saman, eins og t. d. stöfunar-

leik, býflugnaleik og hermannaleik. Í öllum þeim leikjum var hann lífið og sálin með fyndni sinni og sögum, góðu gamni og bögum.

Allir aðrir drengir fóru auðvitað til veiða. En Abe var alt annað en veiðimaður að eðlisfari; til þess kendi hann alt of mjög í brjósti um varnarlausar skepnur. Hann gat aldrei fengið af sér að drepa né veiða hina lítilfjörlegustu af skepnum Guðs. Sagan um kalkúnann, er áður sögð. Hann skaut aldrei á neina skepnu eftir það.

Flestum þótti þetta of sjúkleg viðkvæmni. En hjartalag Abe's var nú einu sinni svo, að hann gat aldrei séð nokkurn mann né skepnu þjást svo, að hann sárlangaði ekki til að líkna.

## IV. KAPÍTULI.

### *Unglingsárin og stritið.*

Abe var bráðþroska að líkamlegum vexti, einkum frá því hann var 11 ára og til þess hann var 19 ára; þá var hann fullvaxta og orðinn 3 álnir og 4 þumlungar á hæð. Hann var seigur og þrautgóður, en heilsan nokkuð veil með köflum. Svarthærður var hann og hrukkóttur í andliti, líkt og roskinn væri, og yfir hann var kominn hinn frábrigðilegi alvörusvipur, er jafnan var yfir honum alla æfi síðan.

Bændurna í nágrenninu óraði lítið fyrir því, hvað í honum mundi búa, og þótti hann ærið skrítinn í háttum. Svipbrigðin voru svo snögg frá gleðibrosi til römmustu alvöru. Hann gekk á

þröngum brókum úr hafurstökum og bretti þær upp, ef rigning var, og á milli þeirra og skónna skein í bláa og beinabera sköflungana, og af því að skórnir voru lágir, þá sýndist hann leggjalengri en annars, því að bilið var hálf alin; var hann því oft kallaður »Langleggur« manna milli. Skinnhúfu hafði hann á höfði.

Margar kynjasögur fara af afli hans. Ein sagan er það, að hann hafi tekið upp og fært úr stað hænsnakofa, sem vó 600 pund. Önnur sagan segir að hann hafi tekið upp og borið á burtu bjálka, sem þrír menn voru að ráðgast um, hvernig þeir ættu að lofta samtaka. Öxi sinni sveiflaði hann venjulega svo skjótt, að varla mátti auga á festa, og reiddi hana jafnt að sykurreyr sem mórberjafíkjutré og hjó um í einu höggi. Dennis Hanks kvaðst hafa heyrt einhverja segja frá því, að þegar hann var að fella skóg, þá hefði mátt heyra sem þrír menn væru að verki á því, hversu dundi í trjánum, þegar þau féllu.

Oft voru þau systkinin Abe og Sara »lánuð« nágrönnunum, þeim er efnaðir voru, ef þau voru föluð til vinnu, svo sem til Blánefs gamla, sem fyr getur.

Í þá daga var unnið frá sólaruppkomu til sólarlags fyrir 25 sent um daginn; en ef Abe vann ekki allan þennan langa vinnudag til síðasta augnabliks, þá var dregið af kaupinu, hversu litlu sem munaði. Faðir hans hirti, sem áður, alt verkakaup hans alt fram að hádegi á 21. afmælisdeginum hans. Hann hafði því aldrei nokkurn eyri handa milli, enda fanst honum hann þurfa lítið á peningum

að halda. Það var alt annað en peningar, sem hann sóttist eftir.

Upp frá þeim degi stóð hann einn síns liðs. Hann var einmana innan um skógarbúana, þar sem hann var að þræla og gjöra að gamni sínu. Hann barst á vængjum hugans og vonardraumanna langt, langt í burt frá því starfi, sem hann hafði með höndum. Hjartað var ekki fast við hlújárn og skógarhögg. Hann slátraði svínum, sveiflaði öxinni sinni og sigðinni og hóf á loft þreskiþustinn; en hann gat aldrei orðið innlífaður þeim störfum. Þeir, sem veittu honum vinnu, fundu þetta og þótti það með réttu galli á honum. Og einn þeirra sagði um hann aldarfjórðungi síðar:

»Hann var óttalega latur, þegar hann var í vinnu hjá mér; hann var alt af að lesa eða hugsa eitthvað. Hann sagði líka einu sinni við mig, að faðir sinn hefði kent sér að vinna, en hann hefði aldrei kent sér að hafa mætur á vinnnnni«.

Þessi vinnuveitandi lét sér ekki skiljast, að þessi stóri, svifaseini kaupamaður, mundi hafa gengið miklu lengra og lagt miklu meira að sér til að geta náð í gamla bók en nokkur hinna, sem með honum voru, hefði gengið eða á sig lagt til að ná í einn nýjan dalseðil. Það kom fyrir ekki, þótt faðir hans gerði sér alt far um að ná þessari heimsku úr höfði sonar síns og fá hann til að leggja hug á það, sem til hagsmuna horfði. Nú var hann orðinn fullvaxta og tími til kominn að eitthvað færi að verða úr honum.

Faðir hans vildi ólmur, að hann lærði trésmíði; en hann gat ekki með nokkru móti vakið áhuga

hins unga manns á þeirri iðn. Hann vann svo hvert dagsverkið, eins og honum var lagið, og þar með búið. Hann vildi þá heldur þramma á héraðsþingið margar mílur vegar og hlusta þar á rökræður lögmanna. Smám saman fór hann að herma þetta eftir og halda skopþing úti á ekrunum og ræðustúfa, standandi á einhverjum trjábolnum; söfnuðust þá verkamennirnir að honum; en bóndinn, sem í hlut átti, lét sér alt annað en vel líka.

Í næsta þorp kom eitt einasta fréttablað, og Abe þótti eigi önnur skemtun betri en að ganga inn þangað, sem blaðið var selt og lesa þar hátt fyrir þeim, sem ólæsir voru, fréttirnar af umræðunum á *alríkisþingi Bandamanna* (Congress) og nýungar utan úr víðri veröldu. Sumar skoðanir hans komu heldur flatt á héraðsbúa. Hann hélt því t. d. fram, að jörðin væri hnöttótt og sólin stæði kyr og tunglið kæmi hvorki upp né gengi undir. »Það erum vér, sem göngum undir«, sagði hann.

Abe var í mörgu á undan sínum tíma. Eins og áður er sagt, þá hafði hann staka óbeit á, að illa væri farið með skepnur. Og þó var ekkert dýraverndunarfélag til, fyr en mörgum árum seinna. Eina ritgjörð skrifaði hann um »bindindi« á skólaárum sínum, þó að engin bindindishreyfing væri farin að gjöra vart við sig eða félagsskapur í þá átt og orðið »bindindi« væri sem tómahljóð í eyrum alls þorra manna.

Fyndnin og alvaran voru samtvinnuð í eðli hins unga manns. Hann gerði að gamni sínu, las og rökræddi eitt og annað jöfnum höndum. Hann lét og stundum fjúka í kviðlingum um það, sem til bar;

en hann varð stundum að verja háðkviðlinga sína með sínum stóru og stæltu hnefum, því að hann þótti stundum biturhæðinn. Í einni vísunni víðfrægði hann króknefið á honum Blánef gamla, sem lét hann greiða skaðabæturnar fyrir sögu Washingtons. Og á líkau hátt hefndi hann sín eitt sinn, er honum var eigi boðið til brúðkaups hjá ríkisbónda einum í þorpinu. Og færi hann að segja sögur, á sölustöðum eða krossgötum, þá þyrptust allir slæpingjar að honum, og stundum hélt hann þessum háværu áheyrendum sínum uppi fram á nótt.

Alt af langaði hann eitthvað lengra út í heiminn; en hann vissi, að faðir hans átti heimtingu á starfi hans, og hann bar alla virðingu fyrir þeirri heimild föður síns. En samt sem áður tók hann því feginsamlega, er ferjumaður einn á fljótinu bað hann að vera sér til aðstoðar; skyldi hann fá 37 sent á dag, en þó fyrir stritvinnu. En þarna komst hann í fyrsta sinni á æfinni út á hina miklu þjóðbraut verzlunar og ferðalags, þar sem fljótið var, og það hafði honum lengi verið hugleikið. Svo bætti það eigi lítið um, að meðan hann fékst við þetta ferjustarf, þá fékk hann aðgang að bókasafni lögmanns nokkurs, og þar gat hann setið og lesið hálfar nætur.

Á bókasafninu ritaði hann grein um stjórn Bandaríkjanna, þar sem hann hélt því fast fram, að áríðandi væri, að varðveita stjórnarskipunina og um fram alt samband ríkjanna. Þegar lögmaðurinn var búinn að lesa greinina, sagði hann, að »heimurinn gæti ekki hrakið ritgjörðina«. Nú hefði lögmaðurinn tekið hann á skrifstofu sína, ef Lin-

coln hefði ekki borið það fyrir, að foreldrar sínir væru fátæk, svo að þau gætu eigi mist hann frá starfi.

Þá var það, að formaður einn fyrir fljótabáti bauð honum 8 dala kaup á mánuði, ef hann vildi gerast hans maður. Hann tók þeim kosti óðara og stökk ofan í bátinn, en sneri honum ekki við, heldur stóð fram í og stjakaði honum niður eftir Óhió og Missisippi alla leið til New Orleans. En er hann var nýlagður af stað í för þessa, þá hélt hann kyrru fyrir úti á fljótinu um stund; bar honum þá það að hendi, sem hann taldi ávalt síðan merkisatburð í lífi sínu. Og það var það, hvernig honum áskotnaðist fyrsti dalurinn í heilu lagi.

Það gerðist með þeim hætti, að hann flutti tvo menn og ferðakistur þeirra út í gufubát, sem beið eftir þeim úti á miðju fljótinu.

»Eg var þá hér um bil 18 vetra«, sagði hann, »og eins og þér vitið, þá heyrði eg til þeim flokki manna, sem þeir kalla »armingja« þar syðra. Mig langaði til, að mér gæfist færi á að vinna mér fyrir einhverju og gerði ráð fyrir, að mennirnir mundu þó að minsta kosti láta mig fá sinn bitann hvor fyrir vikið. Svo reri eg með þá út í skipið. Þeir fóru þá upp á skipið og eg bar ferðakisturnar þeirra upp á þilfarið. Þegar gufubáturinn var rétt að renna af stað, þá kallaði eg upp til þeirra: »Þér hafið gleymt að borga mér«. Þeir þrifu þá ofan í vasa sína og tóku þar upp sinn silfur-hálfdalinn hvor og fleygðu ofan í botninn á bátnum.

Yður finst nú, ef til vill, að þetta hafi verið smá-

munir, og nú á dögum finst mér það jafnvel líka. En samt var þetta einn hinn mikilvægasti atburður í lífi mínu. Eg ætlaði varla að trúa því, að eg, fátæklingsdrengurinn, hefði unnið fyrir heilum dal með heiðarlegu móti á lítilli stund úr degi. Upp frá þessum degi varð eg miklu vonglaðari og hugsunarsamari en áður«.

Þegar Lincoln yngri var orðinn fulltíða maður, réð faðir hans af að flytja búferlum úr Indíana. Það var ekki hægt fyrir hann að búast við því, að drengurinn hans yndi sér lengur á þessu arðlitla skógarkoti; systir hans var þá nýlega dáin og harmaði bróðir hennar hana mjög; hún hafði dáið skömmu eftir giftingu. Einn af ættingjum fyrri konu Thomasar hafði tekið sér bólfestu í hinu nýja ríki *Illinois*. Og þær fregnir, sem hann flutti Thomasi af því landi, ýttu undir hann að setjast þar að líka.

Skógarbúunum í Indíana þótti alment sárt að sjá af Abe, handstyrka unglingnum, sem hjálpaði hverjum manni, sem hjálpar þurfti, og nú var orðinn yndi þeirra og eftirlæti af hinum skrítnu háttum sínum, ekki sízt sögunum, sem hann sagði þeim til gamans. Þegar hann fluttist af þessum ömurlegu stöðvum sorga og baráttu, þá plantaði einn æskuvinur hans sedrustré til minningar um hann. Sá litli sedruskvistur var fyrsti minnisvarðinn, sem reistur var Abraham Lincoln til virðingar.

## V. KAPÍTULI.

### *Lífið á gresjunum í Illinois.*

Thomas Lincoln fluttist búferlum frá Indiana til Illinois 1830.

Alla fjölskylduna og búslóðina flutti hann á einum vagni, sem tveimur uxum var beitt fyrir. Sonur hans var ökumaðurinn. Engir spælar voru í vagnhjólunum; þau voru ekki annað en kringlóttar blakkir, höggnar út úr eikarbol og á miðri blökkinni var gat fyrir öxulinn. Engir voru þá til lagðir vegir né brýr þar um slóðir; þau urðu að fara á vöðum yfir fljót og þverár. Einu sinni er þau höfðu farið yfir á, sem jakaburður var í, þá varð hvolpur eftir, sem þau áttu, hinumeginn árinnar. Þá var dagur að kvöldi kominn, og engin tök þóttu vera á að snúa til baka með vagninn, því að uxarnir voru stirðir í snúningunum og vagninn þunglamalegur. Öll voru þau helzt á því, að láta »þessa litlu óþrifaskepnu eiga sig«, nema Abe. Hann sá, hvar hvolpurinn hljóp upp og niður eftir bökkunum, spangólandi út af því að skilja við þau. Frá þessum atburði sagði hann löngu síðar á þessa leið:

»Eg gat ekki til þess hugsað að skilja veslings hvolpinn eftir, heldur fór eg úr skóm og sokkum og óð yfir ána og kom svo til baka sigri hrósandi með veslings hvolpinn skjálfandi undir hendinni. Hvolpurinn hljóp og stökk og flaðraði upp um mig, og það voru mér ríkuleg laun fyrir alla vosbúðina hans vegna«.

Götuslóðarnir í skógunum höfðu allir horfið í miðsvetrarhlákunum, og gresjurnar voru sem forarveita yfir að líta og yfir að fara.

Fram undan voru frjóar lendur marflatar; mannshöndin þurfti eigi annað en að snerta þær lítilsháttar til að breyta þeim í blómlega akra og aldingarða. En þar nam Thomas ekki staðar, heldur óð elginn, þangað til hann kom þangað sem jarðvegurinn var ófrjórri — í timburskóga-héraðið með fram Sangamon-fljótinu. Þar kaus hann sér bólstað. Allir þeir landnemar, sem á undan honum voru komnir, höfðu líka sneitt hjá gresjunum, rétt eins og þær væru eyðimörk ein. Þetta kom af því, að þeir höfðu allir áður tekið sér bólfestu í skógunum í eldri ríkjunum, þar sem þeir höfðu áður búið. Og þótt þeir sæju hágresið ganga í bylgjum fyrir hverjum vindblæ á gresjunum, og blómin hvarvetna teygja kollinn upp úr grænni grasabreiðunni, þá fengu þeir sig ekki til að trúa því, að náttúran væri þar svo göfuglynd, að hún hefði rutt þar landið ótilkvödd mönnum til nota.

Því var það, að Thomas tók sér bólstað þarna, því að hann var svipaður þeim, sem hann hafði haft í Indiana og engu betri.

Abe var ekki iðjulaus á ferðalaginu. Hann fór út um alt og seldi ýmsa smámuni fyrir ekki óálitlegri upphæð en 21 dal. En allan þennan dýrmæta sjóð, er þá var í miklu hærra gildi en nú, gaf hann föður sínum og stjúpu til að gjöra þeim lífið dálítið þægilegra, því að arðurinn af atvinnu Thomasar var alt af svo rýr. Ekki vildi Abe fara frá föður sínum, þó að börn stjúpu hans væru nú

orðin svo stálpuð, að þau hefðu getað séð fyrir móður sinni, þangað til Jón Hanks og Thomas væri búnir að koma sér upp viðunanlegum kofa, ryðja og plægja 15 ekrur í kring um kofann og afgirða þær með svörtum valhnotuviðar-staurum. Þessir staurar urðu síðar heimsfrægir, sem síðar mun sagt verða.

Þeir feðgar og Jón Hanks fóru nú þegar að fella skóginn og höggva til bjálkana í kofann og svo plægja milli rótarstúfanna sem eftir voru. Mest kvað að Abe við það starf, einkum í því að kljúfa valhnotuviðinn í girðingarstaura. Hann dró ekki af sér við að hjálpa föður sínum. Og þó mat faðir hans það alt að litlu, »kallaði hann letingja og hæddist að því, að hann langaði svo til að fá að njóta tilsagnar í bóklegum fræðum«.

Þegar alt var komið í kring og þau voru setst að í kofanum, var Abe á sveimi þar í grendinni og klauf staura fyrir nágrannana, til þess að vinna sér fyrir einum baðmullarfatnaði, lituðum í smjörhnotulegi, og kallaði hann það »frelsisbúninginn« sinn. Svona var hann þá undir búinn »snjóaveturinn mikla« (1830—31), einn hinn kaldasta og harðasta vetur, sem elztu menn mundu, jafnvel í þá daga, því að ekki kveinkuðu bændur sér þá við öllu. Snjórinn var þriggja feta djúpur á jafnsléttunni og svo kom ísingarglerungur yfir alt saman. Fólk gat ekki komið út fyrir dyr vikum saman, svo að heita mætti. Það voru því engin undur, þó að Abe þráði ekkert annað heitara á þessum ördeyðuvetri, en að hann fengi nú loks að lifa öðru lífi en hann hafði lifað alt til þessa.

Með vorinu tók Abe sig upp og fór úr föðurgarði að fullu og öllu. Þá var hann 22 ára. Alt sitt starf hafði hann í allri skyldurækni og auðsveipni helgað foreldrum sínum, frá því er hann var barn. Hann var nú búinn að hjálpa föður sínum til að byggja nýjan kofa yfir sig, ryðja og girða nýjar ekrur og sá og uppskera í fyrsta skífti.

Hann tók sig nú upp og lagði af stað með öxina sína um öxl; en allir aðrir munir, sem hann átti, komust fyrir í vasaklútnum hans og hélt hann á þeim smáböggli í hendinni. Fyrst fór hann til nágranna sinna, klauf staura og vann hvað sem helzt, er honum var fengið til atvinnu. Ef hann sá bók, þá las hann hana að vanda. Þegar minst varði, steig hann á stokk og hélt ræður um ýmisleg efni fyrir bændur og búþegna og rak þá í rogastanz.

Einu sinni gerðist hann svo djarfur á þingmálafundi, að andmæla þingmanni einum, sem var að halda stjórnmálaræðu. Það var fyrsta kappræðan, sem hann hélt í landsmálum, og fórst það svo skörulega, að hann hlaut einróma lof áheyrenda og jafnframt hrós andmælanda síns. Um þessar mundir fékk Lincoln myllu nokkra til umsjónar, og með því móti gáfust honum tómstundir nokkrar til að menta sig. Þá lærði hann meðal annars að skrifa móðurmál sitt lýtalaust.

Meðan hann var á þessu flakki fram og aftur, rakst hann einu sinni á mann, sem bauð honum formensku á fljótabáti einum eða flatbytnu. Sá bátur átti að vera til flutninga. Lincoln átti að fá hálfan dal í kaup um daginn og meira, ef fyrir-

tækið hepnaðist vel. Báturinn átti að flytja vörur til New-Orleans. Þessu boði tók Lincoln fegins hendi; réri hann nú tveim árum á Indíánaferju niður eftir Sangamon-fljótinu, þangað sem flatbytnan var fyrir; fermdi hann nú flatbytnuna og lét hana svo skríða niður eftir fljótinu, þangað til svo óheppilega vildi til, að flatbytnan rakst á grunn fram undan þorpinu New-Salem. Þorpsbúar þustu allir niður á fljótsbakkann til að sjá undur þetta, og spekingar þeir, er á landi stóðu, lögðu þeim félögum á flatbytnunni heilræði með hrópum og köllum.

Ekki gátu þeir annað en hlegið að einum þeirra, sem var á bátnum. Hann var ungur, hár vexti og dapur í bragði. Frakkinn hans var allur gauðrifinn og hattkúfurinn hans allur beiglaður; buxurnar voru úr heimaunnu vaðmáli, allar rifnar og tættar líka, svo að á þær vantaði að mestu aðra skálmina. Það var svo sem auðséð á öllu, að hann átti sama sem engan að. En hann leit ekki einu sinni við þeim, sem á bakkanum stóðu og voru að gera gys að honum, né svaraði háðglósum þeirra einu orði. Sjálfur hugsaði hann sér upp ráð til að komast yfir grynninguna; í þeim vanda leitaði hann engra ráða hjá öðrum. Og svo lauk aðgjörðum hans, að báturinn komst á flot aftur í tæka tíð og hvarf úr augsýn. Lincoln stóð nú sigri hrósandi á þiljunni með stjakann í höndunum.

Eftir þetta hneig hugur hans að því að finna ráð við þessum farartálma á siglingum eftir fljótunum og fékk einkaleyfi á þeirri uppfundningu sinni. Hún var í því fólgin, að tveir belgir voru

festir sinn á hvora hlið bátsins niður við vatnsflötinn; ef báturinn barst á grunn, þá var lofti dælt í belgina og lyftu þeir þá bátnum yfir grynninguna. Þessi útbúnaður hans var auðsjáanlega gerður með sjálfskeiðingi og merktur með nafni hans, og er enn til sýnis á einkaleyfa-skrifstofunni í Washington.

Þegar þeir Lincoln og Jón Hanks, sá er bátinn átti, voru búnir að koma áhöfninni á land í New Orleans — en það var korn og svín, — og selja hvorttveggja, þá gengu þeir um borgina, til að sjá sig um. Þá sá Lincoln þá sjón, sem hafði svo djúp áhrif á huga hans, að tíminn gat aldrei máð þau burtu aftur. Þá bar þar að, sem menn voru að bjóða þræla til kaups. Hann sá þá konu standa á torginu, en uppbjóðandinn hrópaði hástöfum hverjir væru kostir hennar. Það var ambátt. Síðan sá hann hana rekna um torgið; hún var sýnd og skoðuð, eins og hún væri hross, og hinir níðingslegu seljendur og kaupendur voru alt í kring um hana. Þarna sá hann mansal í sinni ljótustu mynd, og gekk það Lincoln svo til hjarta, að hann mælti við Jón Hanks:

»Eg hefi aldrei fengið færi á að gefa þessu athæfi ráðningu; en það skal fá vægðarlausa ráðningu, þó að seinna verði«.

Frá New Orleans héldu þeir félagar aftur til baka til St. Louis. Þaðan fór Lincoln fótgangandi heim til föður síns og stjúpu. Þaðan fór hann svo sinna ferða til New Salem, þar sem flatbytnan strandaði fram undan.

Nú hafði sami maðurinn, sem fól þeim frænd-

um flutningana á bátnum á hendur, í hyggju að stofna vöruhús þar í þorpinu, eins konar forðabúr handa þorpsbúum. Þorpið var lítið, ekki nema eitthvað 20 bjálkakofar og 100 íbúar. Nú hafði hann beðið Lincoln að hjálpa sér til að koma þessu vöruforðabúri á laggirnar. En þegar Lincoln kemur til þorpsins, þá er hvorki kaupmaðurinn né vörurnar þar fyrir. —

Þorpsbúum öllum var enn í fersku minni þessi skrítni og hugvitssami unglingur, og náði hann fljótt tökum á þeim með ljúflyndi sínu og fyndnum tilsvörum. Þeir báðu hann nú allir hjartanlega velkominn, og voru það þó sömu mennirnir, sem hæddust mest að honum af fljótsbakkanum fáum mánuðum áður.

Það var annað starf, sem lá fyrir Lincoln í svipinn en kaupmenskan. Kjörfundur var haldinn, en fátt var um skrifara í New Salem. Lincoln var spurður, hvort hann kynni vel að skrifa. »Hripað get eg hrafnaspark«, svaraði hann; var svo kosinn til aðstoðarritara. Með þessum hætti kyntist hann öllum kjósendunum, sem þarna voru saman komnir. Auk þess fékk hann dálítla þóknun fyrir ritarastarfið, og var honum ekki vanþörf á því. Sögurnar, sem hann sagði á kjörstaðnum daginn þann, juku ekki lítið á vinsældir hans hjá þorpsbúum. Hálfri öld síðar sögðu gamlir menn ungu kynslóðinni þessar sömu sögur. Svo urðu þær þeim minnisstæðar, svo þóttu þær hnittilegar.

Loks komst forðabúrið á fót. En eiganda þótti það ekki nóg; hann keypti líka myllu þorpsbúa. Átti nú Lincoln að hafa umsjón með hvorutveggja,

því að húsbóndi hans hafði ótakmarkað traust á hæfileikum hans til flestra hluta. Hann sagði, og var hinn hróðugasti, að bókarinn sinn væri vaskastur ungra manna í New Salem; enginn hefði við honum í glímum, kapphlaupi né handalögmáli. Þorpsbúar könnuðust nú að vísu við það, að þessi ungi aðkomumaður væri burðamaður mikill og hinn vasklegasti; en því vildu þeir ekki samsinna, að hann væri þeim öllum meiri að afli og íþróttum, og töldu þetta hól húsbónda Lincolns eins konar hólmstefnu í sinn garð, sumir hverjir.

Það voru þó einkum drengirnir í Claryslundi, sem dróu það opinberlega í efa, að kaupmaður færi með satt mál. Þeir voru »áflogahundar, en drengir góðir«. Þeir gátu »ræst fram tjarnir, grafið fram mýrar, bygt bjálkahús, beðið bænir, flogist á, bygt ný þorp og sett ríki á stofn«. Þeir veðjuðu um það við kaupmann, meira að segja, og lögðu 10 dali undir, að forsprakkinn þeirra, hann Jack Armstrong, væri meiri maður en bókarinn hans. Lincoln færðist undan að ganga á hólm við þá, því annað var honum nær skapi en að eiga í áflogum. En kaupmanni var þetta hið mesta áhugamál, engu síður en drengjunum.

Ef einhvern gest bar að garði í New Salem, sem vildi ná þar fótfestu, þá þurfti hann að ávinna sér hylli þorpsbúa; en tækist honum það ekki, þá átti hann þar engan friðstað.

Lincoln varð þá loks við áskoruninni, og allir þorpsbúar flyktust á hólminn. Um þessar mundir var Lincoln eitthvað 214 pund að þyngd, en styrkastur var hann í handleggjunum, sem bæði voru

langir og vöðvastæltir. Hann snaraðist nú að Armstrong og greip um háls honum og sveiflaði honum svo í kringum sig í loftinu. Þá var lokið leik. Allur áhorfendaskarinn dáðist að afli hans, og þar á meðal þeir Lundar-drengir og Armstrong sjálfur, meira að segja. —

Allir tóku úrskurði dómnefndarinnar með þegnsamlegri hollustu; sigurvegarinn varð upp frá því sem svarinn vinur hvers manns í þorpinu og öllu nágrenninu. Aðdáendur hans voru óþreytandi að raupa af öllu því, sem hann gæti gjört. Það var hin kærasta dægrastytting þeirra, að leggja fyrir Lincoln hinar og þessar aukaþrautir og aflraunir. Mælt er, að hann hafi lyft brennivínstunnu svo hátt, að hann hefði getað sopið uppréttur úr sponsgatinu. En hann gerði það nú samt ekki, því að hann drakk aldrei dropa af áfengi og gaf samtíð sinni alla æfi göfugt albindindisdæmi, enda var ekki vanþörf á því. Önnur saga segir, að hann hafi lyft þúsund punda þungum grjótkassa á strengjum, sem festir voru um mjaðmir hans.

Ekki dáðust nágrannar hans síður að sálargöfgi hans en líkamskröftum. Ef einhver vagninn varð fastur í krókóttu og forugu tröðinni, sem var eina gatan í New Salem, þá varð enginn fyrri til en hann að hjálpa ökumanninum. Ef einhverja ekkjuna skorti skíð í eldinn, þá klauf hann þau fyrir hana. Hann vakti yfir sjúklingum. Í fám orðum sagt: höndin hans var sífelt til taks til að hjálpa öðrum, alt frá því að kljúfa bjálka, niður að því að rugga barnsvöggu. Ef einhver mistök urðu á því hjá honum að vega út eða skifta peningum

við búðarborðið, þá gat hann ekki sofnað, fyr en hann var búinn að leiðrétta það, þótt hann svo yrði að ganga mílu vegar út úr þorpinu til að leita uppi þann viðskiftamann, sem hann hafði haft af í grannleysi. Allir treystu ráðvendni hans eins og nýju neti; og þótt hann væri ungur að aldri, þá var hann venjulega kallaður »Abe hinn ráðvandi«.

En þrátt fyrir ráðvendni hans, þá var hann ekki lángefinn kaupsýslumaður. Honum var sem sé tamara að liggja á búðarborðinu og vöðla baðmullardúk undir höfuð sér og lesa málfræði, sem hann hafði náð í með því að ganga meira en mílu vegar, heldur en að gefa sig við verzlunarstörfum. Stundum fundu þeir hann alls ekki í búðinni, sem komu til að kaupa, og urðu þá að leita hann uppi; hann sat þá stundum úti á götubrúninni og var þar að reikna dæmi á umbúðapappír. Þegar hlé varð á sölunni, eða alt lenti í tómu masi, þá var það rétt eftir honum að taka sér bók í hönd og sökkva sér niður í að lesa eitthvað eftir þá Tom Paine, Voltaire, Rollin eða Gibbon. Alt voru það gamlar og sjaldgæfar útgáfur af ritum þeirra; ekki var annað að hafa í þessu menningarsnauða smáþorpi.

Áður en tvö misseri væri liðin, var kaupmaðurinn kominn á höfuðið með verzlunina. Bókarinn hans var þá aftur á hjarni staddur. Nú hafði Lincoln ekki annað fyrir stafni en að reika um þorpið eða sitja öllum dögum hjá einhverjum slæpingjum eða þá einhverjum hjáræнulegum fiskimanni á bökkum Sangamonfljótsins og hlusta þar

á tilvitnanir hans í rit Shakespeares eða Burns, eða hann gekk þegjandi eftir götunni, niðursokkinn í bók, og yrti þá ekki á eða sá nokkurn mann, sem fram hjá gekk. En þrátt fyrir þetta hafði hann þó nægilegt í sig og á fyrir ýms handarvik, sem hann gjörði, því að aldrei vildi hann vera upp á aðra kominn. —

En í Lincoln bjó þó meiri siðferðileg göfgi en þorpsbúar fundu eða kunnu að meta. Þeir töldu hann að sönnu ekki með slæpingjum, en þeim fanst hann eyða tímanum til ónýtis. Þessa fyrirgangssömu stofnendur og byggjendur New Salem-þorpsins óraði ekki fyrir því, að þessi draumamaður væri að stofna eitthvað og byggja, er staðið gæti um aldur og æfi, en þorpið, sem þeir voru að stritast við að koma upp, mundi verða kúahagi einn að fáum árum liðnum, og því að eins geymast í minni manna, að það hefði einu sinni verið ein áfangastöðin í framfarasögu Abrahams Lincolns:

»Því dreymandinn lifir um ár og öld,
en erjandinn deginum skemur«.

## VI. KAPÍTULI.

### *Sá hefir ekki, sem hættir ekki.*

Sama árið sem Lincoln misti stöðuna í New Salem (1831) og átti hvergi höfði sínu að að halla, þá áttu landsmenn í höggi við Indíánaforingja einn, er kallaður var »Svarti fálkinn«. Hann hóf uppreisnina í Illinois. Ríkisstjóri kvaddi þá menn til

herþjónustu og var Lincoln einn af þeim. Hann tók þessari kvaðningu fegins hugar, eins og þá stóð á fyrir honum. En þótt hernaður þessi gerðist langar leiðir frá Sangamon-fljótinu, þá var uppi fótur og fit á frumbyggjunum í New Salem, og þar í grend, og gjörðust þeir óðfluga sjálfboðaliðar.

Þegar liðið úr nágrenninu kom saman í herferð þessa, þá vildu margir gera Lincoln að foringja sínum. En um tvo var þó að velja, og bar þeim talsvert á milli um foringjaefnin. Lincolns megin urðu þó miklu fleiri, svo að hann hlaut kosningu. Lincoln þótti svo mikill heiður að þessari kosningu, að hann sagði það síðar, að hún væri sér meira gleðiefni en nokkuð annað, er sér hefði að hendi borið. Það var þó ekki hin lítilvæga hermannssæmd, er honum þótti mest um vert í raun og veru, því að höfuðsmanns nafnbótina, sem hann hlaut, lagði hann óðara niður, þá er ófriðurinn var á enda kljáður. Hitt þótti honum meira um vert, að hann skyldi verða fyrir svona miklu trausti, þar sem ekki var nema eitt ár liðið, síðan hann kom þar í sveit vinalaus, félaus og frægðarlaus. Vafalaust hefir honum fundist þetta atvik vera fyrirbending þess, að vonardraumar þeir, sem hann ól í brjósti um æðri ákvörðun, mundu rætast á sínum tíma.

Ekki bar hann nokkurt skyn á þær skyldur, sem hann átti að gegna, og ekkert far gjörði hann sér heldur um að kynnast þeim. Mælt er, að einu sinni hafi þá félaga borið að þröngstígi einu í skipulegri fylkingu. Þá hafi Lincoln hrópað: »Lagsmenn! Gangið úr röð svo sem tvær mínútur og

raðið ykkur svo upp aftur, þegar þið eruð komnir yfir þetta þröngstígi«. Reyndur höfuðsmaður mundi hafa gert sér meira far um að temja þessa angurgapa og hafa þá heldur færri. En Lincoln tók með stöku jafnaðargeði margvíslegri óvirðingu af þeirra hálfu. Einu sinni var hann handtekinn og sverðið tekið af honum, af því að einn af lagsmönnum hans hafði hleypt af byssu í örskotshelgi. Í annað sinn höfðu einhverjir af mönnum hans ráðist á aðalstöðvar hersins og rænt þaðan matvælum. Lincoln varð þá að borga brúsann fyrir þá með þeirri hneisu, að hann var dæmdur til að bera trésverð í tvo daga. Einu sinni lét hann þá hafa sig til að ganga á hólm við foringjann, sem var keppinautur hans; urðu þeir þá á það að horfa sér til lægingar, að höfuðsmaðurinn þeirra varð undir í viðureigninni. Þegar hersveit Lincolns var skráð úr herþjónustunni, þá fór hver heim til sín, nema Lincoln; hann gekk þá einn síns liðs í riddarasveit og tók sér ekki nærri, þó að hann lækkaði í tigninni; metorðagirndin varð honum aldrei að meini.

Og svo fór um ófrið þennan, að aldrei sá Lincoln »Svarta fálkann« né heyrði orustugnýinn. Og í stað þess að leggja Indíána að velli, þá fór svo, satt að segja, að hann bjargaði lífi hins eina Indíána, sem hann komst í færi við. Indíáni þessi var gamalmenni og hafði með sér vegabréf, og þar var því lýst yfir, að hann væri trúr vinur hvítra manna. Flokkur hermanna var að elta hann og sögðu, að vegabréf hans væri falsað, og voru þeir staðráðnir í að skjóta hann, því að hann væri sjálfsagt njósn-

ari. Lincoln beiddi hermennina að gefa honum grið; en af því að þeir daufheyrðust við beiðni hans, þá var hann ekki seinn á sér og skaut Indíánanum að baki sér og stóð svo fyrir honum eins og skjöldur gegnt byssum hermannanna. Með þessu móti slapp Indíáninn óskaddaður úr höndum þeirra.

Þegar þessum ófriði lauk, hvarf Lincoln aftur til New Salem, félaus og atvinnulaus og vissi ekki hvar hann átti höfði að að halla.

En nú fór Lincoln að gefa sig við opinberum málum. Þá var það fyrir höndum að kjósa fulltrúa til ríkisþingsins í Illinois. Þá skoruðu margir á Lincoln að bjóða sig fram, sakir þess hve reyndur hann væri og vinsæll þar um slóðir. Af því að í þessu landi var þjóðveldi, þá sá Lincoln, að öll stjórn í landinu, alt frá bæjarstjórn til þjóðstjórnar, var ekki annað en einn óslitinn skóli til að fræða, göfga og hefja hvern borgara. Í augum hans var löggjafarþing ríkisins háskóli. Með þetta í huga bauð hann sig svo fram til þingsetu.

Hann auglýsti svo framboð sitt eftir sínu höfði. Hann lýsti hreinskilnislega skoðunum sínum á þeim málum, sem þá voru efst á dagskrá, og sagði síðan:

»Það getur vel verið, að eg standi öfugt að þessum málum, sumum eða öllum; en af því að eg tel það sannmæli, að betra sé að standa stöku sinnum á réttu en alt af á röngu, þá skal eg vera viðbúinn að taka skoðanir mínar aftur, jafnskjótt sem eg sé, að eg hefi rangt fyrir mér. Eg legg mestan hug á að hljóta sanna virðingu lagsbræðra

minna með því að gjöra mig maklegan virðingar þeirra. Reynslan verður að sýna, að hve miklu leyti mér kann að takast að fullnægja þessari þrá minni. Eg er ungur að aldri og ókunnugur mörgum af yður. Eg fæddist í fátækt og hefi alt af alist upp við þröngan kost. Og ef góðum mönnum sýnist af speki sinni haldkvæmt að vísa mér á bug, þá er eg orðin vonbrigðum svo vanur, að eg mun ekki taka það illa upp«.

Kosningarbaráttan stóð ekki lengi og ekki fara sögur nema af einum undirbúningsfundi, sem Lincoln hélt; það var einhversstaðar allangt frá New Salem; þar var verið að halda uppboðsþing. Þegar því var lokið, gekk hann fram og reyndi að fá viðstadda til að hlusta á mál sitt. En karlarnir gáfu engan gaum að orðum hans; þeim var meira í mun að fljúgast á og ganga svo að því búnu að störfum sínum og gleymdu svo þingmannsefninu sínu. En Lincoln vakti von bráðar athygli þeirra á sér. Hann hljóp inn í þvöguna, þar sem áflogin voru mest og greip forsprakkann og varpaði honum endilöngum til jarðar. Að því búnu steig hann aftur upp á ræðupallinn, tók ofan gamla hattkúfinn og fékk þá sæmilega marga til að hlusta á sig.

Lincoln bauð sig fram fyrir alla atkvæðisbæra menn í kjördæminu; en af því hann átti enga málsmetandi kunningja utan þorpsins, þá náði hann ekki kosningu.

»Það var í hið eina skifti, sem alþýða manna hefir vísað mér á bug«, gat hann sagt með sönnu 20 árum síðar. En þó var Lincoln hinn mesti sómi

að þeim atkvæðafjölda, sem hann hlaut, því að þorpsbúar og aðrir nágrannar hans greiddu honum 277 atkvæði, en ein 7 voru á móti.

Þetta gerðist í ágúst 1832.

Um sömu mundir fóru fram kosningar á forseta Bandaríkjanna. Lincoln studdi forsetaefni þjóðveldismanna (republicans); en forsetaefni lýðræðismanna (democrats) varð hlutskarpari. Þetta varð eitt með öðru til þess, að Lincoln náði eigi kosningu til ríkisþingsins heima fyrir.

Eftir þetta fór Lincoln að gefa sig aftur við kaupsýslu í New Salem. Hann keypti með öðrum manni vöruforðabúr þar í þorpinu af öðrum kaupmanni. En skömmu seinna gjörðu Clarys-lundardrengir sér það til frægðar að brjóta rúður í vöruhúsi, sem annar kaupmaður átti. Eigandanum skaut skelk í bringu og bauð húsið og allar vörurnar til sölu fyrir lágt verð. Þeir Lincoln keyptu þá húsið og vörurnar og enn annað vöruhús til og urðu svo einir um hituna í þorpinu. Með þessari samsteypu eða samábyrgð, urðu þeir félagar einkasalar í New Salem. Og eins og þá var títt í fjármálum, þá náðu þeir eignarhatdi á þessu öllu, þó að þeir stæðu báðir með tvær hendur tómar. Þeir gáfu skrifleg loforð um að borga, annað ekki. — Hjá frumbyggjunum var lánstraustið lífið í allri kaupsýslu, því að peningar voru þá torgætir; gengu svo persónuleg loforð eða skuldbindingar mann frá manni og þóttu jafntrygg og bankaseðlar nú á dögum.

Lincoln var ekki líkur neinum fjármálabokka eða kaupsýsluhöfðingja, þar sem hann var á ferð-

inni á sútuðu leðurskónum, í bláu ullarsokkunum, með stráhattinn kolllága og barðabreiða á höfðinu og venjulega eitt axlarband í buxunum. Hann settist nú að í gistihúsi einu í New Salem. Það var bjálkahús og voru í því fjögur herbergi. Lincoln þótti gott að vera þar, því að þar hitti hann svo marga, sem komu þar við á ferðalagi. Þegar húsið var orðið troðfult af gestum, þá hljóp Lincoln undir bagga með gestgjafa, með því að sofa á borðinu í búðinni sinni, því að alt af var hann samur við sig um greiðviknina.

En Lincoln brást bogalistin með kaupmenskuna, eins og fyrri; hugurinn átti þar ekki heima. Allur hugurinn var á því, eins og áður, að kynna sér menn og mentir. Nú barst honum sú bók í hendur með skrítnum hætti, sem að líkindum hefir ráðið lífsstefnu hans. Bókin var fjölbreytt að efni og loks gróf hann þar upp skýringar á hinum almennu landslögum eftir *Blackstone* nokkurn. — Hann varð nú alveg heillaður af þessum lögskýringum og lá dag eftir dag á balanum fyrir utan búðina og las og las; hann rétti þar fæturna hátt upp eftir trjábol og færði sig svo kringum hann eftir forsælunni. Félagi hans sat því nær alt af að búðarbaki, þar sem vínföngin voru geymd, meðan Lincoln var að lesa. Áfengir drykkir voru seldir í hverju vöruhúsi til sveita, þó að ekkert vínsöluborð væri í þessu eina húsi; en góðar gætur mátti hafa á vínföngunum.

Að fám mánuðum liðnum fór verzlun þeirra Lincolns öll í mola. Forðabúrið var selt. Kaupandinn lofaði skriflega að greiða alt, sem stæði á

skuldbindingaskjölum þeirra félaga. En að skömmum tíma liðnum hvarf þessi nýi kaupandi og félagi Lincolns dó. Lincoln stóð þá einn eftir í ábyrgðinni fyrir skuldinni. Þetta skuldabréf Lincolns var svo hátt, að hann var vanur að kalla það »þjóðarskuldina«. Það var aldrei nema satt, að hann hafði reynst lakur kaupsýslumaður; en mannlega tók hann á móti þessum ábyrgðarhluta sínum; hvorki skaut hann sér undan honum né beiddist uppgjafar á honum.

»Þessi skuld var mesti farartálminn, sem nokkurn tíma hefir orðið fyrir mér á lífsleiðinni«, sagði Lincoln mörgum árum seinna. Hann skuldaði 1100 dali, og eigi voru önnur úrræði en að leggja á sig þunga vinnu fyrir lítið kaup. Hann fór þá til lánardrotna sinna og sagði þeim, að ef þeir vildu umlíða sig, þá skyldi hann greiða þeim alt, er sér kynni að áskotnast fram yfir það, er hann þyrfti sér til viðurlífis, og gjöra það jafnskjótt sem sér innhentist eitthvað, alt til þess er hinn síðasti dalur af skuldinni væri greiddur. Þegar hann gekk út frá lánardrotnum sínum, fanst honum sem alt sitt líf væri veðsett, ef hann ætti eingöngu með höndum tveim að velta þessari byrði af sér. Svo tók hann til starfa. Eina vikuna klauf hann staura, aðra vikuna vann hann akurvinnu; hann hjálpaði við og við til í vöruhúsinu eða gjörði ýms vik fyrir gistihúsið.

En þrátt fyrir alt þetta hætti Lincoln ekki að lesa. Hann fór fótgangandi 6—7 mílur, alt til Springfield, til þess að fá bækur að láni. Lengi mintist fólkið þar hins risavaxna, en berfætta lögnema,

þar sem hann var á gangi um rykugar göturnar sílesandi. Oft er sú saga sögð, að gamall bóndi fekk Lincoln einu sinni fyrir kaupamann og kom að honum liggjandi úti á akri með bók í hendinni.

»Hvað eruð þér að lesa?« spurði bóndi.

»Eg er ekki að lesa, eg er að nema«, svaraði Lincoln og hélt áfram að lesa.

»Hvað eruð þér að nema?«

»Það eru lög, herra minn«.

»Mikli — Guð — almáttugur!« fnæsti bóndi og gekk í burt og hristi á sér spekingshöfuðið.

Svo lagði Lincoln mikið kapp á lesturinn, að hann gafst ekki upp, þó að myrkrið dytti á. — Beykirinn í New Salem lofaði honum að hafast við í búðinni sinni. Þangað fór Lincoln á kvöldin. Hann kveikti þar upp eld með spónum og spýtnarusli og las svo við glampann af loganum. Jafnskjótt sem hann lærði eitthvað í lögunum, þá hagnýtti hann sér þekkingu sína til að rita lögmæt skjöl fyrir nábúa sína, til þess að bera fram í málum fyrir lögreglustjóra, og reyndust þau öll góð og gild.

Ofurlítið hækkaði hagur Lincolns við það, er vinir hans fengu hann til að gegna bréfhirðingarstarfi í New Salem (7. maí 1833). Það var ekki hálaunuð staða og ekki var heldur mikið að gjöra. Póstar komu tvisvar á viku, en stundum ekki nema einu sinni á mánuði á vetrum og þá hafði bréfhirðingamaður lítið að starfa. Þegar bezt lét, þá voru bréfin fá, því að burðargjaldið var 6 sent fyrir hverjar 10 mílur eða minna, en 25 sent ef bréfin áttu að fara til annara ríkja. Og nú var

fólkið svo hneigt til lánsverzlunar í öllum greinum, að það vildi ekki einu sinni greiða burðargjaldið undir bréfin sín í peningum út í hönd, svo að Lincoln varð einatt að leggja fjölda óborgaðra bréfa á minnið.

Meðan Lincoln var bréfhirðingamaður í New Salem, þá hafði hann hattinn sinn fyrir bréfhirðingarstað. Ef hann mætti manni, sem átti bréf hjá honum, þá tók hann ofan og dró bréfið upp úr hattinum sínum og afhenti honum það, þar sem þeir stóðu. Þegar hann gekk til vinnu sinnar utanþorps, þá afhenti hann bréfin í hverjum kofa á leiðinni.

Landmæling var næsta starfið, sem Lincoln bauðst. Hann tók þá þegar að búa sig undir það starf af kappi miklu; lagði hann þá svo mikið að sér við námið, að vinir hans urðu hræddir um, að heilsa hans mundi ekki þola það. En hann ávann sér brátt orðstír fyrir nákvæmni sína í mælingum: urðu úrskurðir hans í landaþrætumálum brátt mikils metnir, því að ávalt var ráðvendnin samfara nákvæmninni. Einu sinni sem oftar var hann að mæla landspildu, sem lengi hafði verið um deilt. Hann stakk þá mælistönginni niður og mælti: »Hér er hornið!« Þá gróf einhver þar niður í jörðina; kom hann þá beint niður á markið, sem þá var orðið jarðgróið. Þarna höfðu landmælendur hins fyrsta ríkisstjóra sett það niður, nákvæmlega á sama staðnum og Lincoln benti á. Allir viðstaddir urðu steinhissa.

Nú var það í fyrsta sinni á æfinni, að Lincoln hafði fullan rétt til að njóta næðis. Nú hafði hann

nægilegt til að lifa á og gat jafnframt gefið sér tíma til að búa sig undir framtíðina. En þó brá enn einum óhamingjuskugganum á leið hans. Einhver ókunnugur maður hafði komist yfir eitthvað af skuldbindingarskjölum þeim, sem Lincoln afhenti þeim, sem keypti af honum vöruhúsið. Þessi maður lögsótti Lincoln og tók hest hans og reiðtygi; en verst af öllu var þó það, að hann tók líka landmælingarverkfærin hans. Það voru dimmir dagar og Lincoln illa leikinn. En þá hljóp einn vinur hans undir bagga með honum, með því að kaupa út þessar eigur hans og fá honum þær svo allar aftur að því búnu.

Lincoln varð aldrei vinafátt og aldrei gleymdi hann heldur nokkrum vina sinna. Maður einn í New Salem skaut einu sinni skjóli yfir Lincoln, þegar hann átti hvergi athvarf. Þessi maður varð síðar bláfátækur og heimilislaus í ellinni. En Lincoln var honum jafn þakklátur fyrir því, þó að mörg ár væru liðin, og fór til fundar við þennan velgjörðamann sinn; var hann þá orðinn heimilisfastur í kofagreni einu í fjarlægu héraði. Lincoln tók hann þaðan og kom honum fyrir á góðu heimili. Vinátta sú, er tókst með Lincoln og fjölda manna í bygðinni með fram Sangamon-fljótinu, þegar hann átti örðugast á fyrstu manndómsárunum, stóðst próf og breytingar tímanna og varaði alla æfi. Þessi vinátta varð síðar hornsteinninn að hamingju hans.

## VII. KAPÍTULI.

### *Á ríkisþinginu.*

Lincoln bauð sig fram aftur til ríkisþingsins í Illinois (1834). Nú var hann ekki lengur ókunnur almenningi í því ríki, og ferðaðist nú um alt ríkið til að smala atkvæðum. Fréttablöð voru þá lítið lesin. Ef frambjóðandi vildi gjöra kjósendum kunnar skoðanir sínar, þá varð hann að hitta þá persónulega. Og það gjörði Lincoln, hvar helzt sem hann gat náð í þá, hvort sem þeir voru heima hjá sér eða úti á ekrum sínum; hann mataðist með þeim. Lincoln reyndist vígfimur í orðasennu og var síviðbúinn, hvernig sem á stóð. Hann kom á eitt bóndabýlið um uppskerutímann. Bónda var þá annað nær skapi en að gefa sér tóm til að spjalla við hann um landsmál og sagði hinu unga þingmannsefni berlega, að hann dæmdi hvern mann eftir verkum hans. Lincoln skildi þetta sem frýjunarorð og tók því góðlátlega, gekk út á akurinn og var svo fimur að skera kornið, að enginn hinna akurmannanna hafði við honum. Meðal uppskerumannanna voru nokkrir kjósendur. Lincoln tók hjartanlega í höndina á þeim að skilnaði; fann hann þá á handtaki þeirra, að hann átti vís atkvæði þeirra og fylgi. Við þessa kosningu hlaut hann mikinn meiri hluta atkvæða.

Lincoln tók nú peninga að láni til þess að geta keypt sér tilhlýðilegan fatnað. Að því búnu fór hann til höfuðstaðarins Vandalía og kom þangað í þingbyrjun. Nú tók hann að renna það skeið,

sem hann hafði svo lengi verið að búa sig undir að þreyta í hörðum reynsluskóla. Nú var hann 26 ára gamall. Hann hafði aldrei átt heima í borg, heldur alið allan sinn aldur í bjálkakofum úti í skóginum. Og aldrei hafði hann verið þar sem kirkja var fyrir. Aldrei hafði hann stigið inn fyrir dyr á nokkrum lærðum skóla og ekki gengið nema rúmt misseri alls í barnaskóla. Þingmannskaupinu tók hann fegins hendi. Það voru 4 dalir á dag; það var langhæsta kaupið, sem hann hafði nokkurntíma fengið, því að satt að segja hafði hann aldrei fengið hærra kaup að meðaltali á viku en 4 dali (dollara).

Samþingismenn Lincolns voru einyrkjar og landnámsbændnr utan af landamærum, og lögmenn úr þorpunum, því að engir stórbæir voru þá komnir upp í Illinois. Chicago var þá ekki annað en lítilfjörleg verzlunarstöð úti í mýraflæmi; bjuggu þar nokkrir Frakkar, niðjar þeirra, sem numið höfðu þar land á dögum frakknesku stjórnarbyltingarinnar. Hinir voru flestir ættaðir úr Suðurríkjunum, eins og Lincoln sjálfur. Það voru Sunnanmenn, sem stofnuðu ríkið og réðu þar lögum og lofum. Norðurríkjamenn voru þar fáir og bjuggu á stangli í norðurhluta ríkisins.

Lincoln lét lítið til sín taka á þessu fyrsta þingi, Hann áleit að hann væri ekki annað en lærisveinn og lét sér því nægja að taka grant eftir öllu. Hann ávann sér brátt bandamenn í kyrþey og lagði með því grundvöll framtíðar sinnar. Það var á þessu þingi, sem *Stephen A. Douglas* kemur fyrst við sögu Lincolns.

Douglas var sunnan úr Vermont-ríki. Hann var í flokki lýðræðismanna, sem lengi höfðu öllu ráðið í Illinois. Hann var þá nýfluttur til Illinois og kom þangað félaus; vann hann þar fyrir sér með skólakenslu og málaflutningi. Hann var nú seztur að í Vandalía, til þess að gjörast lögmaður í því umdæmi.

Douglas var formaður meiri hlutans á þinginu, en Lincoln var fyrir minni hlutanum, þjóðvaldsmönnum, og átti því í vök að verjast. Flokksmenn hans voru þá nefndir *Viggar* (Whigs), og sá flokkur var satt að segja ekki annað en nafnið, eins og þá stóðu sakir; engan sigur hafði hann unnið sér til frama og engar sæmdir gat hann veitt fylgismönnum sínum. Hann mátti sín einskis hjá þjóðinni né í þessu ríki og átti sér enga stuðningsmenn, nema fáeina kjósendur í New Salem. En Lincoln var jafnhneigður til að taka að sér málstað lítilmagnans í landsmálum, eins og hann hafði verið í daglegri framkomu heima fyrir. Þessi nýi flokkur var kendur við *Henry Clay,* sem var fyrirmynd og átrúnaðargoð stjórnmálamanna í Sangamon-héraðinu.

Þegar Lincoln bauð sig fram til þingmensku í næsta skifti, þá gjörði hann heyrinkunnugt, að hann væri hlyntur því, að »allir hvítir menn hefðu kosningarrétt, þeir er skattskyldir væru og vopnfærir og konur mætti engan veginn útilykja«. Eins og fyr er sagt, var hann hlyntur bindindi og mótfallinn illri meðferð á skepnum. Nú hóf hann máls á kosningarrétti kvenna löngu fyr en nokkur hreyfing væri komin á því máli til stuðnings. Ekki

hafði hann samt í hyggju að halda því máli til streitu þá þegar; en yfirlýsing þessi sýnir, að hann var snemma bæði hugsandi maður og óragur við að láta hugsanir sínar í ljós.

Á þessu þingi (1836) átti Lincoln í harða höggi við ýmsa. Frægust var andsvararæða hans ein, er hann hélt í Springfield. Andmælanda hans var brugðið um, að hann hefði þá fyrir skemstu hrept hálaunað embætti í Bandaríkjunum fyrir stefnuskifti í landsmálum. Það var og alkunnugt orðið, að þessi sami maður hefði orðið fyrstur þar í bæ til að setja eldingavara á húsið sitt og hafði Lincoln aldrei séð þann útbúnað fyrri. Þetta tvent tók Lincoln saman og lýsti því yfir í svari sínu, að »heldur vildi hann dauður liggja, þar sem hann stæði, en að fara að dæmi andmælanda síns og breyta stefnu í landsmálum til þess að krækja í embætti með 3000 dala launum á ári, og vera svo knúður til að setja upp eldingavara til að vernda seka samvizku fyrir reiði Guðs«.

Þegar næstu þingkosningar fóru fram (1838), þá voru 9 þingmenn úr Sangamon-héraðinu og var Lincoln þeirra fremstur að atkvæðamagni. Á því þingi kvað mikið að Lincoln, og sat hann þá í mikilvægustu nefndinni á þinginu. Hið unga ríki tók að óra fyrir, að það ætti mikla framtíð í vændum; vildu nú íbúarnir flýta fyrir því með allskonar nýmælum um vegagjörð og skurðagröft.

Þessum nýmælum var tekið með húrrahrópum; en ef þau hefðu náð öll fram að ganga, þá mundi það hafa gjört hið unga ríki gjaldþrota. Þingmennirnir voru ungir menn og óvarfærnir, og skeyttu

ekki um neina forsjálni. En Lincoln fór að engu óðslega; hann vissi, að kapp er bezt með forsjá. Hann lagði allan hug á það eitt, að *Springfield* yrði gerð að höfuðstað ríkisins, í stað Vandalia, og því fékk hann framgengt.

Þetta metnaðarþing hafði mörg járnin í eldinum, en öll hafa þau brunnið og gleymst, nema eitt. Það var farið að rumska við þjóðinni með háværum siðferðislegum andmælum gegn mansalinu og þrælahaldinu. Sú alda reis fyrst í New England og barst svo út þaðan.

Þeir, sem höfðu hreyft þessu máli, voru fáir og atkvæðalausir í landsmálum. En þjóðin vaknaði út um bygðirnar við hinar lágværu raddir þeirra, rétt eins og við hróp og köll væri um miðja nótt. Suðurríkjamenn kröfðust þess þá óðara, að þessar raddir væru þaggaðar niður, því að annars væri friði sambandsríkjanna slitið, og allur þorri Norðurríkjamanna var jafn-andvígur þessari hreyfingu.

Fundum þeirra, sem afnema vildu þrælahaldið, var hleypt upp með valdi á ýmsum stöðum í Norðurríkjunum undir forustu afturhaldssamra stóreignamanna. »Svartklæddur auðvaldsskríll« dró W. Lloyd Garrison í hengingaról eftir götunum í Boston, og borgarstjórinn þar hafði það sér til málsbóta, að þegar lögreglan var búin að reka Garrison út og blaðið hans, »Lausnarann«, þá hafði hún komist að raun um, að vinnustofan hans væri eigi annað en »svarthol nokkurt og enginn aðstoðarmaður hefði verið þar sýnilegur, nema svartur sveinstauli, og stuðningsmenn hans væru eigi aðrir en fáeinar hræður af ýmsum litum«.

Í New Hampton og Connecticut réðst fólk eins og hamstola á skóla einstakra manna, þar sem svertingjar voru teknir til fræðslu. Einu sinni kom múgur manna saman í Cincinnati, og krafðist þess, að heft væri útgáfa blaðs nokkurs, sem var andvígt þrælahaldi, og var prentsmiðjunni varpað í Ohio-fljótið. Í Filadelfíu voru brend fundahús þrælhafnenda og sama árið var ritstjóri einn myrtur, sem hélt út blaði gegn þrælahaldi í Alton í Illinois. Bæði alríkisþingið og löggjafarþing einstakra ríkja lögðust á eitt um að kæra allar umræður um þetta viðkvæma mál og banna þær. Og ríkisþingið í Illinois tók í sama strenginn með þingsályktun í báðum deildum.

Lincoln hafði látið berast með straumnum í öllu starfi þessa þings, þangað til þetta mál kom á dagskrá. Þá tók hann sig líka djarflega út úr. Hann ritaði mótmælaskjal og hitti þingmenn að máli og bað þá undirskrifta. Í þessu stutta, en skilmerkilega skjali, játar hann, að andstaðan gegn mansali og þrælahaldi sé fremur til að auka það þjóðarböl en draga úr því, eins og þá standi sakir. Alríkisþingið hafi ekkert vald til að afnema þrælahaldið í ríkjunum, því að stjórnarskráin leyfi mansal. Hins vegar leggur hann fast að bandamönnum sínum að skjalfesta þá yfirlýsingu sína, að þeir »haldi, að þrælahaldið sé bygt á ranglæti og lélegri stjórnspeki«.

Nú á dögum mundi hér þykja svo vægilega að orði komist, að nærri stappi fullu hugleysi. En þegar þessi orð voru rituð, nærfelt aldarfjórðungi fyrir þrælastríðið, þá hafði enginn stjórnmálamað-

ur eða flokksforingi talið þrælahald ranglátt. En í allri þinghánni fann Lincoln heldur ekki nema einn einasta þingmann, er rita vildi nafn sitt undir þetta hóglega skjal. Það var *Dan Stone*, samþingismaður hans einn frá Sangamon; hann ritaði nafn sitt undir skjalið fúslega og undir nafn hans ritaði svo Lincoln sjálfs síns nafn: »A. Lincoln«. Það var hóglát og lágvær rödd samvizkunnar, sem fólgin var í þessu stutta skjali. Þetta var í fyrsta skifti, sem Lincoln gekk undir próf í þessu máli og hann lýsti aðstöðu sinni djarflega eftir atvikum.

Þó að Lincoln væri þá kosinn til ríkisþingsins í fjórða sinni (1840) af sínum flokki, og væri þá enn foringi fyrir honum, þá hefir sagan ekkert geymt af gjörðum hans á þinginu, nema þetta eina skjal. En í því var líka fólgin stórfeld spá um framtíð hans.

Lincoln átti lengstum heima í New Salem þessi ár og var þar virtur af öllum fyrir góðsemi sína, skyldurækni og umburðarlyndi.

## VIII. KAPÍTULI.

### *Astir Lincolns og lögmenska.*

Sagan af ástum Lincolns er sannnefnd raunasaga. Engin reynsla á yngri árum hans bakaði honum slíka sálarkvöl, engin önnur mannraun reyndi jafnmikið á og stilti svo í hóf eðli hans. En hafi sú raun eigi orðið honum til gæfu, þá er víst, að ekki gjörði hún hann beizkan í skapi. Og

þegar hann var sloppinn úr þeim kveljandi efasemdum og hugarvíli, þá hafði hann jafnan taumhald á skapsmunum sínum, og var þá gæddur þeirri þolinmæði og hugprýði, sem gjörði hann svo dásamlega hæfan til að þola vonbrigði og þjáningar.

Frá æskuástum Lincolns veit enginn neitt að segja, og munu þær engar verið hafa. Hann var þá heillaðri af bókum en af blómarósum. Engar sögur fara af því, að hinn ungi skóghöggvari hafi setið á bökkum Dúfnavíkur andvarpandi og biðlandi til ungu stúlknanna. Það er talið víst, að hann hafi eigi felt ástir til kvenna, fyr en hann var hálf-þrítugur. Þá var það sem dóttir gestgjafans í New Salem kveikti ástir hans.

Það var *Ann Rutledge*. Hún var fædd í Kentucky, en ættuð frá Syðri-Karólínu. Hún var laðandi, bæði að sálargöfgi og ytri fegurð, háttprúð og þreklunduð. Þegar hann sá hana fyrst og feldi ást til hennar, þá mun hann eigi hafa borið áræði til að láta ást sína í ljós við hana, því að hann var þá svo félaus, að hann varð að hafa sér það að atvinnu að vinna ýms vik fyrir gistihús föður hennar.

Ann var líka, meira að segja, öðrum lofuð. — Lincoln tjáði henni því eigi ást sína, fyr en sá maður var horfinn, sem hún var lofuð, og enginn vissi, hvar hann var niður kominn. Lincoln var þá búinn að ljúka landmælingarstarfi sínu og orðinn þingmaður. Það er mælt, að hann hafi eitt sinn fylgt henni þangað, sem ábreiður voru troðnar og stungnar, og þar hafi hann sagt henni allan

huga sinn. Og til sannindamerkis um, að hún hafi með sjálfri sér svarað játandi, þá var ábreiðan, sem hún var þá að stinga, geymd árum saman og — ójöfnu nálstungurnar þóttu sanna söguna.

En þrátt fyrir það hélt hún þó trúnaði við fjarverandi festarmann sinn, og bað Lincoln að bíða, þangað til hún væri aftur leyst frá því trúnaðarheiti. Bréf var þá skrifað til unnusta hennar og komst það brátt áleiðis; en heldur þótti þeim seinka svarinu. Þau biðu mánuðum saman og ekkert svar kom. Að lokum lofaðist hún þó Lincoln; en ekki var hagur hans þá svo góður, að hann gæti alið önn fyrir konu, svo að hann var því til neyddur að fresta giftingunni um óákveðinn tíma.

Þetta var fyrsta hamingjustundin, sem Lincoln hafði lifað. En ekki var langt um liðið, er unnusta hans tók sjúkleik mikinn. Hún var svo trúlynd að eðlisfari, að hún gat engan frið fundið fyrir ásökunum samvizku sinnar út af því, að hún hafði brugðið heiti við hinn horfna unnusta sinn, því að hún hafði heitið því, er hann hvarf á burt, að hún skyldi reynast honum trú, þangað til hann kæmi aftur. Þorpsbúar sögðu, að hjartað væri að bresta í brjósti hennar hans vegna. En sennilegast er, að það hafi verið fremur samvizka hennar en hjarta, sem vaknaði við þennan vonda draum.

Sjúkleiki hennar snerist í ákafa hitasótt, og var henni bannað að taka móti heimsækjendum. En ást sína á Lincoln lét hún í ljósi með því, að hún bað þess stöðugt og einlæglega, að sér væri leyft að sjá hann. Henni var ekki hugað líf og fólkið

hennar veitti henni þá þessa einu ósk hennar. Að fám dögum liðnum dó hún (í ágúst 1835). Því verður ekki með orðum lýst, hve Lincoln varð þá niðurbeygður af harmi. Ástin, sem hann hafði borið til hinnar látnu unnustu sinnar, var honum sannnefnt munablóm á hinum harða og þyrnótta vegi þess einstæðingslífs, sem hann lifði. Nú fölnaði þessi fagra jurt, áður en hún blómstraði; hann varð því þrunginn af hinni myrkustu örvílnun. Lincoln var alla æfi náttúrunnar barn, hreinn og beinn frumskógamögur, að því er tilfinningar og geðshræringar snerti. Þessu frumeðli sínu hélt hann, þó að sál hans göfgaðist og hann kæmist til metorða. Hjartalag hans var æ hið sama til æfiloka. Aldrei vann hann bug á þeim sársauka og þrá, sem fylgdi lunderni hans. Hann gat alt af grátið.

»Mjólkursýkin« greip nú enn frumbyggjana í mýrlendu skógunum í Vesturbygðunum, sem þá voru að byggjast. Þessi hættulegi faraldur fór nú ekki heldur fram hjá Lincoln. Og þegar sýki þessi bættist nú ofan á hina innri einangrun hans og meðfæddu viðkvæmni, þá varð hann afar þunglyndur. Hann gat að sönnu leynt því stund og stund með gamni og hlátri hið ytra; en hann hafði engan kraft í sér til að sigrast á þunglyndinu eða varpa því frá sér. Unnustu sína syrgði hann, þangað til vinir hans hugðu, að hann mundi verða vitstola. Þegar Lincoln tók næst sæti í ríkisþinginu (1838), þá varð hann að knýja hugann til að sinna þingstörfum, og hann játaði með hryggu bragði fyrir einum samþingismanni sínum: »Þótt

öðrum sýnist eg njóta lífsins í algleymisfögnuði, þá er eg svo yfirbugaður af þunglyndi, þegar eg er einn, að eg þori aldrei að bera á mér vasahníf«.

Í þessari sálarneyð sinni kvaddi Lincoln New Salem fyrir fult og alt (1838), enda var það þorp þá að líða undir lok. Pósthúsið var þá búið að »loka augunum«, eins og þáverandi bréfhirðingamaður að orði komst. Kaupmenn höfðu allir flutt þaðan og setst að þar í grendinni, og þar hafði svo risið upp nýtt þorp. Lincoln leigði sér hest og steig á bak og hafði allar eigur sínar í hnakktöskunni; reið hann nú áleiðis til Springfield, sem nú var orðin höfuðborg ríkisins fyrir atfylgi hans. Í Springfield stóð honum lögmannsembætti til boða eða málaflutningsstörf. Nú var hann enn fátækari en þegar hann kom til New Salem, því nú var hann stórskuldugur.

Lögmaðurinn sami, sem lánaði honum lögbækurnar, bauðst nú til að taka hann á skrifstofu sína. Springfield var enn lítil borg, íbúar eitthvað á annað þúsund. En borgarbúar voru Lincoln auðvitað þakklátir, því að það var að mestu leyti atfylgi hans að þakka, að hún var orðin höfuðborg, og vænleg var hún til frambúðar.

Þegar Lincoln kom til Springfield, þá hitti hann snikkara einn að máli og bað um rúmstæði handa sér. Síðan gekk hann til aðalvöruhússins í borginni og spurði, hvað rúmfatnaður mundi kosta. Það voru 16 dalir. Þá andvarpaði hann og þungum skugga brá yfir svip hans.

»Eg hefi enga peninga til að borga með«, sagði hann hreinskilnislega, »en ef þér viljið umlíða mig

fram til jóla og mér tekst vel lögmannsstarfið hérna, þá mun eg borga yður. En bregðist það, að starfið farnist mér vel, þá borga eg yður líklega alls ekki!«

Kaupmaður þekti Lincoln alls ekkert persónulega, en hann hafði heyrt hann tala og dáðist að því. Nú kendi hann í brjósti um hann; hann var svo raunalegur út af fátæktinni; kaupmaður bauð honum því að sofa hjá sér, ef hann vildi.

»Hvar eigið þér herbergi?« spurði Lincoln.

»Það er uppi á lofti«, svaraði kaupmaður.

Lincoln tók þá hnakktösku sína á handlegg sér, ógn volæðislegur í bragði. Eftir litla stund kom hann ofan aftur og sagði, brosandi út undir eyru:

»Jæja, eg er fluttur hingað!«

Meðan Lincoln var að ná sér niðri í nýju stöðunni, þá bjó hann þarna uppi yfir vörubúðinni hjá þessum veglynda húsbónda sínum. En gamla skuldin vofði árum saman yfir höfði Lincolns, eins og kolsvart kólguský. Honum fanst sæmd sín við liggja, að skifta hverjum dal, sem honum innhentist, milli sín og lánardrotna sinna. Og löngu eftir það, er búið var að jafna það hús við jörðu, þar sem skuldasamningurinn var gjörður, og New Salem því sem næst afmáð af jörðunni, þá var hann samt að afborga skuldina af sínu nauma lögmannskaupi.

Einu sinni sáu vinir Lincolns ráðvendni hans koma eftirminnilega í ljós. Þeir vissu bezt, í hverja ofraun hann hafði ratað, að því er fjárhaginn snerti, og var enn í. Fulltrúi póstmáladeildarinnar kom einu sinni til Springfield. Hann átti að krefja Lincoln um 17 dali, sem hann skuldaði stjórninni frá

þeim tíma, er hann gegndi bréfhirðingarstarfi í New Salem. Lincoln gekk þá að gömlum kassa í skrifstofunni, og tók þar upp háleist einn, og í honum var einmitt þessi tilnefnda fjárupphæð í silfri og eirpeningum. Þarna hafði það legið; aldrei hafði hann snert það, þrátt fyrir allar freistingar, sem margra ára fjárþröng hafði lagt fyrir hann; hann var alt af að bíða þess, að stjórnin gæfi honum færi á að gjöra upp reikninginn. Þeir urðu hissa, sem sáu þetta; en Lincoln sagði blátt áfram, að hann hefði gjört sér það að fastri reglu, að eyða aldrei þeim peningum, sem hann varðveitti fyrir aðra.

Þótt Lincoln hefði mátt sjálfur um kjósa, þá hefði hann ekki getað fundið heppilegri samastað í Springfield en vöruhúsið. Hinir ungu og upprennandi menn í Springfield höfðu þá venju að safnast saman á kvöldin í kringum stórt arinbál. Lincoln varð brátt potturinn og pannan í þeim félagsskap, sakir fyndni sinnar og ráðvendni sinnar. Þarna voru þeir saman komnir: Stephen A. Douglas, er var settur yfirréttarlögmaður sama daginn, sem Lincoln var skráður í lögmannatölu, *O. H. Brawning*, er seinna varð meðlimur í ráðuneyti forseta, *F. O. Baker*, seinna efrimálstofumaður á alríkisþinginu fyrir Oregon-ríkið og aðrir, sem til frægðar voru ætlaðir.

Þetta voru mentaðir menn. Sagt er, að Baker hafi hrotið tár af auga, er hann las stjórnarskrá Bandaríkjanna og sá þar, að *hann* gat ekki orðið forseti, af því að hann var ekki fæddur í Bandaríkjunum, heldur heima á Englandi. Þau mál, sem

þá voru helzt á dagskrá, voru rædd þarna af miklu fjöri og hita, og átti þar hvert mál sinn formælanda. Einu sinni, er umræður þessar urðu heitar venju fremur, þá spratt Douglas upp og skoraði á andstæðinga sína til opinberrar kappræðu. Fjórir þeirra urðu við áskoruninni, og stóð sú kappræða heila viku og var ekki af dregið. Lincoln talaði síðastur. En af orðagjálfri því, sem honum rann þá af munni, mundi heimurinn varla þekkja þann Lincoln, sem hann þekkir nú.

»Mörg frjáls ríki hafa týnt frelsi sínu og vort ríki hefir týnt því líka«, sagði hann; »en ef svo skal fara, þá sé það ekki mín fegursta fjöður að flýja það síðastur manna, heldur hitt að yfirgefa það aldrei«.

Þetta sagði hann meðal annars.

Um þessar mundir voru »orð innantóm« í mestum metum í opinberum umræðum. Lincoln var eins og aðrir á þessu skeiði; hann hafði ekkert umtalsefni og lá því við, að hann ærði áheyrendurna með íburðarmiklu orðaglamri. Þegar um hversdagslega hluti var að ræða, þá gat hann verið eins hversdagslegur og hver annar. En þegar hann varð gagntekinn af einhverju háleitu málefni, þá hófst hann fyrst upp yfir hið hversdagslega.

Þegar hæst var hrópað og hugsað minst í landsmálaþjarkinu (um 1840), þá var Lincoln þar sem mest gekk á í þeim þarflausa leik. Þá komst hann í svo svæsnar persónulegar deilur, að svo mátti heita, að hann sneiddi hjá þeim eftir það. Þær urðu honum ein grein af fræðslunni í skóla reynslunnar. Upp frá því tamdi hann sér þá stillingu og

hæversku, sem hélt honum frá öllu þrasi og þjarki. Upp frá því voru það málefnin, en ekki mennirnir, sem hann átti í höggi við. Upp frá þessu barðist hann fremur með rökum en hnefum.

Þegar bindindishreyfingin barst eins og alda yfir landið frá Washington, þá endurvaknaði æskuáhugi Lincolns á því máli. Hið siðferðislega og mannúðlega sjónarmið þeirrar »krossferðar« gegn áfengisbölinu eggjaði hann af nýju og skaut honum í brjóst að flytja kröftugt ávarp til þjóðarinnar. Þar spáði hann því, að sú öld mundi koma, að »enginn þræll né drykkjumaður mundi framar til vera á jörðunni«.

Þegar einhver siðferðisleg meginregla barst Lincoln til eyrna, þá var hann ávalt vís að greina rétt frá röngu af eðlisávísun sinni, því að hann hafði jafnan glögt auga fyrir því, hvað væri siðferðislega rétt eða rangt. Þetta sýndi hann meðal annars, þegar sú skoðun rak upp höfuðið, að enginn hefði neinar bróðurskyldur að rækja við þá, sem fæddir voru utan Bandaríkjanna; þeir væru sem sjálfdæmdir til útlegðar: sömuleiðis ætti að gjöra grein á mönnum eftir trúarbrögðum. Þessi stefna var farin að ryðja sér til rúms með leynd. Þegar sá undirróður magnaðist, þá féll hinum hugdeigari stjórnmálamönnum allur ketill í eld. — En Lincoln sá óðara, að þetta var siðferðislega rangt og barðist þegar djarflega gegn þessum ófögnuði, jafnskjótt sem hann lét á sér bera. Hann bar því fram þingsályktun, þar sem hann lýsti því yfir, að kaþólskir ættu jafnan rétt til samvizkufrelsis og mótmælendur. Lincoln var ekki af því bergi brot-

inn í andlegu tilliti, að nokkurt umburðarleysi í trúarefnum gæti fest rætur hjá honum, eða að hann færi að kveða útlegðardóm upp yfir þeim, sem ekki væru bornir og barnfæddir innan Bandaríkjanna.

## IX. KAPÍTULI.

### *Kvonfang Lincolns og landsmálahugur.*

Lincoln átti ekki kvenhyllinni að fagna. Ein af þeim, sem hafnaði bónorði hans, lýsir honum á þessa leið:

»Lincoln skortir alt þetta smálega, sem getur gjört konu hamingjusama, eða svo reyndist mér það að minsta kosti«. Og þetta er vafalaust sanngjarn dómur. Hún kvartar yfir því, og það með réttu, að þegar þau riðu saman og komu að á, þá hafi hann ekkert skeytt um, hvort hesturinn hennar kæmist yfir um eða ekki, heldur hafi hann riðið sjálfur á undan á stökki og látið hana eiga sig.

Aldrei tók hann þátt í neinu dagstofuhjali. Hann hirti aldrei um að fylgja neinum settum siðum manna; ekki virtist hann þó hafa neitt á móti þeim, en hann skildi þá aldrei. En þegar til Springfield kom, gat hann ekki með öllu komist hjá að eiga mök við fólk af hærri stigum, þar sem hann var bæði lögmaður og þingmaður. Lagsbræður hans í þessari ungu og metnaðargjörnu höfuðborg þóttust vera talsvert siðaðir menn og tolla í tízkunni. »Eigi allfáir þeirra óku í skemtivögnum«, segir Lincoln. Þegar það datt í Lincoln að fara á

dansleik, þá dansaði hann lítið; en hann var gjarn á að fara með dansmennina út í eitthvert hornið á danssalnum og halda þeim þar með því að spjalla við þá; þótti dansmeyjunum það slæmur grikkur.

Sama sumarið sem Lincoln settist að í Springfield, kom ungfrú *María (Mary) Todd* frá Kentucky þangað í kynnisför til systur sinnar, sem átti þar heima, og var þar gift manni af góðum stigum. María dvaldi þar nokkra mánuði, en hélt síðan heim aftur til átthaga sinna. En tveimur árum síðar kom hún aftur og settist þá að hjá systur sinni; vildi hún heldur vera þar en hjá föður sínum og stjúpmóður. María var þá 21 árs að aldri og dáfríð sýnum, lítil vexti, fjörleg og djarfleg, fljótfær og berorð; hún var alin upp hjá siðuðu fólki og ein hin mentaðasta kona á þeim tímum.

Hús systur hennar var eins konar miðstöð borgarinnar; var sízt hörgull á þeim, er veittu ungfrú Maríu eftirtekt og dáðust að henni. Og svo fátækur sem Lincoln var og fákunnandi á mannasiði, þá hefði hann hæglega getað orðið út undan í samkepninni um ungfrú Maríu Todd, því að einn af vonbiðlum hennar var hið prúða glæsimenni Stephen A. Douglas. En þótt hún væri göfugrar ættar, komin af ríkisstjórum og hershöfðingjum, þá hneigðist hugur hennar til skógarhöggsmannsins fyrveranda, því að henni þótti hann vænlegur til frama og vakti það metnaðinn hjá henni.

Fólkinu hennar leizt ekkert á það, að hún skyldi vilja Lincoln öðrum fremur. Og þar sem Lincoln sjálfur var haltrandi og efablandinn í þessu

ástamáli, þá hefði margri stúlkunni orðið hugfall, sem eigi hefði verið jafneinbeitt og Maria Todd. Þau Lincoln voru gagnólík, bæði að háttprýði og lundarfari, og aldrei féll verulega vel á með þeim í tilhugalífinu. Hann var búinn að ákveða, að brúðkaup skyldi fram fara á settum tíma; en það fórst fyrir. Halda menn, að því hafi valdið veikl-aðir skapsmunir hans eða þá hugboð um, að samfarir þeirra mundu eigi verða góðar. Víst er það, að hann lét snögglega af öllum samkynnum við hana og á hann féll, eins og fyr, örvilnunar-þunglyndi.

Vinir hans höfðu auga á honum í þessu örviln-unarkasti og kveljandi hugsýki og létu sér ant um hann. Hann ritaði lagsbróður sínum, sem þá sat á alríkisþinginu, að hann væri nú aumastur allra lifandi manna; volæði sitt væri svo mikið, að væri því skift niður á alla menn á jörðu, þá yrði eng-inn með glöðu bragði. Hann bjóst fyllilega við, að úr þeim álögum ætti hann ekki afturkvæmt.

Þegar hann var búinn að ganga með þetta þung-lyndi mánuðum saman, þá fór einn af góðvinum hans til Kentucky, til fundar við heitmey sína þar, og bauð þá Lincoln með sér að fara. Á þessari ferð létti talsvert af honum þunglyndinu, er hann sá nýja menn og annað nýstárlegt. En mest af öllu létti honum þó við það, að honum tókst að lækna vin sinn, því hann var einmitt svo undar-lega þrunginn af hinum sömu kveljandi efasemd-um í ástamálum sínum. Þegar Lincoln var kom-inn heim aftur og frétti, að hjónaband vinar hans væri farsælt, þá skrifaði hann honum: »Eg hefi

alt af verið hjátrúarfullur; en nú trúi eg því, að eg hafi orðið verkfæri í hendi Guðs, til þess að leiða ykkur Fanney saman, og eg efast ekki um, að Guð hafi fyrirhugað hjónaband ykkar. Hvað helzt sem hann hefir í hyggju mér til handa, mun hann gjöra þrátt fyrir alt«.

Hið ömurlega trúnaðarheit, sem hann hafði látið ungfrú Maríu Todd vinna sér, var alt af í huga hans, og þótti honum það blettur á ráði sínu. Hann álasaði jafnvel sjálfum sér fyrir það, að hann skyldi vera að óska sér hamingju, þegar hann hugsaði til þess, að hann hefði gjört hana óhamingjusama.

»Þetta er enn að deyða sálina í mér«, ritar hann. Og þegar honum barst sú fregn ári síðar, að María hefði ferðast dálítið og skemt sér vel, þá hrópaði hann upp:

»Guði sé lof fyrir það!«

Það voru helzt horfur á, að þetta kynlega ástarævintýri þeirra Lincolns og Maríu Todd mundi enda með blóðugum sorgarleik. En sem betur fór, snerist það í dynjandi gamanleik. Lincoln brá sem sé til fyrri venju, ritaði háðgreinar í blað undir dularnafni um Jakob Shields nokkurn. Þegar síðari greinin kom, þá þóttist Shields vera til knúður að heimta, að höfundurinn gæfi upp nafn sitt. Ritstjóri blaðsins sagði þá, að síðari meiðyrðagreinina hefði ungfrú María Todd skrifað og önnur kona til, sú er Lyman Trumbull átti síðar, hinn frægi þingmaður í efri málstofunni á alríkisþinginu, þá er þrælastríðið stóð yfir. Til þess að skjóta hlífiskildi fyrir hina réttu höfunda greinar þess-

arar, var Lincoln eigi seinn á sér að segja ritstjóra, að hann skyldi gefa upp sitt nafn.

Úr þessu varð hið skoplegasta einvígi milli Lincolns og Shields. Lincoln skoraði Shields á hólminn. Þegar á hólminn kom og þeir stóðu gegnt hvor öðrum, þá brá svo við, að ekki varð annað úr vopnaviðskiftunum en það, að Lincoln sneið grein af tré hátt yfir höfði sér með riddarasverði því hinu mikla og biturlega, er hann hafði í höndum. Áhorfendur létu sér þetta ekki ónýtt verða, heldur léku sama leikinn sér til gamans marga daga á eftir. Lincoln sárblygðaðist sín fyrir þessa hólmstefnu, bæði áður en hann gekk á hólminn og ávalt síðan.

Næst er frá því að segja, að ástir tókust að nýju með þeim ungfrú Todd og Lincoln. Lincoln gaf sig henni og forlögunum algjörlega á vald; en daufar voru þó tilfinningar hans og hvarflandi, líkt og áður; en skyldutilfinning hans og sæmdarhugsjón urðu yfirsterkari öllum efasemdum og geig við það, að þessi ráðahagur mundi illa gefast. Nú var vinur hans frá Kentucky, sem fyr er getið, búinn að vera 8 mánuði í hjónabandi. Leitaði hann nú sem skjótast ráða hans. »Mig langar til að leggja fyrir þig nærgöngula spurningu«, skrifaði hann: »Ertu ánægður með hlutskifti þitt, bæði að því er kemur til tilfinninga þinna og dómgreindar?«

Hvaða svar sem hann svo hefir fengið við þessari mjög svo óvenjulegu spurningu, þá er það víst, að þau Lincoln og frú Todd kölluðu systur hennar til viðtals við sig, og sögðu þau henni, að þau

hefðu fastráðið að gifta sig þá hið sama kvöld. Tíminn leyfði engan veizluviðbúnað né umtal manna. Brúðurin varð meira að segja að fá brúðarkjól systur sinnar að láni, því að hún var gift fyrir eigi svo löngu. Brúðkaupið fór fram 4. nóv. 1842.

Frú Lincoln gekk nú með trú og hollustu að hinum fátæklegu kjörum, sem maður hennar hafði að bjóða henni. Hann var eins og áður í skuldakröggum. Þau settust að á gistihúsi og höfðu 4 dali um vikuna til viðurlífis. Þó að frú Lincoln væri metnaðargjörn að eðlisfari, þá lét hún sér nægja að láta sig dreyma um auðsæld og frægð, og svo það að vita, eins og hún sjálf komst að orði, að hjarta Lincolns var eins stórt og hendur hans voru langar.

Lincoln fór lögmannsstarfið æ betur og betur úr hendi og menn voru farnir að hafa augastað á honum sem leiðtoga í landsmálum. Þegar hann hætti þingmensku í Illinois, þá vildi hann eigi að flokkur hans, Viggarnir, nefndu sig til ríkisstjóra þar, því að sá heiður væri ekki nema nafnið tómt, þar sem lýðræðismenn væru orðnir þar í meiri hluta. Hann vildi ná kosningu til alríkisþingsins eða sambandsþingsins (Congress) og ekkert annað. Það lét hann í ljós með allri djörfung. Hann ritar vini sínum á þessa leið: »Ef þú skyldir heyra það á einhverjum, að mig langi ekki til að ná sæti á sambandsþinginu, þá bið eg þig, sem persónulegan vin minn, að segja honum, að þú hafir ástæðu til að halda, að hann fari vilt í því. Hið sanna er, að mér er hinn mesti hugur á því«.

Það var nú samt hinn ágæti vinur hans E. D. Baker, sem varð hlutskarpari að þessu sinni. En Lincoln beið þess með vonglöðum hug, að sér mundi hlotnast sami heiður, þó að seinna yrði. Hann kvartaði að eins undan því með mjög vægum orðum, að sér mundi meðal annars hafa verið bægt frá »af því að hann heyrði engri kirkjudeild til og væri haldinn vantrúaður á opinberun Guðs«.

Annað kom fyrir við þessa atkvæðasmölun, sem hann hafði sér að eins að gamni. Hann ritaði manni einum í New Salem, sem hann þekti, og skýrir ósigur sinn fyrir honum á þessa leið:

»Þeir hafa hafnað mér ókunnum, vinafáum, ómentuðum og félausum dreng, rétt eins og eg væri vellauðugur, ríkilátur frambjóðandi og venzlaður höfðingjum«. Hér bendir hann sjálfsagt til ættar þeirrar, sem hann tengdist með giftingunni. En við vini sína sagði Lincoln einu sinni hlæjandi: »Eg man ekki eftir, að nokkur ættingja minna hafi heimsótt mig hér, nema einn, og meðan hann dvaldi hér í borginni, þá var hann sakaður um þjófnað!«

Þegar svo tími Lincolns loksins kom, þá lét hann einskis ófreistað til að ná sæti á sambandsþinginu í stað Bakers. Hann ritaði nokkrum atkvæðamönnum í hverju héraði og svo mæltu blöðin líka með honum. Hann var kænn og gjörhugull í kosningabaráttunni, misti aldrei sjónar á nokkru atriði í því, sem um var barist, og var glöggskygn á hvert smáatriði í deilumálunum.

Við þessar kosningar (1846) fékk hann flest at-

kvæðin úr sínu héraði, fleiri en nokkur annar frambjóðandi af hans flokki hafði nokkurn tíma áður hlotið. Náði hann nú kosningu fyrir alt umdæmið með ríflegum atkvæðamun. En síðar, er fyrsta sigurhrifningin var hjöðnuð aftur, þá sagði hann með döpru bragði: »Mér hefir ekki fallið það eins vel og eg bjóst við«.

## X. KAPÍTULI.

### *Lincoln á sambandsþinginu.*

Lincoln var þá 39 ára, er hann tók sæti á sambandsþinginu (í des. 1847), og tók þá um leið annað stigið í háskóla lífsins.

Hann kom þangað á hagkvæmum tíma. Þeir keptu þá um virðingarnar og völdin í efri málstofunni þeir Webster hinn mælski, og Calhoun hinn rökfimi. Þar áttu þá margir nafnkendir menn sæti, svo sem þeir Benton og Cass, Tom Corvin, Sam Houston, Jefferson Davis, Simon Cameron, Hannibal Hamlin og John A. Dix. Stephen A. Douglas var nefndur til efri málstofunnar (Senate), sama daginn sem Lincoln tók sæti í neðri málstofunni (The House of Representatives),

Robert C. Winthrop var þingforseti. Aðstoðarmenn hans voru þeir Alexander H. Stephens, Robert Toombs, Collamer frá Vermont og Andrew Johnson. Horace Greely var bætt við með sérstakri kosningu. Fremstur allra var John Quincy Adams; hann gjörði ræðustól þingsins frægan enn. Lincoln var þá þingmaður, er »hinn gamli þing-

skörungur« hneig niður frá embættisverki sínu í neðri málstofunni, útslitinn af þjónustunni í þarfir alríkisins.

Nýi þingmaðurinn frá Illinois var alókunnur því sem næst öllum samþingismönnum sínum. Hann einn var Viggi frá Illinois; en samt sem áður fögnuðu flokksmenn hans honum forkunnar vel; honum var líka gefið að ná hylli manna, svo að hann bar brátt höfuð yfir allan fjöldann, svo andlega sem líkamlega. Hann náði hylli Daníels Websters og var gestur hans nokkrum sinnum, er hinn frægi mælskumaður hélt laugardagsboð heima hjá sér. Ekki þurfti Lincoln að segja nema eina sögu í makindastofu þingmanna í *stjórnarhöllinni* (Capitol), til þess að laða að sér hugi þingmanna þar; að fám vikum liðnum var hann viðurkendur sögumaður á þingi — fremstur allra í þeirri grein. Bókasöfn þingsins og hæstiréttur ríkisins voru stórir salir, og sem gullnáma í augum Lincolns. Þeim, sem söfnin sóttu, varð oftar en einu sinni skemt við að sjá til hans. Hann batt vasaklútnum sínum utan um nokkrar bækur, stakk svo stafnum sínum undir hnútinn og gekk svo til matsöluhússins með bókaböggulinn sinn reiddan um öxl alveg eins og hann hafði gjört í fyrri daga, þegar hann gekk frá einni lausavinnunni til annarar með fataböggulinn sinn.

*James K. Polk* var þá forseti og Mexíkó-ófriðurinn að byrja. Margir héldu, að sá ófriður væri ekki rétt hafinn og væri til þess gerður að ná meira landi undir þrælaeigendur og bæta fleiri þrælaríkjum við þau, sem fyrir voru. Forseti hélt

því fram sem fastast, að Mexíkó-stjórnin hefði neytt Bandaríkin til þessa ófriðar og farið herskildi inn í land þeirra og úthelt blóði borgaranna innan vébanda Bandaríkjanna sjálfra. Þessu mótmæltu andstæðingar hans. Þeir fullyrtu, að forseti hefði sent her sinn út fyrir hin fastákveðnu takmörk Bandaríkjanna, og Mexíkó-stjórnin því eigi gjört annað en látið reka Bandamenn af því landi, sem henni bar með réttu.

Lincoln beið þess ekki, að hinir eldri þingmenn gengju á undan. Og áður en fyrsti mánuðurinn væri liðinn af þingtímanum, þá var hann búinn að semja og leggja fram margar ályktanir í Mexíkó-málinu. Eru þær í sögunni nefndar »markalínu-ályktanirnar«. Þar er þeirri spurningu skarplega beint að Polk forseta, hvort markslóð sú, er hann sendi hermenn sína á, og þar sem fyrst kom til blóðsúthellinga í ófriðnum, væri innan landamæra Bandaríkjanna.

Að fám vikum liðnum ávarpaði Lincoln þingið til styrktar ályktunum sínum; bar hann þá fram hófsamleg rök fyrir þeim og rannsóknaryfirlit yfir málið. Hann krafðist þess af forseta, að hann svaraði ályktunum sínum hreinskilnislega og minti hann á, að þar sem hann sæti nú, hefði Washington einu sinni setið, — og nú ætti hann að svara, eins og Washington sjálfur mundi svarað hafa. Ef hann færðist undan að svara fyrirspurnum sínum, þá hlyti þjóðin að skilja þá undanfærslu sem viðurkenningu þess, að ófriðurinn væri ranglega hafinn af forseta; kvað hann forseta mundi byggja von sína á því, að hann mundi geta breitt yfir

rangindin með sigursæld hermanna sinna, »hinum ginnandi regnboga, sem stígur upp af útheltu blóði, þessu höggormsauga, sem töfrar og drepur«, og kvað það vera álit sitt, að Polk væri »viltur, ringlaður og aumasti vafningamaður«.

Um þessar mundir var sem öll þjóðin æpti siguróp út af sigursæld hersins syðra. Þessi ræða Lincolns bakaði honum því ákúrur margra vina hans og kjósenda. Einum þeirra, sem var prestur, ritaði hann og spurði, hvort boðorðið: »Alt, sem þér viljið að mennirnir gjöri yður, skuluð þér og þeim að gjöra, væri nú úrelt, máttlaust, ónothæft«.

En svo mjög sem Lincoln lagðist móti því, að hersveitir væru sendar inn í Mexíkó, þá greiddi hann atkvæði með öllu því, sem þingið vildi gjöra til að styðja þá hermenn, sem á vígvellinum stóðu. Og til þess að hershöfðingi þeirra, Taylor, yrði kosinn til forseta, þá stofnaði hann sérstakan Taylorflokk á þinginu.

Lincoln sótti kjörþingið í Fíladelfíu, og var Taylor hershöfðingi þar nefndur til forseta. Í sama tilgangi hélt Lincoln stutta hvatningarræðu á þinginu, þegar deilan stóð sem hæst. Hló þá allur þingheimur og klappaði lof í lófa. Fregnriti einn segir svo frá, að Lincoln hafi gengið fram og aftur allan ganginn milli þingmannabekkjanna, talandi og baðandi út höndunum, allur leikandi í liðum, unz hann kom að borði þingskrifara, hélt síðan til baka á sama markið aftur og hóf svo gönguna að nýju.

Þegar kosningabaráttan harðnaði, þá var Lincoln kvaddur til Massaschusetts. Þar áttu Viggar í

höggi við nýjan stjórnmálaflokk. Það var stefnuskrá þess flokks, að allar nýlendur Bandaríkjanna skyldu vera frjálsar af öllu mansali og þrælahaldi. Lincoln var þá nýtt um varninginn að tala til hinna rosknu og ráðnu Austurríkjamanna og þeim eigi síður forvitni á að sjá og heyra þetta »ágæta sýnishorn af Illinois-Vigga«, eins og eitt blaðið í Massaschusetts komst að orði um Lincoln.

Þá var þess rösklega krafist, að Lincoln kæmi til liðs við þá í Old-Bay-ríki; var hann önnum kafinn, meðan hann dvaldi þar. Í staðinn fyrir málskapsmann með svölustéli, eins og þeir áttu þar að venjast, þá sáu þeir nú fyrir sér tröll eitt mikið vestan af gresjunum, í svartri Alpaka-kápu. Hann bretti upp ermarnar og hleypti þeim fram á víxl; hann losaði fyrst um hálshnýtið, en síðan tók hann það af sér, þegar fór að hitna í veðrinu, eða hitinn hljóp í hann við ræðuhöldin.

Í Boston átti hann tal við William H. Seward frá New York, og að því samtali loknu sagði hann: »Seward ríkisstjóri! Eg hefi verið að velta því fyrir mér, sem þér sögðuð í ræðu yðar. Eg tel yður hafa rétt að mæla. Vér höfum þegar fengið þrælamálið til meðferðar og oss er á höndum að gefa því meiri gaum hér eftir en hingað til«.

Nú kom Lincoln í fyrsta skifti þar í sveit, sem skipuleg skoðun var uppi á þrælamálinu. Hann fann, að þar ýttu þeir við honum. Nú hafði hann og flokkur hans nefnt Taylor til forseta. En Taylor var Suðurríkjamaður í húð og hár; sjálfur hélt hann þræla og skelti skolleyrum við öllu, sem laut að þrælamálinu. En nú hafði Lincoln staðið

augliti til auglitis við þá í Massaschusetts, sem vildu gera allar nýlendur frjálsar af þrælahaldi. Af þessu var þá augljóst, að stjórnmálamennirnir gátu ekki öllu lengur skotið sér undan að sjá að baráttan mikla væri fyrir höndum um þetta viðkvæma mál.

Ekki lá það fyrir, að Lincoln væri endurkosinn til sambandsþingsins fyrir kjördæmi sitt, því að það var eigi venja, að sami þingmaður væri kosinn nema til eins tímabils í senn. Auk þess hafði framkoma hans í Mexíkómálinu bakað honum andróða, svo að engin leið var að því, að hann hefði orðið ofan á við kosningu, ef til hefði komið. En í síðara skiftið, er hann sat á þinginu, var það frægasta afrekið hans, að hann bar fram vel hugsað frumvarp gegn þrælahaldi.

Þrælamarkaður var haldinn svo, að blasti við frá stjórnarhöllinni að sjá. »Það voru eins konar svertingjakvíar«, sagði Lincoln. »Svertingjahjarðir voru reknar inn í þessar kvíar og haldið þar um hríð og svo loks reknir til markaða Sunnanmanna, nákvæmlega eins og þegar hross eru rekin«. — Þessa hryllilegu sjón vildi Lincoln eigi hafa fyrir augum, og bar því fram frumvarp um afnám þrælaverzlunar í Kolumbíu-umdæmi, og jafnframt um það, að þrælahald væri smámsaman numið úr gildi, gegn endurgjaldi til þrælaeigendanna (1849).

Fyrir þessu frumvarpi sínu barðist Lincoln kappsamlega og tókst að sameina þá, er mótfallnir voru þrælahaldi og fékk meðal annara borgarstjórann í Washington til að styðja málið. En seinna fór samt

svo, að skoðanir Sunnanmanna á því máli risu gegn frumvarpinu og borgarstjórinn afturkallaði undirskrift sína. Var þá frumvarpi Lincolns stungið undir stól, og í því salti lá það, þangað til það vaktist upp aftur í vopnagný þrælastríðsins.

Innsetning Taylors forseta nálgaðist. Þá hafði Vigga-foringinn frá Illinois nóg að gjöra. Hann var í nefndinni, sem átti að undirbúa dansleikinn, er halda skyldi eftir þá athöfn. Á þeim dansleik misti Lincoln hatt sinn og varð að fara heim berhöfðaður af þeim fundi. Þeir, sem um embætti sóttu til nýju stjórnarinnar, lögðu fast að Lincoln að mæla með sér, því að þeir vissu, að hann átti mikið undir sér við Taylor forseta. Alt fórst honum það sómasamlega og sanngjarnlega. Að lokum sótti hann sjálfur um það, að hann yrði skipaður erindreki landskrifstofunnar í Washington. En til allrar hamingju var hann of seinn, því að sú staða var lofuð öðrum. Með þeim hætti slapp Lincoln hjá því að verða kaffærður í stjórnarskrifstofu í Washington. Lincoln var um tíma hnugginn út af þessu, og lá nærri að hann vildi þiggja eitthvert lítilfjörlegt embætti í Oregon-nýlendunni sér til hugnunar. En kona hans varð efri að ráðum að því sinni. Varð svo ekkert úr því.

Lincoln hvarf þá heim aftur í lágreistu og dimmskuggalegu skrifstofuna sína í Springfield, en tregur þó, og lagði stjórnmálin á hylluna, og gekk aftur af lögmannsstarfinu sínu.

»Eg hefi alt af verið forlagatrúar«, sagði hann síðar, »það verður fram að koma, sem fyrir er ætlað, eða öllu heldur: eg hefi komist að raun

um það í öllu mínu lífi, að það er satt, sem Hamlet segir:

»Guðleg forsjón jafnar öll vor efni,
hve klúrt og ójafnt sem vér til þau telgjum«.

## XI. KAPÍTULI.

## *Lincoln í faranddóminum.*

Aldrei var hamingjan Lincoln hollari en þegar hún leiddi hann að lokinni tveggja ára þingmensku upp gamla stigann að eyðilegu og dimmu skrifstofunni þeirra Herndons og hans í bakherbergi einu í tvílyftu steinhúsi úti við borgarvöllinn í Springfield.

Skrifstofan var ekki stór og ekki hreinleg heldur. Úti í einu horninu lágu bögglar af »stjórnarfræi«, er þar hafði verið fleygt, og nóg var þar af moldinni, svo að fræið gat fest rætur og skotið frjóöngum. En á þessum stað var þó Lincoln sjálfs síns húsbóndi; þarna hafði hann fult frelsi til að hugsa sínar hugsanir og láta þær uppi. Það hefði orðið ólíkt þrengra um hann sem erindreka landskrifstofunnar í Washington, í háu og víðu sölunum þar, en innan þessara þröngu og rykugu veggja.

Þarna höfðu frændur hans og vinir hann í hávegum. Þar gleymdi hann fljótt embættisvonbrigðum sínum, því að í raun og veru var það alt annað, sem hugur hans þráði. Auðugur lögmaður einn í Chicago bauð honum félagsskap við sig; en Lincoln átti hægt með að standast þá freistingu;

hann hafnaði boðinu og bar það fyrir, að hann hefði snert af tæringu, og gæti það alveg farið með sig, ef hann ætti að sitja innilokaður í borgarskrifstofu, eins og fugl í búri.

Og lán var það, að hann var svo fljótur að skera úr um þetta. Lögmenska í Chicago hefði vel getað orðið skaðvæn heilsu hans. Þar voru líka fyrir auðugir skjólstæðingar og há ómakslaun í boði, og hefði það getað haft ill áhrif á andlegan og siðferðilegan þroska hans. En Lincoln lifði svo og dó, að aldrei hreyfði sér hinn minsti fégirndarneisti hjá honum. Enginn embættisbróðir hans með jöfnum hæfileikum skeytti nokkurn tíma minna um fé en hann. Í augum hans var auðurinn »ofnægð óþarfra hluta«, eins og hann sjálfur komst að orði.

Enginn maður í hans stöðu gat verið nægjusamari. Smekkur hans var æ hinn sami, jafnóbrotinn frá upphafi til enda. Aðrir lögmenn stórgræddu á því að ná undir sig jarðeignum; en Lincoln vildi aldrei snerta hendi við því að græða dalsvirði á nokkru gróðabralli; hann undi sér hið bezta við sinn deildan verð. Flestir ötulir lögmenn græddu meira fé með því að gjörast umboðsmenn veitingamanna og peningalánara en með því að flytja mál fyrir dómstólunum eða kviðdómunum, sem þar voru og eru tíðastir. Þau aukastörf voru Lincoln ekki að skapi, enda vildi hann aldrei við þeim líta, ekki einu sinni á fyrstu árunum, meðan skjólstæðingar hans voru fáir. Einu sinni átti hann kost á einu slíku umboði, en hann svaraði þeirri málaleitun skriflega og benti á annan mann, »sem

Drottinn hefði einmitt skapað til að gegna slíku starfi«.

Lincoln var ekki sýnt um að græða á lögmannsstarfi sínu. Daníel Webster fól honum mál á hendur; rak hann alveg í rogastanz, hve lítið Lincoln tók fyrir flutning þess máls, og lagsbræðrum Lincolns þótti kröfur hans smánarlega lágar. En þetta virðist líka hafa verið eini gallinn á honum í augum þeirra. Einu sinni flutti hann mál með öðrum lögmanni; félagi hans vildi taka 250 dali fyrir ómakið; en Lincoln vildi ekki taka við sínum hluta af ómakslaununum, fyr en þeim hefði verið þokað niður í þá upphæð, sem honum þótti sanngjörn vera, og skjólstæðingi þeirra væri endurgreitt það, sem ofkrafið væri.

Þegar Davíð Davis, dómsforsetinn, vellauðugur stóreignabóndi, heyrði þetta, þá hrópaði hann upp sárgramur: »Lincoln! Þínar lágu launakröfur gera faranddóminn fátækan«.

Tekjurnar, sem Lincoln hafði af starfi sínu, hafa líklega verið 2—3 þúsund dalir á ári, þegar bezt lét. Hæstu ómakslaunin, sem hann setti upp, voru fyrir mikilvægt skattskyldumál, sem hann flutti fyrir stærsta járnbrautarfélagið í Illinois. Þegar hann var búinn að vinna málið, afhenti hann kröfu sína sjálfur, 2000 dali, en fulltrúi félagsins taldi kröfu hans þá féflettingu, að hann vildi eigi greiða. Lincoln var það nýlunda, að til mála gæti komið, að hann væri ósanngjarn í kröfum. Hann bar þetta samt undir vini sína í dóminum, og allir voru þeir á einu máli um, að krafan væri hlægilega lág. Þeir þrýstu honum þá til að heimta

5000 dali, og dómurinn skyldaði félagið til að greiða honum þá upphæð.

Það var alvanalegt, að Lincoln letti menn þess að eiga í óþörfum málaferlum, og fyrir það misti hann iðulega tækifæri til að afla sér fjár.

Einu sinni kom maður til hans og bað hann að flytja mál út af hálfum dal, sem hann ætti hjá manni, sem ekkert ætti til að borga sér með. Maðurinn vildi samt reyna að ná sér niðri á honum og fékk Lincoln eigi talið hann ofan af því. Hann setti þá upp alvörusvip mikinn og krafðist þess, að sækjandi greiddi sér 10 dali fyrir fram í ómakslaun. Að því búnu gaf hann hinum félausa verjanda helminginn af þóknun sinni. Verjandinn kannaðist þá við, að dómurinn væri réttmætur og greiddi það, sem um var deilt. Þannig lauk málinu, og hinn sárgrami lánardrottinn fór harðánægður heim af þeim fundi með hálfa dalinn sinn.

Lincoln var jafnviðbúinn að taka að sér rétt mál, þótt engin von væri um þóknun, eins og að hafna röngu máli, þó að rífleg ómakslaun væru í boði. Einu sinni stefndi hann manni fyrir faranddóminn, sem umboð hafði á hendi til að krefja 400 dala lífeyri af hendi stjórnarinnar handa gamalli ekkju hermanns nokkurs frá dögum stjórnarbyltingarinnar, þá er Bandaríkin brutust undan yfirráðum Englendinga. Krefjandi hélt því fast fram, að sér bæri helmingurinn af upphæðinni í ómakslaun. Þá kom Lincoln út tárunum á dómsmönnum með málsvörn sinni og skírskotun til réttvísi dómsins þessari gömlu ekkju til handa. En ekkert vildi hann taka fyrir ómakið.

Þegar Lincoln hrepti í fyrsta skifti 500 dali í ómakslaun, þá spurði hann sjálfan sig: Hvað á eg að gjöra við þetta »stórfé«? Hjartað leiðbeindi honum og svaraði spurningunni. Það varð að ráði, að hann keypti fjórðung lands til að gefa stjúpu sinni, til að gjöra »kæru stjúpunni sinni« dagana hægari og þægari í ellinni. Hún gat lifað á þessari landspildu; synir hennar gátu ræktað blettinn, og með því móti gat gamla konan haldið heimilinu saman. Þegar hann sagði einum vini sínum og lagsbróður frá þessu, þá réð hann Lincoln að fá stjúpu sinni landið til æfilangrar ábúðar og afnota, en láta það svo hverfa til sín aftur, er hún dæi.

»Það gjöri eg ekki«, sagði hann, »það sé fjarri mér. Það væri vesalmannlegt endurgjald fyrir alla hennar trú og dygð við mig. Eg vil ekki gjöra neitt gróðabrall úr þessu«.

Lincoln var heldur eðlilegra að lifa sínu frjálsa lífi í faranddóminum í sveit en að lifa eins og fangi í lögmannsskrifstofunni í Chicago. Hann hrylti auðvitað við því, þegar hann hugsaði til þess, en hitt var hans yndi. Það var svo að sjá, að hann yrði aldrei þreyttur á því lífi. Í hinum nýbygðu Vesturríkjum gat enginn lögmaður lifað á því að flytja mál í einu héraði; faranddómendur fóru því úr einu héraði í annað; dómsforsetinn setti svo dómþingið, þar sem hentast þótti í það og það skiftið.

Lögmannsdæmi Lincolns náðu yfir sex héruð og var það víðátta mikil. Í fyrstu var þar enginn lagður vegspotti, svo teljandi væri, og engar brýr yfir árnar. Dómsforseti var ríðandi og með hon-

um fylgdust svo þeir, sem reifðu málin, eins og riddarasveit. Aðrir dómsmenn gátu ekki veitt sér reiðskjóta og fóru þá fótgangandi um héruðin. Eftir það er Lincoln kom heim af sambandsþinginu (1849), þá ferðast hann í skröltandi eineykisvagni, sem einhver járnsmiður hafði klambrað saman handa honum.

Það var yndi Lincolns að ferðast um gresjurnar og til var hann í ýmiskonar ævintýri. Hvenær og hvar sem flokkur hans nam staðar á búgörðum til að snæða miðdegisverð, þá varð hann þar yndi og eftirlæti bænda og búþegna, fyrir sögur sínar og gamanræður. Og aldrei brást förunautum hans hjálpsemi hans.

Ef þá bar að ókunnu vaði á einhverri ánni, þá neytti hann þess að hann var háfættur og lagði fyrstur á vaðið, fór úr stígvélunum, bretti upp buxunum og óð út í ána til að kanna dýpið förunautum sínum til hæginda og þæginda.

Ef einhver skepnan átti bágt á leið hans, þá var henni ekki ónýtt að leita á náðir hans. Einu sinni var grís að hrína út í mýri; hann hafði hlaupið þar á kaf. Lincoln hljóp til og bjargaði honum upp úr feninu. Hann var þá nýbúinn að eignast ný föt og þótti það jafnan nýlunda; en nú foraði hann sig allan upp við það að bjarga grísinum. Förunautar hans hlóu þá dátt að útverkuninni á honum. Hann reyndi þá að stilla í þeim hláturinn með því að segja: »Ef bóndinn hefði mist grísinn sinn, þá hefði getað svo farið, að börnin hans hefðu orðið að ganga berfætt í allan vetur«. — Einu sinni hafði stormurinn hrakið og

hrist tvo unga út úr hreiðri í skógarrunni, þar sem Lincoln fór um, og tístu þeir aumkvunarlega. Lincoln náði ungunum og lét þá aftur í hreiðrið. »Þér megið hlæja«, sagði hann við félaga sína, »hefði eg ekki getað bjargað þeim til móður sinnar, þá hefði eg ekki getað sofið næstu nótt, því að tístið í þeim hefði þá alt af verið fyrir eyrunum á mér«.

Og þá var Lincoln ekki síður barnavinur en dýravinur. Kona ein í Springfield sagði oft eftirfarandi sögu af sér og Lincoln:

Þegar eg var barn, þá stóð eg einu sinni við hliðið heima hjá mömmu, grátandi út af því, að eg átti þá í fyrsta sinni að fá að fara með járnbrautarlest til að heimsækja vinstúlku mína í næstu borg; en maðurinn, sem fenginn var til að bera ferðakistuna mína til járnbrautarstöðvarinnar, kom ekki. Lincoln bar þá að og spurði, hvað að mér gengi. Eg sagði honum þá hágrátandi sorgarsögu mína.

»Hrestu þig upp«, sagði stóri maðurinn og laut blíðlega niður að mér, »við skulum flýta okkur«. Að svo mæltu setti hann kistuna á bak sér og stikaði af stað. Eg kom á eftir hlaupandi, því að hann var svo stórstígur, og þerraði tárin úr augunum á mér á hlaupunum. Og við komum alveg á mínútunni. Hann setti mig og kistuna upp í vagninn, kysti mig og óskaði mér góðrar ferðar«.

Lincoln var tvent í senn: kyntur manna bezt og manna vinsælastur í faranddóminum. Alstaðar var hann aufúsugestur, hvar sem hann setti dómþing. Bændur og borgarar settust á bekki og grind-

ur tugum og hundruðum saman alt í kringum hann og þótti skemtun hin bezta. Þeir heilsuðu honum hjartanlega, þegar hann steig af baki úti fyrir gistihúsunum, og Lincoln tók með óblandinni ánægju í útréttar hendur þeirra og kallaði upp kunnuglega: »Komdu sæll, Smith!« Komdu sæll, James!« »Þykir ykkur vænt um, að eg er kominn?«

Á höfði sér hafði hann annaðhvort koll-lágan pálmahatt, 25 senta virði, eða háan og loðinn hatt úr bifurskinni frá dögum W. H. Harrisons. Fötin hans voru oft úr knypluðu, rykugu, ryðlitu og skinnkendu efni, og stundum kom það fyrir, af því að hnappa vantaði, að hann festi axlaböndin í buxurnar með trénagla eða spýtu, sem hann hafði telgt til þess. Í hendi sér bar hann skrítna, fornfálega ferðatösku, og undir hendinni hafði hann græna baðmullar-regnhlíf, slitna og upplitaða og hafði vafið grófum bandspotta um hana miðja. Innan í hana var saumað: »A. Lincoln« með grófum, hvítum þræði, og hnappurinn var dottinn af handfanginu, og var lengra síðan en nokkur myndi.

En svo hirðulaus sem hann var um útganginn á sér, að klæðaburði til, þá rakaði hann sig vandlega og hélt sér samvizkusamlega hreinum. Svo frjálslegur sem hann var í framgöngu, þegar hann hitti fólk, og svo frjálslegir sem menn voru í návist hans, þá var hann þó alls ekki auðtekinn. Engum kom til hugar að slá lófum á bak honum eða ávarpa hann með gælunafninu »Abe«. Hann lét ávalt ávarpa sig með »hr. Lincoln« meðal kunn-

ingja sinna, en blátt áfram »Lincoln« meðal beztu og nánustu vina sinna.

Gestgjafar heilsuðu honum hjartanlega, því að meðan hann var þar innan dyra, þá fyltust stofur þeirra af aðvífandi fólki. — Aldrei kvartaði Lincoln yfir framreiddum mat né annari þjónustu.

Ef menn urðu varir við Lincoln í setustofu gestanna í einhverju gistihúsinu að kveldi til, að hann hallaði sér þar aftur á bak í stól, þá flaug fregnin um það út um alt og stofan fyltist óðara út í dyr og gluggakisturnar líka; svo voru menn óðfúsir að hlusta á hina leikandi fyndni hans. En Davis dómsforseti og félagar hans drógu sig meira út úr og biðu með óþreyju eftir Lincoln í dómaraherberginu uppi á loftinu, því að hann vantaði þá til að hleypa fjöri í samræður þeirra.

Eftir það er Lincoln kom heim af sambandsþinginu, sat hann enn um hríð lengstum yfir bókum. En er hann tók sæti í faranddóminum, og átti kost á að eiga samvistir við hina skemtilegu lagsbræður sína þar, þá hætti hann alveg að skeyta um bækur. Þá urðu mennirnir bækurnar hans og lífið sjálft námsgreinin hans. En samt varð það svo, að hinu glögga auga hans og einlæga huga, duldist það ekki, þegar hann fór í mannjöfnuð, að rækilega uppaldir lögmenn, þeir er hann hitti í höfuðborginni, voru miklu fremri honum að mentun. Þess vegna hvarf hann heim, staðráðinn í því að læra meira.

Hann var nú fertugur að aldri, en ekki of gamall til að læra. Hann tók nú að lesa rit Evklids, hins forngríska rithöfundar, og hætti eigi fyr en

hann var búinn að lesa sex bækur eftir hann til hlítar. Þegar hann var á ferðalagi, þá lá hann og las nótt eftir nótt, löngu eftir það er Davis dómsforseti og lagsmenn hans tveir eða þrír voru farnir að hrjóta. Hann lét loga á kerti á stól við höfðalagið á rúminu sínu og lagði fæturna, eins og þær voru langar til, yfir fótagaflinn. Hins vegar átti hann það líka hjá sér að skjótast burtu úr gistihúsinu einn síns liðs, svo að enginn vissi, til þess að skemta sér eins og smádrengur við einhverja afartilkomulitla skuggamyndasýningu eða leiksýningu úti í þorpunum.

Á dómþingum var hann frábær leikari. Þar lék hann gleðileiki og sorgarleiki hins raunverulega mannlífs. Dómstöðin var eina andlega miðstöðin hjá frumbyggjunum. Þangað þyrptust verkamenn, sem bjuggu í grendinni og einbúar utan af gresjunum; þá hungraði eftir hinni andlegu vakningu sem orðaskifti lögmannanna höfðu í för með sér. Flutningur málanna fór ekki fram eftir neinum fastákveðnum reglum og var þess vegna næsta óáheyrilegur. Nágrannadeilur voru algengar í nýbygðunum; en þau mál voru fremur rannsökuð og úr þeim skorið eftir heilbrigðri skynsemi eða tilfinningum dómenda en eftir fyrirmælum laganna.

Lincoln var létt um að flytja mál. Eðli hans var margbreytt, og því flutti hann hvert mál með sérstöku skapi og með sérstökum hætti. Ef tilefni gafst, þá vakti framkoma hans og klúrar lögskýringar skellihlátur hjá dómnefndinni. Ef réttlætisást hans vaknaði og hatur á því, sem rangt var, þá urðu dómsforseti og dómnefnd, lögmenn

og áheyrendur gagnteknir af hreinskilni hans og alvöru. Og þegar meðaumkvun vaknaði hjá honum, þá hrærði hið társtokkna auga hans og titrandi rómur samúð allra þeirra, sem á heyrðu og hjá stóðu.

En ef þur og kaldur lagastafurinn varð umtalsefni hans, þá svifti hin meðfædda dómgreind hans burtu öllum lögfræðislegum glósum, öllu, sem valdið gat misskilningi, þar til meginhugsunin var orðin ljós hverjum manni. Haun hafði engar mætur á heimspekilegum heilabrotum og enga þolinmæði hafði hann til að hlusta á lögkróka eða hártoganir á lagastöðum. Hann kærði sig ekki um að vinna mál með þeim hætti, og að jafnaði vildi hann eigi nota sér það að mun, þótt andmælanda hans yrði misint. Ef hann hafði á einhverju réttu að standa sín meginn, þá hélt hann því einu fram, en lét alt hitt eiga sig.

»Já«, var hann vanur að segja, ef um hin smærri atriði máls var ræða, »eg tel það rétt vera«, eða »því atriði held eg ekki svo fast fram«. En þegar um hið »raunverulega atriði« málsins var að ræða, þá fann andmælandinn sér til mestu furðu, að hinn hægfara Lincoln hafði breytst í stál á einu augabragði, og greip þá eins og töframaður eina atriðið, sem hald var í.

Lincoln hafði eigi ávalt rétt mál að sækja eða verja: en fáir munu þeir lögmenn vera, er jafnsnjallir hafi verið og jafnt önnum hlaðnir sem hann, sem betur standist ransókn sögunnar. Þegar hann fór til dómþinga, þá skildi hann aldrei samvizkuna eftir heima; hann virðist hafa skeytt jafn-

mikið um heiður sinn og verið jafntrúr hugsjónum sínum í þessu starfi, eins og í sínu opinbera lífi. —

Venjulega var hann eigi fenginn til að flytja mál, ef málefnin voru ill, því að það var alkunna, að þau mál flutti hann illa. »Eg held«, segir einn af lagsbræðrum hans, »að hann hafi síður veitt sanna stoð í því að ransaka rotið mál en nokkur annar, sem eg hefi verið með«. Þegar hann sá, að málstaður hans var veikur, þá féls honum hugur. Einu sinni, þegar ransókn stóð sem hæst í máli nokkru, þá veik hann sér að ráðanautum sínum og hrópaði: »Maðurinn er sekur. Verjið þér hann; eg get það ekki«. Og af sömu ástæðu vatt hann sér í öðru máli að ungum málflytjanda, og mælti: »Dómnefndin mun sjá, að eg hygg, að maðurinn sé sekur«. Einu sinni kom það fyrir í borgarmáli einu, að hann komst að því við ransókn málsins, að skjólstæðingur hans hafði brögð í frammi; flúði hann þá út úr húsinu, sem heigull væri. Í annað sinn tók hann að sér mál, sem hann hugði vera rétt höfðað; en er hann fór að ransaka það, sá hann að sakarsækjandi hafði á röngu að standa; hann lét þá þann málsaðilja vita, að hann vildi eigi flytja málið; en er hann vildi eigi láta málið falla niður, þá kvaðst Lincoln höfða mál gegn honum fyrir rangan málatilbúnað; lét þá sækjandi undan.

Lincoln stóð í raun og veru ótti af sannleikanum; fyndi hann, að hann væri á móti honum, þá félst honum allur hugur og dugur. Þegar Herndon, hinn ungi lagsbróðir hans, tók að sér mál fyrir þá

báða, sem ekki var bygt á staðreyndum, þá lagði Lincoln að honum með hægð, að hann skyldi vísa því frá sér. »Þetta er bannsett mál«, sagði hann, »það getur á sínum tíma rekið í okkur glámsaugun, löngu eftir að það er sjálft úr sögunni«. Satt er það að vísu, að hann færði eigi hreina siðferðilega ástæðu fyrir því, að þeir skyldu afsala sér málinu; en þessi ályktun hans ber vott um fullkomið siðgæði; hann er þess fullvís, að aldrei muni lygin sigri hrósa. Virðing sú, er hann bar fyrir ráðvendni og hreinskilni, sveigði dóminn á réttan veg miklu fremur en orðin, sem hann talaði. Oft gat hann fengið vitni til að segja hið sanna með meðfæddri góðsemi sinni, en hvorki með því að hóta né hræða.

Hann flutti mál víðar en fyrir búakviðdómi í sveitum. Fyrir yfirréttinum í Illinois flutti hann mörg mál síðustu 10 árin, sem hann var í farand-dóminum. Þegar hann var búinn að vera lögmaður fjögra ára skeið, þá flutti hann mál fyrir yfirréttinum um það með gildum rökum, hvort skuldabréf, sem vera skyldi borgun fyrir svarta ambátt, væri gilt eða ekki. Hann hélt því skýlaust fram, að samkvæmt stjórnarskránni (1787) gæti það ekki verið löglegt að selja nokkra mannlega veru í Norðvestur-nýlendunum. Þetta mál Lincolns varð síðar fordæmi í samskonar málum, svo að tugum skifti.

Einu sinni var Lincoln kvaddur til Chicago til að flytja þar stórmál, sem snerti einkarétt á stóru og frjóu landi fram með Michigan-vatninu. Í öðru mikilvægu máli setti hann fram þá meginreglu, að

menn hefðu jafnan rétt til að fara þvert yfir ár, eins og upp og niður eftir þeim. Málið reis út af fyrstu brúnni, sem bygð var yfir Missisippi-fljótið; þeim, sem flutninga höfðu á fljótabátum, þótti brúin vera illur þröskuldur í vegi fyrir sér.

Hvergi varð Lincoln fyrir sárari vonbrigðum á þessu skeiði, en þegar hann tók að sér einkaleyfismál á kornskurðarvél nokkurri (1857). Andmælandi hans í því máli var lögmaður einn úr Austurríkjunum. Lincoln hugði gott til að etja kappi við hann og bjó sig undir það kappsamlega. Vinir hans í faranddóminum treystu því, að hann mundi hljóta sæmd mikla af þeim málaflutningi, þó að það væri fyrir hærri dómstóli.

En skjólstæðingur hans átti mikið í húfi, 400,000 dali; félst honum hugur, er hann sá hinn glæsilega vitsmunamann að austan ganga til móts við hinn óbreytta sveitalögmann, og kvaddi því Edwin M. Stanton honum til aðstoðar. Stanton flutti áður mál fyrir hærri rétti en Lincoln, og því gekk hann alveg fram hjá honum, Lincoln heyrði hann fara um sig þessum fyrirlitningarorðum, út um opnar dyr á gistihúsi: »Hvaðan kemur þessi handalanga skepna, og hvað hygst hann að gera í þessu máli?« Í annað sinn lýsti hann Lincoln á þá leið, að hann væri »löng og horuð skepna frá Illinois og gengi í mokóhreinni léreftsrykúlpu í stað yfirfrakka og á bakinu væru stórar svitaskellur, eigi ósvipaðar mynd af meginlandi Norðurálfunnar«.

Lincoln stóð nú uppi vinalaus í borginni (Cincinnati), því að hann var þar öllum ókunnur. Hann sá nú, að honum var vísað á bug frá þessu

máli; hafði hann þó einmitt hugsað sér að afla sér með því fjár og frama. Þetta var sár læging fyrir hann; en hann lét sér það alt að kenningu verða. Hann kannaðist einarðlega við, að lögmennirnir þar, skólagengnir menn, væru betur undir búnir en lögmenn þeir, er flyttu mál fyrir kviðdómum eða faranddómum. Hann sá, að skólagengnir lögmenn voru alt af að þokast vestur á bóginn. »Þeir kynna sér málin rækilega«, sagði hann, »en það gjörum vér aldrei. Þeir koma bráðum til Illinois; þá skal eg vera við þeim búinn«.

Ekkert gat unnið svig á sjálfstrausti Lincolns; en samt varð nú ekkert úr þessari ákvörðun hans um rækilegra laganám. Þar réðu atburðir meira, atburðir, sem kvöddu hann til enn hærri og þyngri skylduverka, og undir þau hafði alt lífið verið að búa hann honum óafvitandi.

En þó að sú lögmannastétt, þar sem hann var óskorað fremstur í röð, gæti eigi stært sig af miklum lærdómi, þá voru margir færir menn í þeim flokki, menn, sem líktust Lincoln og voru framkvæmdir lagnari en fræðigreinar. Þeir urðu að byggja á sínum eigin heimildum í nýnumdu landi, sem enga sögu átti. Engin fordæmi, engir úrskurðir voru fyrir hendi til að fara eftir. Þeir urðu sjálfir að marka réttvísinni stigu úti í skógunum og á gresjunum og plægja jarðveginn fyrir hana. Hlutverk þeirra var svo vaxið, að þótt það hafi eigi gjört þá að fullnuma lögmönnum, þá ól það að minsta kosti upp heilan hóp af mönnum, sem sýndu, að þegar tækifærið drap á dyr á skrifstofum þeirra í þorpunum, þá voru þeir jafnt við-

búnir að flytja mál þjóðarinnar sem að skipa fyrir á vígstöðvunum.

## XII. KAPÍTULI.

### *Heimili Lincolns og nágrannar hans.*

Lincoln var einn síns liðs í heiminum. Hann var tvískiftur. Vinir þeir, sem þektu hann bezt, sáu varla annað en hinn óbreytta, lítilmótlega, en hagsýna mann: hann mjólkaði sjálfur kúna sína, leiddi hestinn sinn á stallinn, gekk út á torgið með körfuna sína á handleggnum og ávarpaði glaðlega hvern, sem hann hitti: »Hvernig líður þér?« Eða hann sat á kassa fyrir utan skrifstofudyrnar hjá sér og sagði sögur heilum hóp af götuslæpingjum.

En við og við kom þeim fyrir sjónir annar Lincoln. Hann gekk um götuna — einstæðingsskapurinn skein utan á honum. Eða hann sat hugsandi á skrifstofu sinni stundum saman og langt fram á nætur. Nánustu félagar hans hafa sagt, að þeir hafi sjaldan séð bregða fyrir hinum innra Lincoln — draumamanninum, hugsjónamanninum, skáldinu, spámanninum, sem bjó í hinum ytri Lincoln, síhugsandi og leiddi hann að ákvörðun sinni.

Hann sagði engum frá áhyggjum sínum né vonum og bað heldur engan að taka þátt í þeim með sér, hann sagði engum allan hug. Enginn ættmanna hans gaf sig fram úr skuggunum, þar sem hann var borinn og barnfæddur, til að verða honum samferða á braut frægðar og frama. Hann

þekti fáa af skyldmennum sínum, nema stjúpu sína, bróður og systur, og föður sinn. Faðir hans lifði það að sjá, að hann átti frama í vændum, en hann skorti mentun til að skilja það.

Skrifari Lincolns einn, W. G. Greene, heimsótti Th. Lincoln, föður hans, í bjálkakofanum hans í Coles-héraði. Gamli maðurinn var æstur móti þessum sífelda bókalestri sonar síns og sagði við Greene: »Eg þykist vita, að Abe sé enn að heimska sig með þessum bóklestri og námi. Eg var að reyna að koma í veg fyrir það; en þessi heimskufluga var svo föst í höfði honum, að eg gat ekki haft hana úr honum. Nú, eg hefi enga uppfræðingu hlotið; en eg hefi þó komist betur af fyrir það, að eg naut hennar ekki«.

Þegar Lincoln sat á sambandsþinginu (1851), þá frétti hann, að faðir hans væri mjög sjúkur. En sökum þess, að hann var hlaðinn þingstörfum, þá gat hann eigi farið til fundar við hann; faðir hans var ekki læs á skrift sjálfur, svo að Lincoln skrifaði þá stjúpbróður sínum:

»Eg vona innilega, að hann komist til heilsu aftur; en hvað sem öðru líður, þá segðu honum að muna eftir að ákalla og treysta vorum miskunsama skapara, sem eigi mun yfirgefa hann í nokkurri þrengingu. Hann gefur gaum að hverjum smáfugli, sem til jarðar fellur og telur hvert hár á höfðum vorum; hann mun því eigi gleyma deyjanda manni, þeim er treystir honum«.

Lincoln átti engan stallbróður í æsku og engan trúnaðarmann á fullorðinsárunum; þau hjónin héldu að sönnu trúnaðarheit sín hvort við annað, en það

var eitthvað í eðli og uppeldi þeirra beggja, sem stíaði þeim sundur, þó að saman væru, svo að aldrei var fullur trúnaður milli þeirra. Hún dáðist að honum öðrum fremur, og var honum einlægur ráðunautur; hún hafði vakandi auga á hverju sem honum varð til frama í stjórnmálum, því að eins og aðrar Suðurríkjakonur hafði hún brennandi áhuga á landsmálum. Hún fylgdi skeiðhlaupi hans á stjórnmálabrautinni af miklum metnaði. En taugar hennar voru of veikar og viðkvæmar til að bera áhyggjur heimilislífsins og umsvif þess.

Henni sárnaði stundum, hve lítt hann fylgdi landssiðum; en í hennar augum var það þó svo afar áríðandi, að þeirra væri gætt. Henni fanst, að húsið þeirra ætti að vera nokkurskonar miðstöð, samboðið þeim heiðri, sem hann fékk að njóta. Hann sætti sig góðfúslega við siðu höfuðborgarinnar, þó að ekki væri honum sýnt um að fylgja þeim. Hann fór með konu sinni í »stórhófin«, eins og hún kallaði það í bréfunum, til skyldfólksins í Kentucky, svo sem til að gylla líf þeirra dálítið fyrir því fólki. Þau höfðu meira að segja vinaboð heima hjá sér. Og einu sinni gat hún hrósað sér af því, að þau hefðu haft 200 manns í boði.

Svo varfærinn sem Lincoln var um tilfinningar annara, þá stygði hann þó oft óafvitandi velsæmisvitund konu sinnar, því að »mannasiðir« voru ávalt lokuð bók fyrir honum. Þegar hann sat að borði, gat hæglega svo farið, að hann gleymdi því, að sérstakur hnífur væri ætlaður í smjörið, og þegar dyrabjöllunni var hringt, þá beið hann ekki eftir því að »vikastúlkan«, önnum kafin, hlypi til

dyra, heldur stóð hann upp úr sæti sínu og gekk til dyra á morgunskóm og tómri skyrtunni, til þess að heilsa þeim, sem komu; gat þá svo við borið, að það væru einhverjar frúr, sem komið höfðu í kurteisisskyni.

Allir í Springfield voru fúsari á að fyrirgefa hinum fræga samborgara sínum smávægilegar yfirsjónir í þessum efnum en hin metnaðarfulla og tiltektasama kona hans. En hún hefði nú líka átt að geta »gengið létt« á þessum yfirsjónum hans í framgöngunni, því að hinn riddaralegi heiður hans og þolgæði og trúlyndi og þegjandi meðaumkvun með örlyndi hennar, vó svo miklu meira; hann vissi, að veiklaðar taugar áttu sinn þátt í ólögum þeim öllum, sem hún lét yfir hann ganga.

Lincoln hafði yndi af drengjum sínum. Hann bar þá á bakinu eða handleggnum, þegar hann var á gangi um borgina. Aldrei gjörði hávaðinn í þeim honum nokkurt ónæði eða ama; hann hafði ekki nema óslitið gaman af öllum ærslagangi þeirra og bernskubrögðum; þau komu honum aldrei á óvart. Einu sinni skrifaði hann vini sínum: »Þegar eg var byrjaður á bréfinu, þá kom sendiboði til mín og sagði mér, að Bob væri týndur; en í sama svip og eg kom til, þá var móðir hans búin að finna hann og flengja hann, og nú er ekkert líklegra en að hann sé strokinn aftur«.

Einu sinni beit hundur Bob litla; faðir hans var mjög angraður af því, og af því að hann var nú alt af hjátrúarfullur, þá hljóp hann á burt frá öllu og fór með drenginn til Indiana-ríkis, til að finna þar lyfstein nokkurn, er leggja mætti við sárið. —

Drengir hans máttu hlaupa tálmunarlaust um skrifstofuna hans, fleygja ofan lögbókum hans, dreifa skjölunum hans um gólfið og beygja oddinn á pennanum hans. Þetta truflaði hann ekki hið minsta, hversu sem það angraði Herndon, lagsbróður hans.

Skrifstofan var Lincoln ekki annað en athvarf eða hvíldarstaður; þar var stóll og legubekkur, allur orðinn slitinn og snjáður eftir hann, honum þótti svo notalegt að hvíla sig á honum.

Hugur Lincolns var vakandi með afbrigðum; hugsunin var ávalt skýr og skipuleg. Hann var stálminnugur. Honum þótti gott að hafa skrifborð til að hvíla á því fæturna; en annars notaði hann það ekki, hann vildi svo miklu heldur skrifa á hné sínu, eins og hann hafði gjört heima. Hatturinn hans var skjalahirzlan hans. Þar geymdi hann öll sín bréf og minnisblöð — greinar, sem hann ritaði við og við á smámiða, eitt eða annað sem honum hugsaðist.

Einu sinni skrifaði hann einum skjólstæðingi sínum:

»Þegar eg fékk bréfið frá yður, þá stakk eg því í gamla hattinn minn. Daginn eftir keypti eg mér nýjan hatt og lagði þá gamla hattinn á afvikinn stað og bréfið kom hvergi í leitirnar um hríð«. Venjulega fór hann svo að, er hatturinn var orðinn fullur, að hann helti úr honum öllu innihaldinu í hrúgu og skrifaði á hana ofan: »Ef þú getur hvergi fundið það, þá leitaðu hérna!«

Hann skrifaði aldrei reikninga og hélt enga bók. Ef honum guldust ómakslaun, svo að lagsbróðir hans var fjarverandi, þá skifti hann þeim nákvæm-

lega milli sín og hans, vafði hlut félaga síns innan í bréf og ritaði utan á: »Helmingur Herndons«, og stakk því svo niður í draghólfið.

Það átti við Lincoln, að leggjast á legubekkinn og lesa dagblöðin. Alt af las hann upphátt og truflaði með því lagsbróður sinn. Hann kvaðst gjöra það til þess, að þá heyrði hann jafnt með eyrum sem hann sæi með augunum, það sem hann las. Hann las þá ekki bækur að jafnaði, nema þá í einhverjum ákveðnum tilgangi, sem fyrir hendi var. Bibliunni var hann gagnkunnugur og mikið kunni hann líka utan að úr leikritum Shakespeare's, og skáldrit Burns og Miltons voru honum einkar kær. Aðrar bækur las hann ekki að mun; en hann kunni líka utan að langar romsur úr þeim.

Hann kunni líka utan að hið veiklulega raunaljóð »Ódauðleiki«, þar sem þessi alkunna hending stendur:

»Ó, hví skyldi andi dauðlegra manna hreykja sér hátt?«

Þessa hendingu hafði hann oft upp fyrir munni sér; hún var honum hugtöm, svo þunglyndur sem hann var í aðra röndina alla æfi.

Aldrei tók hann neinn þátt í kviksögum þeim, sem gengu um borgina, og aldrei í neinni samkepni innan borgar, né af nokkrum þeim borgarmálefnum, sem ekki náðu út fyrir borgina sjálfa, og aldrei af neinni »hreppapólitík«. En samt forðaðist hann ekki umgengni við samborgara sína; hann tók alt af fjörugan þátt í gleðskap þeirra og neyðar-tilfellum, var ávalt viðbúinn að rétta hjálp-

arhönd nauðstöddum nágranna. Eitt hið síðasta sakamál, er hann flutti, tók hann að sér fyrir umkomulítinn vin sinn, og var hann þá samt önnum kafinn í stjórnmálaþjarki.

Sonur Jack Armstrongs, þess er fyr var getið, var sakaður um morð. Armstrong var þá nýlátinn, en móðir hans leitaði á náðir Lincolns, til þess að fá drengnum sínum bjargað. Lincoln mintist þess þá þakklátlega, að þessi fátæka kona hafði einu sinni reynst honum eins og móðir, þegar hann átti engan að; þá átti hann örugt skjól í kofanum hennar. Nú stökk hann frá öllum öðrum störfum og fór til liðs við hana. —

Aðal-vitnið bar það fram, að hann hefði séð drenginn ljósta manninn banahögg og hefði það gjörst kl. 11 að kvöldi. Lincoln spurði þá, hvernig vitnið hefði getað séð þetta svo glögt, svo síðla á kvöldi.

»Við tunglsljós«, svaraði vitnið.

»Var þá nógu bjart til að sjá hvað helzt sem til bar?« spurði Lincoln.

»Tunglið var hér um bil jafnhátt á lofti og sólin er nú kl. 10 að morgni, og var nærri fult«, svaraði vitnið.

Óðara en varði tók Lincoln almanak upp hjá sér. Með almanakinu sýndi hann nú, að hið umrædda kvöld var tunglið tæplega búið að ná fyrsta kvartéli og hafði gengið undir, áður en stund væri liðin frá því, er morðið hafði átt að vera framið; af þessu mátti þá sjá, að litla birtu hafði borið af því á morðingjann.

Allur áheyrendaskarinn varð sem á lofti við þessa uppgötvun.

»Hanna«, sagði Lincoln, og veik sér hljóðlega að móðurinni, »hann Billy þinn verður laus allra mála, áður en sól er sezt«.

Síðan ávarpaði hann dóminn og gat þess, hvernig á því stæði, að hann væri verjandi drengsins; hann væri ekki keyptur til þess, heldur væri hann með þessu að gjalda gamla vináttuskuld, sem fallið hefði á sig á þeim dögum, er hann var sjálfur vinafár; því næst útmálaði hann fyrir þeim, af heilum vinarhug, liðna tímann og gamla kofann hans Jack Armstrongs, þar sem gamla konan, sem nú stæði við hlið sér undir silfurhærum, hefði hleypt sér inn og veitt sér mat og húsaskjól og bætt rifnu fatagarmana sína; sjálfur hefði hann þá vaggað Billy í blund á meðan.

Allir dómsmennirnir elskuðu Lincoln og virtu hann. Tárin hrundu þeim af augum, og þeir lögðu glaðir þann úrskurð á málið, sem hann hafði beðið þá um svo hjartanlega.

Þetta gjörðist í maí 1858.

## XIII. KAPÍTULI.

### *Lincoln kvaddur að ætlunarverki sínu.*

Hin svo nefnda Missouri-sættargjörð var úr gildi numin í efri málstofunni á sambandsþinginu; var þeim málalokum fagnað með fallbyssuskotum í Washington (4. marz 1854). Þá var sem öll þjóðin vaknaði af svefni til að heyja úrslitabaráttuna

um þrælamálið. Dynskot þessi voru Suðurríkjunum fyrirboði um það, að nú ættu þau von í fleiri nýlendum og fleiri ríkjum til samlags við sig, þar sem þrælahald yrði löghelgað. Og Norðurríkjamenn hrukku nú upp af draumum sínum um það, að friður væri og öllu óhætt.

Það var bergmálið af þessum fagnaðarskotum, er barst út yfir fjöll og sléttur, sem kallaði Lincoln að aðalhlutverki lífs síns.

Sættargjörðir höfðu verið meginregla landstjórnarmanna frá upphafi. Nú var þeirri reglu kastað út í veður og vind. Stjórnarskráin var ekki annað en sættargjörð eða samningur. Þeir, sem sömdu hana, höfðu gjört ráð fyrir, að þrælaverzlun yrði úr lögum numin; en til þess að fullnægja hagsmunum þeirra, sem við þá verzlun voru riðnir, þá bannar stjórnarskráin sambandsþinginu að afnema hana fyr en að 20 árum liðnum. Hún lét alt þrælahald liggja milli hluta í suðurhluta Missisippi-dalsins; en þar á móti bannaði hún þrælahald um aldur og æfi í norðvestur-landnáminu; var það feiknaflæmi. er náði frá Óhió að efri drögum Missisippi-fljótsins.

Þegar hið feiknavíðlenda landnám Louisiana var keypt af Frökkum, þá var Missouri-sættargjörðin saman tekin (1820). Í þeirri sættargjörð var leyft, að Missouri mætti vera þrælaríki; en alt svæðið norður þaðan milli Missisippi og Klettafjalla alt að 36° 30′ norðurbreiddar skyldi ávalt vera undanskilið þrælahaldi upp frá því.

Árið 1848 fanst gullið í Kaliforníu; streymdu menn þá þangað hvaðanæva og settust þar að.

Kom þá brátt til umræðu, að Kalifornía væri tekin í ríkjatölu, því að fólksfjöldinn var orðinn nægur til þess. Alt til þessa hafði verið séð fyrir því, að frjáls ríki og þrælaríki væru tekin upp jöfnum höndum. Þá er Kalifornía kom til mála, þá voru jafnmörg ríki af hvoru tagi, eða 15 : 15. En ef Kalifornía bættist við, þá raskaðist við það hlutfallið milli ríkjanna. Landnemar í Kaliforníu vildu vera lausir við þrælahald, þó að suðurhluti landnámsins lægi fyrir sunnan marklínuna frá 1820. Út af þessu hófst hin harðasta barátta milli þrælamanna og andstæðinga þeirra, er afnema vildu mannsalið með öllu (abolitionists og freesoilers). Sú andstaða hafði jafnan farið vaxandi í Norðurríkjunum frá því um 1840. Kvað svo ramt að, að Syðri-Karólína hótaði jafnvel að ganga úr bandalaginu út af þessu. Þá var það, að Henry Clay gekst fyrir nýrri sættargjörð (1850). Með þeirri sættargjörð féllust Suðurríkin á, að Kalifornía skyldi vera frjálst ríki, og að þrælamarkaðurinn í Kolumbíu væri lagður niður og nýlendurnar Utah (Mormóna-landið) og Nýja Mexíkó, sem Bandaríkin unnu með ófriðnum 1847—48, mættu vera fyrst um sinn frjálsar af þrælahaldi. Móti þessu hétu Norðurríkin að reka til baka alla strokuþræla frá Suðurríkjunum, sem kynnu að leita sér athvarfs innan takmarka frjálsu ríkjanna. Þetta var svo leitt í lög og vakti það megna óbeit hjá andstæðingum mansalsins, sem vonlegt var, því að þá varð enn lengra að markinu fyrir þeim en áður.

»Nebraska-nýmæli« var það kallað, er nam Missouri-sættargjörðina úr gildi. Þar var að fullu

leyft, að hvert nýtt ríki mætti sjálft kveða á um það, hvort það vildi hafa þræla eða ekki.

Þeir, sem sömdu og samþyktu þessar sögulegu sættargjörðir, sem nú voru nefndar (eins og Henry Clay), þóttust hafa ráðið þessu viðkvæma vandamáli heppilega til lykta. Bæði þjóðvaldsmenn og lýðræðismenn fögnuðu síðari sættargjörðinni, að langri deilu lokinni milli þingdeildanna. Samþyktu þeir þá jafnframt, að þetta óróamál skyldi vera útilokað frá öllum umræðum á þinginu. »Enginn undirróður skal framar eiga sér stað«, þrumaði Daníel Webster. Henry Clay árnaði þjóðinni heilla með síðari sættagjörðina, og Douglas lýsti yfir því fyrir sig persónulega, að aldrei skyldi hann framar flytja ræðu um þetta illa þokkaða þrælamál. Lincoln var þá ekki við þingmál riðinn; en hann aðhyltist þá skoðun beggja flokka, að þessu máli væri nú til lykta ráðið.

En það fór á aðra leið: Þetta mál gaf þjóðinni engin grið né hvíld. Þrátt fyrir sættargjörðina og ummæli flokksforingjanna. Að þremur árum liðnum rak það höfuðið upp aftur, líkt og vofa í veizlusal. Þá var að því komið, að sambandsþingið skyldi setja ríkisstjóra yfir Louisiana fyrir vestan Missouri-fljótið. Landflæmi þetta var um 10,000 fermílur, og var venjulega kallað Nebraska (sbr. Nebraska-nýmælið).

Á öllu þessu landflæmi bjuggu eigi fleiri en um 1000 manna á víð og dreif. (Nú eru þar ríkin: Nebraska, Kansas, Montana, Dakota-ríkin og partur af Kolorado og Wyoming). Land þetta lá að

mestu leyti fyrir norðan línuna, sem ákveðin var í Missouri-sættargjörðinni, svo að þrælahald var þar því útilokað.

Suðurríkin héldu því nú fram, að sættargjörðin 1850 hefði leyft nýlendunum Utah og Nýja-Mexíkó að kveða á um það sjálfum, hvort þau vildu taka upp þrælahald eða ekki; nú kröfðust þeir, að Nebraskabúar fengi að njóta sömu réttinda, því að það væri beinlínis í anda sættargjörðarinnar. Foringjar Sunnanmanna héldu því fram, að allar nýlendur Bandaríkjanna heyrðu jafnt til allri þjóðinni að norðan sem sunnan, og sambandsþingið hefði engan rétt til að svifta nokkurn borgara löglegri eign sinni, hvort sem sú eign hans væri þræll eða hross.

Stephen A. Douglas frá Illinois var þá forseti efri málstofunnar. Hann hafði þá fyrir skemstu verið í forsetakjörum af hálfu lýðræðismanna og brann nú allur af löngun til að verða nefndur til þeirrar tignar, er næstu kosningar færu fram. En það var alt á valdi Suðurríkjanna. Hann var því um hríð á báðum áttum í þrælamálinu. En svo fóru leikar, að metorðagirnd hans varð yfirsterkari; gerðist hann nú öflugur formælandi að afnámi Missouri-sættargjörðarinnar, er þá hafði verið í góðu gildi um fulla þrjá tugi ára. Hann gerði það að tillögu sinni, að þegar nýlendurnar Kansas og Nebraska væru afmarkaðar, þá skyldi setja landnemunum þar eða alþýðunni á vald að skera úr um það, hvort þeir vildu hafa þræla eða ekki. Fyrir þessari tillögu sinni barðist hann af alefli — »litla tröllið«, eins og fylgismenn hans kölluðu hann.

Þetta Kansas-Nebraska-nýmæli, sem áður er nefnt, hafði það í för með sér, að þrælamálið var nú ekki lengur afkróað í Boston, eins og Henry Clay hrósaði sér af eftir sættargjörðina 1850, og nú var það ekki lengur innilokað í New-England og Massaschusetts; það bálaði nú uppi um land alt, frá Atlantshafi til Kyrrahafs. Norðurríkjamenn höfðu nú fyrir sér skáldsöguna »Kofi Tómasar frænda«, og þar sáu þeir í skírri skuggsjá, að þrælahaldinu brá eins og dimmum skugga yfir »frjálsu« sléttjurnar í hinum fjarlægu Vesturbygðum út frá þessu nýmæli.

Douglas varð nú um hríð hálfringlaður af aðkasti alvarlegra mótmæla. »Þennan hvirfilbyl hafa afnámsmenn þrælahaldsins (abolitionists) æst upp og engir aðrir«, sagði hann. En þeir voru nú samt sárfáir í raun og veru. Ef afnám þrælahaldsins hefði verið borið upp í Suðurríkjunum, þá hefðu formælendur þess varla skift hundruðum. En nú var um hitt að ræða, að afnema »frelsið« í Norðurríkjunum og undir það merki fylktu Suðurríkjamenn sér, svo að tugum þúsunda skifti.

Douglas sagði síðar, að þegar hann hélt heimleiðis af þinginu í Washington, þá hefði hann getað ferðast um nætur frá Boston til Chicago við logann af myndum þeim af honum, sem brendar hefðu verið honum til háðungar. Þegar hann kom til Chicago, þar sem hann þá átti heima, þá ýfðust menn við honum á götunum hópum saman, fánar blöktu í hálfa stöng á skipunum og á stórhýsum, og líkhringingum var hringt við sólarfall, eins og um útför hans væri að ræða. Honum var boðið

til fundar undir beru lofti; en þar var honum tekið með kurr miklum og ópum. Þessi andblástur varð æ háværari; reiddist þá Douglas, því að hann hafði lengi öðrum fremur haft vald yfir kjósendum sínum; hann tók að biðja sér hljóðs hrópandi, en það kom fyrir ekki. Við þetta barðist hann tvær stundir, en hafði sig síðan á burt og æpti þá allur múgurinn siguróp.

Hann hafði sig nú á burt úr þessari ygldu borg og fór út um sveitirnar; en alstaðar var honum tekið þurlega og verra en það; hélt hann þá lengra suður á bóginn, og þar voru viðtökurnar betri. — En samt fór það svo, að þegar hann kom til Springfield, þá mætti honum maður, sem veitti honum snarpara viðnám en þúsundir af borgarmúg. Það var Lincoln. Honum var alvara. Douglas hafði hafist svo skjótt til mannvirðinga, að hann var búinn að gleyma Lincoln, þar sem hann sat í skugganum á sveitalögstofunni.

Lincoln var þá, eins og hann sjálfur segir, búinn að missa allan áhuga á landsmálum. En afnám Missouri-sættargjörðarinnar hnipti harðara í hann en nokkuð hafði áður gjört. Auðvitað hafði hann aldrei horft á mansalið með köldu blóði, heldur segir hann sjálfur, að það hafi alt af »legið á sér eins og mara«. En nú er hann sá, að það vofði yfir hinum frjálsu ríkjum Kansas og Nebraska, þá fann hann, að komið var að því, að »frelsi« og »ánauð« mundu berast á breiðum spjótum, og að honum var ætlað að rækja heilaga skyldu.

Nú varð hann sem annar maður í augum vina sinna. Sumir þeirra, sem atkvæðamestir voru, hurfu

frá honum, sakir hins brennandi áhuga hans á þessu nýja málefni. Hann vildi ekki um annað tala, og var hættur að gjöra að gamni sínu.

Ríkisþingið í Illinois átti nú að kjósa aðstoðarmann handa Douglas í efri málstofunni. Atti Lincoln að hljóta það sæti af hálfu Vigga. Lincoln bjó sig nú undir það starf með rækilegum rannsóknum, rétt eins og honum hefðu verið greidd rífleg ómakslaun fyrirfram fyrir að flytja eitthvert stórmál.

Douglas gat þess í aðfararæðu sinni, að hann skildi það vel, að »hr. Lincoln í borg þessari« mundi svara sér. Lincoln var einn af áheyrendunum. Og kvöldið eftir svaraði hann Douglas í ríkishöllinni, er var troðfull af fólki. Hann hafði boðið Douglas þangað, og meðan hann var að tala, þá sat Douglas »forseti efri málstofunnar« gegnt honum, og oftar en einu sinni spratt hann upp við kraftinn í röksemdaleiðslu andmælanda síns.

Lincoln talaði í 4 stundir af svo mikilli alvöru, að hinn tröllaukni maður titraði allur og ægði jafnvel vinum sem óvinum. Við hvert atriði af öðru í ræðu sinni, skoraði hann æðrulaust á hinn mikla kappræðuskörung, er þreytt hafði við Webster og aðra hina miklu ræðugarpa í efri málstofunni. Upp frá þessu var Lincoln höfuðsmaður fyrir sínum flokki í Illinois og yfir hann rigndi knýjandi áskorunum um að halda ræður.

Lincoln varð nú Douglas samferða til Peoria. Þar héldu þeir fjölmennan kappræðufund og skiftu tímanum milli sín. Douglas furðaði sig á, hve vígbúinn Lincoln var. Rökleiðsla hans var svo skýr, að röksemdir hans urðu að kröftugum spakmæl-

um, svo einföldum, að hver áheyrandi mátti skilja.

»Þegar hvítur maður stjórnar sjálfum sér, þá er það sjálfstjórn, en þar sem hann stjórnar sjálfum sér og öðrum jafnframt, þá er það meira en sjálfstjórn — þá er það harðstjórn«.

»Enginn maður er nógu góður til að stjórna öðrum manni svo, að hinn samþykki það ekki«.

»Afnemið Missouri-sættargjörðina, afnemið hverja sættargjörð, afnemið sjálfsforræðis-yfirlýsingu þeirra, sem stofnuðu þjóðveldið, nemið burtu alla sögu fortíðarinnar — þér getið þó aldrei numið burtu mannlegt eðli«.

»Skartkyrtill þjóðveldis vors er saurgaður og dreginn í duftinu. Vér skulum hreinsa hann. Vér skulum venda honum og þvo hann hvítan í anda, ef ekki blóði stjórnarbyltingarinnar á dögum Washingtons«.

Þessi rödd hrópaði ekki í sambands-þinghöllinni — það er satt, og ekki í Faneuil-höllinni í New-England, enn sem komið var, né frammi fyrir prúðbúnu stórmenni í einhverri stórborginni, þar sem blöðin bíða eftir því að flytja það út um alt, sem hrópað er. Nei, þessi rödd hrópaði langt úti á gresjunum, þar sem enginn fréttasnati blaðanna bergmálaði hana. En þessi rödd hrópaði á hagkvæmum tíma og heyrðist um land alt. Ekkert hefir samt spurst af Springfield-ræðunni, en Peoria-ræðuna ritaði Lincoln eigin hendi.

Douglas kannaðist við það við Lincoln hreinskilnislega, að hann hefði orðið sér þyngri í skauti en þeir Sumner, Seward, Chase eða nokkur ann-

ar, sem hann hefði hitt fyrir í efri málstofunni. — Þeim hafði komið saman um að leiða saman hesta sína í annað sinn; en ekkert varð þó úr þeim kappleik að því sinni. En hinsvegar urðu fylgismenn beggja steinhissa á, að þeir skildu skyndilega og fóru heim til sín. Enginn deili finnast til þess, hvernig á því stóð. —

Lincolns menn unnu sigur við kosninguna til ríkisþingsins, en ekki náði Lincoln kosningu til efri málstofunnar, af því að fáeinir lýðræðismenn, andstæðir Douglas, vildu ekki kjósa Vigga á þing. Lincoln dró sig þá í hlé (1853) og Lyman Trumbull var kosinn, mikilhæfur þingmaður úr sama flokki og Lincoln og jafn-ákafur gegn þrælahaldi í nýlendunum og Lincoln sjálfur.

En þó að Lincoln yrði undir við þessa kosningu, þá hélt hann merkinu, sem hann hafði reist, jafnhátt fyrir því. Sérhver atburður réttlætti þá trú hans, að nú væri hámarkið komið. Sambandsþingið var nú búið að setja landnemunum á sléttunum í sjálfs vald að skera úr um þrælahaldið hjá sér. Kansas varð nú blóðugur vígvöllur, þar sem vopnaðir menn, sunnan og norðan, börðust um þetta mál með hnífum, kúlubyssum og kyndlum; ráðist var inn í landnám og landstjóradæmi Norðanmanna og Sunnanmanna á víxl, er stóðu á öndverðum meiði, og farið eyðingarherskildi um þau með jafnmiklu villumannaæði, eins og haft var í frammi, þegar Rauðskinnar börðust fyrir eignarhaldi sínu á landinu. Það er sagt með sannindum, að konur flýðu með börn sín á náðir Indíána undan þessum ósköpum.

Þegar baráttan hófst um forsetakosninguna 1856, þá voru Viggar því sem næst úr sögunni. Lincoln safnaði þá saman liðinu, sem reis af þeim rústum og gjörðist þjóðvaldsmaður; höfðu þá lýðræðismenn setið að völdum frá því er Franklin Pierce varð forseti (1843). Nýi flokkurinn á ríkisþinginu í Illinois fagnaði Lincoln sem sjálfsögðum foringja sínum, talaði hann þar í fyrsta sinni af hálfu þjóðvaldsmanna. Málefnið mikla, sem hann hafði nú tekið að sér, af allri sál, knúði hann til að flytja ræðu svo kröftuga í Bloomington í Illinois (29. maí 1856), að fregnritararnir urðu jafnvel svo hugfangnir af að hlusta á hana, að þeir gleymdu sér; sagan kallar hana því »týndu ræðuna«. Allar fregnir dásömuðu þá ræðu og ritstjórar tóku sér texta úr henni fyrir blaðagreinum sínum, en enginn gat grafið hana upp í heild sinni. En fulltrúarnir báru áhrifin af henni með sér á hið fyrsta þjóðþing þjóðvaldsmanna, sem þá var að koma saman í Filadelfíu.

Meðan þingið var háð, var Lincoln að flytja mál fyrir faranddómi. Einu sinni bar svo til, er hann kom til gistihúss um hádegisleytið, að þar var fyrir hópur manna, sem ræddu um fregnirnar af Filadelfiu-þinginu, sem þeir voru að lesa i blaði frá Chicago; þar hafði Freemont verið nefndur til forseta, en Lincoln til varaforseta með 110 atkvæðum. Lincoln andmælti þessari fregn með kæruleysissvip, sagði, að þeir hefðu ekki getað haft sig i huga, heldur væri hér um einhvern Lincoln að ræða frá Massaschusetts.

Þegar nánari fréttir komu, þá kom það í ljós,

að fulltrúarnir frá Illinois höfðu næsta hróðugir haldið á lofti höfundi »týndu ræðunnar«. Og þó að svo væri, að Lincoln væri eigi kosinn til varaforseta með Buchanan, þeim er hlaut forsetakosninguna, þá höfðu þeir með þessu komið nafni Abrahams Lincolns á loft hjá þjóðinni.

Lýðræðismenn réðu forsetavalinu í þetta sinn, eins og áður, en það val sýndi, að vald þeirra var nú á fallanda fæti, og jafnframt kom í ljós, að hinn nýi þjóðvaldsmannaflokkur átti sér mikið fylgi í öllum Norðurríkjunum. Buchanan fylgdi þrælamönnum fast að málum. Suðurríkjamenn vildu gjöra Kansas að þrælaríki, til að gjöra sig fastari í sessi, jafnvel þótt það yrði að gjörast með ofbeldi og svikum við hina eiginlegu landnema þar. Buchanan sá í gegnum fingur við tilraunir þessar, og þegar Kansas krafðist upptöku í ríkjasambandið (1858), þá reyndi Buchanan að lokka Kansasbúa til að lögleiða þrælahald hjá sér, með því að heita þeim upptöku þá þegar, ef þeir gjörðu það, en annars yrðu þeir að bíða upptökunnar óákveðinn tíma, þangað til þeir væru orðnir mun fjölmennari. En forseta mishepnaðist þetta bragð; í stað þess bættust tvö frjáls ríki við: Oregon og Minnisota. Þetta bragð forseta vakti svo megna óbeit, að þjóðvaldsmenn náðu öllum Norðurríkjunum á sitt band árið eftir og meiri hluta í báðum málstofum sambandsþingsins; en lýðræðisflokkurinn klofnaði í tvo hópa og var þá valdi hans lokið.

## XIV. KAPÍTULI.

### *»Ríki, sem sjálfu sér er sundurþykt«.*

Þegar Douglas gekk fyrir þá Illinois-búa 1858, og bað þá kjósa sig til efri málstofunnar í þriðja sinn og alþýðuhylli hans stóð sem hæst, þá var Lincoln hvergi smeykur við að mæta þessum fræga og glæsilega stjórnmálagarpi.

Douglas hafði frábært lag á að villa öðrum sjónir í deilumálum. Nú var svo að sjá, sem hann hefði náð aftur hylli þeirri, sem hann misti við afnám Missouri-sættargjörðarinnar. Hann vó nú eins og salt milli Norðanmanna og Sunnanmanna og vakti hjá hvorum fyrir sig þá von, að hann væri beggja vinur og báðum trúr. Nú er hann var að smala sér atkvæðum til endurkosningar, gekk hann djarflega til móts við Buchanan forseta og stjórnarvöldin úr flokki hans sjálfs, í máli því, sem reis út af hinni blóðugu baráttu í Kansas milli þrælhafenda og þrælhafnenda; í því máli gekk hann í lið með þjóðveldismönnum í efri málstofunni. Hugdirfð sú, er hann sýndi í þessu máli, ávann honum einróma lof hjá Norðanmönnum.

Horace Greely, ritstjóri í New-York, og aðrir nafntogaðir leiðtogar þjóðveldismanna, lögðu fast að flokksbræðrum sínum í Illinois að greiða Douglas samhljóða atkvæði til efri málstofunnar. Lincoln dauðheyrðist við því að skjóta máli þessu til sambandsþingsins. Það var álit hans, að öld sættargjörða eða samninga væri nú á enda runnin

í þrælamálinu. Lincoln var alt annað fremur í mun en að beita kænskubrögðum í þeim málum, þar sem hann fann, að rétt og rangt áttu í höggi saman. Þá vildi hann um fram alt enga sættargjörð hafa.

Skömmu fyr en þetta varð (6. marz 1857), úrskurðaði hæstiréttur ríkisins, að þrælahald yrði eigi útilokað frá nýlendunum. Var sá úrskurður gefinn í víðkunnu máli, Dred-Scott-málinu svo nefnda; Robert Taney, hæstaréttardómari, lagði þann úrskurð á. Og þegar hæstiréttur kom síðast saman, þá hélt hann því fram, að stjórnarskráin sjálf gæfi tryggingu fyrir mansalsréttinum um aldur og æfi með líkum hætti og hún trygði mönnum rétt til að verzla með annan varning í öllum nýlendum Bandaríkjanna.

Lincoln mótmælti þessum skilningi, því að hann væri staðleysa, og sýndi fram á, að ef þeim skilningi væri fylgt, þá yrði það næsta stig málsins, að »frjálsu« ríkin gætu heldur eigi bannað mansal hjá sér. Sá hann þá fram á, að þrælahaldið mundi ná sér niðri í Illinois og hindra þar þá starfsemi frjálsra manna, sem lyft hafði honum sjálfum og mörgum hans líkum upp úr fátækt og volæði.

Baráttan fyrir »frelsinu« var nú hafin, baráttan fyrir því, að frjálsu ríkin yrðu ekki þrælaríki, og hann ásetti sér að hopa ekki einn þumlung af hólmi. Einn af vinum hans segir, að hann hafi þá sagt við sig undir fjögur augu: »Eg veit, að Guð er til. Eg veit, að hann hatar ranglæti og ánauð. Eg sé rokviðrið nálgast. Eg sé að hönd hans er í því. Ef hann hefir stað eða starf handa mér — sem eg

hygg, að hann hafi — þá held eg, að eg sé viðbúinn. Eg er ekkert, en sannleikurinn er alt«.

Nú leið að þeim tíma, er þjóðvaldsmenn í Illinois skyldu koma saman og nefna Lincoln til efri málstofunnar af sinni hálfu. Um þær mundir sáu menn Lincoln rita á miða sér til minnis dag eftir dag, og stinga þeim svo í hattinn sinn. Ekki ráðgaðist hann við neinn, ekki einu sinni Herndon lagsbróður sinn.

Daginn áður en kosningaþingið hófst, rauf Lincoln þögnina og kallaði 12 eða 15 vini sína á fund í bókhlöðu ríkisins og las fyrir þeim ræðu, sem hann var búinn að semja og ætlaði að flytja. Ræðan hófst á þessum ógleymanlegu orðum:

»Ríki, sem sjálfu sér er sundurþykt, legst í auðn. Eg hygg, að þessi stjórn geti eigi staðist til langframa, hálf með þrælahaldi og hálf á móti. Ekki býst eg við, að Bandaríkin liðist sundur — býst ekki við að húsið hrynji, heldur vænti eg þess, að þau hætti við að segja sig úr bandalögum hvert við annað og allir verði eitt eða allir öðrum. Annaðhvort munu andstæðingar þrælahaldsins girða fyrir, að það breiðist meira út, koma því svo fyrir, að þjóðin hvíli í þeirri trú, að það sé að slokna út, eða formælendur þess hrinda því áfram þangað til það er orðið jafnlögmætt í öllum ríkjunum, gömlum sem nýjum, í norðri sem suðri . . .«.

Þegar Lincoln var búinn að lesa þeim alla ræðuna, þá sýndu þeir honum fram á, að djarfleg yfirlýsing, eins og þetta, mundi fella hann svo, að hann næði eigi sæti í efri málstofunni. En einn þeirra, Herndon lagsbróðir hans, lét í ljósi ánægju

sína yfir því, hve ræðan væri einarðleg, og mælti: »Lincoln, flyt þú ræðu þessa, eins og þú last hana, og hún mun gjöra þig að forseta«. Enginn annar lét í ljós samhug sinn með þeim orðum; flestir töldu þeir ræðuna heimskulega og óheillavænlega og voru æstir. Lincoln sat fastur við sinn keip, þrátt fyrir alvarleg og stundum reiðileg andmæli þeirra.

»Vinir mínir«, sagði hann, »nú er kominn tími til, að þessar skoðanir séu látnar uppi afdráttarlaust, og eigi það fyrir mér að liggja, að verða undir sakir ræðu þessarar — látum mig þá verða undir, sannleikurinn hefir þá helt mig úr lestinni«. Hann kvaðst hafa tekið upphafsorðin úr biblíunni, af því að sérhver maður mundi skilja, hvað þau þýddu, og að þau mundu grípa hugi manna og hvetja þá gegn þessari bölvun aldarinnar.

Ræðuna flutti Lincoln daginn eftir í Springfield (16. júní 1858) og breytti engu orði og svaraði einarðlega aðfinslum, sem drifu að honum úr öllum áttum. Hann var nú búinn að varpa burt allri von um, að flokkur hans mundi sigra og kippa fótunum undan hamingju sinni að dómi manna. En þrátt fyrir það, sagði hann við einn af ámælendum sínum: »Ef eg yrði að slá striki yfir þetta skjal mitt og skafa svo líf mitt út úr augsýn manna, og ætti þó eina fátæklega gjöf eða kjörgrip eftir, þá er eg ætti að bjarga frá glötun, þá mundi eg til þess kjósa þessa ræðu og skilja heiminum hana eftir óútskafna«.

Lincoln sá nú samt sem áður, að hér var ójafn leikur á borði. Hann átti við mikið ofurefli að etja

og heitustu fylgismönnum hans stóð af því hinn mesti geigur; þótt hann væri nú 49 ára að aldri, þá var hann eigi annað en málflytjandi fyrir faranddómi í sveit og barðist fyrir lífinu og átti engan fastákveðinn stjórnmálaflokk að baki sér, því að hann var engin vél í höndum annara, þótt hann væri stjórnmálamaður. Ekki átti hann von neinnar upphvatningar frá þjóðvaldsmönnum í öðrum ríkjum og sjálfur var hann félaus. Hið eina traust hans hlaut því að vera sá sannleikur, sem náð hafði tökum á honum og gjört hann að formælanda sínum.

Um Douglas var öðru máli að gegna. Hann settist í yfirréttinn í Illinois, er hann var eigi nema 28 ára, var kosinn til sambandsþingsins 31 árs, og til efri málstofunnar 33 ára og skorti eigi nema tvö atkvæði á við forsetaefnið Franklín Pierce á þjóðþingi lýðræðismanna (1852) og fremstur var hann umkeppenda um þetta æðsta heiðurssæti á þjóðþingi sama flokks (1856) móti Buchanan. Nú var hann 45 ára og nefndur til forseta af Norðurlýðræðismönnum, er næsta forsetakosning færi fram.

Fyrir mörgum árum hafði hann þegar markað alla stjórnmálastefnu í Illinois og átti marga vel tamda og auðsveipa fylgismenn; voru þeir hróðugir af frægð þeirri, sem hann hafði aflað hinu unga ríki og trúir honum, sakir hins mikla frægðarljóma, sem hann mundi varpa yfir það frá forsetastólnum. Hann kvæntist sér til metorða og lánaðist vel að því að leggja fé í fasteignir í Chicago, svo að hann var hinn sjálfstæðasti að efna-

hag til. Hann var talinn með mikilmennum heimsins og tekið með miklum fagnaðarlátum í höfuðborgum Norðurálfu, og nafntogað var heimilið hans í Washington fyrir gestrisni.

Þegar hann kom frá Washington til að hefja kosningaleiðangurinn, þá kom hann sigri hrósandi til Chicago og þúsundir manna tóku honum með fagnaðarópum. Nú átti hann að taka þar upp bardagann aftur, sem fyr var frá horfið. Andstæðingur hans, Lincoln, var þar viðstaddur og heyrði hinn fræga efri-málstofu-þingmann vitna til sín, eins og hann væri verndarmaður hans, og kalla sig »hjartagóðan, ástúðlegt göfugmenni, dágóðan lagsbróður, heiðvirðan borgara, er hefði lögmannshæfileika með afbrigðum, og hann vonaði, að hann væri nægilega góðum gáfum gæddur til að verða nýtur þingmaður í efri málstofunni«. »Það, sem oss hefir borið á milli«, sagði hann enn fremur, »er nú búið að jafna«, og lagði mikla áherzlu á, að líking Lincolns um »ríki sjálfu sér sundurþykt« væri breytingum háð, eins og annað; nú legðu þeir málið um hlýðni eða óhlýðni undir úrskurð hæstaréttar og sömuleiðis frið eða ófrið milli þingflokkanna«.

Lincoln svaraði kvöldið eftir; sagði hann þá, að andstæðingur sinn væri heimsfrægur og að flokksmenn hans hefðu talið víst hin síðari árin, að hann mundi verða forseti, því að þeir hefðu séð svo margt þjóta upp í hinu kringlótta, skemtilega og frjósama andliti hans: póstmeistaraembætti, herstjórnarvald, ráðaneytisskipun, fjárheimtustörf og kristniboð meðal heiðingja. »Alt hefir þetta sprottið

þar fram og sprungið út, svo að eigi þarf annað en grípa það gráðugum höndum. Hins vegar hefir engum til hugar komið, að eg yrði forseti; enginn hefir nokkurn tíma séð kálhöfuð spretta út úr veslings magra og mjóa andlitinu á mér!« Annars var lítið um léttúð í svari Lincolns; það var fult af alvöru og krafti.

Í einhverri ræðu, sem Lincoln hélt snemma í þessari kosningahríð, eiga honum að hafa fallið þessi alkunnu orð: »Þú getur gabbað alla þjóðina um hríð, segir forn orðskviður, og sumt af henni alt af, en þú getur ekki gabbað alla þjóðina um aldur og æfi«. Þessi orð lýsa svo vel áliti Lincolns á ályktunargreind alþýðu, að varla getur verið um að villast, að hann hafi talað þau þá eða síðar.

Douglas hélt nú áfram ferðinni um Illinois sigri hrósandi; var eigi annað að sjá, en að hann hefði alla alþýðu á valdi sínu; allir æptu af fögnuði yfir honum. Lincoln svaraði honum í Springfield og vitnaði þar til þess, er Douglas hefði sagt um hann, að hann mundi ekki ætla að haga atkvæðasmölun sinni beinlínis eins og göfugmenni. Hann kvaðst einmitt ætla að gjöra það, að minsta kosti að kjarnanum til, hvað sem hinum ytri gljáa liði. »Glæsimenni hið ytra verð eg aldrei; en samt vona eg að eg skilji, hvað það er, sem gjörir innri manninn göfugan«.

Hann viðurkendi, að sér hefði »fatast« á því metnaðarskeiði, sem hann og Douglas hefðu hafið í þessari sömu borg fyrir 30 árum. En síðan sagði hann: »Eg finn enga tilhneigingu hjá mér til að virða að vettugi þær mannvirðingar, sem hann

hefir hlotið. Gæti eg komist til mannvirðinga á þann hátt, að hinir undirokuðu fengju að njóta þeirra með mér, þá vildi eg heldur sætta mig við það hlutskifti en að bera hina dýrustu kórónu, sem nokkurn tíma hefir verið þrengt að enni nokkurs einvalds-konungs.

## XV. KAPÍTULI.

### *Kappglíman mikla.*

Lincoln staðréð nú með sér að skora á Douglas til kappræðu-sennu um þrælamálið (24. júlí 1858). Hann komst að raun um, að sér hefði ekki tekist að stöðva flóðöldu alþýðuhylli þeirrar, sem bar andstæðing hans fram og upp á við til meiri vegs og virðinga.

Douglas hagnýtti sér nafnfrægð sína til að villa fólki sjónir með ræðum sínum. Hins vegar vanst Lincoln alllítið á. Hann lék aldrei tveim skjöldum og hafði enga sigurfrægð að baki sér. En hann horfði beint á markið, takmörkun þrælahaldsins, og að því stefndi hann í fylstu alvöru. Þess vegna skoraði hann á þennan slungna andstæðing sinn til rökræðu um málið, til þess með því að fá hann til að ræða með rökum það, sem var mergurinn málsins og draga athygli manna að því einu.

Douglas tók áskoruninni hiklaust, og kom þeim saman um að halda sjö rökræður. Vinir Lincolns voru smeykir. Þeim fanst mörgum, sem væri hann að stinga höfðinu í ljónsgin.

Kappglíman hófst í Ottawa í Illinois (21. ágúst

1858). Augu almennings hnigu að þessari hólmgöngu. Fréttasnatar blaðanna þustu að úr öllum áttum, alla leið frá New York, og vagnar, troðfullir af fólki komu frá Chicago inn í þorpið. Sveitamenn komu kvöldið fyrir akandi, ríðandi og gangandi og tjaldeldar lýstu upp gresjuna umhverfis þorpið, rétt eins og þar væri náttstaður hersveita.

Fundurinn var haldinn úti að viðstöddu miklu fjölmenni; þar háðu tveir ólíkir leik. Douglas var tæplega 5 fóta og 4 þumlunga hár, en herðibreiður og hálsdigur, höfuðið stórt og konunglegt; röddin gat orðið eins og þruma; snyrtilegur var hann að ytra búnaði og auðséð var á öllum yfirlit hans, að lánið lék við hann. Hann steig nú upp á ræðupallinn jafn makindalega, eins og hann væri heima hjá sér.

Lincoln var þá heldur öðruvísi í sjón að sjá. Mikill var hann vexti, 6 fet og 4 þumlungar á hæð; en fötin hengu utan á þessum risa, eins og á snagafjöl. Augun voru grá og tindrandi. Niður á ennið féll grófur, svartur hárbrúskur ógreiddur. Röddin var há tenórrödd og gat orðið eins og píp. Svo bætti það ekki um, að hann stóð nokkuð álútur og hafði hendurnar fyrir aftan bakið, þegar hann talaði.

En þessi augsýnilega óprýði Lincolns og yfirlætislausa framganga hans og sambland dapurleiks og einlægni í svip hans vakti þó samúð manna og almúgafólkinu gekk það til hjarta. En þegar hitinn var farinn að færast í hann, út af hlutverkinu, sem á honum hvíldi, þá féll önnur stóra höndin hans niður með hliðinni á honum og þá hafði

hann hina viðbúna til að benda með mjóa og langa fingrinum á sannleikann, sem brann honum í brjósti. Og þegar hann kastaði höfðinu fram og aftur við áherzluna, sem hann lagði á orð sín, þá fundu áheyrendur á sér, að hann hreif jafnt með sér hugsanir þeirra sem tilfinningar. Það var ekki að sjá, að hann kynni nokkra hætti ræðumanna, neina utan að lærða ræðumanns-list. Líkamshreyfingar hans voru blátt áfram, eins og orðin, sem hann talaði. En þó var það svo, ef hann varð mjög heitur, að þá var eins og öldur geðshræringa féllu yfir hann; mjói rómurinn varð mýkri og líkastur söng, og hetjuandinn brá dýrðarljóma yfir hann. —

Þegar fyrstu kappræðunni var lokið, þá fanst flestum stjórnmálamönnum af beggja hálfu, að Douglas hefði borið sigurinn úr býtum. En fylgismönnum Lincolns fanst eitthvað annað. Þeir, sem næstir stóðu, þutu upp á ræðupallinn í eldmóði og lyftu honum á herðar sér og báru hann svo til gistihússins.

»Gjörið ekki þetta, drengir«, sagði hann, »látið þér mig niður. Komið nú! Gjörið þetta ekki«, en þeir létu sem þeir heyrðu það ekki. Honum var alt of mikil alvara niðri fyrir til þess, að hann gæti sætt sig við þetta venjulega stapp og lófaklapp á þingmálafundum. Honum var meinilla við þessar »hvinskotrur og skotelda«, eins og hann kallaði þennan gauragang á fundunum.

Að kappræðunni lokinni ritaði hann einum vini sínum, til þess að gjöra hann rólegan: »Það var nú í fyrsta sinni í gær, sem við Douglas og eg bár-

umst á breiðu spjótunum við þessa atkvæðasmölun. Það varð dálítið neistaflug úr eggjunum; en það get eg glaður sagt þér, að enn er eg á lífi. Þeir lifa lengst, sem með orðum eru vegnir«.

Lincoln ásetti sér nú að reiða höggið hærra í næsta skifti. Nóttina fyrir, þá er önnur kappræðan var haldin (27. ág.), þá sýndi hann nokkrum fylgdarmönnum sínum fáeinar ritaðar spurnar, sem hann ætlaði að leggja fyrir Douglas. Vinum hans brá og sárbeiddu hann að bera ekki upp eina af þessum spurningum. En Lincoln varð ekki um þokað, þó að þeir sætu yfir honum í svefnherbergi hans fram á miðja nótt.

»Ef þú ber hana upp, þessa spurningu«, sagði einn þeirra, »þá nær þú aldrei sæti í efri málstofunni«.

»Herrar mínir«, svaraði hann og beit á vörina milli orðanna, »eg er að veiða stærri bráð. — Ef Douglas svarar, þá getur hann aldrei orðið forseti, og baráttan við forsetakjörin 1860 er hundraðfalt mikilvægari en þessi kosningabarátta«.

Lincoln hélt því sínu fram og spurði Douglas daginn eftir, hvort það væri skoðun hans, að nýlendumenn gætu útilokað þrælahald og þrælasölu hjá sér að lögum. Eða með öðrum orðum: Hvort nokkuð væri eftir af þeirri »þjóðræðiskenningu« hans nú, að hæstiréttur Bandaríkjanna hefði úrskurðað í Dred Scott málinu, að eigi væri hægt að banna þrælahald í nýlendunum!

Þá svaraði Douglas, að enn væri leið til að takmarka þrælahald; löggjafarþingin í nýlendunum gætu bægt því frá hverri nýlendu með því að setja

sér »mótmælalög«, þar sem ekkert tillit væri tekið til hæstaréttar. Þetta svar hans hefði nú, ef til vill, getað greitt honum leið að endurkosningu til efri málstofunnar í Illinois. En Suðurríkjamenn tóku þessu svari ómjúklega og kölluðu það »Freeport-villuna«, því að þeir Lincoln voru staddir í smáþorpi einu, er Freeport hét, þegar þetta gjörðist.

Kappræðurnar réttlættu fyllilega tilgang Lincolns. Þær vöktu alþýðu manna til skoðunar á málinu. Enginn gat nú lengur gengið fram hjá þessu deilumáli, enginn verið afskiftalaus um, hvernig því mundi reiða af. Vakningin læsti sig út um alt, eins og sinueldur.

Menn þyrptust á kappræðumót þessi þúsundum saman, komu úr 10—12 mílna fjarlægð. Heilar fjölskyldur tóku sig upp og höfðu með sér rúmfatnað, mat og matreiðsluáhöld Glaðværar sveitir ungra manna komu ríðandi og bændur og húskarlar í vögnum og urðu ræðumönnum samferða til fundarstaðanna; en þar var »skálatjald himininn blár« og veggirnir sjóndeildarhringurinn víði þarna úti á gresjunum.

Kappræðunum varð það líka til réttlætingar, hve sæmilega þær fóru fram. Hinn eirðarlausi og gagnhrifni mannsöfnuður gjörði engan óskunda. — Svo kappræðumennirnir sem áheyrendur voru í hóf stiltir og göfgaðir í anda af hinu mikilvæga umræðuefni. Lítil bjálkakofaþorp urðu fræg í sögunni af hinum ógleymanlegu orðum, sem þar voru töluð.

Báðir kappræðumennirnir gjörðu sér far um að forðast persónulegar árásir, og að því leyti hafði Lincoln yfirburðina að skapferðinu til.

Það var að eins einu sinni, að nærri lá gagnásökun í orðum hans, þá sagði hann:

»Mig langar ekki til að deila við hann ..... kalla hann lygara — ef eg á að segja, eins og mér býr í brjósti, þá veit eg ekki, hvað eg á að kalla hann annað«.

En í öðru sinni fullyrti hann þó, er hann vitnaði til einhvers, sem Douglas hafði sagt um hann:

»Millum okkar verða engar perónulegar deilur. Við erum einhverjir hinir beztu vinir í veröldinni, og þegar fundum okkar ber saman, þá kemur honum eigi fremur til hugar að ráðast að mér en að konunni sinni«.

Douglas sendi stundum hnútur »svörtu þjóðveldingunum«, sem voru að taka fram í fyrir honum: »Nú er eg búinn að negla Lincoln fastan og þér eruð særðir til ólífis«, hrópaði hann einu sinni, er múgurinn gjörðist hávær.

Sérhver kjósandi greiddi nú eingöngu atkvæði eftir aðstöðu sinni til þrælamálsins; ekkert mál annað komst að til að gjöra glundroða. Douglas var það hið mesta óhagræði, að hann tók þá aðstöðu til þessa máls, sem hann gjörði. Hann leit alt af til liðna tímans, til allra hleypidómanna, sem yfir þeim hvíldu. En Lincoln leit fram á við, á göfugu vonirnar, sem svifu yfir framtíðinni. Douglas notaði sér samband ríkjanna, stjórnarskrána, hæstaréttinn og afl laganna til þess að fara í kring um sinn tíma, en öldin var full af ólganda blóði. Yfir höfði Douglas hékk sí og æ bölþrunginn skuggi mansalsins — mannlegrar ánauðar.

»Eg læt mig engu skifta, hvort þrælahaldið verð-

ur stutt eða hrakið með atkvæðagreiðslunni«, sagði Douglas, fullur upp metorðagirndar og einblínandi á Suðurríkjamenn og forsetadæmið. »Eg trúi því alls ekki, að blámenn séu skyldir mér«, sagði hann með djúpri fyrirlitningu fyrir »svarta kyninu«. Og einu sinni, er hann var kominn í krappann og vissi eigi hverju svara skyldi, þá spurði hann svo kæruleysislega, rétt eins og hann væri mannhatari:

»Hver er sá yðar á meðal, sem býst við að lifa þann dag, eða að börnin hans lifi það, að þrælahald komist á Illinois eða verði gjört landrækt í Syðri-Karólínu?«

Yfir þessum orðum hans hljómaði rödd Lincolns eins og spádómsrödd. Lincoln lét liðna tímann eiga sig; hann hafði eigi hina ranglátu löggjöf hans yfir höfði sér, til að bera blak af henni. Hann hafði augljósa meginreglu fram að bera, háleita mannréttindahugsjón, og þess vegna verður starf hans uppi um aldur og æfi. Ræðurnar, sem hann flutti í þessari kosningabaráttu, eru taldar með meistaraverkum þingmannlegrar málsnildar, og fela í sér afl til að hrífa og fylla óborna kynslóð anda og krafti — ræðurnar, sem hann hélt, er hann gekk á hólm við »litla tröllið« á gresjunum í Illinois.

Hagsýni hans hélt honum ávalt fast við hið raunverulega. Hefði hann haldið slíkar ræður fyrir þeim í Boston, sem vildu afnema alt þrælahald í einum svip og engar bætur greiða eigendum þrælanna, þá mundi hann hafa verið hrópaður niður. Það þótti Lincoln óskynsamleg stefna,

að skifta svo skjótt um, og ranglátt um leið; endurgjald yrðu þrælaeigendurnir að fá. Hann vildi láta leiða í lög, að upp frá því skyldi engu nýju ríki né nýlendu leyft að setja sér þrælalög, heldur skyldu þau ganga í bandalagið sem frjáls lönd af öllu þrælahaldi. Douglas og fylgismenn hans héldu því fram aftur á móti, að hverju landi væri frjálst að gjöra hvort heldur það vildi; en það var raunar sama sem að öll löndin yrðu þrælalönd síðar, því að Suðurríkjamenn réru að því öllum árum, að mansalið yrði allsherjarlög eða næðu til alríkisins. Gegn þessu reis Lincoln. Syðri-Karólína var æstust og í broddi fylkingar um að mansalið kæmist á um öll Bandaríkin.

Douglas bar það á Lincoln, að hann trýði á »jafnræði blámanna« við hvíta menn. En því mótmælti Lincoln ávalt, og lýsti því yfir hreinskilnislega, að hann vildi ekki veita blámönnum atkvæðisrétt né gjöra þá að kviðdómendum; kvað hann það vera skoðun sína, að »eðlismunur nokkur væri á hvítum mönnum og svörtum, sem yrði því til fyrirstöðu um aldur og æfi, að þeir fengi fulla samstöðu við hvíta menn í þegnfélaginu og í stjórnmálum«. En hinu hélt hann þó fram, að »ef blámaðurinn fengi rétt til að stinga upp í sig brauðbita, sem hann hefði aflað sér með sínum eigin höndum í fullu frelsi, þá gæti hann orðið jafnoki Douglass dómara og hvers annars, sem væri«.

Lincoln hóf engan andróða gegn þrælahaldi í þeim ríkjum, þar sem stjórnarskráin heimilaði það að fullu, jafnvel þótt það væri von hans, að það

mundi að síðustu »deyja út« alstaðar »á friðsamlegan hátt«. Allar skírskotanir hans til Suðurríkjamanna og annara, sem þræla héldu, voru ávalt hófsamlegar og jafnvel góðfúslegar. Sjálfur átti hann líka þangað að rekja ætt sína.

Hann játaði, að Suðurríkjamenn breyttu nú, eins og Norðurríkjamenn mundu breytt hafa, ef þeir hefðu staðið í sömu sporum. »Ef þrælahald hefði aldrei átt sér stað hjá þeim, þá mundu þeir eigi löghelga það hjá sér. Ef það væri nú hjá oss, þá mundum við ekki gefa það upp í einum svip . . . »Eg vil sannlega ekki lasta Suðurríkjamenn fyrir það, þótt þeir gjöri ekki það, sem eg veit, að eg mundi ekki vita sjálfur, hvort eg ætti að gjöra«.

Aðaláhugamál Lincolns var að stöðva útbreiðslu þrælahaldsins, því að það hafði hann hatað alla æfi sína. Hann vildi bægja því frá nýlendunum og hinum frjálsu Norðurríkjum. Fyrir þessu máli einu heitstrengdi hann að berjast, þangað til að »sól eigi skini né regn félli eða vindur blési á nokkurn mann, sem gengi endurgjaldslaust að stritvinnu, svo langt sem stjórn Bandaríkjanna næði til«.

Síðasta kappræðan fór fram í Alton, nálægt St. Louis. Þar blasti við honum þrælaríkið Missouri hinu megin við Missisippifljótið. Í þeirri ræðu hélt Lincoln sér eingöngu við spurninguna: »Er þrælahald rangt?«

»Það er mergurinn málsins«, sagði hann með hátíðlegum alvöruþunga. »Það er þrætuefnið, sem vara mun í þessu landi, þegar þessar vesölu tungur okkar Douglass eru þagnaðar. Það er óslitin,

sívarandi barátta milli þessara tveggja meginmála: Hvað er rétt og hvað er rangt — um heim allan«.

Lincoln lá jafnhátt rómur í lok ræðu sinnar og þegar hann byrjaði, en Douglas var orðinn hás og raddrifinn.

Auk þessara sjö kappræðna hafði hvor um sig haldið um hundrað smærri ræður; auk þessa stýrðu þeir atkvæðagreiðslunni í smáu og stóru.

Douglas ferðaðist með miklum veg úr einum stað í annan; hann ók í einkavagni Georges B. Mc. Clellans, er nýlega hafði sagt af sér herstjórnarstöðu og gjörst fulltrúi aðaljárnbrautarinnar í Illinois. Hann hafði með sér söngsveit, og á flatvagni, áföstum við aðalvagninn, lá fallbyssa, og lét hann boða með henni komu sína. Kona Douglass var oft með honum og andstæðingum manns hennar stóð beygur af háttprýði hennar og fegurð.

Járnbrautarfélagið var ekki vinveitt hinum nýja stjórnmálaflokki, þjóðvaldsmönnum, sem Lincoln var foringi fyrir, og öllum þeim glundroða, sem hann gjörði með andróða sínum. Lincoln varð því oft að láta sér lynda hálft sæti í venjulegri kerru. Og svona þröngt varð hann oft að sitja á þreytandi næturför.

Douglas var löngum óspar á fé, enda var hann búinn að eyða 80,000 dölum af einkafé sínu til kosninganna. Lincoln átti ekki af neinum auði að taka og flokkur hans átti fáum vögnum á að skipa; en alt um það hafði þessi atkvæðasmölun bakað honum því sem næst 1000 dala kostnað og þann kostnað átti hann örðugt með að greiða.

Fyrir hvern mann, sem atkvæði greiddi, var sú

spurning lögð, hvort hann héldi, að þrælasalan væri samboðin lögum Guðs og manna eða ekki. Við kosningarnar hlaut Lincoln meiri hlutann af þeim 5000 atkvæðum, sem greidd voru; en flokkaskiftingunni í umdæminu var svo háttað, að lítið eitt fleiri lýðræðismenn en þjóðvaldsmenn náðu kosningu til ríkisþingsins, og þess vegna fór svo, að Douglas hlaut endurkosningu til efri málstofunnar fyrir atfylgi lýðræðinga.

Það var orðið dimt og tekið að rigna, er Lincoln gekk heim af kjörfundinum og var nýbúinn að lesa fregnina af ósigri sínum. Honum varð fótaskortur í leirbleytunni á strætinu; en er hann hafði náð aftur jafnvæginu, þá þótti honum þetta litla atvik góðs viti. Og er hann rendi huga yfir það, sem gjörst hafði þá um daginn, þá sagði hann við sjálfan sig:

»Það er fótaskrik en ekki fall«.

Rúmgott var hjarta Lincolns. Þó að hann ætti í þessari kappglímu, þá gleymdi hann ekki vandamönnum sínum, þó að þeir væru allir ómentaðir og atkvæðalitlir menn, ef þeir þurftu við hluttekningar af hans hálfu.

Einu sinni kom hann á leiðangri þessum til borgarinnar Charlestown í Illinois, örþreyttur af ræðuhöldum og ferðalögum. En ekki hélt hann samt kyrru fyrir á gistihúsinu og hvíldi sig þar og endurnærði, heldur lagði hann af stað til eins ættingja stjúpu sinnar, sem átti heima langt þaðan. Hann lét sem hann heyrði ekki, þó að vinir hans teldu hann frá því og mintu hann á, að hann þyrfti hvíldar við um fram alt.

Það var eins og hann yrði hissa á þeim ummælum þeirra, og mælti: »Hvers vegna ekki? Frænku minni gengi það svo til hjarta, ef eg færi svo héðan, að eg heimsækti hana ekki — það er systir stjúpu minnar«. Og síðan lagði hann af stað fótgangandi í dynjandi rigningu og óð leirelginn á gresjunum meira en tvær mílur vegar, til þess að ná fundi gömlu konunnar og gleðja hana með ástúð sinni. — Frændrækni Lincolns er viðbrugðið eigi síður en trygð hans við vini sína og velgjörðamenn.

Málið, sem þessi mikla kappglíma reis út af, sem nú hefir verið frá sagt, þrælamálið, var orðið hið mesta vandamál, og skal nú í fám orðum sagt frá, hvernig sakir stóðu.

Á dögum stjórnarbyltingarinnar undir forustu Washingtons, voru Afríku-þrælar eða Svertingjar þegar farnir að ganga kaupum og sölum, en var talið ills úrkostur, sem eyðast mundi smám saman, og því var svo fyrirmælt í stjórnarskránni (1787), að eigi mætti afnema þrælahaldið að öllu fyr en að 20 árum liðnum. En sú spá rættist ekki, að þrælahaldið mundi eyðast, heldur magnaðist þrælasalan og þrælahaldið í Suðurríkjunum. Þar var mest baðmullarrækt í heimi og sykuryrkja, en til þess höfðu þeir þrælana.

Þrælalögin í Syðri-Karolínu og Louisiana voru verri í sumum greinum en heiðin lög. Þrælabálkurinn í Louisiana hét »Svarta bókin« (The black book). Sumt var þar eins og í öllum þrælalögum að fornu: Þrællinn er skepna, en ekki maður, gengur kaupum og sölum, má engri eign ráða sjálf-

ur, er ógildur fyrir lögum, skyldur að hlýða húsbændum sínum til alls, ills sem góðs o. s. frv. Ekki mátti þó selja barn frá móður, fyr en það væri eins árs, og eigi heldur meiða þræl, stinga úr honum augu eða lemstra hann. En svo kemur annað, sem er verra en dæmi sé til í heiðni. Til þess að mansalið yrði þjóðhelg grundvallarlög, þá setti ríkisþingið í Syðri-Karólínu þau lög (1820), að engum þræl mætti lausn gefa, nema með sérstöku lagaboði. Með þeim hætti hefði sjálfur Washington eigi getað gefið einum þræla sinna frelsi. Í heiðni voru aldrei neinar hömlur lagðar á slíkt. Þá er enn svo fyrirmælt í þrælalögum þessum, að allir þeir hafi fyrirgjört lífi sínu, er í ræðu, riti eða verki eggi þræla til uppreistar. Sömuleiðis skyldu þeir dæmdir til dauða, eða 5 til 20 ára þrældóms, sem vísvitandi flyttu bækur inn í landið eða blöð eða rit, sem gagnstæð væru mansali. Og hver sem kendi þræli, eða leyfði að þræli væri kent að lesa eða skrifa, skyldi settur í dýflizu, o. s. frv. Þrælar máttu ekkert vita né skynja fremur en skepna. Auðvitað voru meiðsl og pyntingar ekki svo tíð, né að húsbóndi myrti þræl sinn; til þess voru þrælar of dýr vara. Hver þræll kostaði svo hundruðum dala skifti á markaði. Góður húsbóndi lét því þræl sinn ganga vel undan, fullan og feitan, líkt og sauð eða annað búfé. Oft báru þrælar trygð til húsbænda sinna, er líktist trygð hunds við húsbónda sinn.

Þá er ákvæðið um strokuþrælana, sem fyr er getið, miskunnarlaust: »Ef þræll strýkur úr þrælaríki inn í frjálst ríki, þá er því ríki skylt að skila

honum aftur«. Þetta ákvæði var sett þrælaeigendum i hag, til þess að þrælarnir ættu hvergi undanfæri í öllum Bandaríkjunum.

Eini vegurinn til að gjöra mann úr þræli, var auðvitað sá, eins og Lincoln hélt fram, að gjöra hann smám saman aðnjótandi mannlegra réttinda. En hann vildi ekki fylgja þeim að málum, sem afnema vildu alt þrælahald, endurgjaldslaust af ríkisins hálfu. Hann vissi, að þrælamenn gátu með fullum rétti borið þeim á brýn, að þeir vildu ræna sig löglegri eign sinni og kúga sig; en þeir vildu auðvitað ekki kúgast láta og óræntir vera.

Eins og fyr er getið, þá deildu Kansas-búar um mansalið um þessar mundir. Öruggasti foringi afnámsmanna eða mansalshatenda (abolitionists) þar í landi var John Brown, roskinn að aldri og því nefndur »Gamli Brúnn« (Brown), þegar hann kemur við þessa sögu. Hann var vígamaður mikill og gekk oftast vel undan honum. Hann átti í höggi við þrælamenn frá Missouri. Einu sinni, er hann var að heiman farinn, gjörðu þeir »Brún gamla« heimreið á ránsferðum sínum í Kansas, drápu heimamenn hans og tvo af sonum hans, rændu síðan bæinn og lögðu eld í og brendu upp að köldum kolum. Kona Brúns tók sér þetta svo nærri, að hún dó litlu síðar af harmi. En Brúnn hugði á hefndir; safnaði hann liði litlu síðar og fór með tveimur sonum sínum til Missouri og leysti þar úr höftum menn þá, sem sekir höfðu orðið um bjargir við þræla.

Ferðin tókst þeim vel og gjörðu þeir síðar fleiri slíkar; sló þá stundum í blóðuga bardaga með

þeim og þrælamönnum; en Brúnn gamli var óspar á púðri og kúlum og urðu þess margir að gjalda sem fyrir urðu. Eitt sumar eltu Missourimenn þræl einn, sem flúið hafði til Kansas frá húsbónda sinum. Þeir leituðu hans þar hjá bændum, en fundu eigi; tóku þeir þá að brenna bygðina, því að þeir þóttust vita fyrir víst, að bændur mundu annaðhvort leyna þrælnum eða hafa skotið honum undan. Síðan sneru þeir heim aftur við svo búið. Nú varð Brúnn gamli allur uppi, er hann spurði brennuna; safnar þá að sér mönnum að nýju, og fer á hendur Missouri-mönnum og brennir þar og brælir bygð alla, þangað til héraðsmenn gjöra liðsafnað að honum og fengu tekið hann höndum og varpað honum í dýflizu. En Brúnn slapp þaðan og vissi þá enginn, hvar hann var niður kominn. En um haustið (1859) kom hann fram aftur þar sem hét Harpers Ferry í Virginíu. Þar var vopnasmiðja og vopnabúr Bandaríkjanna. Brúnn náði vopnabúrinu um nótt, meðan borgarmenn voru í svefni. Um morguninn skifti hann liði sínu og sendi 4 menn út um sveitir til að safna þrælum til liðs við sig; hafði hann svo um búið, að næg vopn voru geymd handa þeim á búgarði einum skamt frá borginni. En ekkert varð úr uppreist þrælanna, því að þeir voru bæði fáir þar í sveit og óviðbúnir með öllu. Brúnn og menn hans höfðust nú við í vopnabúrinu og tóku nokkra borgarmenn inn til sín og kölluðu sig »Her bráðabyrgðarstjórnar Bandaríkjanna«.

Svo fóru leikar, að herlið var sent frá Baltimore og Washington; tókst þar hörð hríð, áður þeir

fengi tekið vopnabúrið, því að þar var vígi gott og vopndjarfir menn fyrir til varna. Féllu þar 5 menn af Brún og 5 voru herteknir og flestir mjög sárir. Brúnn var hertekinn og hafði og stór sár. Þurfti nú ekki að sökum að spyrja. Brún og mönnum hans var varpað í dýflizu og mál hans lagt í kviðdóm: búum boðið í setu, borinn kviður og Brúnn dæmdur sannur að sök. Brúnn færði sjálfur vörn fyrir dómi; flutti hann langt erindi og snjalt, og varð sú vörn víðfræg. Hann neitaði því að hann hefði viljað gjöra upphlaup eða koma þrælum til að drepa húsbændur sína, heldur kvaðst hann hafa viljað frelsa þræla undan ánauð þeirri, sem þrælamenn hefði lagt á herðar þeim gegn Guðs og manna lögum. Brúnn var þó dæmdur sekur og af lífi tekinn, og töldu sumir hann píslarvott.

Þetta var ein hin snarpasta af skærum þeim, sem um þessar mundir urðu með þrælamönnum og andstæðingum mansalsins. Þessi saga sýnir meðal annars, að lýðræðismenn, sem nú sátu að völdum og studdu þrælahaldið, gátu eigi staðist lengur, því að hins vegar sýndu þrælamenn ofstopa á margan hátt og — »illa sezt ofstopinn«.

Þrælaeigendurnir voru nú í raun og veru sammála um, að þeim væri eigi arðsöm þrælaeignin og að hún gæti ekki staðist með frjálsum mönnum; en hinsvegar vildu þeir eigi láta þrælana lausa án nokkurs endurgjalds af almannafé; það væru ránslög, ef lög væru sett í þá átt.

Maður nokkur, Helps að nafni, gildur bóndi í Nyrðri-Karólínu, er átti einu sinni marga þræla og

ambáttir, en varð síðar félaus, ritaði bók, er hann nefndi »Bráða-vandræði Suðurríkjanna«. Í Norðurríkjunum væri skjót mannfjölgun, mikil auðæfi saman komin og almenn velmegun; en í Suðurríkjunum væri fáment og fólksfjölgun lítil, velmegun ekki almenn og auðmenn fáir. Síðan lýsir hann þrælahaldinu. Blámenn eru latir og svíkjast um alt, sem þeir geta, því að þeir vinna af þrælsótta, en eigi af lyst né hollustu við húsbændur sína; svo stela þeir öllu steininum léttara, er þeir fá yfir komist, skemma verkfæri, svo að þrælaeignin er ekki arðsöm að öllu samantöldu. Hann segir enn fremur, að bændur hafi orðið að bregða búi af því, að þeir hafi ekki staðist kostnaðinn. Þessi bók varð vatn á myllu andstæðinga mansalsins í Norðurríkjunum, ekki sízt fyrir það, að Suðurríkjamaður hafði skrifað hana, því að ritbann var í lögum hjá þeim; var bannað að selja hana eða dreifa henni út á meðal almennings. Einn kom með þá tillögu, að enginn sá, er gjörst hefði áskrifandi að bók Helps eða nokkuð verið við hana riðinn, skyldi talinn maklegur til að hafa forsæti á þingum, og þann mann skyldi enginn kjósa til þingsetu eða embætta. Tillagan var feld, en bókin varð þjóðkunnari en áður.

Öll mentun og manndáð var meiri í Norðurríkjunum, af því að þar gengu frjálsir menn að öllum störfum.

Lincoln var glöggskygn í því, eins og öðru, er hann þóttist sjá fyrir, að þrælahaldið mundi drepa niður manndáð og menningu frjálsra manna, hvar

sem það næði sér niðri. Það var ein og eigi minsta vanblessunin, sem þrælahaldinu fylgdi. —

Þrælamálið verður til þess að koma nýjum stjórnmálaflokki til valda, þjóðvaldsmönnum. Lýðræðismenn falla á fastheldni sinni við þrælahaldið, sem síðar mun sagt verða.

## XVI. KAPÍTULI.

### *Þjóðarinnar maður.*

Lincoln var nú búinn að ná fastri aðstöðu og barðist fyrir góðum og traustum málstað, því að »sannleikurinn er mikill og mun sigra«. Stuðningsmanni sínum ritaði hann eftirfarandi orð til hughreystingar:

»Þótt eg hverfi sýnum og gleymist, þá er það mín bjargföst trú, að eg hafi þegar markað nokkur spor, er hvetja munu seinni tíðar menn til að efla borgaralegt frelsi — löngu eftir það er eg sjálfur er undir lok liðinn«. Og öðrum réð hann þetta heilræði: »Látum liðna tímann eiga sig . . . baráttan hlýtur að halda áfram, og þá mun eg verða í fylkingunni og berjast með«.

Sigur Douglass varð honum til falls. Flokkur lýðræðismanna í Suðurríkjunum var honum reiður, sakir viðurkenningar þeirrar, sem hann hafði neyðst til að gjöra í kappræðunum við Lincoln, og töldu þeir hann hafa svikið sig með því. Hann hafði náð sæti í efri málstofunni, en forsetadæmið var honum gengið úr greipum. En Douglas var ófeilinn, sem áður, og brá sér nú suður á bóginn, til þess

að friða þrælamenn þar, með því að sýna þeim fram á, að hann hefði í raun og veru ekki viðurkent neitt eða slakað til, að því er útbreiðslu þrælahaldsins snerti. Sagði hann þá, sér til afsökunar, að Guð almáttugur hefði sjálfur sett takmarkið milli þrælastarfsemi og frjálsrar starfsemi; norðvesturlandinu væri enginn hagnaður að þrælahaldi, þó að það væri leitt í lög þar.

En allar tilraunir hans til að koma sættum á milli flokksmanna sinna í Suður- og Norðurríkjunum urðu árangurslausar, þótt hann berðist hraustlega. Ríkið var raunverulega sjálfu sér sundurþykt. Það sannaðist með hverjum deginum betur og betur, sem fólgið var í hinni alvöruþrungnu líkingu, sem Lincoln hafði tekið sér og gjört að kjörorði sínu. Kirkjan sjálf var líka sundurþykk sjálfri sér í flestum deildum.

Flokkur Douglass var sjálfum sér svo sundurþykkur, að ekki varð við ráðið. Douglas hélt þá heim til Washington við svo búið. Lýðræðismenn, flokksmenn hans, höfðu þá haldið fund með sér í efri málstofunni og sýnt honum ónáð sína, með því að svifta hann formensku í nýlendunefnd þingsins, en í henni hafði hann verið formaður í 11 ár samfleytt. Jefferson Davis og aðrir efrimálstofuþingmenn úr Suðurríkjunum gjörðu snarpar árásir á »Freeport-villuna« hans. Og kappræður þeirra Lincolns og hans urðu alvarlegt umtalsefni í efri málstofunni næsta tveggja ára skeið.

Meðan þessu fór fram, hélt Lincoln áfram lögmannsstarfi sínu, eins og að undanförnu, og hafði það sér til uppeldis. Tíminn og peningarnir, sem

hann misti við atkvæðasmölunina, höfðu tilfinnanlega létt mjóu pyngjuna hans. »Eg er vita-félaus«, sagði hann, »eg hefi ekki einu sinni nóg til heimilisþarfa«.

Þegar kosningahríðin (1859) hófst, þá var hans leitað víða að til fulltingis. Kansas, Minnisóta og Iowa riðu fyrst á vaðið með það. Hvar sem Douglas rak upp höfuðið var hástöfum hrópað á Lincoln. Alla leið frá New Hampshire var lagt að honum að koma og svara sínum fræga andstæðingi. Frá New York og Ohio komu samskonar áskoranir.

»Eg er orðinn svo mikill maður á undra skömmum tíma«, sagði hann við einhverja, sem dáðust ákaft að honum, »að eg er ekki farinn að fella mig við það, enn sem komið er«.

Þingmaður einn í Indíana ritaði honum og sagði, að stefnuskrá hans væri svo þung á vogunum, að hvert stjórnmálabréf, sem hryti úr penna hans gengi samstundis í afritum um öll Bandaríkin. — Þessi bréf ritaði hann vinum sínum eða stjórnmálanefndum; réð hann þeim öllum heilræði í þessu allsherjar vandamáli, blátt áfram og yfirlætislaust.

Einu sinni fór hann svo feldum orðum um útlendingahatrið (Knownottingism): »Eg er ekki nógu gjörkunnugur, til að geta kent í brjósti um blámennina út af ánauð þeirra, og undarlega væri eg þá ósamkvæmur sjálfum mér, ef eg gæti fengið af mér að styðja nokkurt það frumvarp, er færi fram á að rýra núverandi réttindi hvítra manna,

jafnvel þó þeir sé fæddir erlendis og tali aðrar tungur en vér sjálfir«.

Félag afnámsmanna þrælahalds í Boston sendi Lincoln þetta skýlausa skeyti:

»Heimur þessi vill hafa bætur, og sá, sem ekki vill vera þræll sjálfur, hlýtur að láta sér vel líka að halda engan þræl. Þeir, sem synja öðrum frjálsræðis, verðskulda ekki frjálsræði sjálfir, og þeir geta heldur ekki haldið því lengi undir stjórn hins réttláta Guðs«.

Þegar Douglas lagði leið sína til Óhió, þá var skorað á Lincoln að svara honum í Cincinnati og Kólumbíu. Ríkisnefnd þjóðveldinga í Óhió gaf út fregnirnar, sem fóru af kappræðum þeirra Douglas í Illinois og sömuleiðis tvær ræður, sem Lincoln hélt í Óhió (í sept. 1859) og létu svo berast mann frá manni, því að ekki þótti annað ráð vænna til að fræða almenning um deilumál þetta, þrælamálið, í kosningahríðinni 1860. Með þessum hætti varð Lincoln sjálfkjörinn foringi þjóðveldinga frammi fyrir allri þjóðinni. Þrisvar voru ræðurnar gefnar út í feiknamörgum eintökum og seldust þær upp óðara.

Þeir, sem voru með Lincoln og í nágrenni við hann, störðu undrandi á þessa vaxandi frægð hins umkomulitla nágranna síns og vinar og fóru að láta sér til hugar koma, að hann ætti mikinn heiður í vændum. Vikublað eitt lítið í Illinois flutti ritstjórnargrein um það, að Lincoln ætti að verða forseti næst. En sjálfur tók hann engan þátt í þeim draumum, enn sem komið var.

»Til hvers er tala um mig, meðan vér höfum

aðra eins menn og þá Seward og Chase?« sagði hann við einhvern manninn á götunni, sem var að spá því, að hann mundi verða forseti fyrir framgöngu sína. »Allir þekkja þá, en mig þekkir því sem næst enginn fyrir utan Illinois. Og svo er annað — er það ekki réttlátt, að þeir hljóti tignina? Það liggur nú ekki fyrir mér lánið það að verða forseti Bandaríkjanna«. Að svo mæltu sveipaði hann gamla sjalklútnum um herðar sér og stikaði burt.

Í trúnaðarbréfi einu (vorið 1859) ritar hann: »Eg hlýt að segja í allri hreinskilni, að eg tel mig ekki hæfan til forsetatignar«, og beiddist þess, að slíkt væri ekki opinberlega fram borið. Á miðju sumri, eða 9 mánuðum fyr en forseta skyldi nefna, ítrekaði hann sömu lítillátlegu beiðnina og yfirlýsinguna. Og þegar komið var fram í desember, þá lét hann uppi, að hann ætlaði sér að bíða, þangað til Douglas væri endurkosinn, fimm árum síðar og reyna þá aftur að ná sæti hans í efri málstofunni. »Eg vildi heldur«, sagði hann, »renna skeið mitt til enda í efri málstofunni en í forsetadæminu«.

Það var ekki fyr en á fundi flokksforingjanna í Illinois um veturinn (1860), að Lincoln samþykti að gefa kost á sér til forseta.

Nú var Lincoln boðið að koma til New York til að halda þar fyrirlestur, og tók hann því boði fegins huga. Vinir hans réðu sér ekki fyrir fögnuði yfir því, að sjálf stórborgin skyldi hafa slíkt álit á honum. Hann lokaði sig þá inni í bókhlöðu ríkisins og kostaði alls kapps um að búa sig svo

undir, að sér mætti verða til sæmdar hjá ókunnum áheyrendum í stórborginni.

Lincoln var alt annað en kjarklaus maður. Hann var ekki hneigður til að gjöra of litið úr sér. Hann fann, hvað hann mátti sín. En samt var hann efablandinn um, hversu sér mundi takast frammi fyrir »Nýjórvíkingum«, svo ólíkir sem þeir voru Vesturríkjamönnum að uppeldi og smekk.

Þegar Lincoln kom til New York, hlustaði hann fyrst á ræðu hjá Henry Ward Beecher, hinum fræga prédikara, bróður hinnar frægu skáldkonu Harriett Beecher Stowe, er samdi hina áhrifamiklu skáldsögu: »Kofi Tómasar frænda«. H. W. Beecher var einn af formælendum þrælalausnarinnar. Síðan heimsótti Lincoln með vini sínum hina svo nefndu »Five Points«, alræmt óþverrabæli í borginni. Þar kom hann í sunnudagaskóla hjá heimatrúboða nokkrum. Af því að hann var gestur, þá var hann beðinn að tala til barnanna. Börnunum geðjaðist svo vel að hinum ljósu og einföldu orðum, sem hann mælti, að þau hrópuðu: Haltu áfram! Ó, haltu áfram! Þegar hann gekk út úr kenslusalnum, spurði kennarinn hann að heiti:

»Abraham Lincoln frá Illínois«, svaraði hann blátt áfram.

Þegar nefnd sú, er bauð honum til New-York, kom til fundar við hann í Astor-höllinni og hann sá nefndarmennina alla búna eftir nýjustu tízku, þá fanst honum í fyrsta sinni á æfinni til um það, hve hann var sjálfur langt á eftir tímanum og illa búinn. Honum fanst nauðsyn til bera að afsaka það, að fötin sín væru dálitið kryplud, því að hann

hafði haft þau í leðurtöskunni sinni. Og er hann hóf ræðu sína og sá hin prúðbúnu göfugmenni á bekkjunum, þá leitst honum ekki meira en svo á aðstöðu sína. Kraginn á frakkanum hans fór ekki sem bezt og bágt átti hann með að stilla sig um þann kæk, að færa sig úr stað í hvert skifti sem hann lyfti höndinni. Við þetta alt kom lítilsháttar hik á hann í fyrstu,

Fyrirlesturinn var haldinn í Cooperstofnuninni svo nefndu í New York 27. febrúar 1860. Þetta fyrirlestramót er eitt hið minnisstæðasta, sem haldið hefir verið í New York. Það var svo áhrifamikið. »Enginn maður«, sagði eitt fréttablaðið, »hefir talað fyrir eins miklum fjölda af gáfumönnum og mentamönnum í borg vorri, síðan á dögum þeirra Henry Clay og Websters. William Cullen Bryan hafði forsæti á fundinum. Þar var Horace Greely ritstjóri og margir fræðimenn aðrir og forgöngumenn saman komnir.

Fyrirlesturinn, sem Lincoln flutti, var svo fullur af staðreyndum, að málskrúð komst þar ekki að. Það var víðtækt yfirlit yfir sögu þrælahaldsins, frá því er Bandaríkin komust á stofn, og var sagan rakin eftir stjórnarskránni og stjórnmálasögunni og allri löggjöf Bandaríkjanna; gætti þar bæði sanngirni, hófs og lærðrar röksemdaleiðslu; þótti áheyrendum fyrirlesturinn hæfilegur til flutnings fyrir dómurum sitjandi á bekkjum. Þeir fundu að þeir voru ekki saman komnir til að hlusta á sérstaka málvörn stjórnmálamanns með reikandi skoðunum og ekki heldur á orðslunginn atkvæðasmala, er væri að kveikja hjá þeim hleypidóma

og ekki heldur til að gjalda hégómlega gamanræðu með hrossahlátri.

Kjarni fyrirlestursins var þetta:

»Trúum því, að réttur veitir vald og höldum þeirri trú til enda. Þorum að gjöra skyldu vora eftir því, sem vér vitum sannast og réttast«.

Fjögur stærstu blöðin í borginni fluttu ræðuna alla, og Greely sagði í blaði sínu »Tribune«. »Enginn maður hefir nokkru sinni náð svo föstum tökum á áheyrendum New-York-borgar í fyrsta sinni, er hann talaði«.

New York hafði búið mörgum heimsækjanda leynigröf, sem hann féll í. En það var einmitt þar, sem Abraham Lincoln sannaði það fyrir sjálfum sér, að með honum bjó vald til þess að leiða þjóðina, og afsannaði hins vegar fyrir sér þá hugmynd, sem hann hafði gjört sér í fyrstu, að hann væri óhæfur til að verða forseti.

Hann sá, að hann var maður eftir hjarta þjóðarinnar — *þjóðarinnar maður.*

Eftir þessa sigurför hélt Lincoln til New England, til að hitta Róbert son sinn, er þar var að skólanámi. Hann hélt ræður í Connecticut, Rhode Island og New Hampshire. Í New Haven sagði hann áheyrendum sínum, að nú væru 25 ár liðin síðan hann hefði verið »daglaunamaður, klofið og barið niður girðingastaura eða verið háseti á fljótabáti«. Og nú væri það sín heitasta ósk, að sérhver verkamaður, hvort sem hann væri hvítur eða svartur, ætti fyrir sér sömu möguleika til að rísa á fætur úr fátækt og menningarleysi, eins og hann hefði sjálfur átt fyrir sér.

Prófessorinn í mælskulist við Yaleháskólann dáðist að orðfærinu á ræðu Lincolns. Hann tók ekki að eins með sér kafla úr henni til að lesa fyrir lærisveinum sínum daginn eftir, svo sem fyrirmynd í enskum rithætti, heldur fylgdi hann Lincoln til næstu borgar, til þess að geta í annað sinn setið að fótum hins sjálfmentaða meistara í meðferð móðurmálsins.

## XVII.

### *Merkisberinn.*

Þegar leið að þeim tíma, að þjóðþing (national Couvent) eða kosningaþing þjóðvaldsmanna kæmi saman (1860), þá þóttu öll merki benda til þess, að William H. Seward ríkisstjóri í New York mundi verða hlutskarpastur. En hitt er og verður einn af leyndardómunum í stjórnmálasögu Bandaríkjanna, að Lincoln skyldi hljóta kosningu.

Mikill meiri hluti af fulltrúum þjóðvaldsmanna um land alt, hallaðist að Seward. Auðurinn og áhrifavaldið voru hans meginn. Hann þótti vera sjálfkjörinn flokksforingi. Hvert ríkið af öðru í austri og vestri lýstu því yfir, að þau væru honum fylgjandi. Engum öðrum umsækjanda hafði tekist að fá stuðningsmenn utan síns ríkis. Þeir voru ekki kallaðir annað en »átrúnaðargoð« sinna ríkja.

Það er talið víst, að alt að því tveir þriðjungar fulltrúanna hafi farið til þjóðþingsins í þeim hug að greiða Seward atkvæði og nefna hann til for-

seta, og þar á meðal 8 af 22 fulltrúum frá Illinois, þegar Seward gekk úr sæti sínu í efri málstofunni á sambandsþinginu, og hélt heim til New York, til þess að vera þar viðbúinn að taka móti nefndinni, sem flytti honum þau tíðindi, að hann væri kosinn.

Lincoln hafði látið tilleiðast, eins og áður er sagt, að leyfa fulltrúum þjóðveldismanna í Illinois að bera nafn sitt fram til kosningar. En það sem einkum vakti fyrir honum var það, að með því kynni hann að geta hjálpað sínum flokki til að koma sér í sæti Douglass í efri málstofunni á sínum tíma. Enginn heyrði hann nokkurn tíma láta ákveðna von í ljósi um, að hann mundi verða nefndur til forseta. Einu sinni var hann hræddur um, að þeir í Illinois mundu jafnvel ekki veita sér fylgi. Hann taldi sjálfan sig aldrei fastákveðinn og því síður ásækinn umsækjanda; honum var slíkt óvitandi.

»Eg gjöri ráð fyrir«, ritar hann manni nokkrum í Óhió, tveim mánuðum fyrir kosningaþingið, »að eg verði ekki efstur á skrá af heilum hóp. Eg vil ekki móðga aðra — heldur lofa þeim að koma til vor, ef þeir skyldu neyðast til að fyrirláta sinn fyrri kærleika«.

Fám vikum fyrir þingið, dvaldi Lincoln um hríð í Chicago og flutti þar mál fyrir rétti; en enga athygli vakti hann þar á sér, hvorki hjá stjórnmálamönnum né blöðunum; þau mintust ekki á hann, Ekkert bar þá til tíðinda, sem benti hið minsta í þá átt, að hann mundi verða nefndur þar til æðstu heiðursstöðu í landinu.

En þrátt fyrir það voru nokkrir gamlir og góðir vinir hans úr faranddóminum alt annað en atgjörðalausir. Það voru sömu mennirnir, sem hann hafði ávalt laðað að sér, alt frá því að hann kom til New Salem með allan faranguriun í snýtuklútnum sínum. Þeir sóttu nú heim önnur ríki í kyrþey, og smöluðu atkvæðum handa Lincoln hjá almenningi í Washington og lögðu undir, að hann yrði annar í röðinni á kosningalistanum.

En í austanblöðunum var aldrei á það minst, að hann hefði nokkurt fylgi, og svo er að sjá, sem austanmönnum hafi eigi komið hann í hug sem forsetaefni, fyr en eftir ríkisþingið í Illinois, sem haldið var viku fyrir þjóðþingið.

Þegar Lincoln var að búa sig á stað á ríkisþingið, þá lét einhver undrun sína í ljós yfir því. »Ó!« sagði hann brosandi, »eg er ekki svo hamramur umsækjandi, að eg telji það við eiga, að eg komi hvergi nærri!«

En svo fór samt, þegar ríkisþingið kom saman, og allir fulltrúarnir frá Illionis voru þangað komnir, að óvænt kapp hljóp í þingmenn um það, að Lincoln sækti um forsetastöðuna; var hann svo kosinn í einu hljóði af því ríki (18. maí 1860).

Þegar tíminn var sem tækastur, gengu þeir Jón Hanks og annar maður til inn í þingsalinn og báru tvo gamla girðingarstaura á milli sín. Fórust Hanks þá svo orð, að Lincoln hefði klofið staura þessa í girðingu utan um akurteig föður síns, nálægt Sangamon-fljótinu, fyrir nærfelt 20 árum. Þingmenn og allir aðrir urðu gagnhrifnir af þessum menjum um auðmjúka þjónustu leiðtoga síns. Það-

an voru svo staurarnir bornir til Chicago. Þar skreyttu konur þá blómsveigum og þar sýndu menn þá jafnhróðugir og þeir hefðu verið sverð einhvers sigurkappans í hernum.

Chicago varð nú gripin af þessum Lincolns-faraldri, er Vesturríkjamenn streymdu þangað þúsundum saman, svo brokkgeng og óhefluð sem sú borg þó var í þá daga. Þetta var fyrsta kosningaþingið, sem þar hafði verið haldið og hið annað kjörþing í röðinni, sem haldið hafði verið vestan Alleghany-fjalla. Stjörnufáni Bandaríkjanna var á vesturleið og blakti nú yfir hinum breiða Missisippi-dal. Og nú var meðvitundin að vakna hjá þjóðinni um það, að hinir þrautseigu og þrekstóru menn, er námu Vesturríkin, ættu nú að verða handhafar hins æðsta valds alríkisins.

Alt til þessa höfðu Suðurríkin og Austurríkin ráðið lögum og lofum. En nú var veldissprotinn að ganga þeim úr greipum. Allir forsetar Bandaríkjanna fram að þessu höfðu verið bornir og barnfæddir í ríkjunum við sjó fram að sunnan og austan. En nú sáu Vesturríkjamenn sjálfa sig, þar sem Lincoln var og fylktu sér undir merkið hans.

Á kjörþingið komu frægir fulltrúar að austan undir merki Sewards og þóttust hafa öll ráð í hendi sér. En þeim brá heldur í brún, er þeir sáu, að hér var kominn keppinautur, sem enginn þeirra hafði heyrt getið áður og átti sér háværa og kappsfulla fylgismenn.

Nýjórvíkingar skeltu lófunum á vasa sína og létu mikið yfir því fé, sem þeir gætu rakað saman í kosningabeitu, ef þeirra maður yrði kosinn. —

Flokkar þeirra og gildisbræður gengu glæstir í föstum fylkingum um bráðforugar borgargöturnar; en fylkingar þeirra riðluðust brátt af áhlaupi fagnandi og æpandi Lincolns-sinna. Davíð Davis dómari var þar kominn og þreyttist ekki að halda liði sínu frá einni höfuðstöðinni í aðra, sinna erinda. Honum fylgdi hollur og trúr flokkur af félögum Lincolns úr faranddóminum gamla.

Áður en hið mikla kjörþing kæmi saman, gekk ríkið Indiana djarflega fram í því, að styðja hinn vestræna umsækjanda og krafðist þess, að hann væri til forseta nefndur; áður var óvíst hvoru meginn það mundi standa.

Og Óhió-ríkið tók að reka í áttina til Lincolns, þótt það ætti annan umsækjanda innan sinna vébanda, Pennsylvanía sömuleiðis, þótt eins stæði á þar. Fréttablöðin í Chicago tóku sig nú saman um að blása að þessum kolum. Fulltrúar úr öllum áttum sýndu á sér ljós merki þess, að þeir voru að digna og »fyrirláta hinn fyrri kærleika sinn«.

Seward hélt langa tölu um gömul deilumál og vakti með því andstöðu gegn sér og hleypidóma. Aftur á móti stóð Lincoln fyrir ljóslifandi dagskrármáli. Að því leyti stóð hann mun betur að vígi en Seward.

Kjörþingið kom saman í afarmiklum timburskála, sem reistur hafði verið í þeim tilgangi, og voru þar 10,000 manna saman komnir. Slungnir þingmenn, sem fylgdu Seward að málum, gátu hrundið frá sér andstöðunni í fyrstu hríðinni, og sama kvöldið sem atkvæðagreiðslan átti fram að fara, komst traustið á hinum þaulvana stjórnmálamanni

Nýjórvíkinga á hæsta stig. Og fréttasnatar allra blaða, alt frá »Tribunal« Horace Greelys, símuðu þær spár, að Seward mundi bera hærri hlut.

En þeim félögum úr faranddómi Lincolns kom ekki dúr á auga nóttina áður. En umsækjandinn, sem þeir börðust fyrir, sat heima í Springfield í mestu makindum. Hann hafði sent þeim viðvörunarskeyti, til þess að kapp þeirra fyrir máli hans, skyldi eigi freista þeirra til rangrar framkomu, því að prúðmannleg framkoma þeirra var honum dýrmætari en nokkur metorð. Viðvörunin var svo látandi:

»Gjörið enga samninga, sem bundið geti hendur mínar«. Hann vildi heldur sitja frjáls á skrifstofunni sinni, eins og áður, en á forsetastóli með skuldbindingar yfir höfði sér.

Nú kom sá dagur, er forsetann skyldi nefna (6. nóv. 1860). Gildisbræður Sewards gengu sigri hrósandi um göturnar. En á meðan þeir voru að ganga sigurgöngu sína, þá þustu Lincolns-hróparar inn í þingskálann, og er hinir hróðugu göngumenn komu að, þá urðu þeir að standa, því að öll sæti voru full, og fengu þó með naumindum rúm, svo að margur Sewards-hrópari varð að æpa utan dyra.

Á þeim dögum voru engar ræður haldnar á kjörþingum. Nöfn þeirra, sem voru í forsetakjörum, voru kölluð upp, en því fylgdi ekkert orð eða athugasemd. Þegar Sewards nafn var nefnt, laust upp tryltu lófaklappi; en er nafn Lincolns var nefnt, þá var því tekið með svo miklum gauragangi og háreysti, að aldrei hefir heyrst annað eins

á nokkru kjörþingi. Forsprakki var valinn til þess starfa með stakri alúð. Það var maður, óvenju raddmikill, og til sín hafði hann svo stefnt digurbörkuðum liðsforingja utan af gresjunum. Og þó að sá maður væri lýðræðismaður, þá var hann svo hrifinn af öskrinu í sér, að hann gat ekki skorast undan að lána mótflokksmönnum sínum lungu sín og barka.

Þegar þessu raddprófi var lokið, þá héldu menn niðri í sér andanum, þegar nöfn ríkjanna voru kölluð upp. En hér sannaðist eins og fyr líkingin: »Ríki, sjálfu sér sundurþykkt«. — Níu Suðurríkin svöruðu ekki, því að þau höfðu engan fulltrúa sent á þingið, og hvissað var og gerður gyss mikill, þegar skrifarinn kallaði upp nöfn sumra þeirra.

Sewards-mönnum brugðust heldur vonir, er þeir sáu, að Lincoln hlaut $^{1}/_{8}$ atkvæða í Maine, $^{2}/_{3}$ í New Hampshire og $^{1}/_{5}$ í Massachusetts og New England hallaðist jafnvel á þá sveifina líka. Við fyrstu atkvæðagreiðslu skorti Seward 60 atkvæði til þess að hann hefði nægan meiri hluta.

Við aðra atkvæðagreiðslu hneig Vermont að Lincoln og Pensylvania með öllum sínum fulltrúafjölda. Lincoln bættust atkvæði við hvern nýjan fulltrúalista, sem upp var kallaður, og loks hafði Seward eigi meira en $3^{1}/_{2}$ atkvæði fram yfir Lincoln.

Við þriðju atkvæðagreiðslu hlaut Lincoln meiri hlut atkvæða frá Rhode Island og New Jersey. Óhió-fulltrúarnir afræktu flestir sinn umsækjanda og greiddu Lincoln atkvæði sín. Og að loknu atkvæðakalli skorti Lincoln eigi nema $1^{1}/_{2}$ atkvæði,

til að fá nægan meiri hluta og vinna fullan sigur. Þá spratt upp fulltrúi frá Óhió og sagði, að enn hefði 4 fulltrúum þaðan snúist hugur og væru nú með Lincoln. Og þá var nóg komið.

Skrifarinn einn beið þess ekki, að úrslitin væru birt opinberlega, heldur veifaði pappírsörk út í loftið og hrópaði: »Abe Lincoln!« til manns nokkurs, sem sat uppi á skálaþakinu og gægðist milli vonar og ótta inn um þakgluggann. Stóð þá sá upp og hrópaði til mannfjöldans á götunni, hver úrslitin hefðu orðið. Húrrahrópin dundu þá margítrekuð úti og inni og hleypt var af fallbyssu og bergmálaði sú druna út yfir öldur Michiganvatnsins.

Þeir frá New York og Massaschusetts beygðu sig hnugnir í bragði fyrir meiri hlutanum. Fulltrúum þeirra ríkja var alt af að snúast hugur og létu atkvæði falla Lincolns meginn og hrópuðu gegnum rokið hvassa. Fylgismenn Sewards reikuðu, eins og þeir væru ölvaðir; svo fékk þessi óvænti atburður á þá. Sigurvegararnir réðu sér ekki fyrir fögnuði, en hinir voru sem sligaðir undir þunga vonbrigðanna.

Meðan þetta fór fram, var Lincoln heima og gekk sér til skemtunar um göturnar í Springfield og lék sér að knetti með börnunum — kastaði knettinum upp í vegg og greip hann svo, er hann kastaðist til baka. Með þessu dró hann úr umbrotunum, sem verið höfðu með honum hið innra þessa dagana. Meðan tvær fyrri atkvæðagreiðslurnar fóru fram, sat hann við símann og taldi atkvæðin um leið og þau féllu. En er hann sá, að hann átti kosninguna vísa, þá tók hann því vel,

þegar ritstjóri borgarblaðsins bauð honum inn í skrifstofu sína, til að bíða þar eftir þriðju atkvæðagreiðslunni. Og fyr en varði kom hraðboði, másandi af hlaupunum og flutti honum sigurtíðindin, þar sem hann sat í hægindastól ritstjórans.

Eins og fyr er sagt, þá var María Todd, kona Lincolns, metnaðargjörn mjög. Og hve nær sem honum barst eitthvað í bætur, sem svalað gæti metorðagirnd hennar, þá varð honum ávalt fyrst fyrir að láta »litlu Maríu« sína vita það. Og svo var líka í þetta sinn. Fjöldinn allur af samborgurum hans var saman kominn til að árna honum hamingju; en hann vatt sér út úr hópnum og mælti:

»Það er lítil kona niðri í 8. stræti, sem verður fegin að heyra þessi tíðindi. Þér verðið að hafa mig afsakaðan, meðan eg skrepp og segi henni þetta«. Síðan hljóp hann heim til konu sinnar, er var sofandi, því að langt var liðið fram á nótt, vakti hana, kallaði og smáherti á:

»María! María! María! Við erum kosin!«

Og hann sagði ekki »við« að ástæðulausu, því að María studdi hann eftir megni, og hvatti hann af metnaði sínum til að renna hið furðulega skeið, sem hann rann. Hún var honum holl og trú, og bar honum svofeldan vitnisburð:

»Lincoln var hinn ljúflyndasti maður, elskulegasti eiginmaðurinn í heimi«.

Þegar Lincoln kom út á gangstéttina, á leið til konu sinnar, þá kom hópur af verkamönnum, sem nýfluttir voru þangað frá Írlandi, og óskuðu honum til heilla hjartanlega. »Herrar mínir!« sagði

hann, eins og í viðurkenningarskyni fyrir árnaðaróskir þeirra, »þér ættuð heldur að koma upp til mín og taka í hönd mér, meðan þér hafið tök á því. Heiður upp hefur suma menn, eins og þér vitið«.

Þegar hann var búinn að flytja »litlu Maríu« tíðindin, henni, sem sá það fyrst allra, að í honum bjó mikilmenni, og hafði fastasta trú á því, að heimurinn mundi kannast við það á sínum tíma — þá fór hann upp á loft, örmagna af geðshræringum sínum, og lagðist þar á hvílubekk konu sinnar.

En á meðan hann lá þar, brá honum snögglega við, því að honum varð litið í spegil og sá þá tvær myndir af sér í speglinum, líkar að öðru en því, að önnur þeirra var skýrari. Þetta tvímyndi af honum vakti upp í honum hjátrúna, sem alt af bjó með honum. Hann reis þá fyrst upp og lagðist svo fyrir aftur til að vita, hvort óljósari myndin hyrfi ekki. En hann sá hana aftur. Þá komu vinir að heimsækja hann. Gekk hann þá burt frá þessum ömurlega spegli.

Þegar hann var kominn út í borg daginn eftir, hvarf honum aftur í hug þessi ömurlegi fyrirburður. Hann fór þá heim aftur og lagðist á hvílubekkinn, til að vita, hvort nú væri nokkuð athugavert við spegilinn. En spegillinn lék sama bragðið aftur — um það var ekki að villast. Hann kallaði þá á konu sína, til að sýna henni þetta fyrirbrigði; en þá hvarf önnur myndin. María réð þetta svo, að hann yrði tvisvar forseti, en hún væri hrædd

um, að daufari myndin mundi merkja, að hann mundi ekki lifa tvö forseta-tímabil (8 ár).

Nú sóttu að honum hrellandi hugboð. »Eg er hræddur um«, sagði hann við Herndon lögunaut sinn, »að einhver vofeiflegur dauðdagi eigi fyrir mér að liggja«. Sagði hann honum þá um leið þá ætlun sína, »að það hefði verið fyrirhugað, að Brútus vægi Cæsar, og því atkvæði hefði Brútus orðið að lúta og eigi getað umflúið«.

Daginn eftir kosninguna kom nefnd manna á fund Lincolns, sem kosin hafði verið til að birta honum úrslitin og fá honum í hendur merki þjóðvaldsmanna. Þeir hittu þá svo á, að hann var að berjast við að varpa af sér þunglyndinu, sem ásótti hann nú í sigrinum miðjum. Þegar nefndarmenn komu að húsi hans, þá var það svo lágt og fátæklegt, að þeir urðu milli vonar og ótta um, hvort maðurinn, sem þeir hefðu kosið, gæti átt þarna heima — leiðtoginn, sem þeir vissu varla, hvernig eða hvers vegna þeir hefðu kosið, til þess að ráða fram úr vandamáli, sem var mikilvægara en nokkurt annað mál í stjórnmálasögu Bandaríkjanna.

Í nefndinni voru menn frá öllum þeim ríkjum, sem fulltrúa höfðu sent til kjörþingsins, og voru eigi allfáir þeirra þjóðkunnari en hinn kosni forseti. Þegar þeir hópuðust inn í dagstofuna, þá varð þeim mörgum starsýnt á hann í fyrsta bragði; sumir þeirra hafa sagt svo frá, að þeir hafi orðið sem höggdofa af vonbrigðum. Hann var ekki vitund líkur neinum venjulegum stjórnmálamanni,

hvorki að háttum né yfirlitum. Hann var eins og ný manntegund í augum þeirra frá eldri ríkjunum.

Og svo stóðu þeir agndofa, þangað til að því kom; að hann skyldi svara ávarpi nefndaroddvitans. Þá lyfti hann höfðinu hátt og kraftur og göfgi skein af ásjónu hans. Ávarpinu svaraði hann fám orðum; en við það hvarf af honum öll ódirfð: hann varð þá alt í einu jafn frjáls í bragði, eins og hann væri meðal kunningja sinna.

Gestirnir gengu nú inn í innri dagstofuna. Þar var kona Lincolns fyrir. Öll minni voru drukkin í vatni það kvöld, því að Lincoln færðist undan að taka fram vínföng þau, sem vinir hans höfðu fært honum; það var ekki að hans skapi að breyta heimilisháttum sínum, ekki einu sinni, þótt hann væri orðinn forseti.

»Hvað eruð þér hár?« spurði Lincoln hávaxinn nefndarmann frá Pennsylvaniu, því að hann hafði jafnan sérstaklega auga á stórum mönnum. »Sex fet og þrír þumlungar. En hvað eruð þér hár, hr. Lincoln?« »Sex fet og fjórir þumlungar«, svaraði Lincoln hróðugur.

»Þá lýtur Pennsylvania Illinois; en vér hugðum eigi vera til nema »litla risa« í Illinois!« sagði nefndarmaðurinn og hafði Douglas í huga.

Þrír aðrir voru í forsetakjörum með Lincoln og jafnvel fleiri, því að Óhió, Missouri og Vermont höfðu líka sín forsetaefni, þá Chase, sem síðar kemur við söguna, Bates og Collamer. — En þeir, sem sérstaklega voru teknir til greina, voru allir flokksforingjar. Douglas var forsetaefni Norðurlýðræðinga og hlaut 12 atkvæði, Breckenridge (frá

Kentucky) var forsetaefni Suður-lýðræðinga og hlaut 72 atkvæði, Bell var forsetaefni stjórnskipulega sambandsins svo nefnda og hlaut 39 atkvæði. Lincoln var forsetaefni þjóðveldinga og hlaut 180 atkvæði. Seward komst næst honum, eins og áður er sagt, fyrir sama flokkinn.

Þegar fulltrúarnir lögðu af stað frá Chicago eftir kjörþingið, þá hröðuðu þeir sér heimleiðis yfir gresjurnar; voru þær allar uppljómaðar af hátíðlegum brennum og í þorpunum hringdu klukkur í hverjum kirkjuturni til merkis um fögnuð manna. En samt var það svo, að Austurríkjamenn voru sem utan við sig af þeim glettum hamingjunnar, að hún skyldi hafa krýnt »sveitalögmann í lægstu röð« hæsta heiðri, eins og eitt blaðið í New York komst að orði. Austurríkjablöðin fluttu lesendum sínum æfiatriði Lincolns í fáum orðum, eftir því sem þeim var frekast kunnugt, en sendu svo frétta-snata í skyndi til Springfield til að »skrifa upp« þennan mikla, óþekta mann.

Í sumum héruðum var alvarlegur uggur með mönnum út af því, að hinn háværi vestanmúgur hefði að eins gjört fulltrúunum fælingar, fælt þá út í það að kjósa rammslunginn þingmann frá Illinois. Hrópin í þeim Vestanmönnum væru sem ljónsöskur. Í augum margra var Lincoln ekki annað en afkáralegur og ruddalegur staurakljúfur, er tranað hefði sér fram með æsingabrellum þeirra landamærabúanna.

»Hver er hann þessi stjórnmálamangari?« spurði Wendell Philips frá Boston, »hver er hann þessi sveitalögmaður?«

Einn atkvæðamaður var þó að minsta kosti staddur í Washington, sem talað gat um hinn kosna forseta af einhverju viti. Það var Stephen A. Douglas. Hann fékk einna fyrstur manna í Washington fregnir af kosningunni og gat kveðið niður óttann í samþingismönnum sínum í efri málstofunni, þjóðvaldsmönnunum.

»Herrar mínir!« sagði hann, »þér hafið kosið mjög færan mann og gagnráðvandan mann«.

Ekki var við að búast, að forsetaefni lýðræðismanna næðu kosningu, þar sem flokkur þeirra hafði klofnað. En hins vegar mælti öll sanngirni með því eftir atvikum frá upphafi, að Lincoln ætti vísa kosningu. Hann gjörði sér það að reglu að láta kosninguna afskiftalausa, og ráðast eins og verkast vildi. Hann lét ekkert til sín heyra alla kosningahríðina út, nema eina stutta tölu, sem hann hélt, þegar hann gaf kost á sér til forseta og bréf sama efnis, og hvorttveggja var til samans eigi meira en 150 orð. Og aldrei fór hann út fyrir Springfield. Hann stóðst allar hégómlegar freistingar í þá átt, að hann skyldi sýna sig og láta uppi skoðanir sínar, og hann stóðst allar hvatir til að leiðrétta missagnir um sig eða misskilning á sér, og var þó enginn skortur á slíku. Hann fól Guði einum málefni sitt á vald. Guð einn átti að ráða því, hvort hann yrði fyrir kjöri eða ekki. Sjálfur gat hann ekki meira gjört en hann var búinn, til þess að gjöra alþjóð afstöðu sína ljósa og hvernig málavextir væru. Nú vildi hann láta Drottinn einn skera úr um, hvort það væri hann, sem hann ætl-

aði það hið afarvandasama starf að ráða fram úr mesta vandamáli þjóðarinnar.

Atkvæðasmölunin var sótt af miklu kappi. Lagsbræður þeir, sem nefndu sig »Vekjendur« (Wide Awakes) spruttu hvarvetna upp í landinu og gengu hina svo nefndu »girðingarstaura-göngu« í ótal króka; mátti sjá til ferða þeirra af glóbjörtum kyndlum, sem þeir báru til virðingar við »Abe gamla«, staurakljúfinn, frá Sangamon-héraðinu. Þessar göngur voru í miklum metum hjá almenningi.

Við kosninguna hafði Lincoln hlotið meiri hluta atkvæða úr hverju »frjálsu« ríki og augljósan meiri hluta á öllu kosningasvæðinu. En ekki hlaut hann eitt einasta atkvæði úr níu Suðurríkjunum. Sást þá berlega, að »ríkið var sjálfu sér sundurþykt«.

Samborgarar Lincolns voru hróðugir og glaðir og alla kosninganóttina ómaði loftið af fagnaðarópum þeirra og hamingjuóskum. En í hjarta Lincolns kom upp beisk angist út af því, að þjóðin hefði, ef til vill, stofnað sjálfri sér í hættu, með því að kjósa hann. Út úr svip hans mátti lesa, að hann fann sárt til þess, að ægileg ábyrgð hvíldi á honum. En þá hugsaði hann til þess, að það var Drottinn, sem hafði kosið hann og á hann varpaði hann svo allri áhyggjunni, bæði í þetta skifti og jafnan síðan, er á hólminn var komið.

## XVIII. KAPÍTULI.

### *Eftir kosninguna.*

Lincoln fór á mis við hið venjulega hlutskifti hinna kjörnu forseta. Hann fékk ekki að njóta sigursins í fullum mæli og árnaðaróska allrar þjóðarinnar. Alt var á ringulreið í kringum hann og andstæðingar hans báru til hans þungan hug.

Þegar kosning hans varð heyrum kunn í Suðurríkjunum, þá var sem eldi væri hleypt í sinu.

Nú skal enn í fám orðum gjöra grein fyrir, hvernig sakir stóðu.

Sumir stórbændurnir í Suðurríkjunum höfðu um 100 þræla og mikil akurlönd, þar sem þrælarnir áttu að yrkja baðmullina. Stórbóndinn lifði eins og konungur og tók aldrei á verki, en þrælarnir unnu nótt með degi. Iðnaður var lítill í þeim ríkjum, en landbúnaður því meiri og var þrælahaldið fóturinn undir honum. Þeir fengu flestar iðnaðarvörur frá Norðurríkjunum og það, sem til skarts heyrði og munaðar, því í Norðurríkjunum var mestur iðnaður, verksmiðjur og verzlun. Mestur höfuðstóll Suðurríkjanna voru þrælarnir, sem unnu kauplaust. Til þess að sjá við því í tíma, að þrælahaldið eða mansalið gengi eigi til þurðar smám saman, þá vildu Suðurríkin gjöra það að alþjóðarlögum um öll ríkin smátt og smátt, að hvert nýtt ríki mætti sjálft um kjósa, hvort það vildi vera þrælaríki eða ekki, því að til forsetakosningar réð ríkjatala, en ekki mannfjöldi. Alt var því undir því komið frá sjónarmiði þeirra, að þrælaríkin yrðu fleiri en frjálsu

ríkin. Suðurríkjamenn gerðu sér því far um að fá sem flest ný ríki til að ganga í bandalögin, til þess að þau gætu öllu ráðið á samveldisþinginu og um alla landstjórn.

Nú höfðu Sunnanmenn beðið ósigur við forsetakosninguna, er Lincoln hlaut kosningu. Þeir staðréðu þá með sér, að hlíta ekki þessari kosningu Norðanmanna, því að Norðanmenn héldu því fram, að það væri réttur og skylda samveldisþingsins að banna alt þrælahald í nýlendum og nýjum ríkjum.

Á samningum eða sættargjörðum voru Sunnanmenn líka orðnir þreyttir. En ef þeir hefðu fallist á það nýmæli Douglass, að »alþýðuatkvæði« skyldi ráða um þrælahald í nýlendum og nýjum ríkjum, þá hefði Lincoln náð kosningu þar, því að bændur þar voru andvígir þrælahaldi, eins og auðséð er af Kansas-málinu. En það vildu þeir ekki og kölluðu nýmæli Douglass villukenningu (»Freeportvillu«). Þeir tóku því þann kostinn að rjúfa lýðræðisflokkinn, og segja skilið við flokksmenn sína í Norðurríkjunum og gjöra Breckenridge að forsetaefni sínu, því að hann kvað samveldisþingið ekkert vald hafa til að setja þrælahaldinu nokkur takmörk.

En þegar kosningin fór, eins og hún fór, þá beið Syðri-Karólína ekki eftir kosningaúrslitum að fullu, heldur steig fyrsta sporið í skilnaðaráttina og formenn nágrannaríkjanna réðu alvarlega ráðum sínum í þá átt að verða þessu forgönguríki samfara.

Fundur var settur í Charlestown, höfuðborginni í Syðri-Karólínu. Þar var margt ákveðið til óþurftar Norðurríkjunum, svo sem að leggja 5% toll á

Norðurríkin fram yfir erlendar þjóðir og því um líkt. Að lokum slitu þingmenn tunguhaftið og sögðu sig í einu hljóði úr lögum og landsrétti við Norðurríkin og buðu öðrum þrælaríkjum í lög með sér. Með þessum hætti var því herskjöldur hafinn innan lands og styrjöld var fyrir dyrum. Þessi ofdirfska Suðurríkjanna var helzt kend Buchanan forseta, því hann réri undir og var í launmálum við þrælaríkin. Samt var áskilið á þessu þingi, að eigi skyldi til skarar skríða, fyr en nýi forsetinn tæki við tigninni (4. marz 1861). Í nýárs ræðu sinni sló Buchanan forseti skuldinni á Norðurríkin; taldi hann það að sönnu uppreisn, að segja sig úr bandalögum, en sagði hins vegar, að stjórn alríkisins hefði engan rétt né vald til að meina það með harðri hendi, því að hvert ríki væri sjálfrátt um það, hvort það vildi vera í bandalögum eða ekki. Þessari skoðun breytti hann þó seinna, þegar í óefni var komið, og sendi her manns til Charlestown, því að uppreistarmenn höfðu til sín tekið og ruplað alþjóðarfé, sem þar var fyrir.

Í byrjun ársins 1861 höfðu níu þrælaríki bætst við Syðri-Karólínu. Þessi tíu þrælaríki settu sér svo nýtt sambandsþing og ný stjórnskipunarlög og kusu sér til forseta Jefferson Davis til 6 ára og, lét hann þá þegar boðskap út ganga um stjórn sína. En Miðríkin, svo sem Virginia, og ríkin í kringum hana, vildu ekki slíta bandalögin.

Bóksalar í Charlestown vildu ekki gefa út tímaritið »Harper's Weekly«, af því að þar hafði verið birt mynd og æfiágrip Lincolns. Þar á móti lét blað

eitt í borginni prenta hraðskeyti frá Washington um kosninguna undir yfirskriftinni: »Útlendar fréttir«.

Flestir Norðurríkjamenn létu sér í léttu rúmi liggja, þó að þeir hefðu heyrt Sunnanmenn rita og tala djarflega um það á undanförnum árum, að þeir vildu segja sig úr bandalögum við Norðurríkin; áður þótti þó landráðasök, að láta sér slíkt til hugar koma; hugðu þeir, að lýðræðismenn hefðu það á oddinum, til að hafa áhrif á kosningarnar, sem færu í hönd. En nú sáu þeir, að ískyggilegur undirbúningur var gjörður í þá átt að skifta landinu og slíta bandalögin. Þá urðu þeir óðir og uppvægir og fóru nú að heyrast raddir frá hverju löggjafarþingi í frjálsu ríkjunum um það mál.

En hugsjónin fagra: Samband allra ríkjanna vakti nú ekki lengur þann eld í brjósti þjóðarinnar, sem logaði þar í öndverðu, er frumherjarnir voru uppi og bandalag ríkjanna var staðfest og helgað með blóði hinna beztu manna, jafnt úr Suðurríkjunum sem úr Norðurríkjunum. Nú hafði sú hugsjón lengi verið höfð að leiksoppi af stjórnmálaflokkunum. Og þeir voru margir í hvorutveggja ríkjunum, sem létu sér hana í léttu rúmi liggja.

Fáir af stjórnendum og þingmönnum alríkisins höfðu verið framúrskarandi hin síðari árin. Til valda og löggjafar völdust helzt ofsamenn eða óbilgjarnir menn, eða þá ónýtir menn, eins og Buchanan, en dugandi menn og réttvísir komust ekki að.

Þjóðvaldsmenn, eins og Horace Greely, fylgdu því fast fram, að Suðurríkin væru látin fara sinna ferða, og Henry Ward Beecher færðu sönnur á, að skilnaðurinn mundi verða Norðurríkjunum til hags

og heilla. Mansalshatendurnir (abolitionists) hrópuðu: »Látum sambandið skeika!« og Winfield Scott, sem talinn var þjóðrækinn maður, réð stjórninni til að segja við Suðurríkin: »Einráðu systur! skiljum í friði«. Seward og mikill þorri þjóðvaldsmanna hölluðust að miðlunar-aðferðinni gömlu, og voru eigi færri en 40 nýmæli í þeim anda borin fram á sambandsþinginu.

Ofan á þetta bættist svo ótti manna við það, að fjárhagur og iðnaður alríkisins færi á höfuðið Bankarnir voru að hruni komnir og ríkissjóður nær því gjaldþrota. Það var sem landið stæði á glötunarbarmi í augum þeirra.

Í Norðurríkjunum voru tveir flokkar andvígir í þrælamálinu: Mansalshatendur, sem afnema vildu alt mansal í einum svip og hins vegar þeir, sem kváðu ólög að fara svo geyst. Mansalshatara hötuðu Suðurríkjamenn og þóttu þeir þrælum verri. Þeir, sem vildu fara að lögum, sögðu að það yrði eigi til annars en að kveikja það hatur, að aldrei kæmust sættir á aftur, ef öllum þrælum væri gefin lausn í einum svip. Með því væri líka þrælunum fengin vopn í hendur og mundu þeir þá myrða húsbændur sína og konur og börn og væri þá ekki annað fyrir en að höggva þrælana niður hvern af öðrum. Þótt sigur fengist með þeim hætti, þá væri hann svo grimmur, að það væri landauðn; Miðríkin, sem enn væru í sambandinu, mundu ganga úr með þessu atferli og öll Suðurríkin berjast til þrautar, meðan nokkur stæði uppi. Í Boston voru mansalshatarar svæsnastir. Gjörðu menn þar aðsúg að þeim og hleyptu upp fundum þeirra og

hundrað lögreglumenn þurfti að kveðja saman, til þess að forsprakki þeirra, Wendell Philips, mætti fara óhultur um götur borgarinnar. Margir þjóðvaldsmenn töldu sér harmatölur yfir kosningu Lincolns, rétt eins og sú kosning væri orsök og uppspretta allra þeirra vandræða, sem nú dyndu yfir þjóðina.

Meðan á þessum ósköpum gekk, fór hinn kosni forseti sinna ferða. Hann bjó áfram í stofu þeirri í ríkishöllinni í Springfield, sem hann hafði haft að skrifstofu, meðan á kosningunni stóð. Enginn vörður var við dyrnar, öllum var frjálst inn að ganga. Þeir, sem um embætti sóttu, þyrptust þarna að honum ásamt vinum hans; en þó bjó hann þarna einn síns liðs.

Þegar hann fór burt af símastöðinni kosninganóttina, þá var hann búinn að hugsa sér menn í ráðuneyti sitt. Hann fór að öllu eftir sínu eigin höfði með sérkennilegu sjálfstrausti. Hann mintist ekki einu sinni á neitt við Herndon lagsbróður sinn. »Hann trúði mér aldrei fyrir neinu áformi sínu«, sagði David Davis dómari. Og þegar að því kom, að hann skyldi fara að rita aðfararæðu sína, þá er skyldi halda við innsetninguna, þá fékk hann sér stað í loftherbergi einu uppi yfir vörubúð og ritaði hana þar í einrúmi. —

Það er víst mála sannast, að Lincoln var það gefið fremur öðrum, að geta skygnst inn í hina myrku framtíð þjóðarinnar. En sammerkt átti hann í því við flesta foringja Norðanmanna, að vonirnar gjörðu honum sjónhverfingar. Styrjöldina miklu sá hann ekki fyrir. En þó að hann hefði

ekki fyrir sér allar aðferðir skýrt afmarkaðar og viðbúnar til framkvæmda, þá hafði hann meginreglur eftir að fara og þeim fylgdi hann trúlega, veik aldrei hársbreidd frá þeim. Þær voru hinn öruggi leiðarvísir hans í hríðinni miklu, sem hratt og velti um stjórnmálamönnunum hinum, eins og korki í brimróti. Skeiðið afmarkaði hann í einrúmi með tveimur hugsjónum, er hann gerði að markmiði sínu, en þær voru: *Samband allra ríkjanna* og *takmörkun þrælahaldsins*. Þetta voru vitaljósin hans og á þau stýrði hann styrkri hendi.

Það var ekki nema einu sinni, sem menn höfðu heyrt hann tala opinberlega, frá því er hann var kosinn. Hann mælti fimm stuttar setningar til manna, sem voru að hrósa sigri hans. Síðasta málsgreinin sýnir andann í þeim öllum: »Gleymum því aldrei, að borgarar Bandaríkjanna eru bræður í sameiginlegu landi og ættu að búa saman í böndum bróðernisins«.

Úr öllum áttum komu áskoranir til hans um það, að hann talaði eða gjörði eitthvað. En hann færðist einbeittlega undan að bæta við »orð inn-antóm«, nóg væri fyrir af þeim. Um alt land voru menn óðfúsir að sjá þenna óreynda leiðtoga sinn og vita, hvað hann ætlaði fyrir sér.

Herndon, lagsbróðir hans, dró upp skýra mynd af honum í bréfi til Henry Wilson frá Massachusetts, sem var þingmaður í efri málstofunni.

»Lincoln hefir hjarta, viðkvæmt eins og kvenhjarta; en hann hefir járnsterkan vilja. Hann elskar alla menn, hatar mansal og harðstjórn í öllum myndum.

Lincoln getur skeikað, ef um landhagsfræði er að ræða, og eins ef eitthvert mál kemur á dagskrá, sem er flókið og tvírætt og enginn getur ráðið fram úr. Þá geta vinir hans haft hann á sínu bandi. En ef um réttvísi er að ræða, eða um mannfrelsi, landstjórn, stjórnarskrána og bandalag ríkjanna, þá hefir hann alla vini sína á sínu bandi, þá getur enginn þokað honum — enginn sá flokkur manna er til, sem geti það. Þar getur honum ekki skeikað. Svona er Lincoln og setjið nú vel á yður þetta hald mitt. Þér og eg verðum að halda fólkinu í réttu horfi. Guð mun halda Lincoln á réttum vegi«.

Lincoln stefndi nú nafnkendum mönnum á sinn fund til Springfield. En það hafa sumir þeirra játað, að þeim hafi brugðið heldur óþægilega og undarlega við, þegar þeir sáu þennan foringja sinn í fyrsta skifti. Þeir komu að húsi hans, heldur fornfálegu og hringdu dyrabjöllunni; kom hann þá sjálfur til dyra og tók á móti þeim. Hann var í »neftóbaks-litum, úlpulegum brókum; svarta vestið hans flakti frá honum að mestu, nema hvað fáeinir messingshnappar héldu því saman á stöku stað. Og meðan hann var að tala með sínum einkennilega málrómi, þá voru drengir hans að klifra upp um hann, pota fingrum í augu hans og munn; en ekkert tók hann eftir því, eða fann að því við þá«.

En með þessum gestum og trúnaðarbréfum, þá þokaði hann bjargfastri sannfæringu sinni um skyldu sína smátt og smátt út á við, svo að hún festi rætur. Hann blés leiðtogum þjóðarinnar í

brjóst, að berjast af heilu hjarta og heilum huga fyrir sambandsmálinu. Hann lét ótvíræðlega í ljós það álit sitt (5. nóv. '60), að »stjórnin hefði bæði rétt og vald til að halda uppi sambandi allra ríkjanna«

Þegar tillögurnar voru gjörðar sem flestar um það, að leggja nýjar bætur á landsfriðinn, þá sendi hann hinum ráðþota mönnum í Washington þessi varnaðarorð (11. des. 1860):

»Haldið eigi fram neinum málamiðlunartillögum um útbreiðslu þrælahaldsins. Jafnskjótt sem þér gjörið það, þá hafa þeir oss undir aftur — þá er alt starf vort til ónýtis, og ver verðum að taka það upp aftur fyr eða síðar. Til átaka verður að koma, og er betra að það verði fyr en síðar.

Tveimur dögum síðar sendi hann aftur þessa skýlausu skipun: »Haldið fast saman, eins og þér væruð stálkeðja«.

Í sömu vikunni ritaði hann frægum og áhrifamiklum stjórnmálamanni í New York: »Það er hyggja mín, að ekkert ríki geti sagt sig með nokkru móti úr bandalaginu að lögum. nema með samþykki hinna ríkjanna«.

Í sama mánuði (21. des.) biður hann vin sinn einn í Washington að bera Scott hershöfðingja kveðju sína og »seg honum í trúnaði, að eg vilji eiga hann að með það að vera við því búinn, að hann geti annaðhvort haldið eða náð á sitt vald aftur þjóðvirkjum öllum í skilnaðarríkjunum (Confederate States), eftir því sem á kann að standa, um eða eftir innsetningu forseta«.

Kunningja sínum í Suðurríkjunum ritaði hann:

»Óski menn þess, að eg tvískifti landi því, sem eg er kosinn að ráða, þá get eg ekki orðið við þeirri beiðni«. Hann kvaðst vera »ófús á að iðrast þess glæps, að hann hefði verið kosinn«, og vildi hvorki bera vörn fyrir sig né biðja fyrirgefningar á því. Hann fullvissaði Alexander H. Stephens, þann er átti að verða varaforseti skilnaðarmanna, um það, að Suðurríkjunum stæði eigi meiri hætta af afskiftaleysi af málum þeirra undir stjórn sinni en verið hefði á dögum Washingtons. Og því næst sagði hann hreinskilnislega:

»Eg held nú samt, að þetta sé ekki fiskurinn undir steininum. Þér álítið, að þrælahaldið sé rétt og eigi að breiðast út, þar sem vér hyggjum, að það sé rangt og eigi að takmarkast. Þetta hygg eg sé aðalágreiningsefnið vor á meðal«.

En hafi Lincoln sýnt Suðurríkjamönnum umburðarlyndi, þá er hitt víst, að hamslausum málamiðlunarópum kaupsýslumanna í Norðurríkjunum sýndi hann enga þolinmæði, því að þeir hugsuðu meira um hagsmuni sína en meginreglur hans.

»Þeir heimta tákn« sagði hann byrstur í bragði, »en þeim skal ekkert tákn gefið verða. . . Eg er ekki tilfinningarlaus fyrir nokkru óefni í verzlunarsökum eða fjármálum, sem þjóðin kann að rata í; en ekkert fæst með því að flaðra kringum þá »virðulegu þorpara«, sem því böli valda. Gangi þeir að verki og bæti upp tjónið, sem leiðir af gjörðum þeirra; þá verða þeir, ef til vill, síður sólgnir í að gjöra það aftur«.

Með hverjum degi, sem leið, barst sambandinu einhver ný hótun, og mjög voru menn í vafa um,

hvort innsetning Lincolns gæti farið fram friðsamlega. Edwin E. Stanton, sem þá var dómsmálaráðgjafi Bandaríkjanna, sagði í lok janúarmánaðar, að sér þætti ekki líkur til og tæplega hugsanlegt, að nýja stjórnin yrði komin á laggirnar 4. marz næstkomandi.

Skilnaðarríkin voru að berjast við að fá Virginíu í lið með sér, því að tækist þeim að fá þetta gamla stjórnarland í lög með sér, þá væri eigi annað líklegra en að Maryland fylgdist með. Með því móti yrði þá höfuðborg landsins, Washington, umkringd af skilnaðarríkjum og afkvíuð frá Norðurríkjunum; mundu þá skilnaðarmenn gjöra Washington að höfuðbóli sínu, en láta nýja forsetann setja stjórn sína á fót einhversstaðar annarsstaðar. Það voru meira að segja horfur á, að kosning Lincolns yrði eigi birt á sambandsþinginu. Þjóðveldismenn voru í minni hluta í efri málstofunni, og forseti þeirrar málstofu, sem átti að birta kosninguna, var enginn annar en Breckenridge, forsetaefni Suðurríkjanna, sá er undir varð við kosninguna.

Menn voru hræddir um, að Breckenridge, og meiri hlutinn með honum, mundi koma í veg fyrir talningu atkvæðanna og birtingu úrslitanna. Svo var kvíðinn mikill fyrir þessu, að Lincoln fastréð með sér að sitja kyr í Springfield, þangað til það mál væri til lykta leitt. En til allrar hamingju leysti varaforseti og efri málstofan þetta skyldustarf sitt af hendi, eins og venja var til.

Lincoln tók þá að búa sig undir förina til Washington. Hann brá sér í kynnisför til Chicago með

konu sinni. Þar keypti hún fyrsta silkikjólinn, sem hún hafði eignast, til innsetningarhátíðarinnar. Og þegar þau voru komin heim og tóku upp varning sinn, þá varð Lincoln að orði:

»Jæja, kona mín, það er þó líklegt, að við höfum eitt upp úr þessu krafsinu, hvað sem öðru líður. Við ætlum að eignast nýjan fatnað!«

Þegar að því leið, að Lincoln færi frá Springfield, til þess að hann tæki við þeirri tignarstöðu, sem hann var kallaður til, þá gleymdi hann ekki umkomulausu konunni, sem brugðið hafði sólskini yfir hina ömurlegu bernsku hans, hafði klætt hann dyggum höndum og gefið honum lítilsháttar færi á að ganga í skóla til að læra að lesa, reikna og skrifa. Stjúpan hans gamla, góða, var enn á lífi, og fyrir henni ól hann nú trúlega önn í ellinni. Hann sneri nú huga sínum frá heiðrinum mikla og hinu þunga ætlunarverki og sótti hana heim. —

Þegar hann var á leiðinni, þá komu menn í hópum að óska honum heilla; þótti öllum honum hafa farnast vel. Þegar þessari stuttu heimsókn var lokið, þá lét gamla konan í ljós við hann að skilnaði, að hún væri ekki óhult um líf hans, því að óvinir hans mundu sitja um hann. Og þegar skrifstofan hans í ríkishöllinni var orðin full af nágrönnum hans, sem komnir voru til að kveðja hann, þá kom Anna Armstrong líka til hans í sömu erindum, og var næsta hrædd um líf hans.

Lincoln var manna þakklátastur við þá, er réttu honum hjálparhönd í nauðum. Hann mundi hvern

smágreiða alla æfi og var viðbúinn að endurgjalda hve nær sem færi gafst.

Einhver kona í New Salem, sem Lincoln nefndi »Sally frænku«, kom á fund hans í Springfield til að kveðja hann, áður en hann færi til Washington. Lincoln var þá staddur í ríkishöllinni í rúmgóðum sal, sem hann hafði til umráða. Hann var að tala við tvo þjóðfræga menn, þegar gamla konan kom inn, bráðfeimin og vandræðaleg. Hann þekti þessa gömlu vinkonu sína óðara og kom hið bráðasta til móts við hana, tók í báðar hendur henni og leiddi hana þar til öndvegis. Hann sagði henni, hverjir þeir menn væru, sem þar voru fyrir, og reyndi með hinni mestu blíðu að gjöra hana rólega, og síðan sagði hann við hina frægu gesti sína: »Þessi kona er gamall og góður vinur minn. Hún getur bakað hinar beztu kökur, sem þér hafið nokkurn tíma smakkað og hefir margsinnis bakað þær handa mér«.

Eftir all-langa bið dró »Sally frænka« feiknastóra og grófgjörða bandsokka upp úr körfu sinni. Þá hafði hún prjónað handa Lincoln. Hann tók í tærnar á sokkunum og lét þá svo hanga sitt hvoru meginn niður með stóru stígvélunum sínum og kallaði svo upp:

»Hún hefir nokkurn veginn náð lengdinni og breiddinni á mér — er ekki svo?«

Síðan lét hann í ljós þakklátssemi sína fyrir þessa hugsunarsemi góðu konunnar við sig, og lofaði henni, að í þessum sokkum skyldi hann ganga í Hvíta húsinu og hugsa til hennar, og hann efndi það líka.

Lincoln seldi nú öll húsgögn sín og fékk sér leigjanda að húsinu. Allar eigur hans voru þetta hús og landskiki einn í Iowa, sem stjórnin hafði fengið honum að launum fyrir herþjónustuna í »Svartafálka«-ófriðinum, og húseign í bæ einum í Illionis, sem hét eftir honum. Alls mundi þessi eign hafa numið 10—12000 dölum. En samt hafði hann ekki mikla peninga handbæra, og varð því að taka fé að láni til þess að eiga fyrir útgjöldum í Hvíta húsinu, þangað til honum greiddust forsetalaunin í fyrsta skifti.

Síðasta daginn, sem hann var í Springfield, gekk hann inn í gömlu skrifstofuna sína, litla bakherbergið, þar sem hin þunga skylda lagðist á herðar honum, og fleygði sér þar endilöngum á margslitna legubekkinn sinn. Þegar honum varð litið á rykuga loftið uppi yfir sér, þá rifjaði hann upp fyrir sér með klökkum huga hina löngu samveru þeirra lagsbræðranna. Aldrei hafði þeim á þeim tíma borist á í orði.

Því næst veik hann viknandi nokkrum orðum að auglýsingarspjaldinu þeirra lagsbræðranna. Það hafði sveiflast þarna á hjörunum með áletraninni: »Lincoln & Herndon«, þangað til það var orðið nærri alryðgað. Nú bað hann »Billy«, eins og hann var vanur að kalla Herndon, að lofa því að hanga þarna, þangað til hann kæmi aftur heim frá Washington, og þá skyldu þeir halda áfram lögmenskunni sinni, eins og hann hefði aldrei orðið forseti.

En er hann stóð upp og gekk til dyra, lét hann þó það hugboð sitt í ljós, að hann mundi ekki eiga afturkvæmt lifandi. Herndon ámælti honum

fyrir, hvað hann væri lítill heimspekingur, hann kæmist í beina mótsögn við sjálfan sig. »Já, en þetta er í samræmi við heimspekina mína«, svaraði Lincoln, »þetta fylgir henni«.

Síðan gekk hann í burt, hryggur í bragði og niðurdreginn og hvarf inn í járnbrautarvagninn, rétt í því er eimreiðið blés í þriðja sinni.

## XIX.

## *Förin til Washington.*

Lincoln stóð nú á afturpallinum á sérvagni þeim, sem hann átti að flytjast á til Washington. Hann lyfti upp hendi til að kveðja sér hljóðs, til að ávarpa mannfjöldann, sem saman var kominn á járnbrautarstöðinni á köldum og ömurlegum vetrardegi (11. febr. 1861), til þess að kveðja hann.

Hann tók ofan og þeir líka og kafaldið féll á ber höfuð þeirra. Hann starði á þá þegjandi litla stund, og varir hans titruðu af hrygð og tárin runnu niður kinnar honum. En er hann var loks búinn að vinna sigur á geðshræringum sínum, þá var hann dálítið rámur og við það varð áherzlan á skilnaðarorðum hans enn þyngri,

»Vinir mínir! Enginn getur gjört sér grein fyrir söknuði mínum á þessari skilnaðarstundu, sem ekki er í mínum sporum. Þessum stað og hjartagæzku þessa fólks á eg alt að þakka. Hér hefi eg átt heima fjórðung aldar; hér hefi eg, unglingurinn, orðið að fullorðnum manni; hér eru börnin mín fædd og hér liggur eitt þeirra undir leiði.

Eg skil nú við yður, en veit ekki hve nær eða hvort eg kem nokkurn tíma hingað aftur. Fyrir mér liggur hlutverk, sem er, ef til vill, meira en hlutverk Washingtons. Mér tekst ekkert, nema með aðstoð hinnar sömu, guðlegu veru, sem ávalt var með honum; með aðstoð hennar getur mér ekkert mistekist.

Vér skulum vona, að alt muni vel fara, með trausti til hans, sem bæði getur orðið mér samferða og verið áfram með yður og allstaðar komið góðu til vegar. Eg fel yður umsjón hans, og vona, að þér munuð eins fela mig honum í bænum yðar. Svo kveð eg yður alla ástsamlega«.

Lestin brunaði af stað og fólkið fylgdi Lincoln með társtokknum augum, og svo lengi sem lestin var í augsýn, þá sáu þeir hann standa á vagnpallinum og horfa til smáborgarinnar, þar sem frægðin og heiðurinn höfðu leitað hann uppi.

Þegar hann var í blóma lífsins, þá gekk hann berfættur þarna um göturnar og var að lesa lög. Í einum fundarsalnum í þessari borg höfðu varnaðarorðin hans hljómað: »Ríki, sem sjálfu sér er sundurþykt, legst í auðn«. Og nú var hann kosinn til að afstýra þeirri þjóðarógæfu, sem hann hafði boðað. Innan vébanda þessarar borgar eignaðist hann heimili; húsið hans stóð meðal bjálkakofanna, sem voru þar fyrir á æskuárum hans. Nú var hann á hraðri ferð til Hvíta hússins. Á næsta morgni (12. febr.) var hann 52 ára.

Hafi svo verið, eins og hann sagði, að hlutverk hans hafi verið meira en Washingtons, þá gat hann

líka með sanni sagt, það sem hann mælti öðru sinni í þessari sömu ferð:

»Eg segi það ekki af neinni uppgjörðarhæversku, að mér finst eg vera lítilmótlegastur allra þeirra, sem setið hafa í forsetastóli Bandaríkjanna«. Enginn forseti annar og líklega enginn þjóðhöfðingi nokkurstaðar í þjóðmenningarlöndunum, hefir hafist upp úr öðru eins djúpi fátæktar og mentunarleysis, eins og Lincoln var fæddur til, og verið jafn algjörlega samjafn hinum ótölulega grúa almúgamanna.

Og enn fremur: Enginn annar forseti hefir verið kosinn, er verið hafi jafnókunnur þjóðinni og hann; ekki hafði hann stuðning af þeirri kynningu. Fyrir 5 árum þekti þjóðin hann ekki einu sinni að nafni. Það voru í raun og veru ekki full 3 ár, sem hann hafði verið við þjóðmál riðinn. Og eina opinbera staðan, sem hann hafði haft á hendi var bréfhirðingarstaðan í New Salem. Og frá þeim degi, er hann var nefndur til forseta, allri þjóð til undrunar, þá hafði hann ekki farið nema einu sinni út fyrir Springfield og eigi talað opinberlega meira en 3—500 orð. Það var því ekki nema eðlilegt, að fólkið gæfi honum forvitnisauga, þegar hann kom fyrir almenningssjónir. —

Lincoln var nærfelt hálfan mánuð á ferðinni, að meðtaldri lítilsháttar dvöl í helztu borgunum. Hinir einföldu og óhefluðu hættir hans voru ýmist ýktir eða afbakaðir, því að menn voru slíku óvanir af manni í hans stöðu.

Yngismær ein hafði skrifað honum og beðið hann að láta sér vaxa skegg, því að hún héldi, að þá

yrði hann fríðari sýnum, því að Lincoln þótti ófríður maður, einkum til munnsins. Þegar hann kom til New York, þar sem yngismær þessi átti heima, þá sótti hann hana heim og sagði um leið og hann kysti hana: »Nú sjáið þér, unga mær, að eg hefi látið mér vaxa skegg á vanga fyrir yður«. Blöðin hentu mikið gaman að þessu og eitt blaðið sagði söguna með þessari galgopalegu fyrirsögn:

»Gamli Abe kyssir dáfríða yngisstúlku!«

Hið óvenjulega samband gamans og alvöru, það er bjó í Lincoln, var öllum þorra þjóðarinnar hin mesta nýung. Og meistari sá, sem myndir gjörði handa stærsta myndablaðinu, hafði lesið það í dagblöðunum, að Lincoln héldi öllum þeim sí og æ skellihlæjandi, sem honum væru samferða; hann gjörði því þá mynd af Lincoln, að hann lét hann vera drykkjurút með brennivínsstaup í hendi; í kringum hann var hópur af druknum slæpingjum og hélt hann þeim öllum skellihlæjandi. En hjá þessum hóp lét hann standa líkvagn, er átti að flytja líkið af sambandinu. Þessi mynd var nú heldur fjarri réttu lagi, því að Lincoln var alla æfi svarinn óvinur drykkjuskapar.

Þeir í New York tóku á móti Lincoln með kaldri lítilsvirðingu. Borgarstjórinn sendi eitthvað 10 eða 12 manns af hundraði til að taka á móti honum í Wall-Street. Í Broodway var múgurinn þögull, ef ekki önugur, þegar hann fór þar um. Á söngleikjahúsum gjörðu þeir gys að honum.

En alþýða manna svaraði þó hvarvetna vel hinum skýlausu orðum, sem ávalt hljómuðu af vör-

um hans í hverju ávarpi. Alstaðar flutti hann mál sambandsins, sem aðrir höfðu í hótunum við. — Hann bar það mál eigi fram, eins og það væri einhver stjórnmálakredda, heldur eins og fegurstu von á jörðu hér öllu mannkyni til handa. Alt af var friður í huga hans; en þó hitnaði honum dálítið á þjóðfundi í New Jersey og sagði þá með allmiklum krafti:

»Oss er nauðsyn á að vita fótum vorum forráð«.

Hvergi bar hann þetta þjóðræknismál fram þar sem betur stóð á en í »Sjálfstæðishöllinni« (The Independence Hall) í Fíladelfíu á fæðingardegi Washingtons. Þá mælti hann:

»Eg hefi aldrei haft neina stjórnmálaskoðun, er eigi hafi átt rót sína að rekja til skoðana þeirra, sem yfirlýsing sjálfsforræðisins (The Daclaration of Indepence) felur í sér«. Þessari yfirlýsingu Washingtons hélt Lincoln fram svo sem þeirri hugsjón, að allir menn væru jafnbornir til réttinda, frelsis og frama og ekki að eins í Bandaríkjunum, heldur um heim allan. »Verði sambandi ríkjanna ekki haldið uppi, nema þeirri meginhugsjón sé slept, þá liggur mér við að segja, að heldur vildi eg hníga dauður niður, þar sem eg stend, en að sleppa henni«.

Að þessu sinni flutti hann ekki undirbúna ræðu. Hann kvað sér hafa skilist, að hann hefði að eins komið þangað til að hefja merkið hærra. Mannfjöldinn í höllinni æpti fagnaðaróp og varð honum það upphvatning, svo að hann mælti þessi orð af allri sál og hjarta. Hann lét í ljós, að hann ygði, að hann hefði sagt eitthvað, sem væri óhyggi-

legt, sakir geðshræringa sinna, en síðan sagði hann þó: »Eg hefi ekki sagt neitt, sem eg er ekki fús á að standa við í lifi mínu og deyja fyrir, ef almáttugum Guði svo þóknast«.

Eitt var ógeðslegt, sem forseta bar að höndum í þessari ferð. Leið hans lá yfir Maryland, sem var eitt af þrælaríkjunum. Þá fóru sífelt að berast fregnir af því, að illræmdur óaldarflokkur væri þar fyrir, og alt var svo í garðinn búið í Baltimore, höfuðborg þessa ríkis, að uppreistarmönnum yrði sem hægast að gjöra aðsúg að forseta. Allar borgir aðrar höfðu tekið sæmilega móti forseta, en í þessari einu borg voru engir sendir til að taka á móti honum.

Allan Pinkerton, nafnkunnur leynilögreglumaður, kom þá á fund forseta og flutti honum fregn af samsærinu í Baltimore og Seward sendi boðbera frá Washington með svipaðar fregnir þaðan. Þá voru þeir spurðir ráða, sem næstir stóðu forseta af flokki hans. Að ráðum þeirra réð hann þá af að fara með leynd burt úr Harrisborg, þar sem hann þá var staddur og snúa aftur til Fíladelfíu með sérstakri lest, svo að engum kæmi neinar njósnir af, og þaðan aftur í aðra reglubundna næturlest frá New York til Washington.

Lincoln fann nú sárt til þess með sér, hve það væri mikil læging fyrir sig í augum andstæðinga sinna, að hinn nýkosni þjóðhöfðingi yrði að koma til höfuðborgarinnar »eins og þjófur á nóttu«. — Honum óx í augum það athlægi sem slíkt mundi baka sér, ekki að eins hjá skilnaðarmönnum, heldur líka hjá andstæðingum sínum í Norðurríkjunum.

En réð þó heldur af að forðast þann hégómaskap að sýna hugprýði sína en að leggja líf sitt í hættu og baka þjóðinni þá ógæfu, sem af morði hans kynni að leiða.

Samkvæmt gjörðum ráðum var Lincoln kallaður burt úr matsalnum á gistihúsinu í Harrisborg kl. 6 um kvöldið. Fæstum þeirra, sem með honum höfðu komið frá Springfield, var gjört uppskátt um, hvað í ráði væri. Hann gekk til herbergis þess, sem honum var ætlað. Þar hafði hann fataskifti og skildi þar veslings konuna sína eftir, og lá hún þar grátandi alla nóttina. Hún beiddist að fá að fara með honum, en það var álitið betra, að hún yrði þarna eftir.

Þegar hann kom aftur albúinn út úr herberginu með mjúkan hatt í vasanum, þá steig hann inn í vagn ríkisstjórans í Pennsylvaníu, sem beið þar úti fyrir. Ökumanni var skipað hástöfum að fara með hann heim til ríkisstjórans; en er vagninn var kominn á burt frá gistihúsinu, svo að enginn sá til ferða hans lengur, þá var þeirri skipun breytt; skyldi hann þá aka til járnbrautarstöðvar, þar sem lest var fyrir viðbúin. Maður einn, sem til þess var kjörinn, kleif með leynd upp í símastaur utan borgar og tók ofan símaþræðina, sem lágu til Baltimore, til þess að engin leið væri til nokkurs fréttaburðar í þá attina.

Í Fíladelfíu gekk Lincoln inn í algengan svefnvagn og gekk svo til klefa síns, að enginn bar kensli á hann. Engir voru með honum, nema Pinkerton og annar maður til; var sá tröll að vexti og hinn mesti fullhugi, einn úr faranddóm-

inum gamla, Ward H. Lamon að nafni; var hann búinn ægilegustu vopnum. Lestin rann nú gegnum Baltimore í næturmyrkrinu; allir sváfu og engan grunaði neitt, og er dagur rann, brunaði lestin inn á stöðina í Washington. Þá stóð þar þingmaður einn frá Illinois bak við stólpa og virti grant fyrir sér farþegana, sem komu út úr vagninum. Þeir Lincoln og Lamon komu síðastir út; gengu þeir nú ásamt þingmanninum út á götuna og leigðu sér þar vagn, eins og hverjir aðrir aðkomumenn. Förunautar Lincolns höfðu þá fyrir stundu útvegað í skyndi sæmilegan bústað handa hinum óvænta gesti í gistihúsi einu í Washington.

Þá er borgarbúar vöknuðu, þá barst sú fregn skjótt út um Washington, að hinn kosni forseti væri þar kominn, og síðan var henni fleygt landshornanna milli. Með þessum atburðum komst þá Abraham Lincoln, 16. forseti Bandaríkjanna, inn í höfuðborg þjóðveldisins (23. febr. 1861).

## XX.

## *Innsetning Lincolns forseta.*

Washington-búar tóku ekki á móti Lincoln í neinu fagnaðarskapi. Washington, höfuðborg sambandsins, var í raun og veru í »landi óvinanna«. Í borginni var fyrir suðrænt þrælahalds-samfélag, sem vonaði og trúði, að Sunnanmenn mundu bráðlega gjöra Norðurríkjamenn ræka, því að þeir áttu hér, eins og hvarvetna í stórborgunum, opinbera sendiboða.

Borgararnir voru ókunnir hinum nýja stjórnmálaflokki, þjóðvaldsmönnum eða *samveldismönnum*, sem þeir líka hafa verið kallaðir, sem nú áttu að taka við völdum, því að þeir voru flestir lýðræðismenn eða *sérveldismenn*. Flokkur þeirra hafði þá haft alla stjórn á hendi um 60 ára skeið samfleytt, að heita mátti; þótti þeim enginn annar flokkur fær um að stjórna landinu. Þeir ygldust því við hinum aðsæknu þjóðvaldsmönnum, sem nú voru sem óðast að sækja um embætti. Þeir höfðu flestir á sér sama snið og voru klæddir eins og hinir nýju Vesturríkjamenn, alstaðar var fult af þeim á strætum úti, í stjórnarhöllinni (Capitol) og í forsölum aðalgistihússins.

Loftið sem hinn kosni forseti andaði að sér, var meini blandið mjög, fult af orðagjálfri og undirferli. Flokkarnir voru að ýtast á alt í kringum hann um myndun ráðaneytisins.

Það var alment álitið, að einhver af hinum atkvæðamestu flokksforingjum þjóðvaldsmanna, eða þá að minsta kosti einhverjir reyndir stjórnmálagarpar, mundu hafa eftirlit með þessum nýja og óreynda forseta. Fæstum kom víst til hugar, að úr þessu mundi verða Lincolns-stjórn. Einn daginn leit svo út, sem Seward hefði nýja forsetann á sínu bandi; en næsta daginn virtist mönnum sem Chase eða einhver annar hefði náð tökunum á þessum góðlátlega og atkvæðalitla manni. Hann gjörði eigi annað en segja gestum sínum sögur, og allir fóru þeir svo af fundi hans, að enginn gat haft upp úr honum ákveðna skoðun á nokkru máli.

En þegar vinur Lincolns einn frá Illinois óð inn

til hans og sagði honum þær fréttir, að Seward væri búinn að »rífa spjaldið, þar sem á voru rituð nöfn ráðherranna í nýja ráðuneytinu«, sem forseti hafði valið, þá svaraði Lincoln með fullri festu: »Ef það rifnar í annað sinn, þá rifnar það að ofan«. Og þetta reyndist sannmæli. Nafn Sewards stóð efst á spjaldinu. En er Seward ætlaði sér að taka ráðin af Lincoln og nefna aðra menn til sætis í ráðuneytinu, þá brást honum sú bogalistin. Og að eins tveim dögum fyrir innsetninguna, þá sendi Seward forseta bréf og skoraðist undan að taka við forsætisráðherra-embættinu.

Lincoln svaraði engu, þangað til að því var komið, að hann gengi til stjórnarhallarinnar til að vinna forseta-eiðinn. Þá mælti hann við einkaskrifara sinn: »Eg get ekki látið það eftir Seward, að hann ráði því, hver efstur verður«. Síðan ritaði hann Seward bréf og skoraði á hann að taka við embættinu og setti honum tveggja daga frest til að athuga undanfærslu sína. Og þau urðu leikslok, að ráðuneytið varð skipað, eins og Lincoln hafði hugsað sér það heima í Springfield sömu nóttina, sem hann var kosinn.

Á innsetningardeginum rann forsetavagninn að Williards-gistihúsi. Út úr vagninum haltraði Buchanan forseti og gekk inn í húsið. Að fám mínútum liðnum kom hann út aftur og hafði þá hinn nýkosna forseta með sér, því að hann var þar fyrir. Lincoln var þá í nýjum, svörtum fatnaði og hafði háan, gljáandi silkihatt á höfði og staf í hendi með gullhúni. Scott hershöfðingi hafði látið loka öllum drykkjusölum í borginni og skipað

vandlega niður hinu fámenna liði sínu, til að koma í veg fyrir hverja morðtilraun og hindra allan óskunda af hálfu þúsunda óvinveittra manna, þeirra er litu óhýrum augum á þessi stjórnarskifti.

Forsetavagninn rann nú áfram eftir hinni breiðu aðalgötu, sem kend var við Pensylvaníu, milli tvöfaldra hermanna-raða, og hermenn fóru bæði fyrir og eftir vagninum. Vopnuðum mönnum var skipað niður hér eða þar á húsþökum uppi og skipuðu þeir fyrir um umferðina á götunni og höfðu glöggar gætur á, hvort nokkru fjandsamlegu brygði fyrir. Og við hvert stræti, sem lá út frá aðalgötunni, stóðu hermenn á verði.

Þetta var 4. marz 1861.

Báðar málstofur samveldisþingsins létu fögnuð sinn í ljós, er það barst, að förin hefði gengið klakklaust fyrir forseta og hann væri nú kominn til stjórnarhallarinnar.

*Stjórnarhöllin* er miðstöð Washington-borgar. Út frá henni liggja stræti (21—23 metra breið), og aðalgötur (avenue, 36—49 metra breiðar), líkt og geislar í allar áttir. Aðalgöturnar eru nefndar eftir ríkjunum (Pensylvaníu-gata o. s. frv.).

Höllin stendur á dálítilli hæð og gnæfir því yfir alla borgina. Hún er skrautlegust af öllum stórhýsum borgarinnar og stendur á rústum hallar þeirrar, sem Englendingar brendu 1814. Yfir henni miðri gnæfir hjálmhvolf eitt mikið, og var það eigi fullgjört fyr en ári síðar en þetta gjörðist (1862). Efst uppi gnæfir líkneski Frelsisgyðjunnar, og er hvirfill hennar 93,5 metrar frá grunni hallarinnar. Í miðsölunum eru geymd málverk og

listaverk af frægum Bandaríkjamönnum. Til beggja hliða við sali þessa voru þingsalirnir, efri og neðri málstofan, og þar situr hæstiréttur Bandaríkjanna og þar er geymdur mikill hluti af bókasafni samveldisþingsins. Bústaður forseta lá eitthvað 2 kílómetrum norðar og vestar en stjórnarhöllin, *Framkvæmdarhöllin* eða *Hvíta húsið*, eins og það er venjulega kallað. Frá þessu húsi liggur svo leiðin eftir Pensylvaníu-aðalgötunni, fjölförnustu götu borgarinnar, upp í stjórnarhöllina, eins og að framan er getið.

Skömmu eftir hádegi gengu þeir forsetarnir fram undir stjórnarhöllinni að austanverðu. Þar biðu þeirra þúsundir manna á hinum víða borgarvelli. Uppi yfir höfði þeirra héngu ljótir pallar kringum hjálmhvolfið, sem þá var ófullgjört; en á hlaðinu niðri stóð hið mikla Frelsisgyðju-líkneski, sem beið þess, að hvolfið væri fullgjört, og það væri hafið upp þangað og látið krýna hina miklu og afarskrautlegu höll. — Hersveit stóð fyrir neðan þrepin og úr gluggunum rendu vopnaðir menn augunum yfir sjónarsviðið, en á bak við allan manngrúann var stórskotalið sett með gínandi fallbyssum.

Nú steig Lincoln á þann stað, þar sem hann átti að fullu að taka við hinu ábyrgðarmikla embætti sínu, fyrir land sitt og alt mannkynið. Umhverfis hann stóðu margir merkir og sögulegir menn í hvirfingu.

Skamt frá honum stóð fráfarandi forseti James Buchanan; hafði hann þá starfað 40 ár í þarfir þjóðarinnar. Þarna stóð Roger B. Taney, hinn

lærði og virðulegi hæstaréttardómari, sem úrskurðinn gaf í Dred Scott málinu, þann er Lincoln áfrýjaði til þjóðarinnar með svo góðum árangri, eins og fyr er sagt. Þar stóð Stephen A. Douglas, er nú var vottur að úrslitasigri síns æfilanga keppinautar. Þar stóð John C. Breckenridge, einn þeirra, sem ósigurinn beið við kosninguna; hafði hann þá fyrir fám mínútum lagt frá sér valdhamar varaforsetans og átti fyrir sér skömmu síðar að bera vopn gegn sambandinu. Þar stóð W. H. Seward, sem huggaði sig við það, að þótt forsetadæmið gengi honum svo óvænt úr greipum, þá gæti hann haft nýja forsetann á sínu valdi, — forsetann, sem kjörþingið í Chicago hafði tekið fram yfir hann með svo undarlegum hætti.

Og enn stóð þar einn merkilegur, aðsópsmikill maður. Hann baðaði fyrst út höndunum og leiddi síðan Abraham Lincoln fram fyrir fólkið, sem forseta Bandaríkjanna, einkar hróðugur á svipinn. Þessi maður var E. D. Baker, sem nú var þingmaður í efri málstofunni (öldungur) fyrir Oregonríkið, og er hans fyr getið.

Þegar Lincoln gekk fram til að flytja ávarp sitt, þá var því tekið með lágværu fagnaðarópi, sakir andúðar hjá öllum þorra fólksins. Þegar Lincoln tók ofan hinn nýja, blikandi silkihatt, þá skygndist hann um, hvar hann mundi geta lagt hann frá sér. Þá rétti Douglas fram höndina og tók við hattinum og hélt á honum meðan öll innsetningarathöfnin fór fram. Með þessu kurteisisviðviki, sem var svo blátt áfram, sýndi hann nú, foringi Norður-lýðræðismanna, að hann var viðbúinn að þjóna hinum nýja forseta

og styðja hann í þeim vanda, sem hann átti fyrir höndum.

Lincoln fór á mis við alla hrifningargleði manna við innsetninguna. Það var sami þunglyndisdrungínn yfir þessum hátíðlega degi, eins og áður hafði verið yfir bernsku hans og æsku, fullorðinsárum, ástum og kvonfangi. Allir aðrir forsetar á undan honum höfðu tekið við þessari heiðursstöðu af hendi sameinaðrar þjóðar; en honum barst hún í hendur frá sundraðri þjóð.

Allir fyrirrennarar hans höfðu getað glaðst í þeirri von, að þeir mættu njóta allrar hamingju og gæfu, hver fyrir sig, afhent eftirmanni sínum sambandsfánann að einni eða fleiri stjörnum viðbættum, því að stjörnurnar samsvöruðu ríkjatölunni, því að með hverju nýju ríki var nýrri stjörnu aukið í fánann. En um Lincoln var alt öðru máli að gegna. Hið þunga úrlausnarefni, sem fyrir honum lá, var þetta: Hversu mörgum stjörnum mun eg glata og hversu mörgum bjarga? Við þessa torráðnu gátu átti hann nú að fást í huga sér, þar sem hann stóð á þrepi stjórnarhallarinnar og »ritaði í himnunum« eins og hann komst að orði, »hátíðlegan eið að því, að hann skyldi vernda, varða og verja stjórnarskrána og bandalag ríkjanna«.

Þó að boðar sundrungarinnar skyllu nú á brjósti Lincolns, þá ræddi hann málið við Suðurríkjamenn í anda hógværðar og hreinskilni. Hann benti þeim á, að þó að svo færi, að þeir segðu sig úr bandalaginu, þá yrðu þeir og Norðurríkjamenn að búa saman, hvorir við hliðina á öðrum og augliti til auglitis. Þeir gætu ekki skilið að ytra hætti;

engan múr væri hægt að hlaða milli þeirra; þeim gæti vegnað betur, ef þeir væru samborgarar, allir í einu bandalagi, undir sömu stjórnarskrá og lögum, heldur en með því að búa sundurgreindir undir samningum.

Þetta voru sannlega hófsamleg og viturleg rök. Hann sárbændi þá, sem óánægðir væru, að vera eigi of bráðir á sér til framkvæmda. Nýja stjórnin mundi engar árásir veita þeim að fyrra bragði. »Það er í yðar höndum, óánægðu samlandar«, sagði hann við þá, »hvort til borgarastyrjaldar dregur eða eigi; það mikilvæga mál er ekki í mínum höndum«.

En þeir vildu eigi góð ráð þiggja, heldur »slitu lögin og slitu svo friðinn«.

Lincoln hét því í boðskap sínum, að fara í öllu að landslögum, þröngva þrælaríkjunum í engu gegn lögum, en ekki láta þá ganga á hin frjálsu ríki, og varða eignarrétt beggja; kvaðst hann mundi halda uppi landsfriði, meðan þess væri nokkur kostur, viðurkenna þrælahald í þeim ríkjum, þar sem það stæði samkvæmt lögum; hann sagði Suðurríkjamönnum berlega, að aðferð þeirra væri gegn landslögum og þjóðarkosningu; ekki kvaðst hann þó mundu segja Suðurríkjunum stríð á hendur, en halda samt uppi sambandi ríkjanna og krefja tolla af Suðurríkjunum sem áður, gæta þess, að alsherjarþjóðeignir þar væru ekki teknar hershöndum og halda setuliði í þjóðvirkjum, sem þar væru.

Í ávarpsræðu sinni flutti hann háfleyga og snildarlega vörn friðar og bandalags með þessum orðum:

»Eg er trauður að ljúka máli mínu. Vér erum ekki óvinir, heldur vinir. Vér megum ekki óvinir vera. Þótt gremja kunni að hafa lagst fastan á oss, þá má hún ekki slíta ástarböndin. Hinir duldu minningastrengir, sem liggja frá hverri vígstöð og frá leiði hvers föðurlandsvinar og að hverri arinhellu út um allar bygðir þessa víða lands, munu enn efla kórsöng bandalagsins, þegar þeir eru snertir að nýju af góðu englunum í eðli voru. Og vissulega mun það verða«.

---



## XXI. KAPÍTULI.

### *Kvaddur að stýrinu í stórviðri.*

LINCOLN var þungt niðri fyrir, þegar hann steig fæti sínum inn í Hvíta húsið. Loftið var þrungið af þoku og mökk og heiftarreiði. Aðrir forsetar höfðu stigið léttum fæti yfir þröskuld þessa húss, eins og upp á sólarfjall metorðagirndar sinnar. Ekki hafði hann sótst eftir að komast þangað; forsetadæmið barst eins og upp í hendur honum, en samt ekki eins og herfang, sem hann gæti notið í friði, heldur eins og kross til að bera. Það er sannmæli, sem Emerson kveður:

»Hann var kvaddur að stýrinu í stórviðri«.

Hraustustu menn hefðu mátt kikna undir þeirri byrði, sem á hann var lögð.

Eins og fyr er getið, voru tíu ríki búin að segja sig úr bandalögunum, eða minsta kosti 7 að fullu og öllu (Syðri-Karólína, Georgía, Alabama, Louisiana, Missisippi, Florida og Texas) og búin að setja

nýja stjórn á laggirnar í Montgomery og kjósa sér Jefferson Davis að forseta. Og þegar boðskapur beggja forsetanna er borinn saman, þá var auðséð, að varla varð sættum komið á og styrjöld stóð fyrir dyrum.

Allir þingmenn skilnaðarríkjanna í báðum deildum sambandsþingsins tóku sig nú upp og fóru heim til sín. Sambandsdómstólana lögðu þeir niður sín meginn, og á öllum opinberum byggingum innan landamæra þeirra var fáni alríkisins (stars and stripes) dreginn niður, en annar fáni, uppreistarfáninn (stars and bars) dreginn upp í staðinn. Hermenn Suðurríkjanna voru daglega að segja af sér störfum fyrir alríkið. Eða hafði þeim ekki verið kent í hermannaskólanum í West Point, að skilnaður væri réttmætur? Norðurríkjamenn kölluðu Suðurríkjamenn uppreistarmenn gegn bandalögunum; en hinir kváðust geta sannað af stjórnarskránni, að hvert ríki hefði fulla lagaheimild til segja sig úr lögum við hin, hve nær sem það vildi taka upp þing og stjórn sér. Og meðan á þessu gekk, höltruðu 7 ríki önnur milli sambands og sambandsslita.

Og því fór fjarri, að skoðun almennings í Norðurríkjunum væri óskift í þessu máli. Enginn vissi, hver ráð skyldi upp taka til að knýja skilnaðarríkin til að vera áfram í bandalögum, eða til að halda þingmönnum þeirra kyrrum í sætum sínum á samveldisþinginu, eða til að birgja dómstóla sambandsins að dómendum. Í stuttu máli: Hvernig landstjórnin ætti að framkvæma skyldur sínar, stórar og smáar. Styrjöld hræddust Norðurríkja-

menn, eins og heitan eldinn, og vildu trauðir stíga nokkurt það spor, er leitt gæti til vopnaviðskifta.

Í öllu þessu þreifandi ráðleysis-myrkri ráðgaðist Lincoln við engan, nema Guð og sjálfan sig.

»Aldrei vissi eg til að hann leitaði ráða til nokkurs manns«, sagði einn af lagsbræðrum hans úr faranddóminum gamla. Og nú, er á honum hvíldi hinn alvarlegasti ábyrgðarhluti, sem nokkurn tíma hefir fallið á herðar nokkrum forseta, þá treysti hann eingöngu á sjálfs síns skilning á rétti og skyldu. Innri maður hans fór nú, eins og í allri annari raun, sinna ferða. En ytri maðurinn vatt sér gegnum hin venjulegu dagstörf góðlátlega, rétt eins og hann væri laus við alla aðra önn og áhyggju. —

Þingmaður einn í efri málstofunni, Sherman að nafni, kom með bróður sinn William T. á fund Lincolns. William var þá nýbúinn að segja af sér kenslustarfi í hernaðarvísindum við lærða skólann í Louisiana og var fullur upp af fréttum af undirbúningi ófriðar, sem Suðurríkjamenn hefðu með höndum. Þá sagði Lincoln: »Og jæja! Jeg gjöri ráð fyrir, að vér munum geta búið búi voru og komist af án yðar, þér herfélagar!« William varð steinhissa á þessu léttúðuga svari. Svona var það alt af. Enginn, sem kom á fund forseta, vissi, hvort hann gjörði sér tálvonir um frið, eða hann bjóst við ófriði.

Lincoln hlustaði með stakri þolinmæði á hina auðvirðilegu metorðagirnd, sem lýsti sér í orðum þeirra, sem um embætti sóttu. Þingmenn leituðu mjög ásjár hans, en hann vatt þeim á bug með

óhefladri fyndni, og hagaði orðunum við hvern og einn eftir því, hvernig sakir stóðu. Aldrei hafði slík ágirnd til fjár og metorða geysað þar í landi, eins og um þessar mundir, er þjóðin lá eins og í fjörbrotum. Því sagði Lincoln: »Mér er líkt farið og manni, sem er í óðakappi að leigja út herbergi í öðrum enda húss, en hinn endinn stendur í björtu báli«.

Opinberu embættin voru nú í fyrsta skifti keppikefli þjóðvaldsmanna, og nú sóttu þeir í tryllingi um brauðin og fiskana. »Borgarvellir, hallir og stigagangur og allir krókar og kimar í Hvíta húsinu voru fnllir af embættasnötum«, skrifaði Seward konu sinni. Þegar ein halarófan fór út, fór önnur inn. Venjulega voru þeir á gangi í kringum húsið, og var stórbokkasvipur á þeim; ógnuðu þeir dyravörðum, ef þeir vildu stemma stigu fyrir þeim.

Hve nær sem dyrnar að stofu Lincoln voru opnaðar, ruddust þeir inn, bara til að sjá honum bregða fyrir. Þegar svona var fult, þá gat forseti ekki komist út úr skrifstofu sinni að matborði sínu eða inn í svefnherbergi sitt, nema með því að olnboga sig gegn um þennan hávaðasama og aðsækna múg. Ef hann þurfti að fá sér að drekka, þá hrópuðu þeir til hans og notuðu sér tækifærin til að stinga umsóknarmiðum í hönd honum, eða þeir hvísluðu óskum sínum í eyru honum, ef hann gaf þeim hljóð og hallaði höfði að þeim eftirlátlega.

Og þegar hann ók út með konu sinni, til að fá sér ferskt loft, þá hlupu þeir að vagninum og fleygðu skjölum sínum í skaut honum. Og jafnvel þegar hann var á gangi úti á götunni, þá kom

einhver embættasnatinn og vildi fá hann til viðtals. »Nei, nei«, hrópaði Lincoln þá og bandaði hendinni á móti honum, »eg opna ekki búð hérna!« Hann kvartaði við vin sinn yfir embættasóttinni, sem legðist svo þungt á mannkynið, en samt játaði hann með sinni rótgrónu fyndni og hreinskilni, að hann væri ekki alveg laus við þann kvilla sjálfur.

Lincoln var ávalt hagsýnn maður. Hann kunni tökin á mönnum; hann vissi, að það mundi verða sér til styrktar og nýju stjórninni, að hann fullnægði þessari embættafíkn svo vel sem honum væri unt. Hann bar þetta eins og hverja aðra nauðsynja-skyldu með glöðu geði; mjög var reynt á geðgæði hans með þessu, en það bilaði sjaldan.

Einu sinni leiddi Seward hinn nýkosna sendiherra Bandaríkjanna á Englandi, Charles Francis Adams, fyrir forseta. Adams var á förum til Englands til að taka við embætti sínu og setjast að í Lundúnum. Nú langaði hann til að vita, hverjar fyrirskipanir hann fengi. Og er hann sat nú þarna inni í Hvítahúsinu, þá kom honum í hug hágöfugur faðir hans John Quincey Adams forseti (1825—29). Þarna átti hann nú einu sinni húsum að ráða, og er hann var að virða fyrir sér hina stórgöfuglegu mynd föður síns, þá gekk Lincoln inn. Og glögt er gests augað. Þessi niðji tveggja forseta tók fljótt eftir honum og hann lýsti honum svona: »Hann var hár vexti og stórskorinn í andliti, og lubbalega búinn og ruddalegur yfirlitum; hann hengslaðist inn í stofuna í snjáðum, úlpulegum

buxum, grófgjörðum sokkum og á stórum morgunskóm«.

Það gekk alveg fram af sendiherranum í fyrsta bragði; en þegar hann var búinn að ná sér aftur, þá þakkaði hann forseta kurteislega fyrir þann heiður, sem hann hefði sýnt sér með því, að veita sér svona vandasama stöðu. Lincoln tók því næsta fálega, fleygði sér svo í legubekkinn sinn, teygði úr sínum löngu leggjum og stakk höndum undir hnakka sér og sinti Adams ekki meira, heldur sagði við Seward: »Jæja, ríkisstjóri, í morgun úrskurðaði eg þessa skipun póstmeistara í Chicago«.

Adams var ekki meiri í augum Lincolns en hver annar Adams sonur. Sjálfur hafði hann alist upp í tildurlausu lýðveldi og bar því hvorki ótta né lotningu fyrir nokkrum manni, hversu hátt sem hann var settur og hversu löng sem ættfeðraskrá hans var. Það var ekki Lincoln líkt að líta upp til eins og niður á annan. Hann taldi alla heiðraða og vanheiðraða, ríka og fátæka jafningja sína.

Lincoln vildi eigi fara yfir Atlantshafið, fyr en hann kæmi að því! Hann gaf því sendiherra sínum engar skipanir um það, hvað hann skyldi gjöra, eins og slunginn stjórnmálamaður mundi gjört hafa. Ekki ræddi hann heldur hið minsta um framtíðarsamband það, er verða kynni milli Bretlands hins mikla og Bandaríkjanna. Adams gekk því svo búinn út frá honum í síðasta sinn og bar með sér í öllu starfi sínu í Lundúnum og og jafn vel alla leið til grafar þessa endurminningu um illa búinn og fávísan þjóðhöfðingja, sál-

arlausan þeim til handa, sem embætti þágu af honum.

Þegar ráðherrar Lincolns, og aðrir leiðtogar þjóðarinnar, komu og fóru og gáfu gætur að og lögðu sitt lag á þennan nýja forseta sinn, svona óbrotin sem hann var í háttum, lausan við allan embættisbrag á sér, þá komast þeir í bobba, og sumum félst algjörlega hugur. Þeir sáu nú þarna fyrir sér foringja þess bandaríkis, sem var að liðast sundur; en nú var líf þjóðarinnar í höndum hans og Norðurálfan horfði á hann forvitnisaugum. En — hann var að hlæja og gjöra að gamni sínu, meðan hann var að smámiðla póstembættum og öðru slíku og sýndist ekki um annað hugsa en þessa smámuni.

Í hópi ráðherra sinna og annara embættismanna átti Lincoln engan af sínum gömlu vinum, ekki einn af þeim, sem hann hafði þekt fyrir ári síðan, hvað þá eldri kunningja sína, því til að efla flokk sinn, var hann búinn að setja í embætti keppinauta sína á Chicago-kjörþinginu, og átti loks ekkert sæti autt eftir, handa einhverjum persónulegum vini sínum. Nú sannfærðust þessir ókunnu sessunautar hans við ráðaneytisborðið æ betur og betur um, að einhver annar en hann yrði að bjarga sambandinu.

Seward, ráðaneytisforsetinn og utanríkisráðherrann, hinn mikli foringi síns flokks, dirfðist við þetta til að taka að sér hlutverkið, sem honum fanst forseti láta sér í léttu rúmi liggja.

Að mánuði liðnum (1. apríl 1861) bar hann því undir úrskurð forseta skriflega tillögu. Var sú tillaga svo gjörð, að enginn annar forseti mundi hafa

verið nógu auðmjúkur og hógvær til að taka við henni. Í þessu rækilega skjali benti forsætisráðherrann Lincoln á það með hægð, að stjórn landsins hefði rekið stefnulaust á reiðanum alt til þessa; hefði henni verið svo lítið skeytt, að nærri stappað fullu hneyksli og háska. Hann fór því fram á hvorki meira né minna en það, að forseti skyldi fela sér alla stjórn á hendur, leyfði sér að kveðja heim setuliðið úr Sumter-víginn, taka upp öfluga stjórnarstefnu gagnvart erlendum þjóðum, krefjast þess af Bretum og Rússum, að þeir gjörðu grein fyrir, hvað þeir ætluðu fyrir sér, og að senda umboðsmenn til Kanada, Mexíkó og Mið-Ameríku til að eggja þau ríki til uppreistar gegn Norðurálfunni og loks að segja Spánverjum og Frökkum stríð á hendur, ef stjórnir þeirra landa, vildu eigi skýra hiklaust frá, hví þær hefðu brotið bág við Monroe-ákvæðið. Með þessu móti vænti forsætisráðherrann, að þrælamálið mundi detta úr söggunni, þjóðernistilfinning skilnaðarmanna vakna og mundu þá verða sambandsmönnum samtaka um að berjast gegn erlendum fjandmönnum.

Þessari dæmalausu áskorunar-tillögu tók Lincoln með óviðjafnanlegu sálarþreki. Hann sá nú, að ráðuneytið hans var að liðast sundur, og ef hann viki þessum forsætisráðherra sínum frá, þá mundi stjórnin týna trausti almennings. Hann lét ekki á því bera, að þetta særði tilfinningar hans hið minsta né lét hina minstu geðshræringu í ljósi. Hann ýtti frá sér þessari tillögu Sewards styrkri og hóglátri hendi og ritaði honum um hæl og benti honnm með hægð og fám orðum á, að hann

hefði stöðugt fylgt þeirri stefnu, sem hann hefði sjálfur markað sér við innsetninguna. Síðast sagði hann með hóglátri, en fullri vissu um vald sitt: »Hvað helzt sem stjórnin á að gjöra, það hlýt eg að gjöra, og að því er þau mál snertir, sem fyrir hana koma, þá vil eg hafa, og hygg að eg hafi, heimild til að hafa við ráð *allra* ráðherra minna«.

Seward var þá búinn að sannprófa Lincoln og gjörði það auðvitað af algjörlega þjóðræknislegum ástæðum; en við þetta próf komst hann að því, að hann átti húsbónda yfir sér og þeim húsbónda þjónaði hann upp frá því af göfugmannlegum trúnaði, sem aldrei brást né breyttist.

»Framkvæmdardáð og sálarþrek eru sjaldgæfir kostir. Forsetinn okkar er beztur allra«, ritaði Seward konu sinni fám vikum síðar. Monroe-ákvæðið, sem Seward minnist á í tillögu sinni, kemur síðar við sögu þessa. Það er kent við J. Monroe forseta, sem fyrstur bar það fram (2. des. 1823). Ákvæði þetta laut að afstöðu Bandaríkjanna við önnur ríki í Ameríku og við ríkin í Norðurálfunni á komandi árum og öldum. Ákvæðinu var beint gegn hinu svonefnda »heilaga bandalagi« er þjóðhöfðingar hér í álfu hófu eftir það, að Napóleon I. var steypt af stóli (26. sept. 1815). Bandalag þetta vildi skerða rétt Bandaríkjanna og veita Spánverjum vígsgengi til að ná aftur nýlendum þeim í Ameríku, sem undan þeim höfðu gengið. Í ákvæði þessu er svo fyrirmælt, að Bandaríkin muni telja hverja tilraun, sem gjörð sé til að láta meginsetningar hins »heilaga bandalags« ná til þeirra, háskalega friði og frelsi þeirra, og sérhvað það, sem

gjört sé til að þröngva kosti hinna nýju og óháðu ríkja í Norður-Ameríku og Mið-Ameríku (t. d. Mexíkó), sem vott um óvildarhug til Bandaríkjanna. Og enn fremur er það tekið fram, að Norðurálfuþjóðir megi eigi framar stofna ríki á meginlandi Ameríku.

Þetta ákvæði hefir síðan verið undirstaða utanríkisstjórnar Bandaríkjanna. —

Um þær mundir sem Lincoln varð forseti, blakti fáni alríkisins yfir Sumtervíginu á Charlestownhöfninni í Syðri-Karólínu. En skilnaðarmenn höfðu fallbyssur á ströndinni og gátu skotið jafnt og þétt á vígið. Morguninn eftir fyrstu nóttina, sem Lincoln hafði verið í Hvíta húsinu (15. mars) lá skýrsla á skrifborði hans um það, að hið hrausta og trúa setulið í Sumtervíginu hefði eigi vistir nema til fárra daga.

Lincoln kvaddi þá Scott hershöfðingja á sinn fund og sagði honum, að hið fámenna varnarlið í víginu hlyti að gefast upp, ef engin hjálp kæmi. Scott hristi höfuðið dapur í bragði; kvað hann eigi mundi veita af 20,000 hermanna til að brjótast þangað gegn um borgina Charlestown til að flytja setuliðinu vistir, en óframkvæmanlegt væri að senda þær sjóleiðis. Hér var ægilegur neyðarkostur fyrir höndum. Forsetinn varð annaðhvort að láta fánann falla og láta heiminn horfa á, að skilnaðarríkin gengu úr sambandinu, eða kalla þjóðina til vopna og hefja borgarastyrjöld.

Væru Norðurríkjamenn óviðbúnir að halda víginu uppi, þá mundu Suðurríkin, sem enn loddu í bandalaginu, æsast gegn þeim í einu hljóði. Hins

vegar var það að óttast, að ef Suðurríkjunum væri nokkur árás veitt, þá mundu þau öll rísa upp til sameiginlegrar varnar.

Lincoln lagði nú þetta mál fyrir ráðuneyti sitt, alvarlegasta málið, sem nokkru sinni hefir lagt verið fyrir ráðuneyti Bandaríkjanna. Og þá fór svo, að því sem næst allir ráðherrarnir réðu til að gefa upp Sumter-vígið. Það var að eins einn þeirra, sem mælti með því, að tilraun væri gjörð til að flytja vistir þangað. Forseti sá nú fram á, að það væri »alskaðvænt« ef liðið væri kvatt heim úr víginu — það yrði »algjörð eyðing þjóðarinnar«.

Hann var nú samt því nær einn um að þreifa fyrir sér um stefnuna, sem taka skyldi í þessu vandamáli. Hann vissi enga leið út úr þessum ógöngum, og ekki var fyrir að sjá, að nokkur gæti sagt honum til vegar. Hann ræddi þetta mál kvíðablandinn við hershöfðingja sína á sjó og landi. En þeir voru allir jafn ráðþrota. Engin ákvörðun var fyrir hendi hjá þeim.

Að lokum réð Scott honum til að gefa upp annað vígi, Pickens-vígið á Florida-ströndinni. Þá varð forseti hugsjúkur. »Lincoln kom ekki dúr á auga alla þá nótt«, segja skrifarar hans Nicolay og Hay í hinni rækilegu Lincolnssögu sinni. Hann vakti yfir hinu sundraða bandalagi, þessum dýrmæta skjólstæðing sínum, á hættustundinni miklu, þegar sundrungarskugginn, sem yfir því grúfði, var sem dimmastur. En þar sannaðist, að jafnan er dimmast undir dögunina. Um morguninn var Lincoln staðráðinn í að bjarga sambandinu.

Þó að sumum af ráðherrunum ægði sú fórn,

sem þeir ættu nú með höndum að leggja fram, þá hristu þeir af sér uppgjafarskapið og styrktu nú hug og hendur forseta síns til að standa af sér uppgjöf vígjanna. Fyriræatlunum þeim, sem hann lét nú uppi um flutning vistanna til Sumter-vígisins var nú hrundið í framkvæmd með dáð og dug. Samtímis skipaði forseti Scott hershöfðingja að senda sem bráðast liðsauka til að verja Pickens-vígið.

»Herra«, svaraði Scott, sem í öllu fylgdi gömlu siðunum, »Friðrik hinn mikli Prússakonungur var vanur að segja: Þegar konungur skipar, þá er alt mögulegt. Þetta skal gjört verða«.

Þetta gjörðist 9. apríl.

## XXII. KAPÍTULI.

### *»Ófriðurinn hófst«.*

»Báðir flokkar beiddust undan ófriði. En annar flokkurinn vildi heldur hefja ófrið en láta þjóðina lifa, og hinn flokkurinn vildi heldur taka ófriði en láta þjóðina farast. Og ófriðurinn hófst.

A. Lincoln«.

Styrjaldar-sorgarleikurinn mikli milli Suðurríkjanna og Norðurríkjanna hófst 12. apríl 1861 á langafrjádegi. Skipin, sem Lincoln hafði sent með vistir handa setuliðinu í Sumter-víginu, voru að koma inn í hafnarmynnið hjá Charlestown. Þegar Beuregard hershöfðingi skilnaðarmanna sá til skipanna, þótti honum þau vera órækt merki árásar af hendi sambandsmanna. Hann lét þá hefja skot-

hríð á Sumter-vígið samfleytt í tvo daga. En er vígið tók að standa í björtu báli, þá gaf hinn hrausti herforingi sambandsmanna, Anderson, upp vörnina og gall þá við trylt fagnaðaróp á ströndinni, er sambandsfáninn var dreginn niður. En sakir frábærrar varnar gjörðu óvinir hershöfðingja honum þá sæmd, að þeir leyfðu honum að ganga út með menn sína, 128 alls, og fara út í annað hjálparskipið, sunnudaginn 14. apríl. Skipin voru þá enn kyr í hafnarmynninu og höfðu horft ráðþrota á hildarleikinn.

Þegar fregnin barst af hernaði þessum, og við herdunurnar, þá spruttu sambandsmenn loks á fætur með krepta hnefa. Þá sáu þeir loks, að lengur var eigi hægt að sneiða hjá vopnaviðskiftum. Nú sáu þeir, að undanbrögð þeirra höfðu eigi verið annað en bleyðiskapur.

Nú runnu allir flokkar saman í eitt; nú bálaði föðurlandsástin upp í brjóstum þeirra. Nú þögnuðu allar rökræður um þrælamálið; nú gleymdust allar stjórnmálakreddur og kenningar um það mál. Nú var slegið striki yfir alla hina svíðingslegu útreikninga kaupmanna og stórgróðamanna. Nú barðist öllum hjarta í brjósti, því að nú tóku þeir fyrst eftir því, hve samband ríkjanna var þeim dýrmætt, þegar það var komið á heljarþrömina. Lengi hafði lítt verið skeytt um fána alríkisins; en nú, er á hann var ráðist, þá var honum sveiflað út úr hverjum glugga hollum höndum. Þjóðin vaknaði, en vaknaði við vondan draum.

Leiðtogar þjóðarinnar í Washington komu nú saman í Hvíta húsinu óðir og uppvægir, en þó

skelkaðir og ráðþrota. Lincoln stilti þá með þolgæði sínu og stillingu; honum var ekki allur ketill í eld dottinn, þótt hann heyrði hersögu þessa. Í skapi hans kendi einskis ofsa, en raun þótti honum raupi vissari. »Hælumst minst í máli« var varnaðarorð hans til þeirra, sem þótti hægðarleikur að hefna þessara aðfara. Lincoln sneri sér beint að því, sem gjöra þurfti í þann svipinn, í fylsta trúnaði við sambandið. Hann kvaddi ráðuneytið saman. Nú var þar ekki hver höndin upp á móti annari, eins og hvarvetna hafði áður verið hjá sambandsmönnum, þegar alt logaði af flokkadráttum. Auðvitað kom ráðherrunum þó ekki að öllu saman um, hve ástandið væri ískyggilegt og alvarlegt. Seward spáði því t. d., að öll þessi ósköp mundu verða á enda kljáð að þrem mánuðum liðnum. Douglas gekk á fund Lincolns sama kvöldið og ráðuneytisfundurinn var haldinn, og átti tal við hann tvær stundir. Hann las auglýsinguna, sem Lincoln ætlaði að birta daginn eftir, þar sem hann kvaddi sambandsþingið saman til aukaþings (4. júlí '61) og 75,000 sjálfboðaliða til vopna. Douglas var auglýsingunni samþykkur að öðru en því, að hann vildi að forseti hefði kvatt 200,000 til vopna. Auglýsingin var birt á næsta morgni í stærsta blaði þjóðarinnar og það með, að Douglas hefði heitið þessu máli fullu fylgi sínu. Douglas sýndi það líka í verki; fór hann óðara til Illinois, og hélt margar ræður á leiðinni, logandi af ást til sambandsins og þjóðarinnar, bandalaginu til eflingar. Ríkisþingið í Illinois kom saman til að ráðgast við Douglas. Hann sagði þá meðal annars. »Enginn getur setið

hlutlaus hjá þessum ófriði; annaðhvort verða menn að vera föðurlandsvinir eða landráðamenn«. Þetta var kjarninn í öllum ræðum hans, og æðarnar þrútnuðu á hálsi hans og enni af báli því, sem honum bjó í skapi. Fyrir þessu máli barðist hann síðan óaflátanlega, þangað til hann varð sjúkur. Og er hann lá fyrir dauðanum á heimili sínu í Chicago, þá söfnuðust hinir fyrverandi fylgismenn hans að honum og svöruðu hinni síðustu bæn hans af heitu hjarta: að nú skyldu þeir taka saman höndum og verja þjóðina undir forystu Lincolns.

Sambandsmenu tóku kvaðningu forseta af kappi miklu. Á einum sólarhring var saman komin herdeild frá Massaschusetts fyrir dyrum Fanuil hallarinnar í New England, og að tveimur sólarhringum liðnum var önnur herdeild á leiðinni frá Old-Bay ríki, því hinu sama ríki, sem fremst stóð í frelsisstríðinu á dögum Washingtons. Þessar hersveitir urðu nú sem forvarðalið og hröðuðu sér höfuðborginni til varnar. Bumbusláttur sambandsmanna ómaði nú í hverju þorpi. Nú gengu hermenn á götum friðarins. Konur grétu, báðu og unnu iðnum höndum fyrir þá, sem nú fóru að heiman til að verja föðurlandið.

En þegar kom að takmarkalínunni, sem sett hafði verið milli þrælaríkja og frjálsra ríkja, þá skall þessi þjóðvakningaralda eins og á útlendri strönd. Ekki eitt einasta af þrælaríkjunum hlýddi kvaðningu forseta. Ríkisstjórinn í Delaware kvaðst ekkert lið senda, en hliðraði þó svo til, að þeir, sem vildu gjörast sjálfboðaliðar í ríku sínu mættu fyrir sér bjóða sambandsmönnum þjónustu sína.

Ríkið Maryland fyrirbauð hverjum sambandshermanni að stíga þar fæti inn fyrir landamærin. Ríkisstjórinn í Kentucky, þar sem Lincoln var fæddur, hafði þessi svör: »Kentucky leggur ekkert lið fram í þeim óguðlega tilgangi að kúga suðrænu systurríkin«. Rikisstjórinn i Missouri lýsti yfir við forseta: »Missouri leggur ekki til einn einasta mann í þessa vanheilögu krossferð«. —

Öll ríkin lengra suður gengu í lið með skilnaðarríkjunum. Nú hafði þeim vaxið svo fiskur um hrygg, að heimild var veitt til að marka 11 stjörnur á nýja, bláa uppreistarfánann (Stars and bars). Og Jefferson Davis lét borginmannlega og kvað sá fáni skyldi blakta yfir stjórnarhöllinni í Washington innan fárra vikna. Fullur helmingur sjóhersins og þriðjungur landshersins gekk nú til liðs við uppreistarmenn og þar á meðal ötulustu herforingjarnir, svo sem þeir Robert E. Lee, J. E. Johnston, J. A. Early, Pemberton, Bragg, Pickett og Beuregard, er flestir koma síðar við þessa sögu.

Þessir herforingjar voru kraftur og prýði hersins. Scott hershöfðingi hafði fyrirhugað Lee hershöfðingja til að vera fyrir her sambandsmanna. Lee átti heima í Arlington, skamt frá stjórnarhöllinni í Washington og þeim stað, þar sem hið hálfgjörða líkneski Washingtons forseta átti að standa. Lee var, eins og Washington, borinn og barnfæddur í Virginíu. Vafalaust unni hann sambandinu fölskvalaust; en kynokaði sér hins vegar við að beita vopnum gegn fæðingarríki sínu. Þessi tvö öfl börðust um yfirráðin í sálu hans. En Virginia varð hlutskarpari. Hann sagði sig úr sambandshernum

og bauð ríkisstjóranum í Richmond þjónustu sína (18. apríl '61).

En ekki fór öllum herforingjunum eins. Þeir Scott, Thomas og Farragut stóðust allar freistingar. Þeir sviku ekki bandalagið, þótt þeir væru Suðurríkjamenn að ætterni. Þegar ríkisstjórinn í Virginíu kvaddi Scott til fylgdar við sig, af því að hann væri þar fæddur, þá svaraði hinn gamli herforingi: »Eg hefi nú þjónað föðurlandinu undir sambandsfánanum í 50 ár og meira til, og svo lengi sem Guð lofar mér að lifa, mun eg verja þann fána sverði mínu, jafnvel þótt fæðingarríki mitt (Virginía) snúist móti honum«.

Sambandsmenn áttu eigi nema 16000 manna á að skipa af reglulegum her. En sérstakur vegsauki var það þeim í augum Lincolns, að enginn þeirra hafði »svikið lit« eða gengið í lið hinna »bláu« þ. e. skilnaðarmanna. En þetta fámenna lið var á víð og dreif og lítið vígsgengi að því í byrjun ófriðarins. Í sjálfri Washington var eigi nóg lið í lífvörð forsetans. Borgin var í »landi óvinanna«, ekki nema Pótomak-fljótið milli hennar og uppreistarríkisins Virginíu. Um þær mundir, sem skotið var á Sumtervígið, þá var alt herliðið, að 600 manna undanskildum, úti á landamærunum til varnar gegn Rauðskinnum.

Áður en stríðið hófst, var tvöfaldur varðmannahringur látinn sitja í trjálundunum umhverfis Hvíta húsið á nóttu hverri og lítil varðsveit í kjallaranum undir húsinu, svo þegar ófriðurinn skall á, þá var höfuðborgin hörmulega illa stödd að varnarliði. Öðru máli var að gegna í Charles-

town í Syðri-Karólínu. Þar höfðu uppreistarmenn dregið saman allmikinn her; þeim varð í fyrstu miklu hægra fyrir að safna her en sambandsmönnum. Þeir létu þræla sína vera eftir að búum sínum og yrkja jörðina, en tóku sjálfir til vopna. Og svo gengu allir helztu herforingjarnir í lið með þeim, eins og áður er sagt. Frá Charlestown mátti flytja allan sunnanherinn á járnbraut alla leið til Washington, og hann var nógu öflugur orðinn til að hertaka höfuðborgina. Þess vegna voru sjálfboðaliðar sendir sem bráðast úr Austurríkjunum höfuðborginni til varnar.

En kálið var ekki sopið, þótt í ausuna væri komið. Frá Washington lá ekki nema ein járnbraut frá Norðurríkjunum og var þá yfir Maryland að fara. Herdeildin frá Massachusetts varð að fara gegnum höfuðborgina þar, Baltimore, á hestvögnum. En þá réðist á hana æstur múgur, jafnt svartur sem hvítur; sló þar í blóðugan bardaga á borgarstrætunum og urðu margir hermenn sárir. Og er hersveitin komst loks að kveldi til Washington, þá hélt hún rakleitt að stjórnarhöllinni; en á eftir fór löng röð af mönnum, sem báru aðra særða á sjúkrabörum (18. apríl 1861).

Til þess að girða fyrir að fleiri lestir af »innrásarliði« færi í gegnum Baltimore, tóku borgarbúar það ráð að rífa af allar járnbrautarbrýr utan borgar; með því varð Washington afkróuð frá Norðurríkjunum að fullu og öllu. Sömuleiðis sendu þeir fulltrúa á fund Lincolns, sem áttu að krefjast þess, að herlið væri eigi framar flutt yfir Maryland. Þá svaraði Lincoln: »Herlið er mér nauð-

syn á að fá, og yfir Maryland hlýtur það að fara, því það liggur kringum borgina. Vorir menn eru ekki moldvörpur, sem geti grafið sér göng undir jarðveginum og ekki eru þeir heldur fuglar, sem geti svifið í loftinu; hér er því ekki annað fyrir hendi en að þeir fari yfir landið og það verða þeir að gjöra«.

Vika leið og Lincoln beið óþreyjufullur eftir hersveitum. »Hví koma þeir ekki?« heyrðu menn hann tauta fyrir munni sér, þá er hann var að ganga um gólf á skrifstofu sinni. »Eg fer að halda, að engin Norðurríki sé til«, sagði hann við einhverja úr Massaschusetts-hersveitinni. Póstarnir frá New York voru þrjá daga á leiðinni. Símasambandi var jafnvel slitið um stundarsakir. Fregnirnar, sem gengu manna milli, náðu engri átt. Vagnar fóru um strætin í Washington, hlaðnir farangri og húsgögnum fjölskyldna, sem voru á flótta. Lagt var að konu forseta að taka sig upp með börnin og flýja líka; en hún fylgdi ótrauð manni sínum og mælti: »Eg skal aldrei skilja hann eftir hér einn saman«.

Scott hershöfðingi hélt ekki kyrru fyrir. Hann fór úr einum stað í annan og sagði fyrir, hversu búast skyldi til varnar. Opinberar byggingar voru girtar hergarði. Úti fyrir hverjum dyrum á stjórnarhöllinni lét hann setja steinolíutunnur og sandpoka og tíu feta háa bólstra af járni. Nú fengu embættasnatarnir annað að gjöra en að slæpast þar í forsölunum. Nú voru þeim fengnar byssur, hnífar og kylfur; margir þeirra voru settir á vörð

í austursalnum í Hvítahúsinu og fengu að sofa þar á flosábreiðunum.

Næst kom að því, að hungursneyð vofði yfir borginni. Landið umhverfis var alt rænt og rúið öllum vistum. Stjórnin lét þá flytja afarmikið af hveiti til myllu nokkurrar og skyldi það vera forði til bráðabirgða. Nú fóru hermenn að koma til borgarinnar um Annapolis; en margur varð þröskuldurinn á vegi þeirra af hendi óvinanna. En brátt voru nærfelt 20,000 sjálfboðaliðar saman komnir í Washington; en alt var það ótamið lið og óvant hernaði með öllu.

Nýja stjórnin átti nú í ægilegri vök að verjast. Þjóðvaldsmenn voru óvanir að fara með völd og kunnu lítt til stjórnar þjóðmálefna. Foringjar þeirra höfðu um langan aldur alist upp í andstöðu við stjórnina. Lincoln hafði sjálfur aldrei haft svo mikið sem einn skrifara á skrifstofunni sinni í Springfield. Nú varð það hlutskifti hans að kveðja lið saman og búa það út að vopnum og verjum og hafa alla yfirstjórnina á hendi. Sambandsþingið var enn eigi komið saman. Ráðherrarnir nýju voru tómir viðvaningar, hver í sinni grein; skrifarar sögðu af sér hundruðum saman og skrifstofustjórarnir voru flestir gengnir til handa uppreistarmönnum. Seward vissi ekkert, hvað stjórnhyggindi voru, Chase fjármálaráðherra hafði aldrei fyr verið við fjármál riðinn. Welles flotaforingi var alls ófróður um flotamálefni og Cameron hermálaráðgjafi vissi engin deili á hermálum. Þeir urðu því allir að setjast niður við stafrófsnám í þessum greinum fyrir augum óvina sinna, sem höfðu þrautreynda

og vana menn í öllum greinum til stjórnar og forystu.

Scott, sem nú var yfirhershöfðingi sambandsmanna, hafði barist í ófriðnum við Englendinga 1812 og sömuleiðis í Mexíkó-ófriðnum; hann var ern enn og þrekmaður í anda, en nokkuð þó farinn að sljófgast andlega af elli og langvinnri þjónustu, þar sem hann var hálfáttræður að aldri. — Varaherstjórinn sveik lit og gjörðist varaherstjóri skilnaðarmanna og varð því einn af mörgum til að veikja her sambandsmanna með því að segja af sér starfi þar. Ungu herforingjana þekti enginn, þá er nú skyldi setja fyrir her sambandsmanna. Lincoln varð sjálfur að leita þá uppi. Ef hann fann einhvern í hernum, sem honum þótti öðrum fremri að hæfileikum, þá tók hann þann hinn sama, þótt hugdeigur væri og hægfara og blés honum í brjóst afli hugrekkis síns og starfsanda.

Ekki skorti nú kapp frjálsu ríkjanna um það að safna liði, og lá við, að sú liðsöfnun yrði stjórninni ofurefli við að eiga. Vopn varð hún að útvega og einkennisbúninga. Og fjár þarfnaðist hún framar öllu öðru. En nú hafði lánstraust þjóðarinnar aldrei verið minna en þá. Skattar voru áður svo litlir og ríkissjóðurinn því nærri tómur, er á slíku stórfé þurfti að halda sem nú. Margir gáfu þó stórfé. Auðmaðurinn Ashton í New York gaf 4 miljónir dala og var það tíundi hluti af auði hans. — En það var eins og dropi í sjóinn. — Chase, hinn óreyndi fjármálaráðherra, lét þá til sín taka. Ef bankastjórarnir voru hikandi og vildu eigi samþykkja skuldabréfin, sem hann gaf út, þá hótaði

hann því, að hann skyldi láta pappírsseðla flæða yfir landið, jafn vel þótt svo færi, að þúsund dala seðlar yrðu ekki fyrir einum morgunverði.

Lincoln tók mikilsverðan þátt í hinum smærri hermálum; þótt honum væru þau í fyrstu með öllu ókunn, þá sá hann, að hann gat ekki algjörlega falið þau öðrum á hendur. Öll skriffinska var honum þyrnir í augum. Ef hann krafðist skýrslu um eitthvað, þá var hún svo löng og flókin, að hann var engu nær. Hann líkti þeim skýrslum við rauðan bendil, er væri að flækjast um fætur sér við hvert spor. Þetta gjörði hann óþolinmóðan. Einu sinni er hann rendi auga yfir eina skýrsluna, þá sagði hann: »Ef eg sendi mann til að kaupa hest, þá er mér enginn hugur á, að hann segi mér, hve mörg hár sé í tagli hans; eg vil vita kosti hestsins og annað ekki«.

Lincoln fann sig til knúðan að blanda sér í mörg málefni persónulega, sem hann annars hefði heldur viljað fela vel vönum og hæfum undirmönnum sínum. Meðal annars reyndi hann sjálfur ýmsar tegundir af kúlubyssum, sem stjórnin hafði útvegað handa honum. Oft fór hann út á borgarvöllinn bak við Hvíta húsið og skaut þar til marks, sem hann nældi í tré, 80—100 faðma fram undan sér. Einu sinni líkaði honum ekki árangurinn; tegldi hann þá til spýtu og hafði fyrir fremra mið á byssunni, skaut síðan 14 sinnum og hæfði 12 sinnum.

Alt af fylgdi honum endurminningin um það, er hann varð höfuðsmaður í »Svarta-fálka«-stríðinu. Einu sinni rifjaðist það upp fyrir honum með

skemtilegum hætti. Anderson yfirforingi, sá er frægastur varð af vörn Sumter-vígisins, kom einu sinni til fundar við forseta. Lincoln þakkaði honum vörn hans og spurði: »Hr. yfirforingi! Minnist þér þess, að fundum okkar hafi nokkurn tíma borið saman áður?« »Nei, hr. forseti«, svaraði Anderson, og varð hálfhissa, því hann þóttist vera viss um, að hann hefði aldrei séð Lincoln fyr. »Þá er eg minnugri en þér«, sagði forseti, hýr í bragði. »Það voruð þér, sem skráðuð mig í her Bandaríkjanna í »Svarta-fálka«-stríðinu árið 1832 að Dixons Ferry«.

Nú bar ný vandkvæði að höndum. Bretar voru fljótir á sér að viðurkenna, að skilnaðarríkin hefðu haft fullan rétt til að hefja uppreisn og fá aðrar þjóðir í lið með sér. Auglýsing ensku stjórnarinnar um það mál birtist sama daginn, sem Charles Francis Adams, sendiherra Bandaríkjanna, kom til Lundúna. Þegar sú fregn barst til Washington, ritaði Seward óðara langt og stórort mótmælaskjal. Þar minti hann Breta á, meðal annars, hrakfarir þær, er þeir hefðu farið fyrir Bandaríkjamönnum tvisvar áður í ófriði. Nú væru þeir viðbúnir að reisa rönd gegn þeim í þriðja sinn og tvær eða þrjár Norðurálfuþjóðir til samtímis, ef til kæmi.

Þetta fáránlega skjal ætlaði Seward að senda Adams og fá hann til að lesa öll þessi storkunaryrði sín fyrir utanríkisráðherra Breta. Seward fór nú að vanda með skjalið til Lincolns og las það fyrir honum. Forseti sá óðara glappaskotin hjá ráðherra sínum og bað hann fá sér skjalið.

Þetta var nú fyrsta reynsla Lincolns í utanríkis-

málum. En nú sá hann svo um, að Adams yrði eigi fyrir þeirri minkun, að honum yrði vísað heim aftur. Og sömuleiðis afstýrði hann því með breytingum þeim, sem hann gjörði á skjalinu, að skaðsamlegur ófriður yrði hafinn. Hann, sveitalögmaðurinn, gat komið þessu til vegar. Hann dró strik yfir nokkur orð hér og þar og valdi önnur mýkri orðatiltæki sumstaðar og mælti um leið: »Feldu þetta burt, þessi móðgunarorð«. Að því búnu var skjalið orðið græskulaust með öllu, en um leið miklu kröftugra.

Að lokum gaf hann Adams sínar skipanir í stað þess að láta hann lesa bréfið fyrir utanríkisráðherra Breta. Nú hafði Adams forsögn hans sjálfs eftir að fara.

Þegar líkt stóð á og með þetta, þá reyndist hin meðfædda heilbrigða skynsemi Lincolns málefni sambandsins haldkvæmari en hugsjónir og hugleiðingar Sewards, hins þaulvana stjórnmálamanns, sem numið hafði alla sína stjórnvizku af bókum, eins og hverja aðra fræðilist.

Þó að sjálfboðaliðar héldu áfram að streyma til Washington, þá færðust útverðir skilnaðarmanna alt um það nær og nær. Her þeirra hélt norður eftir undir lok maímánaðar og inn í Virginíu og staðnæmdist á hæðunum fyrir norðan Pótómakfljótið, og hafði þar svo bækistöðu sína um hríð. Þeir höfðu og hersveitir vestur í Tennessee og Kentucky og í Missouri vestan Missisippi-fljótsins, og héldu öllum þessum ríkjum í hershöndum. Vígstöðvar þeirra við Pótómak voru skamt frá Washington. Oft varð Lincoln litið á fána skilnað-

armanna í kíki, þar sem hann blakti yfir Alexandríuborg í Virginíu fyrir handan fljótið. Washington var í hættu stödd.

Enn þá lifði í gömlum kolum flokkadráttarins með sambandsmönnum. Mansalshatararnir, sem afnema vildu alt mansal í einum svip, þótti Lincoln vera skylt að gjöra það. Horace Greely, ritstjóri, einn af helztu forsprökkum þessara afnámsmanna, ritaði Lincoln bréf um afnám þrælahaldsins. Lincoln svaraði, að hann yrði alt til þess að vinna að koma ríkinu aftur í heildareiningu, og ef hann sæi, að lausn allra þræla væri eina ráðið, sem dygði, þá mundi hann taka upp það ráð; en ef sér þætti afnám mansalsins spilla fyrir því, þá yrði hann að láta þess ófreistað. Af þessu er auðsætt, að styrjöldin var ekki fyrst og fremst hafin til að afnema þrælahaldið, þó að Lincoln hefði það líka í huga, ef færi gæfist, heldur til að berja aftur saman þann sundrungarbrest, sem af þrælahaldinu hafði hlotist. Seinna gjörðu frjálsir svertingjar menn á fund Lincolns. Sagði Lincoln þeim þá, að litlar líkur væru til, að hvítir menn mundu nokkurn tíma unna svörtum mönnum jafnréttis við sig. Þess vegna mundi þeim hollast að fá lönd til bólfestu og yrkingar sér, svo að þeir mættu búa að sínu í friði fyrir hinum hvítu.

Lincoln vissi, hvað hann fór í þessum efnum. Hann þekti álit landa sinna á svertingjunum. Þeim þótti litur deila svo kostum, að svartir menn hlytu að vera af óæðri rótum runnir en hvítir menn, og sumir töldu þá vera apakyns; fyrir þær sakir mætti aldrei setja þá jafnhátt hinum hvítu, heldur

væru þeir til þess ætlaðir, að strita og þrælka fyrir hina hvítu um allan aldur. Hverju sálaratgjörvi og andlegum kostum, sem svertingi var búinn, þá var hann þó skráður í dýratölu að kalla mátti og farið með hans að því hæfi.

En það var auðvitað, að margir mundu standa á móti þeirri svívirðilegu þrælkun, sem kristnir menn í Bandaríkjunum létu sér þá vel sama, og sannleikurinn mundi eflast að liði og þrælamönnum mundi völlur haslaður á sínum tíma. Þetta gjörðist fyrst í alvöru, þegar Lincoln var kosinn og frjálsu ríkin og þrælaríkin lögðu randir saman. Það var ranglætið og réttlætið svertingjum til handa, sem slitu friði og lögum, eins og síðar kom svo berlega í ljós.

Skilnaðarríkin nefndu sig *sambandsríki* eða *eiðsvararíki* (Confederate States). Eins og fyr er sagt settu þau sér þing og stjórn í Montgomery í ríkinu Alabama. En það var að eins til bráðabirgða. Þegar hér er komið sögunni, þá höfðu þau gjört borgina Richmond í Virginíu að höfuðborg sinni, því að nú var Virginía og þrjú þrælaríki önnur gengin í þetta uppreistarsamband. Richmond var um 30 mílur suður frá Washington. »Áfram til Richmond!« varð nú kjörorð sambandsmanna og var hert á því dag frá degi. Einu atkvæðamiklu þjóðvaldsblaði í New York þótti þó seint sækjast róðurinn þangað og krafðist þess afdráttarlaust, að ráðuneyti Lincolns segði af sér og ógnaði forseta með því, að hann gæti orðið rækur sjálfur, ef hann léti eigi rösklega og bráðlega til skarar skríða.

Þegar sambandsþingið kom saman (4. júlí), þá

voru meira en 300,000 manna skráðir undir stjörnufána sambandsins og Lincoln viðbúinn að gjöra reikning ráðsmensku sinnar fyrir þá 4 mánuði, sem hann hafði verið forseti. Í boðskap sínum til þingsins minti hann enn á þá miklu þjóðarhættu, er sér hefði verið falið að afstýra: »Framkvæmdarstjórnin hefir eigi getað samþykt, að bandalag allra ríkjanna liði undir lok, því að hún er borgari innan vébanda þess; því síður hefi eg getað það, og svikið svo jafn umfangsmikið og heilagt málefni, eins og frjálsu ríkin hafa trúað mér fyrir«.

Síðan benti hann, þessi þjóðarinnar maður, með sérkennilegum metnaði á sjálfboðaliðið, sem sér hefði tekist að kveðja til vopna, og »í því væri enginn, nema sá, er hefði kosið sér þar að vera af fúsum og frjálsum vilja«. Og því næst sagði hann fagnandi í frjálsum lýðræðisanda, eins og honum var eiginlegt: »Varla er sú hersveit til, að úr henni sé eigi hægt að velja forseta, ráðuneyti, sambandsþingmenn og ef til vill dómara, meira en fullfæra til að hafa stjórnina með höndum«.

Þingið heimilaði forseta fyrirstöðulaust að kveðja 500,000 til vopna og samþykti að veita 400 miljónir dala til að halda þeim her uppi. Þjóðin hafði óskað, að liðsafnaðurinn væri aukinn og á þeirri ósk hertu svo þingmennirnir.

Her uppreistarmanna var nú horfinn af Virginíuhæðunum lengra suður eftir, til Manassa, og tók sér þar bólfestu. Var her þeirra þar meira en 100,000. Þar elti nú her sambandsmanna þá uppi og tókst bardagi með þeim við Bull Run (21. júlí). En brátt brast flótti í lið þeirra sambandsmanna og

hlupu þeir á Pólómak-fljótið og köstuðu vopnum og klæðum. Hiti var mikill af sól um daginn og ryk mikið féll á bláu og gráu hermannabúningana; voru skilnaðarmenn bláklæddir, en hinir gráklæddir. Scott hershöfðingi sagði þá af sér herstjórnarstöðu eftir ófarir þessar. Vestur í Missouri var Freemont hershöfðingi sambandsmanna um sömu mundir. Hann tók sér það vald af einræði sínu, að lýsa því yfir, að allir þrælar skyldu frjálsir vera; en fyrir það setti stjórnin í Washington hann af völdum og setti annan í hans stað. Nokkru seinna tók Hunter hershöfðingi hið sama til bragðs í Syðri-Karólínu og Georgíu. En Lincoln sagði þegar ólögmætar þær tiltektir.

Þetta er eitt með öðru ljóst dæmi þess, hve hershöfðingjarnir voru í fyrstu einráðir og óhlýðnir stjórninni, og fóru sinna ferða og gekk því margt í ólagi.

Bæði þingmenn og aðrir, sem eigi voru í hernum, voru þess fulltrúa, að sambandsmönnum væri hægðarleikur að vinna sigur við Bull Run. Þeir skunduðu því þangað sem þeir hugðu að orustan mundi standa, jafnglaðir eins og þeir ættu að fara í stórfelt samát uppi í sveit sér til skemtunar. Þeir voru óðfúsir til að hvetja herinn til að ganga helgidagsgöngu til Richmond. Frá Richmond streymdi líka fjöldi manna til að horfa á þennan orustusjónleik. Jefferson Davis var einn í þeim skara. Ekki gat hann þá varist andvarpi, er hann leit yfir fylkingarnar og sá sama fánann blakta þar öðru meginn, sem honum hafði verið kent að virða og elska í hermannaskólanum í West Point

og fylgt sjálfur, bæði vestur á sléttunum og í Mexiko. Honum fanst með sjálfum sér, sem hann hefði svikið ástfólginn vin.

Lincoln bar kvíða fyrir þessari orustu, þó að hann léti það ekki upp, og beið með mikilli óþreyju eftir leikslokum. Hann gekk í kirkju um morguninn, því að þetta gjörðist á sunnudegi. Þegar leið fram á daginn, fóru að berast ýmsar lausafregnir af bardaganum. Hann gekk á fund Scotts yfirhershöfðingja þremur stundum eftir hádegi; hitti hann þá gamla manninn sofandi á skrifstofunni hans. Scott vaknaði brátt og lét í ljós álit sitt á horfunum; en jafnskjótt sem forseti var farinn, sofnaði hann aftur. Ákveðnar fregnir komu eigi fyr en seinna um daginn af hinum væntanlega sigri sambandsmanna, og Lincoln ók því út með konu sinni.

En um miðaftans skeið skundaði Seward til Hvíta hússins og var mikið niðri fyrir og spurði eftir forseta, »Vorir menn hafa beðið ósigur«, hrópaði hann hásum rómi. Mc Dawell hershöfðingi var á fullu undanhaldi og hélt nú til fundar við Scott herstjóra og hugsaði nú ekki hærra en að verja höfuðborgina. Lincoln kom heim aftur eftir litla stund og hlustaði nú hljóður á, meðan honum voru sagðar fréttirnar. Ekki mælti hann orð frá vörum og engin sá honum heldur bregða. Því næst gekk hann inn í hermáladeildina.

Flóttamennirnir þustu inn í borgina með öndina í hálsinum alt fram á miðja nótt. Lincoln lá endilangur í legubekknum sínum á skrifstofunni og tók móti fregninni af hrakför hersins og fylgdi

það með, Washington mundi líklega verða hernumin.

Svona fóru þá leikar, er þessar bændahersveitir lögðu fyrst randir saman. Hvorki sigurvegararnir né flóttamennirnir botnuðu nokkuð í, hvernig þetta hefði atvikast. Hvorirtveggja féllu í stafi yfir þessum leikslokum. Uppreistarmenn létu sér nægja að halda þeim velli, sem þeir höfðu náð frá hinum, en héldu eigi liði sínu til höfuðborgarinnar.

Mikið gabb var gjört að þessum bardaga, einkum í blöðum Englendinga.

Þegar lýsti af degi, lá Lincoln enn í legubekknum, hlustaði á orðræður manna og ritaði eitthvað á miðana sína, eins og hans var vandi; hann hafði hvorki gengið til rekkju né sofið. Allan þann dag var himinn hulinn dimmum regnskýjum. Hermennirnir ösluðu um göturnar og höfðu ýmislegt siðleysi í frammi. Sambandsmenn voru niðurlútir af hneisu og sárhnugnir í skapi. Alt var á ringulreið.

En á Lincoln var ekkert hik í öllum þessum ósköpum, sem á dundu. Þvert á móti. Þeir, sem veittu honum nána eftirtekt, sáu að undir dapurleikanum, sem yfir honum lá eins og ský, bjuggu nú einbeittari áform, fastari ákvörðun. Nú var hann að læra það með þjóð sinni, að til þess að bjarga sambandinu, þurfti að leggja ægilega mikið í sölurnar.

## XXIII. KAPÍTULI.

### *Þegar óvænlegast horfði.*

Lincoln var ekki að eyða tímanum í að heyja þá orustu upp aftur, sem um garð var gengin. Nú tók hann til óspiltra málanna. Hermenn hans voru dugdeigir eftir ófarirnar. Nú gekk Líncoln í herbúðirnar og talaði í þá nýjan dug og dáð, rétt eins og þeir hefðu unnið sigurinn. Enginn herforingja hans heyrði honum hrjóta eitt umkvörtunarorð af munni. Enga vörn bar hann fyrir sjálfan sig og fann heldur engar yfirsjónir hjá öðrum. Hann var hverjum manni æðrulausari og stiltari.

Margir sambandsmenn mistu nú alla trú á, að þeir mundu sigra. Horace Greely var einn af þeim. Hann ritaði Lincoln bréf, fullur örvæntingar: »Þú ert ekki álitinn mikilmenni«, sagði hann í allri hreinskilni, »og mér er dottinn allur ketill í eld, og hefi enga von lengur«. Því næst skoraði hann á forseta að leggja niður völdin, »ef engin von sé um sambandið og hætta þessum ófriði, því að hann sé þá þarflaus«. Þessi og því um lík heilræði fékk Lincoln víða að; en hann sat fastur við sinn keip; en mjög hafa þessi ráð hlotið að reyna á hugprýði hans og þolgæði.

En þeir, sem voru að þreyta hann með þessum örvæntingarráðum, fundu þó greinilega, að hann horfði fram en ekki aftur. Hann nefndi Mc. Clellan til yfirhershöfðingja fám dögum síðar (27. júlí) að ráði Scotts og með áköfu samþykki þjóðar-

innar. Nú átti hann að ráða fyrir flóttaliðinu eða Pótómak-hernum, er svo var kallaður.

Mc Clellans er fyr getið. Hann var nafntogaður mannvirkjafræðingur frá hermannaskólanum í West Point; hafði hann sagt af sér forystu fyrir járnbrautarfélaginu með 10,000 dala launum, til þess að komast í herþjónustuna þegar í upphafi ófriðarins. Búinn var hann að eiga í smáskærum við uppreistarmenn og stökkva þeim á flótta úr fjöllunum í Virginíu og tryggja sambandsmönnum það hérað; var það fyrsti sigurinn, sem unninn hafði verið af sambandsmönnum. Þetta eitt hafði hann unnið sér til frægðar.

Í þessum smáorustum hafði hann eigi að ráða nema fyrir fáeinum hersveitum, og eigi komist hærra að tign en að verða höfuðsmaður. En nú var hann hafinn til hinnar æðstu tignar, og gjörður foringi fyrir afarfjölmennum her. Almenningur hafði óbifanlegt traust á honum og var hann kallaður »Napóleon hinn annar«. Myndir af honum voru á hverju heimili í öllum herskrúða og voru þær tignaðar til hálfs eða meira. Lincoln tók nú sinn þátt í þessari alþýðuhylli, sem Mc Clellan naut, svo að bæði forseti, ráðuneytið og efri málstofan vottaði þessum unga kappa virðingu sína.

Herbúðir Mc Clellans dróu sérstaklega að sér huga höfuðborgarbúanna. Og riddaralegur var hann, þar sem hann sást á reið með forseta fram með fylkingum 50,000 hermanna. Fallbyssurnar þrumuðu, bumbur voru barðar, lúðrar gullu og fánar blöktu. Leikinn var hann að þeirri list að skipa liði í fylkingu. Hann tók ótamda nýliða og tókst að

skipa þeim í þétta og fasta fylkingu. Hann valdi fyrirliða, bjó þá að vopnum og einkennisfötum og tamdi þá í samræmi við fullkomnustu hernaðarreglur. Og mannvirkjalist hans og vélakunnusta kom sérstaklega að haldi, er gjöra skyldi varnarvirki um Washington; var hann að, þangað til hann var búinn að koma upp 40 virkjum í kringum borgina á hentustu stöðum,

En þegar hér var komið, þá var sem hinum brennandi áhuga Mc Clellans væri lokið. Hann sá til óvina sinna; þeir blöstu við honum bak við víggirðingar sínar; en það freistaði hans ekki til framsóknar. Það var sem hann svimaði af því að vera hafinn svona alt í einu upp á þennan tind heiðurs og frægðar. Hann tók að daufheyrast við óskum og ráðum stjórnarinnar og gjörast óþolinmóður við þá, sem réðu honum heilt. Hann lét sem hann heyrði ekki, hvað Scott sagði og hæddist að Lincoln. En samt sem áður hafði hann unnið þarft verk með því að temja herinn, og gekk hann ríkt eftir, að herinn ætti við góð kjör að búa. Því var það, að Lincoln hélt fyrir honum hlífiskildi, þegar almenningur tók aftur að snúa við honum bakinu, hetjutignin snérist í háð og hróp. Sannaðist þar, að »oft er gengið vina valt og verður ekki að neinu«. Alþýða manna varð eirðarlaus, er mánuðir liðu svo, að ekkert var hafst að meira. »Alt er kyrt í Pótómak« var haft að orðtaki.

Um þessar mundir lýstu sambandsmenn því yfir, að hergirðing skyldi sett fyrir allar hafnir Suðurríkjanna og bjuggu þeir út flota til þess. Baðm-

ullarflutningar allir og verzlun var þá tept, og Suðurríkin eins og svelt inni. Var það gjört samkvæmt alþjóðarétti. Sambandsmenn söktu nú grjóti og skipum fyrir hafnarmynnið í Charlestown, til að létta umsátrið, og skip komust hvorki út né inn. Englendingar kærðu þetta, en hinir svöruðu, að þetta væri gjört um stundarsakir og lofuðu að hreinsa höfnina, þegar stríðið væri úti.

Það voru engin undur, þótt óliðlega tækist með hernaðinn fyrir sambandsmönnum. Þeir höfðu áður vanhirt flota sinn, og menn, sem eingöngu höfðu stundað iðnað og kaupskap, áttu nú að taka til vopna. Sjálfræði þeirra og einþykni olli því, að hver vildi ráða sér, og dugir það sízt í her. Og þá bætti fjárhagurinn ekki um.

Ekki verður á móti því borið, að uppreistarmenn sýndu meiri eindrægni; hjá sambandsmönnum kendi í fyrstu sundurþykkju og jafnvel landráða. Of víða létu þeir trúnaðinn falann við fé þrælamanna. Aðrir fóru í kapphlaup um gróða af því, sem afla þurfti til herfanga, og fjöldi varð uppvís af nöprustu fjárprettum. Einn umboðsmaður stjórnarinnar keypti t. d. 7000 byssur ónýtar, með vitorði fleiri manna. Stjórnin varð að selja þær aftur, og vitorðsmenn umboðsmannsins keyptu þær fyrir níunda hluta verðs; létu þeir síðan breyta þeim eitthvað að útliti og seldu svo stjórninni þær á ný fyrir sama verð og áður. Gekk svo í þrjú skifti, áður en upp komst.

En samhliða þessu bar því meira á þeim kostum, sem er einkunn frjálsra og mentaðra manna. Þeir, sem ritað hafa sögu þrælastríðsins, hafa fund-

ið mörg og minnileg dæmi hjá sambandsmönnum um kapp og skjótræði í því að reisa stóreflis herflokka og koma upp miklum flota, um harðfengi og hreysti í bardögum, er fram í sótti, og vaxandi þrek og móð við hverja þraut og ófarir. Leit mun á öðru eins stórtæki til fjárkostnaðar, sem þeir sýndu, eða því að þeir höfðu þegar upp í 500,000 vígra manna á fyrsta ári, jafnlítið lið og þeir höfðu, þegar stríðið hófst.

Sambandsmenn settu þegar á fyrsta ári hærri tolllög en áður, til að auka tekjurnar. En skilnaðarmenn notuðu sér það tiltæki þeirra, til að telja Norðurálfuþjóðum trú um, að stríðið væri í raun réttri risið af tollverndun Norðurríkjanna, en ekki mansalinu, og leituðu allra bragða til að fá stórveldin til að viðurkenna, að þau væru sjálfstætt Bandaríki. Hjá Bretum var sá hugur ríkjandi, að Norðurríkin mundu aldrei fá bugað Suðurríkin og þá ætluðu þeir ekki að sitja til langframa hlutlausir hjá og láta loka höfnum fyrir sér. Sambandsmenn óttuðust því, að stórveldin mundu viðurkenna, að skilnaðarríkin væru sjálfstæð þjóð, og mundu þá, ef til vill, blanda sér í stríðið og kúga Norðurríkin til að gjöra slíkt hið sama. Baðmullarskortur vofði yfir Bretum, sakir hafnbanns sambandsmanna. Baðmullarverksmiðjum þeirra varð því að loka og þúsundir verkamanna urðu atvinnulausar og komust í megnustu nauðir.

Milli Bretastjórnar og stjórnar sambandsmanna fór þó alt friðsamlega, svo að Suðurríkjamenn fengu litla áheyrn. Hinir hygnari menn á Englandi réðu líka til að halda sér alveg hlutlausum og láta

sambandsmenn sjálfa sýna, hvort þeir væru færir um að reka af sér uppreistina. Þá gætu þeir ekki eftir á kent Englendingum um ófarir sínar og alið hatur til þeirra, er síðar gæti komið þeim í óhag.

Sambandsþingið kom saman um veturinn og var þá ekki bjart yfir. Stríðið hafði farið með 2 miljónir dala á dag, og herinn þó engan sigur unnið, sem teljandi væri. Chase, fjármálaráðherra, kvaðst vera búinn að ná í alt það fé, sem þjóðin hefði með höndum; væri því eigi annar kostur fyrir höndum, en að gefa út pappírspeninga, »grænbekingana«, sem síðar voru kallaðir.

Nóg voru vandamálin innanlands. Enginn gat ráðið fram úr þeim. En nú bættist það á, að erlendur ófriður vofði yfir þjóðinni. Bretar, Frakkar og Spánverjar óðu með her manns inn í Mexikó, þvert ofan í Monroe-ákvæðið. Fylgdu Bretar Frökkum að því máli; en þegar þeir sáu, að Napoleon III. Frakkakeisari ætlaði sér alla bráðina, þá gengu þeir úr því bandalagi. Stjórnin í Washington hafði illan augastað á atferli Frakka í Mexikó, er hún sá, að keisari hafði í huga að reisa keisarasetur þar á »rústum þjóðveldisins«. — Og svo var ekki að vita, nema þessir bandamenn mundu blanda sér í þrælastríðið um leið.

Margir í Norðurríkjunum báru þungan hug til Breta, því að nú fögnuðu margir þeirra óförum Bandaríkjanna. Það kom skýrast í ljós í hinu svo nefnda Trent-máli, sem nú skal sagt frá.

Suðurríkjamenn höfðu sent ýmsa erindreka til Parísar og Lundúna (sumarið 1861) til að túlka þar mál sitt, leita hófanna og hvetja til þess, að

stórveldin skyldu viðurkenna, að Suðurríkin væru sjálfstætt bandaríki, brjóta hergarð Norðurríkjanna og gjöra allar hafnir frjálsar og reka þannig enda á stríðið. Til þess buðu þeir mörg boð og gjörðu margar ginningar.

Nú sendu Suðurríkjamenn tvo erindreka (í nóv. 1861), þá Mason og Slidell, til Englands. Hafði annar þeirra áður verið ráðherra hjá Buchanan forseta og verið öruggastur manna í því að styðja mansalið. Þeir komust klaklaust á hleypiskútu gegnum skipagarð sambandsmanna til Havanna (á Cuba) og þóttust þá úr öllum háska slopnir, því að þá voru þeir komnir út fyrir lög og rétt Bandaríkjanna. Þar gengu þeir á enskt skip, Trent að nafni. Það lagði af stað frá Havanna (7. nóv.). En eitt af herskipum sambandsmanna, undir forystu Wilkies höfuðsmanns, komst á snoðir um ferðir erindrekanna. Wilkies lagðist þá á varðberg fyrir utan og beið Trents. Trent var vopnlaust og lítið póstskip og átti sér einskis ótta von undir enska fánanum. En höfuðsmaður lét skjóta á það og gekk síðan á skipið og þröngvaði skipstjóra til að selja fram erindrekana og flutti þá síðan til New York og þar var þeim varpað í fangelsi.

Þegar þessi fregn barst til Englands, fór hún sem logi yfir akur landsenda milli. Allir voru á einu máli um, að þetta væri svo bert ofríki og brot á þjóðarétti, að ekki mætti svo búið standa; ætluðu Bretar nú að reka réttar síns með hernaði. En Lincoln og stjórn hans ritaði þegar afsökunarbréf til Bretastjórnar, að Wilkies höfuðsmaður hefði gjört þetta á sitt eindæmi og án vitundar

stjórnarinnar. En bréf þetta lá í salti hjá Bretum fram til jóla, því að þeir vildu berjast. Þeir sendu skipið Warrier til Canada með herlið og fallbyssur, og rituðu Lyon, sendiherra sínum í Washington, að hann skyldi skora á stjórnina að láta bandingjana lausa og játa, að þetta hefði orðið að óvilja hennar. En um jólaleytið rauf Seward þögnina og ritaði Bretastjórn á þá leið, að aðferð Wilkies hefði verið ólögmæt að sönnu, því að hann hefði átt að taka menn og skip og sigla með það hvorttveggja til New York og láta lög skera úr, hvort skipið væri upptækt eða ekki; höfuðsmaður hefði gjört þetta á sitt eindæmi. Bandingjarnir væru Bretum velkomnir, hve nær sem þeir vildu; stjórninni væri enginn hagur í að halda þeim; væri stjórninni því hagfeldara að veita Bretum rétt í því máli, sem Bandaríkin annars mundu rjúfa hin helgustu þjóðréttindi sín, þau er þau hefðu allar stundir fylgt fram gegn Bretum: að synja ransaks, svo að ferðaskip megi sigla um höfin í friði og óáreitt. Létst Seward líka vona og óska, að Bretar mundu ekki láta hér við lenda, heldur láta sér þetta að kenningu verða og bæta þjóðarétt farmanna í þessu efni.

Svona veik þá Seward þessu máli við og lét hér dal mæta hóli. En svo var mál með vexti, að Bretar og Bandaríkjamenn höfðu einatt átt í erjum út af því, að Bretar vildu hafa rétt til að ransaka skip, sem færu um höfin (hvort mansmenn væru í þeim), en Bandaríkjamenn ávalt synjað þess þverlega. Þetta bragð Sewards þótti því haglegt og viturlegt, að fella hina á sjálfs síns

bragði, og var almennu lofsorði lokið á þetta og álitið, að Seward væri einhver mestur skörungur í ráðuneyti Lincolns, en Lincoln sjálfur mun þó mestu hafa um ráðið. Flestar siglingaþjóðir æsktu þess, að sá samningur væri gjörður um þetta, að engin þjóð, hve voldug sem hún væri, mætti stöðva skip og ransaka, því að af því gætu leitt mikil vandræði.

Sambandsmenn fögnuðu þó mjög þessu tiltæki Wilkies. Þegar erindrekarnir komu á land, þá var hertökumönnum tekið með veizlufagnaði. Hermálaráðgjafinn árnaði þeim allra heilla og sambandsþingið kunni þeim sínar beztu þakkir. — Má af því marka, að svari stjórnarinnar réðu stjórnhyggindi meira en tilfinningar.

Það studdi eigi lítið málstað Lincolns, að Victoría Bretadrotning elskaði friðinn. Hún og Consort Bretaprinz gjörðu sitt til að draga úr hinu þungorða skeyti, sem Bretastjórn sendi stjórninni í Washington að upphafi. Þessi viturlega málamiðlun var síðasta verk prinsins í alþjóðaþarfir; dó hann skömmu síðar, og er mælt, að önn og áhyggjur hans út af þessu máli, er var svo hættulegt friðsamlegu sambandi milli þessara stórþjóða, hafi mestu valdið um dauða hans.

Og ekki var það síður hamingjusamlegt, að Lincoln og Seward skyldu báðir taka þessu máli með hyggindum og stillingu, því að aðrir stjórnmálamenn, og þjóðin með þeim, vildu nota sér þetta tækifæri til að snúa upp á halann á brezka ljóninu, sem aldrei hafði vinsælt verið þar í landi. Hernaður Breta 1812 var þjóðinni enn í fersku

minni beggja meginn hafsins. En þegar óðurinn fór að renna af sambandsmönnum í þessu máli, þá gekst Lincoln fyrir því vanþakkláta verki, að Bretum væri greiddar fullar bætur fyrir atferli Wilkies. Erindrekar Suðurríkjanna voru látnir lausir, þótt þjóðin, sárreynd eins og hún var, möglaði móti því. Og með því var svo þessu óheillamáli fyllilega ráðið til lykta, svo að erlendu ófriðarblikunni létti af. —

Annað var það líka, sem Bretum og Bandaríkjamönnum bar á milli um þessar mundir. Hleypiskútur Breta skutust fram hjá varðskipum sambandsmanna og fluttu bæði vopn og margs konar föng önnur til uppreistarmanna, og verstu og skæðustu vígdrekar Suðurríkjamanna voru gjörðir út í enskum höfnum. Það voru einkum tvö skip, Alabama og Shenandóa, sem unnu sambandsmönnum mestan geig og tjón; en tilföng vopna og mestan hluta liðs hafði Shenandóa frá Englandi og réðst úr brezkri höfn í víking. Á Alabama gengu 90 menn enskir að fremja víkingsskap fyrir hönd Suðurríkjanna. Þetta varð þó að fara með launung, og voru þau brögð höfð í í frammi, að skipið lagði óvopnað út úr höfn í Liverpool, en byrðingar komu með hergögn þess á eftir í humátt. Þegar skipið hafði vopnast, skaut Alabama upp merkisblæju Suðurríkjanna og varð síðan kaupförum og öðrum skipum sambandsmanna hinn mesti vogestur, brendi sum, en kúgaði af sumum ærið fé til lausnar; voru víkingum þessum heitin viss laun til af stjórn Suðurríkjanna fyrir hvert skip, er þeir tækju. Bretastjórn lagði

að sönnu bann fyrir, að skipinu yrði hleypt á haf út; en það bann kom eigi fyr en Alabama var öll á burtu.

Seward var þungorður við Breta út af skipum þessum, og krafðist bóta; en Russel jarl, utanríkisráðherra Breta, varði gjörðir stjórnarinnar og kvað skipin hafa farið í forboði hennar, og vildi því engu bæta spellvirkin.

»Alt var kyrt í Pótómak«. Mc Clellan hreyfði sig ekki, og her skilnaðarmanna sat í Manassa óáreittur. Allra augu vonuðu á Pótómak-herinn; en er hann brást vonum þeirra mánuð eftir mánuð, þá gat þjóðin eigi fyrir þeim vonbrigðum komið auga á hinn mikla og langtæka sigur, sem Lincoln vann sjálfur blóðsúthellingarlaust í Miðríkjunum. Ekki fór hann að neinu óðslega, en tekist hafði honum samt að fá þrælaríkin Delaware, Maryland, Kentucky og Missouri til fylgis við sambandið og lagt grundvöll að nýju og sambandshollu ríki í Vestur-Virginíu og vakið þjóðræknina hjá fjallabúunum í Tennessee.

Hann var sjálfur eins og bein af þeirra beinum og hold af þeirra holdi. Þess vegna gat hann leitt þessi ríki til fylgis við sig og hollustu við bandalagið. Það er mjög ólíklegt, að nokkur annar af foríngjum sambandsmanna hefði verið til þess fallinn að semja við þau og ráða fram úr þessu afarviðkvæma vandamáli, svo að þau gætu við unað. Hann var enginn Norðurríkjamaður í augum þeirra. Þau fundu, að hann heyrði þeim til að ætt og uppruna. Hann hugsaði með þeim, fylgdist þolinmóðlega með þeim, þreifaði á slagæð þeirra

og fann með því leiðina að takmarki sínu með þau með allri varúð og stillingu.

Þegar Baltimore-búar risu öndverðir gegn umferð sambandshersveita um borgina, þá lét Lincoln flytja herinn nm Annapolis. Þegar Kentucky-menn tóku illa liðsforingja, er sambandsmenn sendu þangað, þá sendi hann Anderson yfirforingja, þann er varði Sumter-vígið, með hersveit þangað. Þegar byltingagjarnir þjóðvaldsmenn í Norðurríkjunum vildu fá þrælahaldið afnumið endurgjaldslaust í einum svip, og láta þröngva Miðríkjunum til fylgis við sambandið með hervaldi, þá gætti Lincoln staðfastlega hófs og beið þess, að atburðirnir skipuðu þeim á sínum tíma í þá fylkingu.

Þá hrópaði James Russell á þinginu: »Hversu oft eigum vér að bjarga Kentucky, en týna sjálfum oss?« Það var bjargföst vissa Lincolns, að það væri sama sem að missa af öllu, ef Kentucky gengi úr sambandinu. »Ef vér missum Kentucky«, sagði hann með röksemdum, »þá getum vér ekki haldið Missouri né Maryland, að mínum dómi«. Ef þessi ríki gengju öll úr bandalaginu, þá væri úti um það.

Alt frá því er ófriðurinn hófst, höfðu skoðanir og áhugamál Miðríkjamanna og Suðurríkjamanna farið saman, því að Miðríkjamenn voru margir ættaðir frá Suðurríkjunum, og áttu frændur þar. En þeir höfðu þó ekki verið aldir upp í skóla uppreistarmanna og unnu sambandinu af heilum huga. En hins vegar vantreystu þeir hinum nýja stjórnmálaflokki, þjóðvaldsmönnunum. Þeim þótti of veikur alvaldsboginn, þar sem hann var, og ótt-

uðust, að hann mundi haga ófriðinum eftir því sem honum væri vænlegast til eflingar og styðja sérstaklega mál þeirra ríkja, sem honum væru fylgisömust.

Lincoln einn tóku þau til greina, og honum tókst smátt og smátt að ná föstu trausti þeirra. Þeir í Maryland hættu að snúast öndverðir gegn hersveitum sambandsmanna um Baltimore. Í Missouri var stjórn uppreistarmanna rekin frá völdum og hélt það ríki síðan stöðugt uppi sambandsfánanum eftir það. Kentucky kaus sér sambands-ríkisþing og sambandsfáninn var þegar farinn að blakta yfir stjórnarráðshöllinni í höfuðborg ríkisins.

Svona tókst Lincoln að bjarga þjóðinni frá vísri eyðingu með frábærum stjórnhyggindum, löngu fyr en sambandið hafði náð úrslitasigri undir fána sínum. En samt sem áður dundu á honum sífeldar aðfinslur þeirra, sem ekki gátu fyrir æsingi komið auga á, hvað hann var að gjöra.

Með þessum hætti tókst Lincoln að hertaka 5 Miðríkin að meðtaldri Vestur-Virginiu á friðsamlegan hátt. Þetta var aftur sama sem að styrkja sambandið með 300,000 vígra manna til viðbótar við her sambandsmanna. Nú þurftu sambandsmenn ekki upp frá því að verja sjálfir þetta feykilega landflæmi fyrir uppreistarmönnum. Þaðan komu þvert á móti fjölmennar hersveitir suður á bóginn. Hyggindi Lincolns greiddu uppreistarmönnum á þennan hátt banvænna högg en nokkur orusta hefði getað greitt þeim.

Eins og fyr er ritað, hófst sókn sambandsmanna með kjörorðinu: »Áfram til Richmond!« Allur

hugur almennings hvíldi á Pótómak-hernum; aftur á móti var þeim hersveitum svo miklu minni gaumur gefinn, sem voru að spretta upp í Missisippi-dalnum. Það voru þó þessar hersveitir Vesturríkjanna, sem hrestu hjarta þjóðarinnar með sigurvinningum.

Þar var það, sem Grant hershöfðingi kom fyrst til sögunnar og

»óðar fasta frægð sér bjó,
er fyrsta höggið sló«.

Enginn hafði heyrt hans getið fyr.

Vestur í Ohio og Tennessee voru uppi allfjölmennar sambands-hersveitir. Í Tennessee var höfuðborgin Nashville. Borgarmenn bönnuðu uppreistarmönnum að heyja þar orustu og gáfu sig sambandsmönnum á hönd. Suður í Florida höfðu sambandsmenn sett her á land og unnið nokkurn sigur. Vestur í Missouri unnu sambandsmenn líka nokkurn sigur á óvinum sínum. Þá sendu sambandsmenn flota suður með landi með 15,000 manna og var Burnside herforingi fyrir þeim. Þeir settu her sinn á land við höfðann Hatteras, og átti herinn þaðan að sækja austur og norður til Richmond, til þess að uppreistarherinn við Pótómak yrði milli steins og sleggju. Mc Clellan átti svo að sækja að þeim að norðan; en hann lét sér hægt um það. Í miðjum marz (1862) tók Burnside borgina Newburn og stökti her uppreistarmanna á flótta.

Nokkru fyr en þetta gjörðist, kom Grant til sögunnar. Grant var hermálastjórninni ókunnur og þögull var hann um fyrirætlanir sínar. Hershöfð-

ingjar Lincolns voru Grant óvinveittir; samt var honum fengið nokkurt lið til forráða. Með því liði hélt Grant upp eftir bökkum Tennessee-fljótsins. Þar var ekki um neinar glæsilegar hersýningar að ræða. Engar auglýsingar lét Grant birta, og hann var heldur ekki kallaður hinn annar Napóleon. Grant settist um vígi Sunnanmanna, það er Donelson hét, við fljótið Tennessee. Hershöfðingi Sunnanmanna gjörði menn á fund Grants, er hann sá sitt óvænna, og spurði með hvaða kostum hann ætti að gefast upp. Grant svaraði: »Þeir kostir, sem eg býð, eru þetta: Að þér gangið mér á hönd skilmálalaust. Eg ætla þegar að gjöra áhlaup á vígi yðar«. Og síðan tók Grant virkið (16. febr. 1862). Það var sem töfrasprota væri slegið á hina þreyttu þjóð, er henni barst þetta orðtak Grants: »Skilmálalaus uppgjöf!« Grant tók 1500 manna höndum í víginu. Annað virki, er Memphis hét, tók hann skömmu síðar. Árangurinn af þessu varð sá, að uppreistarmenn urðu að sleppa öllum Miðríkjunum, og héldu nú að eins ríkjunum við Mexikó-flóa. Það var hið mesta happaverk, er Donelson-vígið var tekið, því að það var ramgjört mjög. Lá nú leiðin opin suður eftir fyrir sambandsmönnum; sendu þeir nú hermenn á skipi suður eftir fljótinu til að kanna fyrir sér; urðu þeir þess brátt varir, að landsmenn þar tóku þeim fegins hendi, er þeir voru lausir úr hergreipum hinna.

Eigi var þess langt að bíða, að Grant væri treyst betur en öllum hinum hershöfðingjunum; sýndi hann ávalt hið mesta þrek, dugnað og hugrekki. Þó fór því fjarri, að hann ynni sér hylli allra.

Tveim mánuðum síðar, en Donelson væri unnið, fóru farmenn og hermenn sambandsmanna að sigla undir sínum útlæga fána upp eftir ósum Missisippi-fljótsins og hófu hann upp í borginni New Orleans. Uppreistarmenn áttu þó eftir tvö virki með fljótinu, Port Hudson og Vicksborg; áttu þau að gæta frjálsra siglinga uppreistarmanna eftir »föður vatnanna« (þ. e. Missisippi).

Fáum kom til hugar að hið síðarnefnda virki mundi krefja slíkra blóðfórna af hendi sambandsmanna, áður en það gæfist upp, eins og síðar bar raun á. Hinir sambandshollu fjallabúar í Tennessee biðu enn eftir hjálparliði, og þegar Sherman hershöfðingi sambandsmanna lét uppi, að eigi mundi veita af 200,000 liðsmanna í leiðangurinn suður á bóginn, þá var hann talinn ær og örvita, herstjórnin tekin af honum, en hann látinn fara til St. Louis og hafa það eitt á höndum, að temja sjálfboðalið við vopnaburð.

En »alt var kyrt við Pótómak« enn. Mc Clellan hlýddi engum skipunum. Hinn glæsti her hans lét glóa á hnappa sína og glapti með því hefðarkonunum í Washington sjónir. Lincoln lá við örvílnun út af þessu, og tók nú sjálfur að lesa bækur um hernaðarlist, til að búa sig undir það verk, sem herstjórar hans dugðu eigi til að inna af hendi.

Svo bar Lincoln velferð þjóðarinnar fyrir brjósti, að hann gleymdi alveg sjálfum sér hennar vegna. Það sést ljósast af því, að hann gjörði *Edwin E. Stanton* að hermálaráðherra (13. jan. 1862), lögmanninn sama, sem bolaði honum svo óþyrmilega frá flutningi málsins í Cincinnati fyrir fáum árum,

og gjört hafði vægðarlausar árásir á stjórn hans. Með því að taka upp þennan kost, bættist ráðuneytinu öflugur liðsmaður, framkvæmdarsamur og þrautgóður. Stanton var lýðræðismaður og hafði áður setið í ráðuneyti Buchanans forseta. Og þótt þeir Lincoln væru jafn ólíkir og tveir menn geta verið, þá gat hann notað þrek hans og vit í þarfir sambandsins.

Þegar Mc Clellan var búinn að sitja um kyrt í rúma sex mánuði, þá var honum skipað að halda liði sínu til Richmond. En Mc Clellan lét það sem vind um eyrun þjóta, og her skilnaðarmanna fékk að flytja sig burt úr Manassa óáreittur og skilja eftir hinar ægilegu fallbyssur sínar eins og til að gjöra gys að bleyðiskap Pótómak-hersins; komust þeir ómeiddir undan miklu fjölmennari her. Þetta sveið sambandsmönnum sárt.

Uppreistarmenn áttu fjöld fallbyssubáta; en þeir megnuðu ekkert móti stórskipum Burnsides flotaforingja, þegar hann setti her sinn á land. Því var það, að sambandsmönnum brá heldur í brún (8. marz 1862). Fyrir utan mynni árinnar James lágu nokkur skip sambandsmanna; en inni á höfninni í Hampton Roads (Norfolk) lágu skip hinna. Þá lagði út úr höfninni járnbyrt skip Sunnanmanna, Merrimak að nafni. Skip þetta var áður með 40 fallbyssum, og höfðu Norðanmenn sökt því niður í hafnarmynnið árið áður, en hinir náð því upp og járnbyrt það og bar það nú 12 fallbyssur. Framan á barðinu á Merrimak voru tveir fleinar eða horn og var skipið því hrútur kallaður. Nú urðu svipleg umskifti. Merrimak lagði í senn að tveimur

herskipum Norðanmanna, Cumberland og Congress, sem bæði voru seglskip úr tré. Tveir fallbyssubátar voru þar nærri og tvö herskip önnur. Merrimak skopaði nú skeið að Cumberland og rak hornin á kaf í síður skipsins. Cumberland skaut öllum sínum fallbyssum í senn á skömmu færi, en kúlurnar hrukku sem hagl af steini af járnbarði skipsins. Merrimak veik sér enn við og skopaði skeið að Cumberland, svo að borðin gengu inn og inn féll kolblár sjór. En enginn vildi biðjast griða og sökk skipið á svipstundu til grunna, og fórust 150 manna. Þegar þeir á Congress, sem líka hafði verið í skotfæri, sáu þetta, gáfust þeir upp; voru þá fallnir á því skipi 50 manna, en hinir voru herteknir. Hin skip Norðanmanna forðuðu sér.

Nú þóttust menn sjá, að engin höfn Norðurríkjanna var óhult fyrir þessu fljótandi skrýmsli. Merrimak gat stungið sér fyrir skotum hinna, eins og þegar önd stingur sér af sundi.

Þegar þessi tíðindi bárust til New York, þá komu borgarar saman og ræddu um að hleypa grjóti fyrir hafnarmynnið, því að þessi skuggabaldur, sem engin skot unnu á, mundi fara norður með landi og sökkva öllum skipum, sem yrðu á leið hans, leggjast síðan fyrir borgirnar Boston og New York og brenna þær upp.

Þegar tíðindin bárust til Washington, fór Stanton á fund Lincolns með öndina í hálsinum, og mælti: »Þetta skip getur sent oss sprengikúlur í land, ein þeirra gæti komið mitt á meðal okkar, meðan við erum að tala saman«. Stanton bjóst við hinu versta. Nú mundi styrjöldin gjörbreytast, öll

flotaskip sambandsmanna verða skotin í kaf og gullskattur lagður á borgirnar með ströndum fram. Var nú heill floti af fljótabátum hlaðinn grjóti í snatri og öllu því grjóti hleypt niður í ósi Pótómakfljótsins, til þess að þetta ægilega skip gæti ekki komist í námunda við Washington.

Ekki vildi Lincoln trúa því, að þetta væri eins svart, eins og af var látið, meðan felmturinn var á mönnum. Hann sagði við einn af sínum skelkuðu gestum, að hann byggist við undanhaldi og ósigri; það ætti sér stað í öllum ófriði; en síðan sagði hann með barnslegri einfeldni og alvörugefni: »Eg ber ekki hinn minsta ótta fyrir neinu því, er verða muni her vorum og flota að tjóni. Stríðið er Drottins og hann mun gefa sigur á hagkvæmum tíma; hann mun sjálfur sjá fyrir því, að óvinir vorir hreki oss ekki of langt«. Ávalt óx trú Lincolns, er óvænlega horfði. »Eg hefi svo margsinnis verið á hnjám fyrir Guði«, sagði hann, »gagntekinn af þeirri sannfæringu, að eigi sé annað að flýja en til hans«.

Lincoln vissi, að hinn sænski þjóðhagi Jón Eiríksson, hafði nýtt skip í smíðum og leizt honum svo á, að það mundi reynast tímabært verkfæri til að vinna á Merrimak. Jón hafði farið á fund Lincolns, því að hann vissi, að Lincoln var ávalt fús til að hlusta á málaleitanir manna, því að flotamáladeildin var ekki á eitt mál sátt um, að þetta skip Jóns væri nothæft.

Lincoln var ávalt mikil forvitni á nýtízku-smíðum; rannsakaði hann nú með grandgæfni og hyggindum áform Jóns um skipasmíð þessa. »Eg

held, að eitthvað sé i þessu«, sagði hann. Því næst fór hann sjálfur með þeim, sem valdir voru til að skoða skipið. Vinnustofan var full af fólki og settist forseti þar á kassa og studdi að því með áhrifavaldi sínu, að samþykt var að reyna skipið.

Þegar fregnin barst til Washington um afrek Merrimaks, þá mintist Lincoln þess, að bátur Jóns Eiríkssonar væri þegar á leiðinni frá New York. Alment var svo á litið, að hið nýja skip mundi eigi sjófært vera. Þá mælti Lincoln: »Eg er viss um, að Monitor — svo nefndist skipið — er á floti enn og muni sjálfur segja af sér góða sögu«.

Sama kvöldið, sem borgarmenn í New York voru að ráðgast um, hvað gjöra skyldi og Merrimak átti sigri að hrósa, þá skifti um leik. Nýr gestur kom til sögunnar, »eins og ostakassi á fleka«. Það var Monitor. Jón hafði smíðað skipið á 100 dögum og kostaði það 60,000 sterlingspunda. — Monitor var líkari vígfleka úr járni en skipi. Hann var 120 fet á lengd og 40 fet á breidd, og risti 9 feta djúpt og tók að eins 2 fet upp fyrir sjávarmál. Í miðju skipinu var stálhjálmur, sem lék á ási og í honum 2 fallbyssur; lék hjálmurinn svo títt sem hraðast varð skotið af byssunum, og svo var hann ramgjör, að engin skot unnu á. Undir þiljum var rúmgott, en alt neðansjávar og lagði birtuna að ofan. Monitor var svo bygður, að inst var lag af hálfs þumlungs þykku járni, síðan var eikarumfar 26 þumlungar á þykt; þó var hann miklu þynnri fyrir neðan sjó.

Nú, þegar Monitor kom til sögunnar, urðu hörð viðskifti. Merrimak leitaði fyrst að skopa skeið að

honum, og mola hann í sundur, en vann ekkert á. Þá leituðu hásetar til uppgöngu á Monitor og síbyrðu við hann, en náðu engri fótfestu á hinum hálu og höllu járnþiljum, og óðara horfðu við þeim byssukjaftarnir; en engan mann sáu þeir; hörfuðu þeir þá aftur. Loks tókst Monitor að koma gati á Merrimak; lét hann þá undan síga, og var honum þá bjargað af tveimur gufuskipum inn á höfnina (Hampton Roads). Í þessari hríð höfðu 15 manns fallið af Merrimak, en á Monitor varð enginn sár. »Ostakassinn hans Lincolns«, sem Monitor var kallaður, bar því frægan sigur úr býtum (9. marz 1862).

Þetta var í fyrsta sinni, sem járnskip og tréskip áttu í höggi saman. Var nú sýnt, að stærstu herskip úr tré voru jafn varnarlaus fyrir Merrimak, sem lamb fyrir úlfstönnum. Hefði Monitor ekki komið, þá var eitt járnskip nóg til að eyða öllum skipastól sambandsmanna á skammri stund.

Eftir þetta fóru Bretar og Frakkar að smíða hvert herskip úr járni, en ekki tré, eða þá járnbyrða hin eldri.

Þegar Monitor var búinn að rýma skrýmslinu úr mynninu á Jamesfljótinu, þá þóknaðist Mc Clellan loks að drattast af stað með hinn glæsta Pótómakher áleiðis til Richmond, en fór þó niður eftir Pótómakfljótinu heldur en að fara beinleiðis, eins og Lincoln vildi. Hann hafði nú með sér 120,000 hermanna og voru bátar við hendina til að flytja herinn niður eftir fljótinu. Nú háði hann hverja orrustuna af annari á ýmsum stöðum í fulla 3 mánuði (17. marz til 2. júlí). Einu sinni var hann

kominn svo nærri Richmond, að stjórn uppreistarmanna varð skelkuð og lét búa um alt skjalasafn sitt, ef til flótta kæmi.

En alt varð þetta til ónýtis. Hann kom aftur á réttu og sléttu undanhaldi og þóttist vel hafa sloppið og rösklega. Nú voru allir fyrir löngu búnir að missa traust á þessum »algjörða«, en ósigursæla hershöfðingja, nema Lincoln einn. En nú gat hann ekki treyst honum lengur. Að þessari herferð Clellans lokinni, játaði Lincoln, að »hann væri næstum jafn-óhuggandi og hann gæti framast verið, og þó haldið lífi«. Þegar hann sá fyrir, hversu fara mundi um herferð þessa, þá lét hann huga sinn í ljós við Seward með því, að rita þessa einkennilegu heitstrengingu: »Eg er við því búinn að halda uppi þessari styrjöld, þangað til sigur fæst eða eg dey eða er sigraður, eða minn tími er útrunninn eða sambandsþingið eða þjóðin hefir yfirgefið mig«.

Nú kvaddi Lincoln 300,000 til vopna og sendi suður á bóginn undir forystu Popes herforingja. En Pope beið ósigur við Bull Run (30. ágúst). — Sambandsmenn flýðu enn af bökkum Pótómakfljótsins og leituðu sér skjóls innan virkja höfuðborgarinnar.

Lee hershöfðingja Sunnanmanna óx nú hugur við þessa óslitnu sigurför og lagði nú í sóknarleiðangur á hendur Norðanmönnum. Washington og Pennsylvaníu stóð hinn mesti ótti af þessari framsókn hans norður eftir. Lincoln leitaði þá enn á náðir Mc Clellans, móti ráðum ráðherra sinna, og hét á hann að hrekja nú Sunnanmannaforingjann öfugan til baka og verja höfuðborgina. Mc Clellan

varð við áskorun forseta. Tókst nú orusta við Antietam í Maryland (16.—17. sept.) og þar hafði Pótómak-herinn loks betur og stöðvað iframsókn sunnanhersins.

Lincoln hafði nú gjört Drotni það heit í bæn, að ef hann gæfi nú sambandinu sigur, þá skyldi hann gefa alla þræla frjálsa. Og þegar honum barst fregnin af sigri sambandsmanna við Antietam, þá efndi hann heit sitt og lagði fram lausnarboðskapinn, sem hann átti alveg tilbúinn fyrir nokkru. Það var 22. sept. 1862, sem hann birti þann boðskap sinn: Að allir þrælar skyldu frjálsir vera frá nýársdegi 1863, og upptækir fyrir húsbændum sínum í þeim ríkjum, er stæðu með uppreistinni. Seinna dró hann þó nokkuð úr og sagði í þingsetningarræðu sinni (1. des. 1862), að tiltækilegast mundi vera að leysa þrælana smám saman á mörgum tugum ára. —

Lincoln hafði áður látið birta bréf um það, að sambandsþingið féllist á, að eigendur þrælanna fengi endurgjald fyrir hvern þræl, sem leystur væri, og þrælahaldið væri svo smámsaman afnumið með þeim hætti. Þótti sú ályktun ráðleg og koma vel við til að veikja kraft uppreistarmanna, draga frá þeim alla þá liðsmenn, sem ekki væru allshugar mansalsmenn, og yrði þá mansalið, þegar fram liðu stundir, afnumið svo, að öllum væri hagur að.

Um sömu mundir bauð Lincoln líka að selja til útlanda alla þá baðmull, er fyndist í forðabúrum Sunnanmanna; en þeir svöruðu því gegnilega, og brendu alt upp, svo að ekki félli það í hendur Norðanmanna.

Enn brást Mc Clellan vonum höfðingja síns; hann hélt ekki sókninni áfram að sigri unnum. Lee var eigi veitt eftirför og hélt því til baka yfir Pótómak-fljótið til Virginíu, svo að enginn elti. Lincoln sárbeiddi hann að halda sókninni áfram og fór sjálfur til vígstöðvanna til fundar við hann. Liðu nú svo sjö vikur og Mc Clellan hafðist ekki að. Þá veik Lincoln honum frá herstjórninni, og kom hann aldrei síðan að stjórn Pótómak-hersins.

Veturinn 1862—63 var einhver hinn skuggalegasti, sem yfir þjóðina hafði komið, síðan á dögum stjórnarbyltingarinnar undir forustu Washingtons. Þegar kosningarnar til sambandsþingsins fóru fram í nóvember 1862, þá dundu látlausar aðfinslur á framkvæmdarstjórninni. Herskip Sunnanmanna bægðu kaupskipum Norðanmanna burt frá löndum. Og ekki þótti annað sýnna en að Grant væri að berjast við náttúruna eina í foræðunum í kringum Vicksborg.

Norðurríkjamenn tóku nú að gjörast háværir. Þeir fóru hver um annan þveran á fund Lincolns og kröfðust hástöfum breytingar á herstjórninni og skifta á herstjórunum.

Einu sinni leituðu máls við hann stórbændur lengst vestan úr ríkjum, málskrafsmenn miklir og burgeislegir. Þeir leiddu í tal aðgjörðir stjórnarinnar í hinu mikla vandamáli, sem hún átti í að standa, og fundu henni flest til ámælis, en fátt til lofs. Lincoln lofaði þeim að rausa langa hríð og hlýddi á með þögn og þolinmæði. Loks mælti hann: »Ímyndum oss, góðir hálsar, að þér hefðuð varið aleigu yðar í gull og fengið Blondín gull-

snúðinn í hendur, en hann skyldi bera hann á baki sér eftir streng yfir Niagara-fossinn. Ætli þér færuð þá að leika yður að því að skekja stólpana, sem strengurinn væri festur við og hrópa til Blondíns: »Heyrðu, Blondín! Hallaðu þér dálítið á hægri hliðina! Stattu við snöggvast, Blondín! Gaktu dálítið harðara! Hallaðu þér nú meira til vinstri en hægri, Blondín! Stattu nú dálítið beinni, Blondín! Lúttu nú ögn meira! Nei, það munduð þér naumast gjöra. Þér munduð miklu fremur halda að yður höndum, halda tungunni í skefjum, og þora meira að segja varla að draga andann, þangað til Blondín væri kominn yfir heill á húfi. Nú er því líkt farið um þá menn, sem nú standa fyrir stjórn, að þeir hafa mikla og dýra byrði að bera. Þeim er fyrir miklu trúað. Ónáðið þá ekki og hafið hljótt um yður, og þá munum vér komast klakklaust yfir um«.

Þessi snildarlega samlíking beit svo á komumenn, að þeir kunnn þar engu til að svara, og kvöddu forseta með mestu virðingu og vinsemd.

Á þessum þungu þrautatímum var Lincoln það einatt eina hugarhægðin að varpa af sér áhyggjum og þreytandi málaleitunarmönnum með gamni.

Þingmaður einn í sambandsþinginu kom á fund forseta fullur umkvörtunar. Forseti tók þá að vanda að segja honum sögu. En þá brást hinn reiður við og mælti: »Herra forseti! Eg er ekki hingað kominn til að hlusta á sögu«. Þá kom angistarsvipur yfir forseta. »Eg ber mikið traust til yðar«, sagði hann, »og mikla virðingu fyrir yður og veit, hve einlægur þér eruð; en — mætti eg

ekki segja þessar sögur mér til hugarhægðar, þá væri úti um mig«. Við þessa játningu forseta snerist þykkja þingmannsins upp í meðaumkvun.

Því meir sem óánægjan óx með leiðtogum þjóðarinnar, því fleiri burgeisar komust að þeirri niðurstöðu, að skifta þyrfti um forseta. Var þá ráðgjört að þröngva Lincoln með valdi til að segja af sér, og fela svo Hamilton varaforseta starf aðalforseta. Þessi undirróður fékk beinan byr undir báða vængi um veturinn og svo með vorinu við nýjar ófarir. En Lincoln svignaði ekki fyrir þeim stormi. Þá var það, sem hugprýði hans og þolgæði bjargaði sambandinu. Hann var ávalt hraustmannlegur og gamansamur í framkomu, en »hjartað grét undir glaðri kinn«. Yfir honum hvíldi þungur sorgarskuggi. »Aldrei verð eg glaður framar«, sagði hann einu sinni, »lífsæðar mínar eru að fjara út. Eg get ekki staðist þetta lengur«.

Lincoln tókst eigi að finna nokkurn herstjóra, sem stýrt gæti her á eigin ábyrgð. Herstjórnin hvíldi á honum sjálfum og tvisvar stóð hann sjálfur í fylkingarbrjósti og skipaði fyrir um atlögu. Pótómak-herinn beið geigvænlegan ósigur, bæði við Frederiksborg (13. des. 1862) og Chancellorsville (2.—4. maí 1863).

Þegar Lincoln barst skeytið um ósigurinn við Chancellorsville, þá setti hann grátfölvan af angist: »Guð minn! Guð minn!« hrópaði hann með grátkæfðri rödd. »Hvað mun þjóðin segja? Hvað mun þjóðin segja?« Og alla nóttina gekk hann um gólf í skrifstofu sinni. Ekki var hann samt örvinglaður, heldur var hann áhyggjusamlega að leita að leið

út úr þessu svartmyrkri. Þegar skrifarar hans komu í skrifstofuna um morguninn, þá komu þeir að honum vakandi; honum hafði ekki komið dúr á auga og var þá að borða morgunverð við skrifborðið sitt. Á borðinu hjá honum lágu fyrirskipanir til Hookers herforingja, sem hann hafði ritað á þessari löngu vökunótt. Einn hafði hann þá staðið á þiljum á veðurbörðu ríkisfarinu.

## XXIV. KAPÍTULI.

### *Skýjarof.*

Styrjöldin var nú búin að standa í rúm 2 ár. Lee, foringinn fyrir Norður-Virginíu-hernum, hafði enn aldrei beðið ósigur að kalla mátti. Nú hætti hann að verja Richmond í fullu trausti og bar nú fána uppreistarmanna inn í Norðurríkin sumarið 1863. Hann var búinn að gjörsigra hvern kappa, sem sambandsmenn höfðu teflt fram móti honum og virti því fjandmenn sína að vettugi. Þess vegna réð hann af að halda her sínum inn fyrir vébönd Norðurríkjanna og vekja þeim geig, halda beint til Washington, taka hana herskildi, setja upp fána uppreistarmanna á stjórnarhöllina og þröngva sambandsmönnum til friðar.

Hinn öflugi her Lees brunaði nú áfram norður eftir. Hooker, foringi fyrir Pótómak-hernum, vildi þá ganga fram hjá Lee og setjast í þess stað um Richmond varnarlausa og hremma hana. En Lincoln var mótfallinn því ráði; kvað hann viturlegra að hafa her Lees að skotspæni en Richmond. Auk

þess sýndi Lincoln fram á með rökum, að borgin yrði eigi tekin á skemri tíma en þremur vikum, en á þeim tíma léki her Lees lausum hala. Það væri líka einskis virði, þótt Richmond væri tekin, hjá því að vinna sigur á Lee eða handtaka hann. Skipun Lincolns var svo látandi:

»Takið eftir öllum gangi fylkinga hans. Styttið fylkingar yðar, þegar hann lengir sínar«. Engin skipun í þessari styrjöld bar betri árangur en þessi skipun hans.

Hooker veitti þá Lee eftirför yfir Maryland. Lee hélt her sínum óboðinn inn í Pensylvaníu, 75,000 hermanna. Nú hafði þá her uppreistarmanna það land undir fótum sér, sem var perla sambandsins, því að Pennsylvanía hafði ávalt verið atkvæðamesta ríkið í sambandinu. Það var Pennsylvanía, sem úrslitunum réð í frelsisstríðinu á dögum Washingtons. Og löngu fyrir það stríð eða stjórnarbyltingu var Pennsylvanía miðstöð lærdóms, auðæfa og siðmenningar. Kvekaraforinginn enski, Penn, stofnaði það ríki og var það síðan kent við hann (Pennsylvanía = Pennskógar).

Um eitt skeið runnu riddarasveitir Lees alla leið að stauragirðingunum kringum Harrisborg. Borgarar í Pittsborg og Filadelfíu (Bræðraborg) urðu skelkaðir. Stöðvaðist nú allur iðnaður í þessari miðstöð iðnaðarins, því að verkamönnum var skipað í fylkingar til varnar.

Þegar hættan var sem mest, sagði Hooker af sér herstjórninni út af missætti við hermálastjórnina; urðu þá landsmenn felmtraðir mjög; en þeir Lin-

coln og Stanton settu Meade herhöfðingja sem skjótast fyrir herinn.

Nýi hershöfðinginn tók nú við stjórninni upp á líf og dauða og tvær hættur; hafði hann 90,000 manna fyrir að ráða. Hann veitti nú Lee eftirför inn í Pennsylvaníu með svo skjótri svipan, að Lee sá sér eigi annan kost en snúast gegn honum hjá þorpinu Gettysborg; var það eigi nema mílu vegar þaðan sem marklínan var sett milli Norðurríkjanna og Suðurríkjanna. Orustan milli þeirra stóð í þrjá daga (1.—3. júlí 1863). Orustusvæðið var hveitiakrar og ferskjugarðar og barst síðan yfir breiða dali og upp eftir fögrum hlíðum. Nú var um líf eða dauða sambandsins að tefla. Lee bar hærri hlut fyrsta daginn; næsta daginn stóðu hersveitirnar gegnt hvor annari á tveimur hæðum, en á milli var dalur, tæpir 150 faðmar á breidd, og að kveldi hélt sambandsherinn velli, en 20,000 voru fallnar og óvígar af sárum. — En skömmu eftir hádegi á þriðja degi stóðu sambandsmenn hljóðir á verði. Þá létu uppreistarmenn skyndilega dynja skothríð á hina úr 150 fallbyssum. Þessi ægilega skothríð stóð hálfan annan tíma. Síðan var alt kyrt, þar til er Pickett, herforingi Sunnanmanna, reið niður af brúninni á Seminery-hæðinni, þar sem Sunnanmenn stóðu að vígi, og fylgdu honum 15,000 hermenn; gengu þeir niður hæðina og yfir dalinn þveran, fyltu hann og höfðu fána sína á lofti. En þá létu sambandsmenn stórskotalið hella yfir þá ógurlegri kúlnahríð.

Nú kom hræðilegt skarð í fylkingu Sunnanmanna; samt tóku þeir að klifa upp Cemetery-

hæðina, eins og ekkert hefði í skorist, þangað sem sambandsherinn var fyrir, gegn rjúkandi fallbyssukjöftum þeirra. Hinar ótrauðu leifar Sunnanmannahersins voru í skotfæri, en áfram ruddust þær, þar til er Pickett vatt sér með 100 manna inn yfir grjótgarðinn fram undan sambandshernum og setti fána sinn upp efst á Cemetery-hæðinni. Þar hvíldi hinn fámenni flokkur sig svo um stund, mitt á meðal fjandmanna sinna. En nú höfðu Sunnanmenn náð hámarki sínu. Lee lét blása í lúður til undanhalds; stórskotalið þeirra hörfaði undan. Sambandsmenn héldu nú velli og æptu siguróp. En jafnframt dáðust þeir hjartanlega að hugprýði hinna bláu samlanda sinna. Hið hrausta lið Picketts, sem nú var svo hörmulega búið að týna tölunni, hvarf nú aftur yfir á Seminery-hæðina og fleygði sér þar að fótum lagsbræðra sinna. Þá mælti Lee dapur í bragði: »Þetta er alt mér að kenna; það er eg, sem ósigurinn hefi beðið í þessari orustu«. Og það var satt. Sunnanmenn urðu undir, en sambandinu, sem var í veði, var nú borgið. Daginn eftir (4. júlí), héldu sambandsmenn almenna þakkarhátíð, en Lee hélt suður eftir með leifar hersins og haslaði óvinum sínum síðasta völl fram undan Richmond.

Miklum skugga brá það samt á sigurgleði Lincolns, að Meade brást nú trausti hans. Hann vildi ekki færa sér sigurinn í nyt á þann hátt að gjöreyða her Lees og hertaka hann, áður en hann færi aftur suður yfir Pótómak. Lincoln sárbeiddi hershöfðingjann að láta Lee eigi sleppa úr höndum sér. En hershöfðingi og liðsforingjar hans voru

orðnir svo þreyttir og þvældir af hinni ægilegu mannraun, sem þeir höfðu staðið í á herferð þessari, að þeir voru trauðir til að berjast lengur þá í svipinn.

Þegar Lincoln hlýddi á úrskurð þeirra í herforingjaráðinu, þá álasaði hann sjálfum sér fyrir, að hann skyldi eigi sjálfur hafa farið til vígstöðvanna og látið svo til skarar skríða með Lee og flýta þannig fyrir lyktum styrjaldarinnar. Meade kvaðst láta sér nægja, að Lee væri á undanhaldi og væri eigi lengur á lóð Norðurríkjanna. Þá gramdist forseta. »Hví er engin leið til að ná þessari flugu úr höfðinu á hershöfðingjum vorum? Öll Bandaríkin eru vor lóð?«

Frá Meade er það framar að segja, að hann var fæddur á Spáni (1815) og gekk á ungum aldri á hinn gamla hermannaskóla í West Point (stofnaður 1802). Hann hafði verið sveitarforingi í Mexikóhernaðinum, sem fyr er getið.

Annað var það um þessar mundir, sem lá Lincoln mjög þungt á hjarta. En það var herferð Grants og umsátur um Vicksborg. Grant hafði ásamt Sherman herforingja, 50,000 hermanna á að skipa. Grant hafði hvíldarlaust leitað allra bragða til að hertaka vígið, alt frá miðjum vetri til miðsumars (1863). Hann hélt fyrst liði sínu niður eftir Missisippi, en á vígið varð eigi ráðist að norðanverðu. Það sat eins og gammur á núpi einum á fljótsbakkanum. En á milli hersins og vígisins var víðáttumikið foræði, skógi vaxið. Vígið mátti sækja að sunnanverðu; en til þess að komast að því þeim meginn upp eftir fljótinu, þá varð að fara

fram hjá öðru sterku vígi Sunnanmanna, er kallað var Port Hudson. Fram hjá Vicksborg varð heldur ekki farið, því að þar var hvert skotbyrgið við annað. Grant reyndi að láta fallbyssubáta leita sér leiðar um mjóar árkvíslar; en vígismenn höfðu vakandi auga á öllum aðgjörðum hans; þeir feldu tré í þessa krókóttu farvegu og settu harðskeytt lið í skógarkjarrið þétta, sem óx fram með fljótinu.

Svona fóru margar vikur í árangurslausar tilraunir. Alt lagðist á eitt móti Grant: Fenin í kringum vígið, vöxturinn í fljótinu og hugvitsemi vígisbúa í því að eyða öllum tilraunum hans. Her hans hafðist við á endilöngum fljótsbakkanum; þar lágu hertjöldin í röð, því þeim varð hvergi fundinn staður annarsstaðar.

Þegar hitnaði í veðri, urðu hermennirnir sjúkir af óhollustulofti því, sem steig upp af uppistöðuvatninu í foræðunum í kringum vígið. Þá félst hermönnunum hugur. Þeir vildu ólmir fá annan foringja, og kröfðust þess síðast því sem næst einróma. Grant var ekki þjóðvaldsmaður og átti því enga að í Washington, sem voru leiðtogar þess flokks, og enn var hann ókunnur öllum þorra landsmanna. Lincoln einn stóð með honum, og hafði þó aldrei séð hann. Hann mælti djarflega móti því, að hann væri settur frá herstjórninni eða fluttur eitthvað annað. Grant átti sér líka óvildarmenn meðal herforingjanna, og mun öfund hafa miklu um valdið. Halleck, hershöfðingi Norðanmanna þar suður- og vestur frá, kvað Grant vera bæði ónýtan og latan, og lét jafnvel taka hann fastan fyrir óhlýðni. Grant var líka

gefið að sök, að hann kynni ekki að færa sér sigur í nyt; hann kynni ekkert annað en að sigra, og þótti það að sönnu eigi all-lítill kostur á herforingja. Mjög var líka um það rætt, að honum væri það að kenna, að svo margir féllu, og töldu það miskunnarlausar og óþarfar mannfórnir.

Þegar ekkert dugði annað, lét Grant hefja djarflega og harða atlögu. Hann stefndi liði sínu niður eftir fljótsbakkanum; en hestar hans og fóður þeirra, vopn og vegnar, varð eigi flutt eftir slíku þröngstigi. Þá lét hann hlaða flutningaferjur með öllum þessum gögnum, og er náttmyrkrið kom, lét hann bátana renna fram hjá blossandi og dynjandi fallbyssum vígismanna. Þessum eldingum og kúlnaregni urðu þeir að sæta tvær stundir úti á fljótinu. En samt sem áður hepnaðist svaðilför þessi og hreptu þeir lítinn skaða.

Nú voru menn Grants og allur forði komið á öruggan stað á bak við vígið. Nú hófst atlagan fyrir fult og alt. Fyrst átti hann í höggi við útverði virkismanna og í þeirri hríð tók hann borgina Jackson, höfuðborg skilnaðarmanna í því ríki, og hóf upp fána sambandsmanna á ríkishöllinni. Að því búnu settist hann um vígið í vellandi sumarhitanum.

Kastali þessi var svo ramlega víggirtur, að engin leið var að taka hann með áhlaupi. Her Grants þokaði sér þó nær og nær fet fyrir fet, með því að grafa sér göng neðanjarðar. Sóttu þeir nú fram eftir skurðum og jarðgöngum, unz þeir voru búnir að umkringja kastalann að baki; en að framan voru fallbyssubátar þeirra og vörðu kastalabúum

leið út á fljótið; setti nú Grant hergarð um vígið þeim megin sem frá fljótinu vissi. Kastalabúar vörðust samt hraustlega með byssum sínum, þangað til hungrið fór að sverfa að þeim, því að nú gátu þeir ekki aflað sér neinna vista framar. Bátarnir á fljótinu og fallbyssurnar í víginu skutust nú á nætur og daga. Kastalamenn grófu sér nú jarðfylgsni og voru þau eina afdrepið fyrir hinu látlausa kúlnaregni; í þeim hreiðruðu sig karlar, konur og börn.

Loks gáfu kastalamenn upp vörnina, og stjörnufáni sambandsmanna blakti nú yfir þessu brjóstvirki skilnaðarmanna. Herstjóri þeirra, Pemberton, var ættaður frá Pennsylvaníu, en sagði sig úr her sambandsins í upphafi ófriðarins og gekk í her uppreistarmanna. Þeir Grant höfðu hitst í Mexikóleiðangrinum. Þá voru bjartari og blíðari dagar. Þeir settust nú í forsælu undir eikartré og rifjuðu upp fyrir sér minningarnar frá þeim dögum. Síðan ræddu þeir með sér uppgjafaskilmálana.

Þetta gjörðist á þjóðminningardegi Bandaríkjanna 4. júlí, sama daginn sem sambandsmenn héldu þakkar- og fagnaðar-hátíðina út af sigrinum við Gettysborg. Þá var fáni uppreistarmanna dreginn niður í Vicksborg. Herteknar voru 12,000 manna, en jafnframt náðist mikill vopnakostur, fallbyssur svo hundruðum skifti og 50,000 handbyssur. Grant veitti það móti uppgjöfinni, að skilnaðarmenn mættu slyppir á burt fara, en lét þá sverja eiða, að þeir skyldu aldrei framar bera vopn móti sambandinu. Kastalamenn hlóðu nú saman vopnum sínum og gengu út milli fylkinganna; en Grant

bannaði mönnum sínum að æpa siguróp, til virðingar við hreysti hinna.

Jefferson Davis forseti leysti þá síðar af eiði sínum, og mæltist það illa fyrir.

Lincoln hlustaði eftir fréttum frá Grant nætur og daga. »Ekkert heyrist frá Grant enn!« mælti hann, þegar hann fór yfir hraðskeytin síðla eina nóttina. »Hví fréttum vér ekkert af Grant? Eg skal vera á fótum, þangað til eg fæ fregnir«. Til Vicksborgar lá enginn sími. Þessi dýrmætu fagnaðartíðindi varð því að senda norður eftir fljótinu, alla leið til Illinois, með gufuskipi, áður en þau gætu náð í síma til Washington.

Þegar fregnin svo loksins kom, þóttist Lincoln hafa fengið ríkuleg laun fyrir vökuna. Allir æptu af fögnuði. Washington ómaði öll af hljóðfæraslætti og söng; var það í fyrsta sinn frá því er ófriðarskýinu brá yfir hana. »Vissulega gleðst eg af því, að sjá yður hér saman komna í kvöld«, sagði Lincoln, út um glugga á Hvíta húsinu, við hinn fagnandi mannfjölda úti fyrir, »en þó vil eg ekki segja, að eg þakki yður fyrir heimsóknina; en eg þakka almáttugum Guði af heilum huga fyrir það, að yður gafst þetta tækifæri til að heimsækja mig«.

Banks, einn af herstjórum sambandsmanna, tók hið öfluga vígi Port Hudson og 7000 manna. Var þá alt Missisippi-fljótið á valdi sambandsmanna og varð þá rýmra fyrir þar vestur frá.

Borginni New Orleans náði Butler flotaforingi (1. maí 1863) að fullu og öllu á vald sambandsmanna. Hann hafði haldið með nokkuð af flotanum suður í Mexikó-flóa og sótti þangað og lagðist fyrir borg-

ina og gafst hún þá upp. Eftir það gátu gufuskip sambandsmanna farið tálmunarlaust frá St. Louis til New Orleans.

Í Springfield í Illinois kom almenningur saman úr efri Missisippi-dalnum til að fagna því sameiginlega, að nú væri hinn náttúrlegi þjóðvegur, fljótið, öllum opinn að nýju. Þessari þjóðsamkomu sendi Lincoln bréf og lýsti þar þakklæti sínu við Guð og menn. Kjarninn í því bréfi var þetta: »Faðir vatnanna fellur nú aftur til sjávar óáreittur«. Hann mintist þess, er hann hafði á ungum aldri flotið á fljótsins breiða barmi á flutningseikjunni. En samt sem áður varaði hann fundarmenn við að vera »of vongóðir um skjótan úrslitasigur«.

Áður en þessi tíðindi gjörðust, en á sama árinu (1863), þá var Freemont hershöfðingi settur til forystu í Vestur-Virginiu og Kentucky, og Halleck fyrir mikið lið í Missisippi-dalnum, en Butler og Burnside voru fyrir flotanum. Beuregard var fyrir her skilnaðarmanna í Tennessee og átti orustu við Halleck (6.—7. apríl) og hafði Halleck betur. Burnside komst í færi við borgina Norfolk við landsuðurhornið á Virginiu. Þar voru skipasmíðastöðvar Sunnanmanna, og höfn góð fyrir herskip; urðu hinir þá að gefa upp borgina. Þó brendu þeir áður öll gervibúr og smiðjur, en hleyptu Merrimak, er lá þar á höfninni, í loft upp með púðri, ásamt öðrum smærri skipum.

Í Nyrðri-Karólínu hafði sambandsmönnum orðið drjúgum ágengt og í Georgíu og Florida hleyptu þeir upp þrælum; gengu þeir í hópum undir fána sambandsmanna og reyndust vel að framsókn og

hreysti; var uppreistarmönnum þetta meinsamara en nokkuð annað, því að nærfelt helmingur af íbúum þeirra ríkja voru þrælar. Banks herstjóri í Orleans og Louisiana náði fjölda þræla á sitt vald, og hafði þetta sumar eigi færri en 18 sveitir svartra manna undir vopnum eða um 30,000.

En kálið var ekki sopið, þó í ausuna væri komið. Enn var langt til ófriðarloka. Liðsdrátturinn skall á hæla öllum þessum sigurvinningum. Alt til þessa hafði allur hinn mikli her sambandsmanna verið sjálfboðalið. En við allan ósigurinn árið fyrir (1862) og mikið mannfall, dró mjög hernaðarhug úr þjóðinni; herfarir voru nú eigi lengur neinar skemtifarir. Sjálfboðaliðar gáfu sig ekki fram lengur, til að koma í stað þúsundanna, sem fallið höfðu í orustum eða drepsóttum.

Öll kaupsýsla lá í dái; ollu því hin miklu framlög til hersins og útgáfa pappírsseðlanna. Ekla mikil var á verkafólki og vinnulaun lág, hvarvetna var því fýsilegra að sitja heima og vinna, en að gefa sig í herþjónustu.

Stjórnin átti því ekki annars úrkosta en að láta fram fara liðsdrátt og þröngva mönnum til herþjónustu. Erindrekar hermáladeildarinnar börðu hvarvetna að dyrum í landinu og skrásettu nöfn allra, sem voru á herskyldualdri; var nafn hvers manns í hverju umdæmi skráð á sérstakan seðil. Drátturinn fór svo fram, að bundið var fyrir augu á manni, dró hann svo einn seðil í senn og las svo upp nafnið; sá, sem nafnið átti, varð svo að fara í herinn eða greiða að öðrum kosti 300 dala fébætur.

Þetta liðsdráttarvald, sem stjórnin tók sér, vakti megna gremju hjá verkamönnum í New York; þótti þeim með þessu gengið á hlut verkamanna, en auðmönnum vera vilnað í. Hófst nú voðalegt uppnám í borginni, og stóð í fjóra daga; tryltur múgurinn fór um borgina og drap, brendi og rændi. Öll störf lögðust niður. Þessi uppreist varð eigi stöðvuð, fyr en þúsund manna voru fallnir og særðir, og eignatjónið metið á 2 miljónir dala. En er drátturinn skyldi fram fara að nýju, urðu erindrekar stjórnarinnar að hafa 10,000 hermanna við hendina, til þess að drátturinn gæti farið fram í fullu næði.

Lincoln tók sér þetta uppþot verkamanna óvenjulega nærri, því að þeirra vegna, fremur öðrum, var hann að leitast við að bjarga sambandinu. Verkamenn sættu sig þó hvarvetna við þessa ströngu kvöð annarsstaðar. Sigurvinningar sambandshersins við Gettysborg og Vicksborg greiddu líka fyrir liðsdrættinum og hið alvarlega hernaðarstarf, sem ríkin höfðu með höndum.

Við þetta lifnaði sjálfboðaliðsandinn að nýju, og fór svo, að eigi þurfti að draga svo mikinn fjölda liðsmanna.

Lincoln átti aldrei því happi að hrósa, að sambandsmenn væru allir sem einn maður gegn skilnaðarmönnum. Það varð heldur eigi hlutskifti hans, að beina sameinuðum her alríkisins gegn útlendum fjandmönnum. Samlandar, bræður, voru að berast á banaspjótum. Og nú voru sambandsmenn jafn sundurþykkir um að halda áfram ófriðinum,

eins og þeir höfðu verið í upphafi um að hefja hann.

En þá komu lýðræðismenn til liðs við Lincoln, andstæðingar stjórnarinnar og þjóðvaldsmanna. Nú vottuðu þeir þjóðinni hollustu sína með því að senda 10,000 hermanna til aðalhers sambandsmanna og kusu fulltrúa til sambandsþingsins, er studdu málstað hersins á þinginu. Stanton og margir helztu herforingjarnir voru úr þessum öfluga flokki þjóðrækinna lýðræðismanna; hefðu þeir eigi reynst sambandinu svo hollir og trúir, sem raun varð á, þá hefði því eigi orðið bjargað.

En svo var uppi annar flokkur, sem bjarga vildi sambandinu með samningum einum. Þeir nefndust »koparhöfðar«, af því að sumir þeirra höfðu höggið sér út frelsisgyðjumynd á koparpeninga (einsentinga) og báru þá svo á sér eins og nælur. Koparhöfðar voru fjandsamlegir hernaðarráðstöfunum Lincolns; en fremur fóru þeir með leynd og æstu menn, en hvað þeim tækist mikið. Lincoln lét sér í léttu rúmi liggja atferli þeirra og lét jafnvel sem hann vissi ekki af þeim; en ráðherrar hans höfðu illan bifur á þeim, því að þeir höfðu ekki skapsmuni forseta; vildu þeir ólmir bæla þá niður, svifta þá málfrelsi og öðrum meginákvæðum, sem þjóðveldið hvíldi á. Fréttablöð þeirra voru gjörð upptæk; þeir voru handteknir með fullu gjörræði, og menn voru lokaðir inni í herköstulum, ef grunur lék á, að þeir heyrðu til þeim flokki.

Lincoln var nú svo settur, að hann hefði getað tekið sér alræðisvald til þess að bjarga sambandinu, virt stjórnarskrána að vettugi og öll þau rétt-

indi, sem hún veitti borgurunum. En Lincoln var alt annað í mun en að færa sér svo í nyt það vald, er hann hafði. Hann hataði alt harðræði og hafði beyg af að beita því. Hann réðst aldrei á nokkurn einstakan mann eða gjörði nokkrum manni mein á lífi og limum eða eignum. Það hefir verið sagt og með sönnu, að hann hafi aldrei misbeitt valdi sínu, nema til að gefa upp sakir og líkna öðrum.

Þótt hann hefði hið mesta vald, sem nokkrum manni í Bandaríkjunum getur hlotnast, þá var hann til æfiloka hinn óbreytti, þjóðarinnar maður. Hann var hverjum manni lítillátari. Aldrei átti hann svo annríkt, að hann gæfi sér ekki tóm til einhverja stund dagsins að hlýða á mál manna án manngreinarálits, jafnt æðri sem lægri. Valdið mikla hreykti honum ekki upp eða breytti hið minsta. Hann var jafn-yfirlætislaus og blátt áfram í háttum sínum þá, er hann hafði yfir miljón hermanna að ráða, eins og hann var fyrrum, er hann hélt af stað frá New Salem sem foringi fyrir flokki bænda og búþegna í »Svarta-fálka«-ófriðinum. Þegar hann réð hershöfðingjum sínum eða ráðherrum heilræði, þá gat hann aldrei fengið af sér að tala til þeirra í skipunarrómi alræðismanns.

Sumrinu 1863 lauk með baráttu sambandshersins fyrir því, að náttúrlegur vegur greiddist til Suðurríkjanna yfir Tennessee-fjöllin um Chattanooga. Eina nótt í september barst Lincoln til eyrna, að her hans þar hefði beðið ósigur. Lincoln hafði þá náttstað á hermannahælinu í Washington. »Eg hefi fundið þetta á mér undanfarna daga«, sagði hann, »eg held, að eg finni vandræð-

in liggja í loftinu, áður en þau skella á«. Hann steig þá á bak hesti sínum og reið til borgarinnar í tunglsljósinu, til að gjöra ráðstafanir um að efla herinn að nýju liði.

Fáum vikum síðar vann herinn, undir forystu Grants, hvern sigurinn af öðrum kringum Chattanooga. Hann náði Lookout Mountain með »bardaga í skýjunum«, og sigurinn, sem hann vann við Missionary-hæð, var einhver mesti sigurinn, sem unninn hafði verið undir fána sambandsins.

Fögnuður þjóðarinnar yfir sigurríku sumri náði hámarki sínu við Gettysborg (19. nóvember). Þá kom þar saman múgur manns til að vígja grafreit hinna 35,000 hermanna, sem þar höfðu fallið. Edward Everett var nefndur til að halda þar aðalræðuna, og forseta hafði verið boðið að mæla þar fáein vel valin orð.

Lincoln hafði engan tíma til undirbúnings og virtist láta sig litlu skifta um þennan litla þátt, sem hann átti að taka í vígslunni. Hann ritaði helming ræðu sinnar daginn áður en hann lagði af stað frá Washington og hafði ekkert tóm til að ljúka við hana, fyr en rétt áður en hann gengi út að grafreitnum, þá hripaði hann síðustu málsgreinarnar með blýanti og steig síðan á bak hesti sínum og fór inn í skrúðfylkinguna út á orustuvöllinn. Þar voru 100,000 manna saman komnar.

Ræðumennirnir voru gagnólíkir. Everett hafði átt kost á þeirri mentun, sem hægt var að veita sér á háskólum heima og erlendis, og með því að vera samvistum við lærða menn og ferðast víða um önnur lönd. Og svo var hann frægur

orðinn af lærdómi sínum, að hann var skipaður skólastjóri við Harward-háskóla.

En Lincoln hafði verið missiristíma alls að barnaskólanámi í hálfföllnum bjálkakofa úti í óbygðum og alla æfi verið samvistum við óskólagengið fólk. Smekkur hans á bókmentum var óheflaður, enda átti hann nauman kost á að leggja stund á þær. »Eg hefi aldrei lesið neina skáldsögu til enda á æfinni«, sagði hann einu sinni, og Herndon, lagsbróðir hans, segir: »Hann settist aldrei niður og las nokkra bók spjaldanna milli«. En tvær voru þær bækur, sem hann hafði miklar mætur á, og þær las hann og kunni margt utan að úr þeim. Það var biblían og leikrit Shakespeares. Biblían lá ávalt á skrifborðinu hans í Hvíta húsinu, og er hann var á ferðalögum, þá hafði hann venjulega með sér eitthvert af leikritum Shakespeares.

Ekki gat hjá því farið, að ræður svona ólíkra manna að mentun yrðu bornar saman. Og vinir Lincolns voru hræddir um, að hann hefði ekki búið síg undir að bera fram hið bezta, sem hann átti til. Everett talaði tvær stundir og flutti óvenju fagurt og mælskt erindi. Á eftir söng fjölmenn söngsveit sorgarljóð. Stóð þá Lincoln upp og flutti ræðu sína.

Meðan Lincoln sat, þá gat mannfjöldinn eigi séð hann. En er hann stóð upp og kom í augsýn, þá voru menn svo óðfúsir að sjá »föður Abraham«, þennan ástsæla mann, sem þeir höfðu fylgt, jafnt í stormi sem sólskini, að þeim gleymdist að æpa fagnaðaróp. Þeir tyltu sér á tær til að sjá

hann, kinnfiskasoginn af áhyggjum; hörmungar ófriðarins mátti lesa út úr svip hans. Hann stóð fyrst litla stund þegjandi fyrir augum þeirra og var ekki að sjá, að hann tæki eftir því, að fólkið einblíndi á hann eða hann kannaðist við nokkurn mann meðal allra þessara þúsunda.

Þegar hann tók til máls, lá honum svo hátt rómur, að hver maður í öllum þessum grúa heyrði hvert orð, sem hann talaði; en menn tóku ekki svo grant eftir því í fyrstu, sem hann sagði. Hann hélt á hraðrituðu blaði í vinstri hendi og leit ekki á það, nema að eins einu sinni. Þegar þrjár mínútur voru liðnar, þá hvarf hann úr augsýn og tók sér aftur sæti, og rak þá mannfjöldann í rogastanz. En hann hafði þá lokið máli sínu. Stóð hann nú frammi fyrir ljósmyndara, sem var að taka mynd af þessari stórfeldu samkomu.

Þeir, sem sátu uppi á ræðupallinum, höfðu búist við, að forseti mundi halda alllanga ræðu. Þeir tóku því ekki eftir hinum fáu en kröftugu orðum, sem hann mælti og urðu fyrir vonbrigðum.

»Nú hefir honum brugðist bogalistin«, mælti Seward við Everett, »og það þykir mér leitt; það er honum ekki líkt að halda slíka ræðu«.

En þegar búið var að útbýta ræðunni prentaðri og menn höfðu hana heim með sér úr þrönginni, þangað sem þeir gátu lesið hana í fullu næði, þá var það einróma dómur þeirra, að þetta dásamlega ljóð í óbundnu máli væri óbrotlegt meistaraverk.

Ræðan var svolátandi:

»Fyrir 87 árum komu feður vorir á fót nýrri þjóð á þessu meginlandi, sem getin var í frelsi og

helguð því frumkvæði, að allir menn séu skapaðir jafnir. Nú erum vér að ganga undir stórfelt styrjaldarpróf um það, hvort sú þjóð, sem þannig er getin og þannig helguð, geti haldist uppi til langframa. Vér erum hér samankomnir á þessum mikla vígvelli, til að vígja nokkurn hluta hans til síðasta hvíldarstaðar handa þeim, sem létu hér lífið til þess að þjóðin mætti lifa. Þetta alt er nú ekki nema vel til fallið og viðeigandi. En í víðtækara skilningi, þá getum vér ekki göfgað, ekki helgað, ekki vígt þessa jörð. Þeir hinir hraustu menn, lifandi og dánir, sem hér hafa barist, hafa vígt hana langt fram yfir það, að vorir veiku kraftar geti við aukið eða af tekið. Heimurinn gefur því lítinn gaum, er vér mælum hér og mun það eigi lengi að minnum hafa; en hinu getur hann aldrei gleymt, hvað þeir gjörðu hér. Það liggur nær, að vér, sem lifum, vígjum oss því ólokna starfi, sem þeir, er börðust hér, hafa svo drengilega á veg komið; það liggur nær, að vér vígjumst hér allir til þess mikilfenglega ætlunarverks, sem nú er óunnið og oss er fyrir höndum: að af dæmum þessara heiðruðu föllnu drengja, glæðist hjá oss hollusta við það, sem þeir létu síðasta mæli hollustu sinnar í té — að vér gætum þess vel, að þeir, sem fallið hafa, hafi eigi látið lífið til ónýtis — að þessi þjóð verði, undir stjórn Guðs, endurborin til frelsis og að stjórn þjóðarinnar, af þjóðinni, fyrir þjóðina, týnist eigi af jörðunni«.

Þegar Everett var búinn að lesa þetta erindi forseta, þá varð hann fyrstur manna til að sjá, hvað það hafði til síns ágætis. »Mér mundi vænt

um þykja«, ritaði hann, »ef eg gæti hrósað mér af því, að mér hefði tekist að koma meginhugsjóninni jafnskýrt í ljós á tveimur stundum við þetta tækifæri, eins og yður tókst á tveimur mínútum«.

Ræðan er svo snildarlega samin, að hún er talin með því, sem ágætast þykir vera í bókmentum Bandaríkjanna. Og frægur enskur rithöfundur taldi hana jafnast við hið snjallasta í ritum Forn-Grikkja að málsnildinni til.

Lincoln samdi líka þessa ræðu á þeim tíma, er hann sá fyrst rofa til í skýjum styrjaldarinnar. Þau skýjarof blésu honum nýjum vonaranda í brjóst. Hann sá »heimkynni frelsisins« fram undan sér, eins og hann komst að orði í þingsetningarræðu sinni (í des.), »leyst úr ánauð, endurborið, stækkað, svo að uppi mundi vera, meðan lönd væru bygð«.

Það var ekki nema eðlilegt, að trúarlíf Lincolns tæki gagngjörðri breytingu einmitt um þær mundir, er þjóðin hans stóð eins og milli lífs og dauða. Alt til þessa hafði hann lifað í þeirri trú, sem foreldrar hans höfðu innrætt honum og lífsreynslan svo styrkt og staðfest hjá honum. En sú trú var sem blóm í knappi, vanþroskuð og beið eldraunar, til þess að hún gæti brotist út og borið fullþroskaðan ávöxt.

Eftir orustuna við Gettysborg fór Lincoln til fundar við Sieckles herforingja, sem mist hafði annan fótinn í orustunni. Við það tækifæri sagði Lincoln hinum særða foringja frá trúarreynslu sinni í sambandi við þá orustu.

»Eg bar engan kvíða fyrir orustunni við Gettys-

borg«, sagði hann, »en ef yður langar í raun og veru til að vita, hvernig á því stóð, þá vil eg segja yður það. Þegar orustan stóð sem hæst, þá gekk eg inn í herbergi mitt og kraup til bænar og bað almáttugan Guð um sigur. Eg sagði honum, að þetta land væri hans land og þetta stríð væri hans stríð og vér gætum eigi háð fleiri orustur líkar þeim, sem háðar voru við Fredericksborg eða Chancellorsville. Og á þeim stað og stundu vann eg skapara mínum það hátíðlega heit, að ef hann vildi vera með drengjunum hjá Gettysborg, þá vildi eg vera með honum. Og hann *var* með þeim og eg *vildi vera* með honum. — Að lokinni bæninni — eg veit ekki, hvernig það varð, eg get enga grein gjört fyrir því — þá fór það einhvern veginn svo, að inndæl huggun fylti sálu mína; eg fann svo glögt, að Guð almáttugur hafði tekið alt í sínar hendur og að oss væri ætlað að vinna sigurinn«.

Þá spratt trúarblóm hins mæta manns út úr knappinum.

Síðasta árið, sem Lincoln lifði, spurði prestur einn frá Illinois hann, hvort hann væri *kristinn.* Og því fór fjarri, að Lincoln þyktist við þessa nærgengni prestsins, eins og margur í hans sporum mundi gjört hafa, og ekki sízt maður, sem borið hefði jafn ótvíræðan vitnisburð um guðrækni, eins og Lincoln gjörði í bréfum sínum, ræðum og viðtali við aðra og í dagfari sínu, heldur svaraði hann blátt áfram í allri einlægni:

»Þegar eg skildi við vini mína í Springfield, þá bað eg þá að biðja fyrir mér; en þá var eg ekki

kristinn. Og þegar eg stóð yfir moldum sonar míns — en það er þyngsta æfiraunin mín — þá var eg heldur ekki kristinn. En þegar eg fór til Gettysborg og sá leiði hermanna vorra, svo að þúsundum skifti, þá helgaði eg mig Kristi, þá gafst eg honum«.

Eftir orustuna við Gettysborg urðu hamingjuskifti með ríkjunum; þá var útséð um, að uppreistarmenn gætu farið herskildi um Norðurríkin, eins og fyrir var ætlað. Sendiboðar skilnaðarmanna höfðu sífelt róið undir, að Napóleon Frakkakeisari viðurkendi, að Suðurríkin væru sjálfstætt Bandaríki. En keisari kvað aldrei upp úr með það og sneiddi hjá styrjöldinni í Bandaríkjunum. En hins vegar hafði hann hug á, að ná Mexicó á sitt vald, er þá hafði brotist undan Spánverjum og gjörst þjóðveldi. Gjörði hann í því skyni bandalag við Breta og Spánverja, og gjörðu þeir út her þangað, eins og fyr er getið. Var svo látið heita, að sú leiðangursför væri gjörð til þess að ná bótum af Mexikó-búum fyrir það, að þeir hefðu gengið undan Spánverjum og jafnframt til að tryggja erlendum mönnum grið og friðarvist í landinu. Spánverjar lögðu mest til fararinnar og ætluðu þeir að koma einum af ættingjum Spánardrotningar þar til valda. En Napóleon sveik Spánverja í trygðum og náði Mexikó á sitt vald, kollvarpaði þjóðveldinu og setti þar keisaradæmi á stofn, þvert ofan í Monroe-ákvæðið. Urðu þá Bandaríkjamenn að þola það, að einveldi væri sett á stofn á »þjóðveldisrústum«. Varð fátt með þeim og Frökkum eftir það.

Til voru þeir á Englandi, sem ekki var það fjarri skapi, að Bandaríkin klofnuðu í tvo eða fleiri

parta; töldu þeir Lincoln heimskan harðstjóra og þrek sambandsmanna þráa og ráðlaust ras; og líktu því saman að gefa svertingjum lausn og að vilja þvo þá hvíta. En meðal Breta voru líka ekki allfáir, sem kváðu það mestu vanhyggju að óska þrælamönnum sigurs, því þrælaeigendur þyrftu hvorki að fást við störf né iðnað og hneigðust því til hermensku og mundu verða herskátt höfðingjaveldi. Á gamlársdag (1862) áttu menn af þessum flokki fjölsóttan fund og lýstu því yfir, að þeir hefðu andstygð á þrælahaldi Suðurríkjanna og viðleitni þeirra á að reisa þjóðríki á slíkum grundvelli. Þeir luku lofsorði á Lincoln og ráðuneyti hans fyrir það, að hann vildi koma ríkjunum aftur í einingarsamband og leysa svertingja úr ánauð. Þeir samþyktu einróma ávarp til Lincolns-stjórnarinnar, þar sem þeir báðu Lincoln allrar hamingju í lausnarmáli þrælanna, og að hann mætti engan bilbug láta á sér finna og eigi láta hugann hverfa frá því erindi, sem Guð hefði honum á hendur falið. Seinna voru haldnir enn fjölmennari fundir og fóru ræður og ályktanir í sömu stefnu.

Það mýkti líka mjög hug Breta, að Norðurríkjamenn efndu til mikilla samskota, þegar neyðin og atvinnuleysið, sem leiddi af baðmullarteppunni vestan hafs, krepti sem mest að verkamönnum Breta, og sendu stórfarma af vistum til Englands, til að bæta úr neyð þurfamanna í verksmiðjuhéruðunum á Englandi, þeim er verst voru stödd; þágu Bretar sendinguna með þökk og alúð.

Lincoln hrósaði bæði Bretum og Frökkum í ræðu; en þó sagði Seward í bréfi til sendiherra Banda-

ríkjanna í París, »að til fjandskapar mundi draga með þeim og Frökkum, ef þeir stofnuðu keisaradæmi í Mexíkó, og seinna (1864) lýsti ráðuneytið í Washington því yfir, að Bandaríkin mundu hvergi kannast við einvaldsríki á meginlandi Ameríku, ef það væri reist, þar sem þjóðveldi væri fyrir.

Suðurríkjamenn voru gramir yfir undirtektum Breta og Frakka. Jefferson Davis kvaddi sendiherra sinn, Mason, heim frá Lundúnum, því að honum þótti stjórn Breta verða því ógreiðari í öllum undirtektum, sem Suðurríkin bæri lægri hlut í stríðinu. Frakkar höfnuðu líka boðum Suðurríkjanna; ámælti Jefferson Davis stórveldunum fyrir, að þau hefðu svo snúið baki við, en mest fyrir það, að þau hefðu þolað hafnbannið, þeim sjálfum og Suðurríkjunum til óbætilegs tjóns.

Þegar sambandsmenn gengu á þing (í des. 1863), þá skýrði Lincoln frá hag og framgangi ríkisins og tók margt fram, sem sýndi, að vonir hans um úrslitasigur voru ekki á sandi bygðar. Árstekjurnar væru mun meiri en útgjöldin og þyrfti því eigi að leggja á nýja skatta að svo stöddu. Í flotanum væru 588 herskip stór og smá. Enn fremur sagði hann, að 100,000 svertingjar væru leystir úr ánauð til herþjónustu og væri helmingur þeirra þá þegar undir vopnum í herdeildunum.

»Vart mun nokkrum manni«, sagði hann, »farast svo sögur af þeim, að þeir séu eigi svo hraustir og víghæfir sem hinir hvítu menn«.

Hann tók þvert fyrir, að hann mundi láta nokkru breytt um lausnarboðun þræla eða sleppa nokkr-

um í ánauð aftur, sem frelsi bæri, eftir því sem um væri mælt í lausnarboðun sinni.

Enn má þess geta, að um 80,000 manna frá Norðurálfu og víðar að, fluttust til Norðurríkjanna á árinu 1863, og tóku sér þar bólfestu; má af því sjá, að hægra var þar að skipa í skörðin en í Suðurríkjunum.

## XXV. KAPÍTULI.

### *»Hafið ekki hestaskifti«.*

Að sumu leyti varð árið 1864 Lincoln þyngst í skauti. Sigurvinningarnar 1863 hrestu upp huga þjóðarinnar og var hún nú óðfús á, að styrjöldinni væri að fullu lokið vorið 1864, jafnskjótt og hersveitir sambandsmanna tækju sig upp úr vetursetunni undir forystu Grants yfirhershöfðingja, og sæktu á hendur Sunnanmönnum. En þær björtu vonir brugðust. Þeir hershöfðingjarnir Lee og Johnston tóku hraustlega móti, og leið svo hver vikan af annari, að enginn sigur vanst, en mannfallið varð ógurlegt í liði sambandsmanna. Þá félst þeim hugur. En þá kom svolátandi hraðskeyti frá Grant: »Á þessum vígstöðvum ælta eg að berjast, þó að svo alt sumarið fari í það«. Við skeyti þetta hertu þeir aftur upp hugann. En samt fór hrollur um þjóðina út af mannfallinu mikla í orustunum í Wilderness, Spottsylvaniu og Cold Harbor. Grant var búinn að missa 50,000 manna í viðureigninni við Lee; en þrátt fyrir það staðréð hann með sér að setjast um Petersborg, og var það þó alt annað

en árennilegt. Um sömu mundir átti Sherman hershöfðingi við Johnston í Georgiu og vanst smám saman á, en þó með því móti að missa fjölda manna.

Í þessu tvísýna myrkviðri var Lincoln að heyja baráttu á kjörstöðunum fyrir endurkosningu sinni. Byltingagjarnir þjóðvaldsmenn voru opinberir andstæðingar hans, stofnuðu til kosningaþings og nefndu þar John. C. Freemont til forseta. »Einhvern annan en Lincoln«, kvað við hjá þingmönnum þjóðvaldsmanna því sem næst einróma. Lincoln sagði það sjálfur, að í neðri málstofunni ætti hann ekki nema einn vin, sem hann gæti reitt sig á.

Enginn af leiðtogum flokksins hafði þó yfir því að kæra, að Lincoln hefði sýnt þeim nokkra persónulega lítilsvirðingu. Hann hafði tekið það tillit til skoðana og tilfinninga allra manna, að fágætt þótti vera. Aldrei hafði hann deilt við nokkurn mann; skapferði hans var svo undursamlegt, að það stóðst allar skyldur og vanda, sem á hann lögðust. Sál hans var svo göfug og hógvær, að hann átti aldrei í persónulegu þrasi né ritdeilum; hann reis ekki upp öndverður til að hrekja hverja árás, sem á hann var gjörð, ekki einu sinni hina ranglátustu.

»Ef alt reynist rétt hjá mér að lokum«, sagði hann, þá verða allar árásir á mig að engu; en ef það kemur í ljós að lokum, að eg hafi haft rangt fyrir mér, þá gagnaði ekkert. þótt tíu englar ynnu eið að því, að eg hefði haft rétt fyrir mér«.

Lincoln deildi aldrei á aðra né fann að gjörðum þeirra; og hann gjörði heldur aldrei neina grein

fyrir því, hví hann gjörði þetta eða hitt. Og aldrei lagði hann það í vanda sinn, að tala opinberlega um lagsbræður sína. Aldrei hafði hann hótanir í frammi við einstaka menn, né hefndi sín. Hann lét sig engu skifta, þó að Chase fjármálaráðherra hans byði sig fram til forseta móti honum.

Andstæðingar Lincolns fundu honum það einkum til foráttu, að hann væri ekki búinn að leiða ófriðinn til lykta og væri utan allra flokka, en það vildu þeir ekki að forseti væri. En Lincoln lét stjórnast af samvizkusemi, en hvorki þingmálafundum né þingmannafundum í málstofunum. Hann vildi ekki vera háður neinum sérstökum flokki, heldur lagði alt kapp á að hafa frjálsar hendur til að þjóna þjóðinni allri og öllum flokkum.

Einu sinni skýrði hann afstöðu sína með »smásögu«. Sagan var af förumannahyski, sem var svo gjarnt á að flakka, að krakkarnir voru vanir að fleygja sér á bakið og krossleggja hendurnar, hve nær sem þau sáu vagn koma, svo ekki þurfti annað enn að hleypa böndum að þeim. Síðan heimfærði hann söguna til sín:

»Ef eg léti að óskum hverrar nefndar, sem kemur inn úr dyrunum hérna, þá færi eg nákvæmlega að eins og krakkarnir: krosslegði hendurnar og léti yður binda mig«.

Þegar styrjöldin stóð sem hæst og líf þjóðarinnar var í veði, þá hefði verið úti um alt viðnám, hefði hann verið flokksmaður.

Í ráðuneyti hans voru lýðræðismenn í meiri hluta, og þeir Mc Clellan, Burnside, Meade og Grant, hershöfðingjar hans, voru eigi taldir til þjóðvalds-

manna. En hollusta Lincolns við sambandið réð meira en alt annað. Hann gleymdi öllum flokkakreddum, gleymdi sjálfum sér; allur hugur hans hneig að sambandinu einu.

Þegar hann heyrði að setja skyldi af hershöfðingja fyrir það, að hann hefði haldið ræðu til stuðnings Mc Clellan, forsetaefni lýðræðismanna, þá stöðvaði Lincoln þá skipun hermálaráðgjafa síns. »Það er ekki brot á hernaðarreglum«, sagði hann, »þó að einhver styðji Mc Clellan hershöfðingja til forseta og þegar um það er að ræða, hvort heldur skuli kjósa hann eða mig — jæja, þá er um þetta að velja: eg er lengri, en hann er fríðari sýnum«.

En jafnskjótt sem allur fjöldinn af flokksmönnum Lincolns létu til sín heyra, þá var heiðum deginum ljósara, að traust þeirra hafði ekkert veikst við árásirnar á hann; þeir vildu engan annan hafa að foringja. Með skapferli sínu hafði hann smám saman áunnið sér traust og virðingu viturra manna og allra kaupsýslumanna. Þjóðin, eða »óbreyttur almúginn«, eins og kallað er, hafði laðast að honum eins og ósjálfrátt; hún fann, að hann var hennar maður; hún var fremst í flokki um að fella traust til hans, hún treysti viturleik hans, heilbrigðri skynsemi hans og meðfæddu valdi hans til að leiða aðra.

Og þegar andstæðingar hans, stjórnmálamennirnir, hrópuðu hæst og tóku saman ráð sín móti honum, þá hóf almenningur raust sína til liðs við hann; þá varð kurr hinna að þagna. Ríkjaþing og þjóðfundir í austri og vestri lýstu því svo ein-

róma yfir, að þeir fylgdu honum, að ekki orkaði tvímælis.

Freemont hershöfðingi, sem »afnámsmenn« höfðu nefnt til forseta, baðst undan kosningu og hvatti fylgismenn sína til að kjósa Lincoln. Lýðræðismenn tvískiftust; annar flokkurinn vildi halda stríðinu áfram, unz skilnaðarmenn létu undan og gengju til hlýðni við sambandið, að lögum þeirra og réttarfari óhögguðu; hinir vildu það til friðar vinna, að leyfa þeim að ganga úr sambandinu. Hinn fyrnefndi flokkur vildi gjöra Mc. Clellan að forseta, en hinir síðarnefndu Seymour ríkisstjóra í New York, enda voru það kaupmennirnir í New York, sem ákafastir voru um friðinn.

Seward ráðherra fylgdi Lincoln fast að málum. Hann talaði snjalt til alþýðu á málfundum og kvað það hollast, að Lincoln væri endurkosinn, og sagði, að mansalið og þrælahaldið væri undirrót ófriðarhörmunganna. »Fyrir stríðið«, sagði hann, »færði stjórnin afsökunarmál og rök fyrir þrælahaldi, þar sem allar siðaðar þjóðir hins vegar ámæltu oss fyrir það. Og áður en stríðinu lýkur, væntir mig, að vér hötumst allir við þrælkun meira en nokkur þjóð önnur«.

Í Auburn (nálægt New York), þar sem Seward var fæddur, mælti hann meðal annars: »Hversu lengi mun stríð þetta standa? spyrja ýmsir. Til eilífðar stendur það ekki; en fyr mun því eigi linna, en vér eða fjandmenn vorir erum að þrotum komnir. Er yður í mun að hætta stríðinu við svo búið? (Þá hrópuðu sumir: »Nei, aldrei!«). Þér segið »nei« og »aldrei«, en hvers vegna? Beint af

því, að ef vér gefum upp sóknina, þá gefum vér upp þjóðlíf vort; það mun þá þverra og að engu verða«. Og síðast sagði hann: »Mér kemur hvorki nú né nokkurn tíma til hugar, að ganga á vald fjandmanna vorra. Lyktir þessa stríðs, sem vér erum að heyja fyrir heilagt málefni, geta eigi orðið ógiftusamar. En takist illa til, verður það vettvangur, þar sem vér hnígum orkuvana, helgur hvíldarstaður um allan aldur öllum þeim, sem unna framförum og mannréttindum, og þaðan mega þeir ávalt afla huga sínum þróttar«.

Þegar kjörþingið mikla kom saman (8. júlí 1864) þá sveif andi Lincolns yfir því. Hann var ekki kosinn fyrir hönd þjóðveldismanna, heldur sambandsins. En Andrew Johnson, ríkisstjóri í Tennesses, var nefndur til varaforseta. Það voru að eins fáeinir stjórnmálamenn, sem beittu sér fyrir því, að Lincoln yrði kosinn til varaforseta, en varð ekkert ágengt.

Kjörþinginu var nú frestað, en fulltrúarnir fóru á fund Lincolns að árna honum heilla. Þá var það, að hann mælti þau orð, sem aldrei hafa síðan gleymst með þjóðinni.

»Eg leyfi mér ekki að halda því fram, að kjörþingið hafi ályktað, að eg sé annaðhvort mestur eða beztur maður í Ameríku; hitt ætla eg heldur, að þeir hafi ályktað, að óráð sé að hafa hestaskifti, meðan verið er að fara yfir fljótið, og að eg sé ekki svo lélegur klár, að þeir geti ekki baslast við mig, meðan þeir eru að reyna að hafa hestaskifti«.

Þetta alþýðlega spakmæli sökk til sálarbotns hjá alþýðu manna og varð líklegast veigamesta

röksemdin í öllum þessum kosningaleiðangri. Það varð að því orðtaki, sem greip alla.

Á vígstöðvunum gekk alt í sama þófinu fram á haust. Aldrei höfðu leiðtogar þjóðveldismanna kiknað meira undir þunga ófriðarins. Kaupsýslumönnunum, sem grætt höfðu of fjár á stríðinu, fór nú líka að þykja óvænlega áhorfast. En alþýðu manna hrakti lítt af leið í hollustunni við Lincoln né í þeim ásetningi, að halda stríðinu áfram.

Hershöfðingjar Sunnanmanna: Early, Ewell og Breckenridge tóku nú að leika sama bragðið og Lee hafði leikið tvisvar áður, og sóttu norður yfir Pótómakfljótið og inn í Maryland og gerðu hinn mesta usla og landauðn. Sambandsmenn höfðu þar lítinn liðskost til bráðataks, svo að Wallace herforingi þeirra beið ósigur fyrir þessum uslagestum. Þeir gjörðu nú mikil spellvirki á járnvirkjum og bæjum í Maryland og Pennsylvaníu og ræntu svo miklu fé og föngum, sem þeir fengu yfir komist. Í höfuðborginni stóð mönnum hinn mesti geigur af þessu. En ekki réðust þeir á borgina, heldur ætluðu þeir að skjóta sambandsmönnum skelk í bringu, svo að stjórnin neyddist til að kveðja Grant heim frá Richmond til að verja Washington.

Nú blasti stjórnarhöllin við Sunnanmönnum í fullri dýrð. Nú var hjálmhvolfið yfir henni fullsmíðað, því að Lincoln hafði látið halda þeirri smíð áfram á ófriðarárunum. Borgarmenn bjuggust til varnar eftir föngum. Skrifarar stjórnarinnar öxluðu byssur og höfðu fáeinar þúsundir manna

til varnar, ef til kæmi. Forseti kom jafnvel sjálfur á vettvang og lét Sunnanmenn sjá sig.

Gullið hækkaði nú óðum i gengi í Washington. Einn gulldalur jafngilti loks 2,85 dölum í pappírspeningum. Ekkert reyndi meira á þolinmæði Lincolns en fégræðgin, er rak svo margan til að gjöra sér hvern neyðarkost, sem þjóðin varð fyrir, að féþúfu. »Eg vildi óska, að hin djöfullegu höfuð væru skotin af þeim«, hrópaði hann upp, er hann átti tal um »gullhákarlana« við ríkisstjórann í Pennsylvaniu. Má af þeim orðum hans ráða, hve sárt honum hefir sviðið fégirnd þeirra, er þeir notuðu sér neyð þjóðarinnar til gróða, því að hann var hverjum manni seinþreyttari til reiði.

Þegar fregnirnar af þessari innrás Sunnanmanna bárust til Norðurálfuunar, þá glæddust þeim aftur vonir, sem biðu eftir því að sambandið færi í mola, svo sem keisara Frakka. En þeim varð ekki kápan úr því klæðinu. Var nú gjörður mikill liðsafnaður af landvarnarliði að skipun forseta og Grant sendi herdeildir frá Vestur-Virginíu norður til móts við heimsóknarher Sunnanmanna; hörfuðu þeir þá aftur suður yfir fljótið. Borgarmönnum í Washington létti þá fyrir brjósti, því að svo voru þeir orðnir skelkaðir, að þeir voru búnir að útvega gufuskip, svo að flytja mætti ráðuneytið á óhultan stað.

Margir stjórnarmenn réðu Lincoln frá að kveðja menn á ný til hersins, því að þá mundi hann eigi verða endurkosinn. Þeim ráðum stakk hann undir stól. »Hér er alls ekki um persónulegt mál að ræða«, svaraði hann, »hverju varðar, hvað um mig

verður; mennina þurfum vér að fá. Sökkvi eg, þá vil eg sökkva eins og Cumberland með fánann minn blaktandi yfir mér«.

Skömmu seinna kom Averil, einn af undirforingjum Hunters herforingja, móti Sunnanmönnum og lagði þegar til orustu, drap og handtók marga þeirra, og spilti svo fyrir þeim öllum árangri fararinnar.

Eftir þá orustu létu Sunnanmenn fyrirberast í Shenandóa-dalnum um hríð.

Liðskvaðningin var birt og krafist 500,000 og urðu menn forviða, og fylgdi það með, að yrði sambandsríkin eigi búin að safna nægu sjálfboðaliði í september, þá færi liðsdráttur fram.

Árásirnar á Lincoln og stjórn hans urðu æ þyngri, því að engar sigurfregnir bárust enn frá meginhernum kringum Richmond. Í þess stað voru sjúkir menn og sárir alt af að koma í hópum til Washington. Lincoln varð hvergi gengið út frá Hvíta húsinu svo, að eigi færi hann fram hjá sjúkrahúsum. Og alstaðar voru örkumlaðir hermenn að staulast. Og er hann ók til sumarbústaðar síns í Hermannahælinu, þá mátti hann búast við að hitta fyrir langar raðir af sjúkravögnum, er fullir voru af þjáðum mönnum.

»Eg get ekki þolað þetta«, sagði Lincoln einu sinni við förunaut sinn, er hann hafði snúið sér frá slíkri hrygðarmynd. »Þetta er hræðilegt«. Förunautur hans reyndi að gjöra honum léttara í skapi, með því að fullyrða við hann, að herinn hans mundi áreiðanlega vinna sigur. »Já«, svaraði hann, »sigurinn kemur, en hann kemur seint«.

Marga nóttina kom Lincoln eigi dúr á auga. »En hvað eg vildi nú gjarna skifta kjörum við einhvern hermanninn í Pótómak-hernum, sem sefur úti á víðavangi«, varð Lincoln að orði einn morguninn, og stundi við. Að svo mæltu gekk hann þreyttur og svefnvana að dagstörfum sínum.

Lincoln var hið mesta þrekmenni að líkamlegum burðum og lét ekki á sjá, þótt hann væri látlaust að starfa. En svo kendi hann sárt í brjósti um alla hina særðu og sjúku hermenn og ástvini þeirra, að hann var eins og tæringarveikur, lamaður maður. Það var eins og allur þungi þjóðarbölsins hvíldi á honum, bæði opinberlega og einslega. Gömlum vinum hans frá Illinois hnykti við, þegar þeir sáu djúpu rákirnar, sem þessi hörmungatími hafði markað í andlit hans. Hann hugsaði um ekki um neitt, nema úrslit ófriðarins, og lifði eingöngu til að inna það hlutverk af hendi að bjarga sambandinu. Einu sinni sagði hann við Harriett Beecher Stowe: »Eg mun ekki lengi uppi vera, eftir það er þessari styrjöld er lokið«.

Svo leið þá þetta sumar, að enginn sigur var unninn til þess að örfa huga þjóðarinnar. Varð það því æ meiri vafa bundið, hvort Lincoln næði endurkosningu. Lýðræðismenn frestuðu kjörþingi sínu, eins og fyr er sagt, þangað til í ágústlok. Þá átti Mc Clellan vís atkvæði þeirra. Leiðtogar þjóðvaldsmanna mistu loks alla von; beztu vinir Lincolns þóttust vera til knúðir að láta hann vita, að enginn leið væri að því, að hann næði kosningu.

Atkvæðamenn af flokki þjóðvaldsmanna héldu nú ráðstefnu um það, að leggja nú að Lincoln að

draga sig í hlé í þessari vonlausu kosningabaráttu og leyfa öðrum að komast að í sinn stað. Margir hölluðust að því, að í stað hans kæmi B. F. Butler, hershöfðingi sambandsmanna í Massaschusetts. Charles Sumner taldi sig vera trúnaðarmann forseta, en forseti sagði einu sinni brosandi: »Charles Sumner hyggur að hann renni mér!« Þegar leið að kosningu, þá samþykti Sumner, er þá var þingmaður fyrir Massaschusetts í efri málstofunni, að leggja skyldi móti Lincoln og æskti þess, að Lincoln vildi við kannast, að ættjarðarástin krefðist þess, að hann færi frá völdum, af því að hann skorti hagsýni í svo mikilvægri stöðu.

En Lincoln trúði því samt ekki, að neitt væri unnið með því, að »hafa hestaskifti«, enda þótt hann að síðustu væri á því máli, að hann mundi eigi kosinn verða. Lincoln ritaði þá ákvörðun sína, þá er hann hafði saman tekið í kyrþey (23. ág.) og innsiglaði hana.

En ákvörðunin var svo látandi:

»Undanfarna daga og í morgun er víst ekki annað fyrir að sjá, en að þessi stjórn verði eigi endurkosin. En þá tel eg mér skylt að hefja svo samvinnu við hinn nýja forseta, að hann bjargi sambandinu milli kosningar og innsetningar, þar eð hann mun hafa trygt sér kosninguna á þeim grundvelli, að hann getur að líkindum ekki bjargað því eftir það«.

Kjörþing lýðræðismanna var háð síðustu dagana af ágúst og nefndi Mc Clellan til forseta og lýsti því yfir um leið, að nú, er búið væri að heyja árangurslausa baráttu í fjögur ár fyrir því með

vopnum, að sambandið yrði endurreist, því sé tími til kominn að hætta öllum fjandskap og reyna að endurreisa það með friðsamlegum samningum. Þessari skoðun héldu margir fram um þær mundir; þá skoðun höfðu eigi fáir af þjóðvaldsflokkinum.

Grant yfirhershöfðingi var samt öruggur. Hann kvað eigi annað vanta en herzlumuninn; uppreistarmönnum yrði æ þyngra um öll tilföng vopna og vista; en samt kvað hann þeim þykja mestu varða, að geta þreytt varnir, unz forsetakosningu í Norðurríkjunum væri lokið, því að þá væntu þeir þess, að menn yrðu auðsveigðari til friðar og samninga, ef lýðræðismenn kæmust aftur til valda.

Um þetta voru þeir forseti og Grant sambuga, meðan hvorki gekk né rak í stríðinu. Lincoln bar óskorað traust til Grants. Nú gat hann varpað á hann yfirherstjórninni, sem áður hafði legið svo þungt á honum.

En nú urðu hamingjuskifti að nýju. Sigurfréttir fóru að berast af hernum, og sönnuðu þær fljótt og fyllilega, að stríðið var ekki háð til einskis, eins og andstæðingar stjórnarinnar héldu fram.

Sherman, sá er réð fyrir herdeildum í austanverðu Tennessee og Miðríkjunum, vakti þjóðina með þessum boðskap frá Georgíu (2. sept.): »Atlanta er á voru valdi, unnin algjörlega«. Johnston, hershöfðingi Sunnanmanna, hafði hörfað fyrir honum og leitað til kastalans Atlanta. Í þeirri kastalaborg voru miklar vopnasmiðjur og forðabúr alls konar og hernaðarföng; þótti Sunnanmönnum því miklu varða, að henni yrði engin hætta búin.

Georgía var helzta iðnaðar- og verzlunarríkið í Suðurríkjunum, og þótti þrælamönnum því sá óleikur verstur, ef her sambandsmanna næði þar fótfestu, og það því heldur, sem þeir höfðu flutt þangað fjölda af þrælum sínum og herteknum mönnum. Þar var fangelsið Andersonville, sem illræmdast varð fyrir meðferð á herteknum mönnum í þessu stríði. Það voru feiknavíðar kvíar, og inn í þær var svo herteknum mönnum hleypt þúsundum saman, og þarna máttu þeir sitja undir beru lofti vetur og sumar, í beiskjandi hita og nístandi ís. Um þessar mundir sátu þar 32,000 hertekinna sambandsmanna. Þarna lágu þeir í kös í viðbjóðslegum óþrifnaði, sumir í óþverratötrum, aðrir hálfnaktir og lifðu við hundafæði; nú voru þeir hálfvitstola af hitanum (30°) og aðgjörðaleysinu og margir sjúkir. Í kvíar þessar komu alls 45,000 manna, og 12,000 létu þar lífið. Fangavörðurinn, Wirz, þýzkur að ætt, hrósaði sér af því eftir á, að hann hefði drepið fleiri menn í Andersonville en Lee hershöfðingi í orustunum hjá Richmond. Nú var lausnarstund þessara veslings manna í nánd. — Johnston hafði stefnt til sín herdeildum vestan frá Alabama og Louisiana til Atlanta. Sá herforingi var fyrir einni þeirra, er Polk hét. Hann hafði numið hervísindi í æsku, og varð seinna fyrirliði í her; seinna nam hann guðfræði og varð biskup, en átti jafnframt svo marga þræla, að hann var talinn með mestu auðmönnum í Suðurríkjunum. Þegar styrjöldin hófst, tók hann sér sverð í hönd fyrir bagal, enda mun honum eigi hafa þótt sér óskylt málið, að því er þrælaeignina

snerti. Nú féll Polk í þessari viðureign Johnstons og Shermans. Sherman settist um borgina og vann hana. Hood, herforingi Sunnanmanna, er var þar settur fyrir í stað Johnstons sjálfs, hélt á burt, en spilti flestu af verksmíðum og hernaðargjörfi áður. Sherman settist þá í borgina með sínu liði.

Eftir nokkra dvöl hélt Sherman þaðan og settist um Charlestown, höfuðborgina í Syðri-Karólínu. Þótti sú borg í fyrstu óvinnandi, nema með löngu umsátri, því að hún var hin traustasta og ramgjörasta til mótstöðu. Inn að borginni lá mjótt sund milli tanga, en á töngunum voru sterk vígi; en innar fyrir miðju sundi var hólmi, og þar stóð Sumter-vígið fræga og voru þar fyrir 164 fallbyssur. Auk þess var sundunum lokað með járnrekendum og sprengiduflum hleypt þar niður og öðrum farartálma.

Her sambandsmanna hafði sótt borgina bæði af sjó og landi, þar á meðal af 9 járnskipum með skotturnum, bygðum eins og Monitor, og skotvélum innanborðs svo miklum, að aldrei höfðu stærri á sjó komið. Dupont hét foringinn fyrir þeim flota, og skipið hans »Járnsíðan nýja«. Við þessa árás og aðrar síðari árásir höfðu varnirnar veikst svo, að Sherman fékk tekið vígin og borgina á skömmum tíma.

Fám dögum síðar en Sherman tók Atlanta, tilnefndi Lincoln sérstakan dag, að bendingu sambandsþingsins, til »auðmýkingar og bænar«, og kvaddi þjóðina til þakkargjörðar við Drottinn fyrir hjálp á neyðartíma.

Her Earlys, sem fyr er getið, lét fyrirberast í

Shenandóa-dalnum. Sá dalur var eins og breitt hlið milli Suðurríkjanna og Norðurríkjanna, og höfðu Suðurríkjamenn gjört hverja árásina af annari um þann dal til Norðurríkjanna.

Að tæpum hálfum mánuði liðnum frá því er Sherman birti boðskap sinn, kom Sheridan, hershöfðingi sambandsmanna, að þeim í Winchester (19. sept.) efldur að liði og stökti þeim á flótta; eltu þeir svo Early suður eftir dalnum; hófst þar orusta með þeim við Fishers Hill í dalnum, og hafði þá Early eflst að liði. Þar vann Sheridan sigur, og féll fjöldi manna, tók hann þar 20 fallbyssur og 5000 manna.

Þá hélt þjóðin fagnaðarhátíð að nýju.

Sheridan hélt áfram suður eftir dalnum og vann enn sigur á Early hjá Strassborg (19. okt.) og tók 15 fallbyssur og 1200 manna, en af sambandsmönnum féllu og særðust um 5000.

Nú þóttu allar horfur á, að Lincoln mundi bera hærri hlut við kosninguna, er alþýðukosningar færu fram í ríkjunum í nóvember. Kosningadaginn sat Lincoln í hermáladeildinni fram til morguns og tók á móti fregnum af sigri sínum. Þegar hlé varð, las hann hátt kýmnisögur eftir Petroleum W. Nashby, á litla bók í gulri kápu, er hann hafði haft með sér í frakkavasa sínum.

Jafnskjótt sem hann sá, að sér mundi vís sigurinn, mundi hann eftir konu sinni, er sat heima full kvíða, og mælti: »Sendið nú orð rakleitt til konu minnar; hún verður fegnari en eg«. Þegar búið var að telja atkvæðin úr öllum ríkjunum, þá hafði Lincoln hlotið 2,216,067 atkv., en Mc Clellan

1,888,725. New Jersey, Delaware og Kentucky voru einu sambandsríkin, sem ekkert atkvæði greiddu Lincoln. Fulltrúa-atkvæði Lincolns urðu 212, en Mc Clellan hlaut 21.

Þótt langt væri á nóttina liðið, þá sváfu Washington-búar ekki fast. Þegar Lincoln fór aftur heim til sín, þá kom fagnandi söngsveit á móti honum. En Lincoln fagnaði ekki sigri sínum: »Mér er engin ánægja að því, að sigri sé fagnað mér til handa«, sagði hann við söngsveitina. Það, sem honum veitti fögnuð og fullnægju, var það eitt, að nú sá hann, að þjóðin hafði fastráðið að halda stríðinu áfram fyrir sambandið, þangað til yfir lyki. Einum eða tveimur dögum síðar hélt hann aðra ræðu. Í þeirri ræðu sýndi hann fram á, hversu reynslan hefði orðið mikilvæg fyrir þjóðina, því að nú hefði hún sýnt með kosningu sinni, að stjórn, sem á vinsældum að fagna af alþýðu manna, getur staðist við kosningar, þótt þjóðin stynji nndir oki greipilegustu borgarastyrjaldar. »Ef uppreistarmenn gætu þröngvað oss með valdi til að sleppa eða fresta kosningu alþýðunnar, þá gætu þeir með fullum sanni sagt, að þeir hefðu þegar sigrað oss eða gjört út af við oss að fullu og öllu«.

Sambandsherinn hélt áfram sigri hrósandi. Sheridan náði öllum Shendóa-dalnum á sitt vald um veturinn. Var þá eigi lengur innrásum að kvíða þaðan, eins og þrisvar áður. Sherman tók Charlestown, eins og áður er sagt. Thomas, herforingi sambandsmanna, vann sigur á Hood í mannskæðri orustu hjá Nashville í Tennessee og stökti honum

á flótta, og leysti svo Tennessee úr hergreipum Sunnanmanna. Nú mátti sjá fyrir forlög Lees, þegar voraði að.

Lincoln sá nú bjarma upp af friðardegi. Og allir gátu séð ljómann í augum hans, þegar hann sneri sér í huganum frá sverðinu, sem hann hataði, og að olífugreininni, sem hann elskaði.

Sambandsþingið kom saman í desember að vanda. Helsta nýmæli þingsins var það, að engin þrælavinna eða nauðungarvinna, önnur en sú, er fer fram eftir dómi til hegningar, mætti framvegis haldast uppi innan vébanda sambandsins. Þessu var svo sambandsþinginu ætlað að skipa fyrir að fullu með lögum, og þingum ríkjanna að haga skipunum sínum eftir þeim fyrirmælum.

Lincoln var áður búinn að fá samþykki sambandsþingsins til þess, að öllum þrælum væri veitt frelsi, sem væru í þeim ríkjum, sem ynnist aftur í sambandið, og fult jafnrétti þeim, sem teknir væri í herþjónustu. Þegar þing var sett, voru 2 miljónir þræla lausar og 200,000 í herdeildunum. Sagði Lincoln, að engum þeirra skyldi hrundið undir þrælaok aftur, meðan hann mætti mæla. Hann sagði jafnframt, að sú breyting mundi verða borin upp í lögum alríkisins, að mansal og þrælahald yrði bannað í öllum Bandaríkjunum. Var sú breyting áður samþykt í efri málstofu. Hann sagði enn fremur, að nú væri þar komið, að engum mundi til hugar koma að hætta í miðju kafi; of miklu fé og mannslífum hefði verið fórnað til þess, að menn sæktu eigi rétt sinn til þrautar. Skuldir ríkisins væru nú orðnar meira en 2000 miljónir dala.

## XXVI. KAPÍTULI.

### *Líf Lincolns í Hvíta húsinu.*

Nú verður um hríð eigi sagt frá gangi þrælastríðsins. Í stað þess verður sagt frá lífi Lincolns í Hvíta húsinu og börnum hans og sambandi hans við hermenn sína og hershöfðingja, ráðuneyti sitt, lausn hans á þrælunum og hvernig hann reyndist að fengnum sigri.

Styrjöldin náði eigi síður fullum tökum á heimili Lincolns en öðrum heimilum í landinu. Það var eins og útlendar þjóðir væru að berjast, en ekki samlandar. Hvorugir heimsóttu aðra til að syrgja þá, sem fallið höfðu.

Það var sem herlínan lægi yfir heimilisarinn forseta sjálfs. Hann var jafn suðrænn að ætt og uppruna sem forseti skilnaðarmanna, því að báðir voru bornir og barnfæddir í Kentucky. Sumir elztu og kærustu vinir Lincolns voru í liði skilnaðarmanna.

Frú Lincoln var líka frá Kentucky og mjög fasttengd ættmönnum sínum. Maður systur hennar, Ben Hardin Helm, var einu sinni alúðarkunningi Lincolns. — Þegar Lincoln var orðinn forseti, bauð hann honum heiðursstöðu í stjórnarinnar þarfir. Og er hann hvarf aftur heim til Kentucky, bauð Lincoln honum yfirforingjastarf; en eftir harða baráttu við sjálfan sig, gekk Helm í lið með Sunnanmönnum; reyndist hann ágætur hermaður og féll við bezta orðstír í orustunni við Chickamauga.

Það er sagt, að þegar fregnir bárust af þessari orustu til Washington, þá hafi hinn mikli foringi

sambandsmanna fundist grátandi beiskum tárum út af falli þessa kæra vinar síns í stórskotaliði skilnaðarmanna. Styrjöldin sleit sambandið milli konu Lincolns og sumra systra hennar og hendur manna þeirra börðust gegn málefni manns hennar; en yfir tók þó, að bræður hennar gengu í lið með skilnaðarmönnum. Þegar sú skylda bar henni að höndum, að halda dansleik í heiðursskyni fyrir það, að sambandsmenn unnu sigur við Shilo, þá hafði sá af bræðrum hennar, sem hún unni heitast í æsku, fallið í þeim bardaga af liði Sunnanmanna.

Annar bróðir hennar í sama liði, féll í Vicksborg og lá þá fyrir dauðanum, er hún var að hlusta á fagnaðarópin í Hvíta húsinu yfir sigri Grants hershöfðingja.

Það var því lítið um gleði á heimili forseta, þar sem styrjöldin sleit svona sundur ástarbönd vandamanna, og sál hans og hjarta bar sífeldar áhyggjur út af sundraðri þjóð. — Hann gat aldrei tekið neinn hjartanlegan þátt í skylduveizlum og viðhafnarviðtökum. Það fór alt fram, eins og úti á þekju. Þegar slíkt bar að höndum, þá stóð Lincoln þolgóður sinn tíma og tók með stóru hvítglófuðu höndinni í hendur fjöldanum, sem fram hjá gekk; en augu hans fylgdu huga hans út að víggörðunum, þar sem hermenn hans voru að berjast fyrir sambandið.

Hann virtist hvorki sjá né heyra flesta af þeim, sem heilsuðu honum við slík tækifæri. En samt lét hann ekkert tækifæri ónotað til að beita sinni leikandi fyndni. »Upp vora leið!« sagði gamall

maður einu sinni við eina slíka viðtökuathöfn, um leið og sagt var til nafns hans, »vér trúum á Guð og Abraham Lincoln«. Þá hýrnaði yfir forseta og hann svaraði: »Vinur minn! Þú hefir meira en að hálfu leyti rétt fyrir þér!«

Fyndnin var svo rík í honum, að hún brautst fram, þó um ósveigjanlegustu viðhafnarsiði væri að ræða.

Einu sinni kom Lyon lávarður, sendiherra Breta, og flutti forseta næsta formlega þann boðskap, að prinzinn af Wales væri kvongaður. Þeir forsetinn og sendiherrann léku nú sinn þáttinn hvor í þessum leik; sendiherrann gjörði hans hágöfgi forsetanum heyrinkunn þau fagnaðartíðindi að skipun náðugrar drotningarinnar, að sonur hennar, ríkiserfinginn, hans konunglega hátign Albert Edward o. s. frv., hefði gengið að eiga hennar konunglegu hátign, prinsessu Alexandra o. s. frv.

Forseti viðurkendi með hæfilegum orðum, að sér hefði verið birtur þessi boðskapur og beiddist þess, að hamingjuóskir yrðu fluttar frá sér til hinnar náðugu hátignar, drotningarinnar, og hinnar konunglegu brúður og brúðguma og allrar brezku þjóðarinnar; þagði svo um stund, en bætti síðan við, og gletnin skein úr augum hans: »Lyon lávarður, far þú, og gjör hið sama!«

Það var ekki nóg með það, að dimt væri yfir á heimili Lincolns á ófriðarárunum, heldur gafst honum sjaldan eða aldrei tóm til að sleppa út úr þeim skugga. Framkvæmdarstjórnin var öll í hans höndum, og við hana mátti hann aldrei slá slöku. Eini hvíldarstaðurinn hans á þessum fjórum þrauta-

árum var lítið hús hjá Hermannahælinu, skamt frá borginni. Þar áttu þau hjónin sumardvöl.

Stundum ók hann, stundum reið hann á milli þessara tveggja staða, Hvíta hússins og Hermannahælisins. Stanton ráðherra lagði ríkt á við hann, að hafa með sér ríðandi varðlið með uppreiddum sverðum. Hann afsagði það aftur og aftur, sagði, að þessir 25 eða 30 riddarar væru sér til ama. »Þeir gjöra svo mikinn hávaða«, sagði hann, »að eg og konan mín getum ekki heyrt hvort til annars«. Aldrei fékk hann tóm til að bregða sér til Illinois, til að líta eftir heimilinu sínu þar; hlutverkið mikla tók upp allan tíma hans og krafta. Stöku sinnum brá hann sér til vígstöðvanna til að hitta hershöfðingja sína og tvisvar eða þrisvar á opinbera fundi í grend við Washington fyrir hönd hermanna sinna. Að þessu fráteknu var hann daglega á sínum stað.

Einu sinni kom systir konunnar í kynnisför til þeirra; lagði hún þá að honum að standa upp frá skrifborðinu, og hafði hann með sér út í blómskálann, sem var áfastur við íbúðarhúsið. Þegar þau gengu á meðal blómanna, þá játaði hann það fyrir gesti sínum, að hann hefði aldrei komið í þann blómskála fyrri. Hið sanna er, að þessi maður, sem svo margir þyrnar höfðu stungið á æfibrautinni, hafði haft svo sjaldan tök á að glæða hjá sér smekk fyrir blómum.

Þessi nákomni gestur þeirra hjóna var þeim mjög kær; þau höfðu trúlofast og giftst á heimili hennar og henni hafði tekist svo ljúfmannlega að laða og hafa taumhald á systur sinni, þegar taugaveiklunar-



ABRAHAM LINCOLN
1864

köstin komu í hana, hvert á fætur öðru; fyrir það virti Lincoln hana mjög mikils. Nú er hún hélt aftur heim til sín, þá hafði hún með sér í huganum »mynd uppmálaða af örvæntingu manns« — þannig var hann yfirlitum; en hið hluttekningarsama, glögga auga hennar sá »undir því yfirbragði, það sem heimurinn sá ekki«, eins og hún komst að orði; hún sá þar »mannseðli svo blítt og skáldlegt, að annað blíðara og skáldlegra hafði hún eigi áður hitt fyrir«.

Þau forseti og kona hans áttu sér lokaðan stól í öldungakirkju einni í Washington; en þó taldi hann sig aldrei til nokkurrar sérstakrar kirkjudeildar. Guðfræðin var aldrei að hans skapi. Kona hans sagði, að »trúarbrögðin hans hefðu legið í eðli hans eins og nokkurskonar skáldskapur«. Mælt er, að þingmaður nokkur hafi einu sinni spurt hann, hví hann hefði aldrei gengið í neina kirkjudeild, svo djúpa lotningu sem hann bæri fyrir sannri hugsjón kristinnar trúar og siðalærdóms. Þá svaraði Lincoln: »Ef einhver kirkja ritaði yfir altari sínu boðorðið, sem er kjarni lögmálsins og fagnaðarerindis frelsarans: »Elska skaltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og af öllum mætti þínum og af öllum huga þínum, og náunga þinn eins og sjálfan þig«, og gerði það að einka-skilyrði fyrir upptöku, þá skyldi eg ganga í þá kirkju af öllum huga og allri sálu«.

Lincoln hafði alla æfi bjargfasta trú á handleiðslu Guðs. Og þegar sem óvænlegast horfði, og enginn annar hafði neina von, þá stóð hann einn uppi óskelfdur, hughreysti aðra og sagði: »Stríðið er

Drottins, því er sigurinn vís«. Hann var marga nóttina á bæn til Drottins, þegar samverkamenn hans í ráðuneytinu sváfu.

Maður nokkur, sem einu sinni var gestur Lincolns, segir svo frá:

»Eg var gestur í Hvíta húsinu þrjár vikur. Einu sinni, er komið var fram yfir miðnætti og farið að lýsa af degi, þá heyrði eg lágværan málróm út úr svefnherbergi forseta; hurðin stóð í hálfa gátt; eg sá, hvar hann lá á hnjánum á gólfinu með biblíuna fyrir framan sig. Hann sneri við mér bakinu, svo að hann varð ekki var við mig. Þá hrópaði hann í innilegri bæn: »Guð minn! Þú, sem heyrðir bæn Salómons um nótt, þegar hann bað um vísdóm, heyr þú nú líka bæn mína. Eg get ekki stjórnað þessu fólki, eg get ekki stjórnað málefnum þjóðar minnar, nema með fulltingi þínu. Eg er fátækur, breyskur og syndugur maður. Ó, Guð, bænheyrðu mig og bjargaðu þjóðinni minni«.

Þessi trú og bænrækni Lincolns var krafturinn í lífi hans, leyndurdómurinn, sem gjörði hann að bjargvætti hins mikla ríkis, sem þá var að liðast sundur. Þess vegna var hann af Guði valinn, en enginn annar, til að taka við stjórninni, þegar mestan vandann bar að höndum. Enginn í hinu volduga ríki hafði þá trú, sem gat sigrað, nema Lincoln einn, og hún kom fram í sístarfandi kærleika til óvina sem vina.

Þó að kona Lincolns væri vanstilt mjög, þá bar hann samt örugga virðingu fyrir dómgreind henn-

ar. Sérstaklega bar hann traust til glöggskygni hennar á það, hversu sá og sá maður væri gjörður, og þegar hann kaus sér menn í þjónustu sína, færði hann sér stundum í nyt þessa »æðri þekkingu« hennar á mannlegu eðli. Þegar konan var fjarverandi, var það venja hans að senda henni fregnir af orustum og öðrum athöfnum hersins. Og þótt hún sé eigi sögð að hafa verið hyggin í fjársökum, þá neitaði hann henni aldrei um neitt, né heldur spurði, hvers henni væri vant. »Þú veitst, hvers þér er vant«, sagði hann, »farðu og útvegaðu þér það«.

Þau lifðu lífi sínu í Washington svo óbreyttu sem þeim var unt. Þjónar þeirra fóru að hinum frjálslegu og auðveldu dæmum þeirra. Einn þeirra hefir orðið sögulegur af því, að hann truflaði einusinni mikilvæga ríkisráðstefnu hjá Lincoln með því að opna hurðina og kalla inn: »Hún vill finna þig«. »Jæja«, sagði Lincoln, alveg gremjulaust; en ráðstefnunni hélt hann þó áfram; opnaði þjónninn þá hurðina aftur, og mælti með áherzlu: »Heyrðu, hún vill finna þig!«

Einu sinni hafði maður lofað að líta inn til hans. Maðurinn kom á sunnudagsmorgni og hringdi dyrabjöllunni, en enginn svaraði; maðurinn opnaði þá hurðina og gekk upp á loftið og skygndist um eftir þjóni, er gæti sagt til sín, og loks drap hann á dyrnar á skrifstofu forseta.

»Ó«, sagði Lincoln, »drengirnir mínir eru allir úti núna!«

Forsetasiði tók Lincoln aldrei upp. Hann hafði tamið sér að fara snemma á fætur, þegar hann

var úti í frumskógunum á ungum aldri og þeim sið hélt hann óbrigðilega.

Einu sinni gekk maður fram hjá Hvíta húsinu kl. 6 að morgni. Þá stóð forseti þar og sagði: »Góðan daginn, góðan daginn! Eg er að skygnast um eftir sendisveini; þegar þér komið að götuhorninu, þá bið eg yður að senda dreng upp til mín þessa leiðina«.

Forseti gekk því nær ávalt á morgunskóm, til þess að vera laus við háu stígvélin, sem tíðkuðust í þá daga, og venjulegast var hann á morgunslopp, því að honum var illa við að vera alklæddur, nema um viðtöku gesta væri að ræða. Stundum sást hann úti á götum á upplituðum rykfrakka, og á vetrum brá hann oft gráum sjalklút yfir herðar sér til skjóls, þegar hann gekk út.

Hann kunni rétta framgöngu, þegar honum þótti þess við þurfa. Einu sinni heimsótti Charles Sumner hann, og maðurinn, sem þá var viðstaddur, hefir lýst viðtökunum, sem þessi rembiláti stjórnmálamaður fékk hjá forseta. Forseti sat í hægindastólnum sínum í makindum og lagði annan langa fótinn yfir stólbríkina; en þegar Sumner kom, tók hann fótinn af bríkinni, stóð upp og heilsaði þessum tígulega gesti hávirðulega. Sumner var glæsimenskan sjálf í framgöngu, hafði staf í hendi og var í brúnum frakka, hvítu vesti og köflóttum buxum og hafði gljáandi silkihanzka. Þegar Sumner var farinn, hinn ríkiláti efri málstofu þingmaður, þá settist Lincoln niður aftur og hafði upp fyrir sér málsháttinn gamla: »Þegar þú ert í Róm, þá gjör þú eins og Róm gjörir«.

Frjálsustu og glöðustu stundirnar átti Lincoln meðal vina sinna í skrifstofunni á kvöldin; sagði hann þá sögur og hló hjartanlega að því, sem kýmilegt var í þeim og fyndið, rétt eins og hann væri kominn aftur í skrafstofuna á skytningnum, þar sem hann sat fyrrum á lögmenskuárum sínum. Þá hló hann svo, að undir tók í Hvíta húsinu, og var eigi annað að sjá, en að þá væri öll áhyggja flúin á dyr. Lagsbræður hans voru alt frá Jósef Henry, prófessor, frægum náttúrufræðingi við Smithsonian-stofnunina í Washington, þeim er einna fyrstur kunni að meta mannkosti Lincolns, og niður að Petroleum V. Nashby, kýmnisagnaskáldinu.

Einu sinni heimsótti forseta roskinn maður frá Indíana, ásamt öðrum. Lincoln kannaðist brátt við hann, þótt hann hefði ekki séð hann síðan á bernskuárum. »Þér eruð John A. Breckenridge«, sagði Lincoln, »eg var vanur að rölta 10 mílur dag eftir dag til að heyra yður flytja mál í Booneville og hlusta á ræður yðar, og þá var það, sem eg ásetti mér að gjörast lögmaður«.

Lincoln var laus við alla hégómlega embættisvirðingu og titlatog. Hann vildi ekki láta ávarpa sig með »forseta«-nafni. Skrifstofuna sína nefndi hann aldrei nema »þennan stað«. »Síðan eg kom á þennan stað« eða »síðan eg kom hingað«, sagði hann.

Einu sinni er til tals kom um stofu handa aðalborgarráðinu (í Washington) í stjórnarhöllinni, þá sagði hann með feimnissvip: »Þessi stofa er, eins og þér vitið, kölluð forsetastofan«. — Honum sár-

gramdist, ef vinir hans frá Illinois ávörpuðu hann og sögðu: »Herra forseti«. Og sárbað hann þá oft: »Nei, kallið mig Lincoln og eg skal lofa ykkur því, að því skal eigi verða ljóstað upp um yður, að þér hafið brotið hirðsiðina«.

Dennis Hanks, hinn gamli samverkamaður Lincolns í skógunum í Indíana og á gresjunum í Illinois, kom einu sinni að hitta forseta, allur uppdubbaður af því tilefni, en Lincoln var fljótur að setja hann á sama bekk með sér og í fyrri daga, þegar þeir sváfu saman í bjálkakofanum; Hanks þurfti ekki að vera í neinum vandræðum með sig. Hann var sendur til að biðja nokkrum »koparhöfðum« í Illinois griða; höfðu þeir gjört uppreist gegn hermönnum. Lincoln kvaddi þá Stanton til fundar við Hanks, og skipaði forseti honum alvarlega að láta mennina lausa. Hanks fékk hinar hjartanlegustu viðtökur og að skilnaði gaf forseti honum úr með viðeigandi áletran. —

Einu sinni kom sá fornvinur á fund hans, sem skaut skjóli yfir hann, þegar Lincoln kom til Springfield fyrsta sinni og ætlaði að kaupa sér rúm en gat ekki; þá bauð þessi vinur hans honum að sofa uppi á loftinu yfir vörubúðinni sinni. Meðan hann var hjá forseta komu tvær konur og báðu forseta að leysa úr fangelsi tvo menn, sem höfðu verið settir inn fyrir það, að þeir stóða móti liðsdrætti. Forseti gjörði meira en þær fóru fram á; hann gaf þeim öllum lausn með einum pennadrætti, sem inn höfðu verið settir fyrir sömu sakir, og mælti um leið: »Þessir menn eru nógu lengi búnir að þjást«.

Önnur konan var hnigin að aldri og margra barna móðir. Þegar hún var á förum, sagði hún við Lincoln ógn barnslega: »Eg sé yður líklega aldrei aftur, fyr en við hittumst himnum á«. Forseti viknaði við þessi orð hennar. Þá mælti vinur hans: »Þér eruð of viðkvæmur og óstyrkur í taugum til að verða fyrir þessari raun á hverjum degi«. Þá mælti forseti: »Það sem þú hefir séð nú, gengur ekki nærri mér; þetta er hið eina atvik í dag, sem hefir veitt mér ánægju, svo að eg hefi gleymt sjálfum mér og mínum högum«.

En síðan sagði hann: »Hve nær sem dauða minn ber að höndum, langar mig til, að um mig verði sagt, af þeim sem þekkja mig bezt, að eg hafi ávalt slitið upp þistla og plantað blóm, þar sem eg hugði að blóm mundu spretta«.

Lincoln las stundum lítið, en ef hann las, var honum léttir og fró að lesa upphátt fyrir tveimur eða þremur vinum sínum. Skemtilegast þótti honum að lesa upp úr Shakespeare eða »Laufið síðasta« eftir Holmes, sem honum þótti mjög til koma. Og þegar hann var í þungum hug, þá hafði hann upp fyrir sér þessa alkunnu vísu úr því kvæði:

»Mosavaxna marmaraplatan hvílir nú á þeim vörum, sem hann þrýsti kossi á, þegar þær voru í blóma, og nöfnin, sem létu honum ljúfast í eyrum, hafa staðið árum saman letruð á leiðinu«.

Í þessari vísu er fólginn djúpur ástvinasöknuður. Unnustan Rutley og Willie lágu þá undir leiði.

John Hay, einn af einkariturum Lincolns, sá er ýtarlegast hefir ritað sögu hans, segir, að Lincoln

hafi enga ánægju haft af því að hlæja einn saman. Ef hann fann eitthvað, sem vakti honum hlátur, t. d. í bók eftir Tom Hood, þá spratt hann upp úr rúminu, því að hann las oft í rúminu, og stikaði inn til ritara síns, til þess hann gæti lesið þær málsgreinar hátt og snjalt fyrir honum, sem honum þóttu fyndnar. — Þegar hann var að skrifa, þá treysti hann betur eyrum sínum en augum; það var því siður hans að hugsa sér hverja málsgrein og mæla hana svo af munni fram, ef til vill í hljóði, áður en hann ritaði hana.

Það mátti svo heita, að skrifstofa Lincolns, væri varðhaldið hans, öll forsetaárin hans.

Þar tók hann venjulega til starfa kl. 8 og hélt svo áfram fram á háttatíma. Sæti hann ekki við skrifborðið sitt, þá var hans ekki annarsstaðar að leita en á símastöðinni í hermáladeildinni; þar sat hann iðulega á kafi í skeytum frá hernum.

Oft var það, að hann gaf sér eigi nægan tíma til máltíða. Og þegar hann kom að miðdegisborðinu, þá var hann oft svo hugsandi, að hann vissi eigi hvað hann borðaði; og þegar hann gekk frá morgunverði, gat hann eigi sagt, hvort hann hefði drukkið kaffi eða mjólk. Hann var mjög sparneytinn, og stundum neytti hann alls eigi matar; urðu því konan og þjónarnir að hafa gætur á, að hann gleymdi ekki alveg að borða; og kæmi hann ekki í matstofuna, var hún vön að senda honum mat á bakka inn í skrifstofuna. Honum var nóg, ef hann fékk eitt mjólkurglas, og fáeinar tvíbökur eða lítilsháttar af eplum eða öðrum ávöxtum.

En þótt hann væri svona hirðulítill í þessum

efnum, þá hélt hann óskertum líkamskröftum. Vöðvarnir voru jafnstæltir og áður. Hann gat gripið um bláendann á axarskafti og haldið öxinni beint út frá sér jafnhátt öxlinni. Hann var ávalt harðfær og ekki óprúður á hestbaki.

Út um skrifstofugluggann sinn gat hann séð uppreistarfánann blakta á Virginíu-hæðunum; en seinna meir varð þar alt krökt af hvítum tjöldum sambandshersins. Skamt frá stóð líkneski Washingtons forseta ófullgjört. Á veggjunum inni héngu uppdrættir af vígstöðvunum. Skrifborðið hans var svo í kafi af skjölum, að hann gat ekki alt af fundið þar rúm til að hvíla höndina, meðan hann var að rita nafnið sitt undir eitthvert skjalið. »Eg er eins og Patagóníumenn«, sagði hann einu sinni hlæjandi, þegar hann var að leita að stað, þar sem hann gæti drepið niður hendi og skrifað. »Þér vitið, að þeir lifa á ostrum, og kasta skeljunum út um gluggana hjá sér. Þegar skeljadyngjan er farin að ná upp fyrir gluggana, þá flytja þeir blátt áfram búferlum og koma sér upp nýjum kofa!«

En þrátt fyrir öll þau ósköp, sem afkastað var í Hvíta húsinu undir stjórn hans, þá fann hann aldrei að neinu hjá riturum sínum. Hann lét sér vel lynda að vinna lengur en nokkur undirmanna hans og hlífa öllum, nema sjálfum sér.

Það hlutverkið, sem flestum mundi hafa þótt mest þreytandi, var honum kærkomnast, en það var viðtaka gesta og embættismanna. Fram að hádegi tók hann á móti þingmönnum frá báðum málstofunum, umboðsmönnum og embættismönnum; en úr því voru opnar dyr, nema þegar ráð-

stefnur voru haldnar tvisvar í viku. Ruddust þá þeir, sem biðu, inn úr forsalnum, fordyrinu og stigaganginum.

Þar ægði mörgum saman. Sumir voru að sækja um embætti, aðrir voru örkumla hermenn, nauðstaddir feður, mæður og konur hermanna, ekkjur og munaðarlaus börn þeirra, sem fallið höfðu í orustum, sögusmettur og kenjaklápar og allskonar þjóðráðasmiðir, að ótöldum borgurum, sem komu bara til að taka í hönd forseta og árna honum hamingju. Þeir hittu hann þarna í svörtu klæðisfötunum, sitjandi í hægindastól hjá borði og á því lá biblían.

Hann krafðist þess stranglega, að engin launungarmál væru höfð. »St. Helena? Nú þar höfum vér engan ræðismann«, sagði hann eitt sinn svo hátt, að allir heyrðu, við mann, sem laut niður að honum áfergjulegur á svipinn með hljóðskrafi. Maðurinn hélt áfram að hvískra, en Lincoln sagði sem áður með gjallandi rómi, að þar hefðu þeir engan ræðismann.

»Jú, víst er svo«, sagði gamall boðberi í Hvíta húsinu, sem stóð við dyrnar, »vér höfum ræðismann á St. Helena; það er náungi, sem Buchanan skipaði þangað«. Lincoln bar það ekki til baka og fór að rita á ofurlítinn miða. Að því búnu afhenti hann heimsækjanda og las hann upphátt: »Kæri Seward ríkisstjóri! Ef nokkur ræðismaður er á St. Helena — takið þér nú eftir, eg er ekki alveg hættur að þræta«, sagði hann svo og veik sér að manninum, — »þá óska eg, að þú skipir þangað þann, sem ber þér seðilinn, einkum af því að

hann kemur frá Thad Stevens, því að Stevens hefir ekki ónáðað okkur mikið síðasta kastið.

A. Lincoln«.

Takmarkalaus var þolinmæði Lincolns við leiðinlega menn. Veðurspámaður einn vakti athygli Lincolns á sér, því að Lincoln var alt af trúaður á slíka hluti, og tók nú að reyna spár hans rækilega. Spárnar brugðust nokkrum sinnum; fór þá loks svo, að hann skrifaði spámanninum og kvaðst ekki vilja sjá hann framar, af því að hann hefði spáð, að ekki mundi koma deigur dropi úr lofti heilan mánuð; en svo hefði hellirignt samfleytt í tíu stundir eftir tvo eða þrjá daga.

En ef einhver gjörðist of nærgöngull, þá vatt hann honum af sér hiklaust, ef hann sá, að þolinmæði hans var ekki lengur dygð. Herforingi einn kom til hans, áleitinn mjög; honum hafði verið vikið frá, vildi ekki þýðast hóglegar ávítur og keyrði ósvífni hans fram úr hófi. Lincoln tók þá i kraga hans og leiddi hann fram og vísaði honum á dyr.

En yfirleitt hafði Lincoln mikið hagræði af þeirri venju sinni, að hafa opið hús. Fyrst og fremst var honum sjálfum hrein og bein nautn að því. Ekkert mannlegt var honum óviðkomandi, heldur til yndisauka. Allir, sem til hans komu, fundu, að hann gaf sig við þeim af alhuga og taldi sig ekki fyrir ofan þá. Jafnaðarmenskan kristilega skein út úr honum.

Hin meðfædda lýðræðishugsjón hans kemur skýrt fram í draumi, sem hann sagði. Hann dreymdi, að hann væri á einhverjum fjölmennum fundi, en

fólkið hliðraði til og leyfði honum að komast fram hjá sér, og að því búnu heyrði hann einhvern segja: »Hann er eins og fólk er flest«. Hann þóttist þá snúa sér að manninum og segja: »Vinur! Drotni þóknast þeir bezt, sem eru eins og fólk er flest; þess vegna hefir hann skapað svo margt af slíkum mönnum«.

Þeim, sem til hans komu, og voru hálffeimnir við hann sakir tignarstöðu hans, varð óðara hughægra, er þeir sáu hann, og feldu hið sama traust til hans, sem hann væri þeim bur og bróðir. Enginn ráðvandur maður var sneypulegur í návist hans né auðmýkti sig, þegar hann heilsaði honum. Alt fór fram með fullum frjálsleik og djörfung. Og af honum er það að segja, að gæti hann sýnt góðvild einhverjum umkomulitlum manni, sem engan átti að, þá var hann manna sælastur. — Heimsóknir slíkra manna kallaði hann »böð almenningsálitsins«, af því að úr þeim kæmi hann sem nýr maður með öflugri tilfinningu fyrir ábyrgð og skyldu. »Engum stundum á starfsdegi mínum er betur varið en þeim, sem eg ver til að kynnast alþýðumönnum beinlínis og andrúmsloftinu, sem alþýðan lifir í«. Embættismönnum hættir við að vera eigi annað en embættismenn, en gleyma því, að þeir eru að fara með völdin eingöngu fyrir aðra. »Með því að hafa þessa frjálsu umgengni við alþýðu manna«, sagði hann, »þá hefi eg fyrir mér ljósa og lifandi mynd af hinni miklu mergð alþýðumanna, sem eg er frá kominn og hlýt að hverfa til aftur«.

Hin fyrsta undirstaða hinnar undursamlegu for-

ystu Lincolns var það, að hann hafði ávalt mök við alþýðuna. Hann hætti við að lesa blöðin, því að hann gaf sig allan við að rækja skyldur sínar. Einu sinni var lagt að honum að lesa einhverjar ritstjórnargreinar, sem skrifaðar voru til skýringar einhverju máli. Þá svaraði hann:

»Eg veit meira en nokkur þeirra veit um það mál«. Hann fór hvorki til ritstjóranna né efrimálstofumanna, til að kynna sér skoðun almennings og hann sýndi það aftur og aftur, að hann kunni betra skyn á skoðun almennings en þeir.

»Mér er ekki þörf að vita, hvernig Washingtonbúar líta á það«, sagði hann við mann, sem var að segja honum frá skoðun manna á sambandsþinginu. Hann vildi eiga við alþýðuna sjálfa milliliðalaust. Þegar hann þurfti eitthvað við alþýðu að segja, þá vissi hann, hvernig hann átti að segja það, til þess að hún skildi það áreiðanlega. »Billy, skjóttu ekki svona hátt!« var hið venjulega varnaðarorð hans til Herndons, lagsbróður hans í lögmenskunni. Alþýða vissi líka, að þegar hann talaði, þá gjörði hann það í einhverjum öðrum tilgangi en að heyra sjálfan sig tala. »Eg er mjög lítið hneigður til, við hvaða tækifæri sem er, að segja nokkuð, nema eg voni. að af því muni leiða eitthvað gott«, sagði hann.

Fyrir herdeild einni, sem hann var að kanna, talaði hann svo máli sambandsins, að þau orð hans komust inn á hvert einasta heimili:

»Það vill nú svo til«, sagði hann, »að eg á heima í Hvíta húsinu stóra um stundarsakir. Eg er lifandi vottur að því, að hvert og eitt af börnum

yðar má setja sér það mark og mið að komast hingað, eins og eg, barnið hans föður míns, hefi gjört. Það er réttmætt, að við yður blasi opin leið og líklegar horfur undir þessari frjálsu stjórn, sem vér höfum notið — og að baráttan haldist uppi fyrir því, að vér týnum eigi fæðingarrétti vorum«.

Verkamenn nokkrir frá New York sóttu hann heim; þeim fanst hann vera sem einn af þeim, og eins og lifandi mynd af því, sem þjóðveldið hefir fram að bjóða, — »Öflugasta band mannlegrar samúðar, að fráteknum frændsemi- og venzlaböndum, ætti að vera: verkamenn allir í einingu, af öllum þjóðum, tungum og kynkvíslum, en eigi síþráttandi um einskilding og dalinn«, sagði hann. »Látið eigi þann, sem ekkert húsið á, kollvarpa húsi annars; leyfið honum að starfa kostgæfilega og byggja hús handa sér; gefið honum svo með dæmi yðar fulla tryggingu fyrir því, að húsið hans skuli óhult vera fyrir ofbeldi, þegar hann er búinn að koma því upp«.

Þegar almenningur kom saman í Hvíta húsinu, þá sá hann sjálfan sig, þar sem Lincoln var; hann hafði hinar sönnu einföldu dygðir til að bera, sem jafnt mátti búast við hjá almúganum, sem á öðrum stigum mannlífsins; það voru: sannleikur, bindindissemi, hugprýði og speki. James Russell Lawell dró líka þá kenningu af dæmi Lincolns, þegar hann var búinn að vera forseti tvö ár, að »djúpsæ heilbrigð skynsemi væri bezta gáfa hvers stjórnvitrings«.

Lincoln hafði langtum meiri áhrif á alþýðu manna en hún hafði á hann, í hverju sem hann

átti saman við hana að sælda. Hann var ekki í neinum skilningi sá »forseti sem hafði eyrað við jörðina«. Hann fór ekki að sögusögnum annara. Hann þurfti ekki annað en fara eftir bendingum huga síns og hjarta til að skilja, hvað fyrir alþýðunni vakti, því að hann gat fundið, eins og Emerson að orði kemst: »Slagæð miljóna manna slá í sjálfs síns hjarta«.

Lincoln var allra manna hógværastur og gæfastur, þó að hann stæði í mörgum stórræðum, og kendi þeim, sem með honum voru þær dygðir með afbrigðum vel.

Ritari hans einn tjáði honum einu sinni, að einhver, sem hann til nefndi, hefði móðgað sig stórkostlega, og vildi ekki taka því með þögn og þolinmæði, heldur rita honum harðort bréf og segja honum duglega til syndanna.

»Og rétt er nú það«, sagði Lincoln, »hlaupið þér í að skrifa manninum, meðan hitinn er í yður, og leysið þér bara frá skjóðunni«.

Ritarinn átti ekki von á, að forseti tæki svona vel í þetta; lét hann ekki segja sér þetta tvisvar, og stundu síðar lætur hann Lincoln fá að heyra stórort og smellið skammabréf.

»Það er ágætt«, segir Lincoln brosandi.

»Svo þér haldið, að eg megi senda það svona?«

»Senda það, nei! Það hefir mér aldrei dottið í hug«, sagði forsetinn. »Við stingum bréfgreyinu inn í ofninn; það hefir komið yður að fullu haldi. Þér þurftuð að svala reiðinni, og nú hlýtur yður að vera miklu léttara á eftir. Það getur komið

fyrir, að það sé holt og gott að skrifa svona bréf, en það má bara ekki senda þau frá sér!«

## XXVII. KAPÍTULI.

### *Lincoln og börn hans.*

Börn Lincolns líktust föður sínum. Faðir þeirra var oft dapur í bragði og hrukkurnar djúpar í andliti hans; en það var eins og hvössu augun þeirra sæju manngæzkuna, sem bjó í sálu hans. Umkomulitlum mönnum, ungum og gömlum, fanst hann vera sem bur og bróðir og höfðu aldrei neinn ótta af houum. Ungbörn í höndum mæðra sinna réttu móti honum hendur í fullu trúnaðartrausti og ærslafullir unglingar höfðu ekki hægt um sig í návist hans. Hann hafði yndi af því, ef drengir voru djarfir og frjálslegir í návist hans, og fékst eigi um, þó að þeir væru hávaðasamir.

Hann mintist bernsku sinnar, hversu dagarnir voru þá löngum daprir. Það var dæmi, sem honum þótti réttara að forðast en fylgja. Þess vegna var honum alt annað en gjarnt til að prédika út af þessum alkunna texta: »Þegar eg var drengur átti eg að gjöra það og það«.

Þau hjón áttu alls 4 drengi:

*Robert Todd* (f. 1. ág. 1843), *Edvard Baker* (f. 10. marz 1846, dó í bernsku), *William Wallace* (f. 21. des. 1850, dó í Hvíta húsinu 20. febr. 1862), *Thomas* (f. 4. apríl 1853, d. í Chicago 15. júlí 1871).

Róbert einn komst til fullorðins ára. Hann var að námi á Harward háskóla, á þeim árum, sem

Lincoln var forseti. William og Thomas eða »Willie« og »Tad«, eins og faðir þeirra kallaði þá, voru hjá honum í Hvíta húsiuu.

Þegar Lincoln fluttist í forsetabústaðinn tígulega í Washington, þá var Willie 10 ára, en Tad 8 ára, Þeir höfðu áður alist upp á fátæklega heimilinu í Springfield. Þar var þeim frjálst að leika sér á götunum og í »almenningunum« með öðrum drengjum. Þegar þeir komu í Hvíta húsið, vildu þeir halda hinum fyrri háttum sínum og siðum.

Þeir áttu sína geitina hvor, bundu þær við stóra stóla og létu þær svo aka sér með rykkjum og skrykkjum fram og aftur um húsið. Hunda áttu þeir líka, settu aktygi á þá og létu þá aka sér hringinn í kringum húsið. Tvo hesta litla áttu þeir í hesthúsi forseta. Á þeim riðu þeir á harðastökki um breiðgöturnar í höfuðborginni. Í loftherbergi, efst í Hvíta húsinu, léku þeir marga smáleiki. Voru þar geymd skjöl og bækur, sem forsetar höfðu átt á liðnum tímum, og aðrar sögulegar menjar um þá, ekki færri en tólf forseta.

Galið í þeim, þegar þeir voru að leika sér, var eigi annað en gleðihljómur í eyrum föður þeirra, þegar áhyggjurnar sóttu að honum. Þeir voru háværir mjög, en föður þeirra var enginn ami að hljóðum þeirra og sköllum, og aldrei sást á honum, að honum þætti miður, þó að þeir kæmu óboðnir, hversu alvarleg störf sem hann hafði með höndum. Oft fór hann út á völl og tók þátt í leikjum þeirra; hann lét sig engu skifta um tign sína eða þótt allir yrðu forviða, sem á horfðu. Hann fór stundum í knattleik við þessa ungu leikfélaga

sína og hljóp fram og aftur á »löngu leggjunum«, eins og hann hefði ekki annað fyrir stafni í lífinu.

Einu sinni bar svo til að kisa, sem annar sona hans átti og tík, sem konan átti, gutu á sama degi; þá tók faðir þeirra sinn þátt í uppþoti drengja sinna út af þessu, og þegar þingmenn úr efri málstofu og hershöfðingjar hans komu til viðtals við hann um ríkismálefni, þá sagði hann þeim þessar nýungar.

Drengirnir voru nánustu lagsmenn Lincolns, eftir það er hann kom í Hvíta húsið; þeir voru honum innlifaðri en nokkur ráðherranna. En fyrsta veturinn urðu þeir báðir sjúkir og kona hans lagðist líka. Þá voru dimmir dagar, því þjóðin sjálf var þá líka álitin vera á fallanda fæti. Forseti var því niðurbeygður af kvíða út af heimilisböli sínu og ástandi þjóðarinnar. Hann sat uppi allar nætur með drengi sína og gekk síðan að sínum þungu embættisstörfum á daginn.

Willie dó og föðurhjartað var sundurkramið af harmi. Þá sagði hann við barnfóstruna: »Þetta er þyngsta æfiraunin mín«. Honum lá við að gjöra uppreist gegn Guði í áhyggju sinni og sorg og sagði: »Hví er það? Hví er það?«

En þegar liðið lík elskaða drengsins hans lá í »Græna herberginu« undir skrifstofunni hans, þá tamdi hann sér að segja eins og smábarn: »Verði Guðs vilji«. Vikum saman átti hann í þessari þungu baráttu. Einu sinni gaf hann sig sorginni á vald einn daginn og kom ekki að störfum og lét engan sjá sig. Kona hans reyndi hins vegar að hugga sig með því að reyna að ná sambandi við anda látna

drengsins með miðli og borðdansi og ósjálfráðri skrift í dimmum klefa.

Drengurinn birtist Líncoln í draumi nokkrar nætur og hafði hann af því nokkra fró, þó að dapurleg væri. En samt fór svo á hentugum tíma, að hin þunga hugraun, sem sveipaði hann eins og ský, hvarf með öllu. Það er ekkert vafamál, að hugarþrek það, sem honum veittist við mótlæti þetta, gjörði hann að þeirri trúarhetju, að hann stóð einn uppi og æðraðist ekki, þegar aðrir örvingluðust, er hamingjusól þjóðarinnar var lægst á lofti.

Eftir dauða Willies naut Tad hálfu meira ástríkis af föður sínum. Þeir sváfu venjulega saman og enginn tími né staður var friðhelgur fyrir honum. Honum var frjálst að trufla föður sinn, hvar og hvenær sem var, og skríða upp í fang hans, jafnvel á ráðstefnum. Gaman hafði faðir hans af að blaða í myndabókum með honum og þegar kennararnir kvörtuðu um, að Tad gæfi sig oflítið að skólabókum sínum, þá hló faðir hans kæruleysislega og gaf því engan gaum.

Tad varð því ástfólgnari föður sínum, sem málfæri hans var ófullkomið; hann var holgóma; fór það af honum með aldrinum; en í bernsku gátu ókunnugir varla skilið hann.

Stanton, sem annars var svo harðlyndur, kendi jafnvel í brjósti um Tad. Einu sinni létst Stanton ætla að gera hann að liðsforingja í hernum. Tad tók þetta í fullri alvöru og fór að hugsa sér fyrir einkennisbúningi, er samboðinn væri stöðu hans í hernum. Hann varð ólmur í að temja sér vopna-

burð, litli herforinginn, og vildi helzt eta með hermönnunum í lífverði forsetans.

Einu sinni flaug Tad í hug að létta starfi af varðmönnunum eina nóttina og lét þá alla fara, en stofnaði nýja varðsveit af verkamönnum í kringum Hvíta húsið. Forseta var sagt af þessu með miklu írafári, en hinn mikli yfirbjóðandi hersins hló, en lítið varð um átölur. Þessi litli liðsforingi var að minsta kosti einu sinni með föður sínum á hersýningu suður í Virginíu. Þá reið Tad á eftir föður sínum og hershöfðingjanum, þar sem þeir hleyptu á harðastökki fram hjá heilsandi fylkingunni.

Faðir Tads átti engan þátt í því, að hann náði þessari liðsforingjastöðu sinni. Aftur á móti átti Róbert bróðir hans frama sinn í hernum millígöngu forseta að þakka við Grant hershöfðingja. Það er sérkennilegt, hve Lincoln var óframur við það tækifæri. Hann sendi Grant þennan bænastað:

»Lestu þetta bréf og svaraðu því, eins og eg væri ekki forseti, heldur bara vinur. Sonur minn er nú rúmlega 21 árs að aldri: hann er búinn að taka lærdómsstig við Harward háskóla og langar nú til að sjá eitthvað af stríðinu, áður en því lýkur. Eg æski þess ekki, að hann verði hátt settur og ekki heldur, að honum verði falið nokkurt erindi á hendur, sem aðrir eru hæfari til að reka, sem lengi hafa verið í herþjónustunni og eiga meira tilkall til. Gæti hann gengið í herinn svo, að það yrði þér eigi til erfiðleika eða herþjónustuuni eigi til skaða, og undir einhverju tignarnafni, þá læt eg honum sjálfur öll nauðsynleg föng í té, en

ekki hið opinbera. En ef þú kveður nei við þessu, þá gjörðu það hiklaust, því að mér er eins kært og er jafnmikill hugur á, að þér verði ekki íþyngt, eins og þér getur verið það sjálfum«.

Þetta ritaði Lincoln, þegar sonur hans átti í hlut, sami maðurinn, sem veitti öðrum hermönnum tignarmerki þúsundum saman.

Róbert segir eina sögu af sér og föður sínum, sem sýnir, hvernig Lincoln fór að kenna sonum sínum trúmensku.

Þegar Lincoln var á leiðinni til Washington, þá komu þeir við í Indianapolis. Róbert var þá 17 ára; vildi honum þá það slys til, að hann týndi ferðatösku föður síns, en í henni var innsetningarávarp föður hans. »Þegar við komum að gamla Bates-húsinu, þá lagði eg töskuna mína hjá töskum hinna samferðamannanna á skrifstofu gistihússins, en síðan voru þær allar, og mín taska með, bornar inn í lítið herbergi á bak við skrifborð bókarans. Eg saknaði brátt töskunnar og varð heldur skelkaður, því að faðir minn hafði trúað mér fyrir dýrmæti því, sem í henni var, en það var frumritið af innsetningarræðu hans, er hann hafði ritað, áður en hann fór frá Springfield. Eg fór óðara til hans og sagði honum frá töskuhvarfinu og að við hefðum leitað öll saman. En týnda taskan kom fljótt í leitirnar. Hann fékk mér þá töskuna, og sagði undur hóglega: »Þarna, Bob, vittu nú, hvort þú getur ekki varðveitt hana«. — Það var honum líkt. Hann hafði ávalt trú á því, að láta okkur drengi sína fá færi á að sýna trúmensku, jafnt sem aðra. Hann trúði mér fyrir

þessum dýrmætasta hlut sem hann átti, og þér megið reiða yður á, að eg brást eigi því trausti«. Og þessa sögu sagði Róbert á 100 ára minningarafmæli föður síns.

Bréf þau og símskeyti, sem forseti sendi konu sinni og Tad, þegar þau voru ekki heima, voru full af fréttum, sem Tad kom sérstaklega vel að heyra. Þar sagði hann Tad frá því, að »Nanny lægi jórtrandi í miðju rúminu hans«. Og í öðru bréfi sagði hann: »Skilaðu til Tads, að geitinni og pabba líði ágætlega, einkum þó geitinni«.

Eitt hið skrítnasta af því sem Lincoln hefir skrifað, er, ef til vill, þetta símskeyti til konunnar um Tad:

»Hvíta húsinu, 9. júní 1863.

Frú Lincoln, Philadelphia, Pa.

»Held, að þú ættir heldur að taka skammbyssuna frá Tad. Mig dreymdi svo illa um hann. A. L.«

Tad var lifandi eftirmynd föður síns að starfandi hluttekningarsemi. Það var venja hans að stofna til dálítils markaðar fyrir sjálfan sig og þar seldi hann ýmsa muni til hjálpar særðum hermönnum. Stundum kom hann hlaupandi inn til þeirra. sem voru að sækja um embætti, og bað þá sem ákafast að gefa sér peninga handa særðum hermönnum. Það var líka siður hans að ganga um meðal fólksins í forsölunum og biðstofunni og og spyrja, hvers þeim væri vant. Og við og við kom það fyrir, ef hann vorkendi þeim, eða honum þótti réttlátt, að þeir fengi úrlausn sinna mála, að hann fór með þá rakleitt til forseta.

Á kvöldin var það venja Tads, að fara til föður

síns og segja honum frá öllu, sem hann hafði séð og hafst að þann daginn. Venjulega datt hann út af í miðri sögunni og gekk þá Lincoln aftur að störfum sínum; lá svo Tad á gólfinu hjá skrifborði forseta sofandi. Þegar hinn langi vinnudagur forseta var á enda, tók hann drenginn sinn sofandi á herðar sér og bar hann í rúmið.

## XXIII. KAPÍTULI.

### *Lincoln og hermenn hans.*

»Þú, sem varst seinn til að ljósta, en fljótur til að gefa grið, göfugur, miskunsamur, réttlátur; þú, sem varst traust þjóðarinnar og barst sverð valdsins í ótta Drottins.«

William Cullen Bryant.

Líf Lincolns var fult af stórfenglegum andstæðum. Hann, sem var foringi fyrir sveit óstýrilátra bænda og búþegna í »Svarta-fálka stríðinu,« og gaf sig lítt við að temja þá, varð yfirbjóðandi miljóna hermanna eða meira liði en nokkur sigursæll herkonungur hefir kvatt saman. Þetta var nú, ef til vill, eitt hið furðulegasta, sem hamingjan lét honum í skaut falla. Á 4 árum kvaddi hann saman $2^1/_2$ miljón manna; er það að líkindum fjölmennara lið en saman kom undir fána Napoleons mikla á öllum hans 20 herferðarárum frá Arcola til Waterloo.

Og þó vakti þetta dæmalausa hervald eigi hina minstu metnaðargirnd í brjósti hans. Hann mat ekki að neinu skrautleg hertýgi, tignarstöður her-

manna eða herfrægð þeirra. Hann gat skipað miljónum manna: Farið þér, og þeir fóru og komið, og þeir komu, en sjálfan sig taldi hann aldrei meira en jafnan þeim, sem minstir voru. Hann var miklu fremur lagsbróðir þeirra en yfirbjóðandi; en þeir litu allir upp til hans með fullkomnu trausti og var kærast að ávarpa hann með orðunum: »Faðir Abraham.«

Þegar hershöfðingi átti í hlut, þótti honum nóg að bera hönd að hatti, en fyrir drengjunum í fylkingunni var honum tamast að taka ofan. Sjálfur gjörði hann menn að herforingjum hundruðum saman, en í augum hans var hver einstakur hermaður handaverk hins almáttuga. Þegar hann frétti, að herforingi hefði verið handtekinn í smáorustu nokkurri nálægt Washington og 12 veslings kynblendingar með honum, þá varð honum ekki annað að orði en þetta: »En hvað eg var nú ólánssamur! Eg get á fimm mínútum látið skipa aftur autt sæti í stórskotaliðinu, en þessir kynblendingar eru 200 dala virði hver um sig«. Aldrei skildi hann til æfiloka, hvað einkennisbúningur átti að merkja og aldrei þekti hann hershöfðingja frá liðsmönnum hans á axlaskúfunum.

Þótt hann færi 20 sinnum á dag fram hjá varðsveitinni við Hvítahúsið, þá heilsaði hann í hvert skifti. Hann þekti hvern mann í varðsveitinni með nafni, þeirri er hélt vörð um hann á Hermannahælinu, þegar hann dvaldi þar sér til hvíldar, og hann var sannur vinur þeirra. Hann þáði jafn hjartanlega kaffibolla með þeim að máltíðum, ef svo bar undir, sem hann hlustaði á gamanyrði þau, sem þeir

hentu sín á milli. Ef einhvern þeirra vantaði, þá saknaði hann þess, og gleymdi þá aldrei að spyrja um þá.

Sérstaklega lét hann sér ant um hin mörgu sjúkrahús hermannanna í kringum Washington. Þau höfðu eins og sprottið þar upp, hvert við annað. Hann vitjaði hinna særðu og huggaði þá, staldraði hjá beði þeirra og lagði stóru höndina sína á sóttheita ennið á þeim. Hann mintist þeirra, sem í lífshættu voru og hafði auga á þeim og fagnaði hrifinn öllum batamerkjum hjá þeim, og gjörði að gamni sínu við þá, sem því gátu tekið.

Einu sinni ók hann að einu sjúkrahúsinu, en kom auga á lamaðan hermann beint fram undan vagninum. Hann skipaði þá að stöðva hestana; en þeir urðu eigi stöðvaðir nógu fljótt. Lincoln sá, að þetta var aumingja drengur, sem hafði mist bæði augun; hann stökk þá út úr vagninum og tók blinda drenginn sér við hönd og spurði hann með titrandi rómi að nafni og herþjónustustarfi og bústað. Að skilnaði mælti hann: »Eg er Abraham Lincoln«, og þá ljómaði ásjóna hins unga manns af þakklátsemi við hin einlægu hluttekningarorð forseta.

Daginn eftir stakk forstöðumaður sjúkrahússins skjali í hönd unga drengsins; það var skírteini um það, að hann væri fremsti liðsforingi í her Bandaríkjanna og undir því stóð nafn forseta, og fylgdi sú skipun með, að honum skyldu greiddir þrír fjórðu hlutar mála síns öll þau ár, sem hann ætti ólifuð.

Samúð flestra manna, sem verða forsetar, ríkis-

stjórar eða önnur yfirvöld, lýtur yfirráðum og íhlutun skynseminnar; skynsemin sældar hana og kælir. En samúð Lincolns var ávalt náttúrleg, kom ávalt frá hjarta hans og þaðan streymdi hún hindrunarlaust; ekkert hik, enginn útreikningur komst þar að. Og sá gefur tvisvar, sem gefur fljótt. Manngæzka hans var komin af hvötum hjartans, en enginn skylduskattur. Því fór fjarri, að góðgjörðasemi hans væri vísindaleg eða bygð á sálnaransókn; en þó bar hann svo glögt skyn á eðli manna, að hann var sjaldan dreginn á tálar.

Múrar Hvíta hússins lokuðu hann eigi fremur inni fyrir vonum þeirra og áhyggjum og fyrir fátækt og þrá almúgans en bjálkarnir óhöggnu höfðu áður gjört, sem byrgðu hann inni skjálfandi af hungri og kulda á æskuárunum. Það brást aldrei, að hann viknaði við móðurtár eða fyrirbæn föður, ungbarnstár, eða ermi innan tóma eða hækju. —

Einu sinni kom kona grátandi inn í hermáladeildina með ungbarn á örmum sér. Þetta varð honum átakanlegri sjón en að hann gæti hrundið henni úr huga sér. Þegar hann varð þess vís, að herreglurnar leyfðu henni eigi að fara á vit við mann sinn í Pótómak-hernum, og sýna honum frumgetinn son þeirra, sem faðirinn hafði aldrei séð áður, þá fékk Lincoln hermáladeildina til að stefna manninum (í síma) til Washington, og jafnframt kom hann því á leið, að rúm væri ætlað handa móðurinni og barninu í einu sjúkrahúsinu. Þegar Lincoln var búinn að gjöra þetta góðverk, þá var hann barnslega glaður og ánægður, það sem eftir var dagsins.

Einu sinni hjálpaði hann hermanni nokkrum, sem bað hann þó eigi hjálpar. Lincoln heyrði það af hendingu, að maður þessi var að formæla stjórninni í Washington, einu sinni er hann var á gangi á Vallarstrætinu hjá Hvíta húsinu. Forseti settist þá undir tré, kallaði á manninn og spurði hann, hvert áhyggjuefni hans væri; forseti fékk honum þá í hendur skipun, þar sem boðið var að greiða sem fljótast gjald það, sem hann var ekki fær um að borga.

Undursamlegust var þolinmæði hans við hina gráklæddu, þ. e. sambandshermennina. Þegar hershöfðingjar, liðsforingjar, stjórnarskrifstofur og hermálaráðherra daufheyrðust við bænum þeirra, þá fóru þeir til forseta í fullu trausti. Þótt hann hefði hina miklu byrði þjóðarinnar á herðum sér, þá nam hann þó ávalt staðar til að hlusta á raunatölur þeirra, enda þótt hann, eins og hann sagði sjálfur, gæti alt eins reynt að þurausa Pótomakfljótið með teskeið, eins og að skifta sér af hverju smáatriði í stjórn hins afarfjölmenna hers.

Einu sinni, er ósigurinn var á aðra hönd og forseti var bugaður af áhyggjum, þá setti hann ofan í við hermann, sem útskúfað var af öllum og neitað um upptöku á Hermannahælið, sem var þó einkaathvarfið hans, og rak manninn frá sér. En þessa iðraðist hann brátt, og morguninn eftir fór hann til gistihússins, þar sem maðurinn var, og bað hann fyrirgefningar á því, að hann skyldi hafa »sýnt ruddaskap þeim, sem fórnað hefði lífi sínu fyrir föðurlandið« og væri mjög nauðstaddur. Tók hann þá manninn upp í vagninn sinn og

varð þess þá vís, hve erfitt maðurinn átti. Þegar Lincoln sagði Stanton ráðherra, hvað hann hefði gjört, þá bað ráðherra hann afsökunar á því, að hann hefði synjað manninum um upptöku á hælið.

»Nei, nei«, mælti Lincoln, »þú gjörðir rétt að fylgja þínum reglum. Ef við hefðum jafnbrjóstgott, gamalt flón, eins og eg er, í yðar sporum, þá væru engar reglur til, sem herinn eða þjóðin gæti reitt sig á«.

Einu sinni heyrði hann það sagt frá vesalings ekkju í Massaschusetts, sem var verkakona, að hún hefði mist son sinn í orustu; þá settist hann niður og skrifaði henni eitt hið fegursta huggunarbréf, sem nokkur hefir ritað frá eigin brjósti:

»Eg finn, hversu veikt og árangurslaust hvert orð mitt hlýtur að vera til að heilla frá yður harm út af svo yfirbugandi sonamissi; en eg get ekki bundist þess að beina til yðar þeirri huggun, sem felst í þökk þjóðveldisins, sem synir yðar dóu til að bjarga. Eg bið vorn himneska föður að sefa kvöl ástvinatregans hjá yður og skilja að eins eftir minninguna, sem þér alið í brjósti yðar um hina elskuðu, horfnu syni yðar, og hinn hátíðlega hróður, er yður hlýtur að hlotnast fyrir það, að þér hafið lagt svo dýra fórn á altari frelsisins«.

Þegar hann kom til hersins, þá sýndi hann þá umhyggju sína fyrir hinum herskráðu mönnum, sem aldrei brást; hann umgekst þá og leit jafnvel ofan í soðkatlana þeirra. Einu sinni sagði hann við Butler hershöfðingja: »Gaman þætti mér að ríða fram með fylkingunum til að sjá drengina, hvernig þeir eru útlits. Þeir riðu svo báðir saman

og voru eigi nema einar 300 stikur frá stauragirðingum fjandmannanna. Þeir heyrðu hermennina heilsa forseta með háværum fögnuði og sáu háa manninn í söðlinum. Butler varð órótt og sagði: »Þér eruð nú eigi lengra burt frá uppreistarmönnunum en svo, að þeir geta sent yður kúlu«, og vildi fá hann til að hætta við þetta. Lincoln hló og mælti: »Yfirbjóðandi hersins má ekki sýna bleyðiskap í viðurvist hermanna sinna, hvað sem honum svo sjálfum kann að finnast«. Og svo hélt hann áfram reiðinni, þangað til hann hafði farið fram með endilöngum víggarðinum, sem var meira en 2 mílur á lengd.

Lincoln vissi, að það voru mennirnir innan víggarðanna, sem mundu bjarga sambandinu. Og hann var ekki að kosta kapps um að halda því uppi vegna kaupsýslumanna landsins né hinna auðugu, heldur hugði hann, að fall sambandsins eða kollvörpun þjóðstjórnarinnar mundi verða sem höfugt banabögg á alþýðu manna um heim allan; þá færi hin »síðasta og bezta von jarðarbúa«. Sínum augum lítur hver á heiminn. Lincoln vissi, hvað hið frjálsa lýðstjórnarfyrirkomulag í Bandaríkjunum var fyrir hann sjálfan. Það hafði nú hafið hann til æðstu valda, og það var þessi hugsun, sem hann ól í brjósti sér um sambandið: Það hóf mig úr dýpstu fátækt og menningarleysi til æðstu tignar.

»Gullið er gott á sínum stað, en lifandi traustir og þjóðræknir menn eru gulli betri«, sagði hann. Fjármálaráðherra hans kvartaði undan því, að hann hefði ekki einu sinni beiðst þess að fá að líta á

fjárhagsástandið til að sjá, hvernig féð streymdi inn og út aftur til hersins. Hermálaráðherrann var aftur á móti sífelt að kvarta um það, að hann væri alt að skifta sér af þeirri deild og reyna að fá hermenn undanþegna refsingum. Hershöfðingjar hans tóku í sama strenginn; þeir gætu ekki fengið neinn liðhlaupa skotinn, og það spilti heraganum. Lincoln vissi þetta vel. Einu sinni sagði hann um þetta mál: »Sumir hershöfðingjarnir kvarta yfir því, að eg náði alt of marga; en að lokinni hverri dagsþrautinni gleður það mig svo mjög, hafi eg getað fengið næga ástæðu til að frelsa líf eins manns og svo lagst til hvíldar með það í huga, hversu mjög eg gleð ættingja hans og vini með undirskrift minni«.

En í þessari góðsemi hans, sem stundum gat orðið of mikil, var aðalstyrkleiki hans fólginn. Það var mannástin eða sú tilfinning, að hann væri að vinna fyrir aðra, sem veitti honum siðferðis-þrek til þess að láta ekki hugfallast, þó að stundum léti nærri að svo færi. Þessi kraftur var honum af Guði gefinn.

Satt að segja, þá var það eitt fundið að því, hvernig Lincoln beitti valdi sínu, hve örlátur hann var á að beita náðunarvaldinu.

Í hinum opinberu bréfum Lincolns er fult af spurningum og forsögnum, sem snerta náðanir t. d.:

»Hafir þú ekki látið skjóta Dennis Mc. Carthy, þá gjörðu það ekki«. »Hefir hann verið góður hermaður að þessu fráteknu, að hann hljóp úr liðinu?«

»Ekki líkar mér sú refsing að halda eftir launum — það kemur svo hart niður á fátækum fjölskyldum«.

Svipað þessu mætti lengi finna í ritum hans.

Hershöfðingjar hans á vígstöðvunum báðu hann innilega að kippa að sér hendinni og ámæltu honum fyrir, að hann vildi eigi gefa þeim frjálsar hendur um það að beita hinum ströngu reglum, sem þeir töldu nauðsynlegar til þess að hafa rétta stjórn á hervélinni. En þrátt fyrir það gleymdi Lincoln því aldrei, að sjálfboðalið var mannleg vél, lifandi vél, og það var trú hans, að kærleikur væri sigursælli en ótti. Sérhver hermaður, sem fór með byssu, var sem sonur hans. Þeir voru allir »drengirnir hans«, og svo mátti iíka heita að verjendur sambandsins væru flestir börn, því af 2½ miljón, sem skráðir voru í herinn, voru rúmar 2 miljónir drengja yngri en 20 ára, meira en 1 miljón var ekki einu sinni 18 ára, 8000 voru yngri en 17 ára og 10,000 yngri en 15 ára. —

»Þær eru orðnar of margar ekkjurnar sem gráta«, sagði Lincoln við einn, sem maldaði í móinn, er hann bannaði honum að skjóta 24 liðhlaupa í röð.

»Gjörið það fyrir Guðs sakir, biðjið mig ekki um að bæta við þá tölu, því að eg vil ekki gjöra það«.

»Þeir eru að skjóta dreng í dag«, sagði hann einu sinni, »eg vona, eg hafi ekki gjört rangt í því að leyfa það«.

Lincoln var meinilla við föstudaga. Einu sinni, er hann rendi augum yfir heila hrúgu af líflátsdómum, sem láu á borðinu hjá honum á fimtudegi, þá sagði hann: »Á morgun er slátrunardagur og eg verð að renna augum yfir þessi skjöl til að

vita, hvort eg get enga afsökun fundið til þess, að þessir veslings menn megi sleppa«.

Hann rækti þetta með stakri ráðvendni. Hann vildi ekki beita ströngum réttvísireglum. »Eg held, að þessi drengur geti gjört oss meira gagn ofan jarðar en neðan«, hafði hann t. d. einu sinni að ástæðu. »Mál Andrews er í raun og veru mjög slæmt«, ritaði hann á eitt dómskjalið, og hann kvaðst gjöra refsinguna vægari eingöngu af því, að hann væri að reyna að fara í kringum slátrunarhandverkið.

Þó að Lincoln væri sjálfur hugprúður og hraustmenni, þá var hann vinur hinna hugdeigu. Hann kallaði það bara »fótamál«, er einhverjir voru kærðir fyrir »hugleysi í augsýn óvinanna«. Einu sinni sagði hann við ygldan herforingja: »Ef Guð almáttugur gefur manni blauða fætur, hvernig getur hann þá gjört við því, að þeir hlaupi á burt með hann?« Hólfið eitt í skrifborðinu hans var fult af þessum »fótamálum«, málum manna, sem gjörst höfðu liðhlaupar, en Lincoln gefið grið, til þess að þeir berðust einhvern annan dag. —

Einu sinni hvíldi höndin hans á dauðadómi þrælasölumanns, er hafði orðið sannur að sök. Hann var fús á að gefa grið og sagði dapur í bragði: »Veitstu, hve það er hart að láta mannlega veru deyja, þegar þú finnur, að þú getur bjargað lífi hennar með einum pennadrætti?« Hin mikla meðaumkvun hans og bróðurkærleiki náði jafnvel til þessa viðbjóðslega afbrotamanns. Hann frestaði aftökunni, af því hann hélt, að þessi maður kynni að hafa gjört sér tálvon um náðun og hefði því

ekki búið sig undir dauðann; hann áminti manninn um, meðan sá náðartími stæði, sem hann gæfi honum, »að fela sjálfan sig miskunn Guðs og föður allra manna«.

David Davis, dómsforsetann í gamla farandkviðdóminum hafði Lincoln nú sett á bekk í hæstarétti Bandaríkjanna. Við hann sagði hann einu sinni. »Eg hefi enga trú á aflífun manna og ætti heimurinn engan slátrara, nema mig, þá slyppi hann hjá því, að honum yrði vakið blóð«.

Hann var ávalt viðbúinn að biðja vægðar öðrum til handa á hverjum tíma og hverjum stað.

Maður kom til hans síðla á kveldi, þá er hann var genginn til rekkju, í náðunarerindum. Lincoln settist þá upp í nærklæðunum og ritaði skipun um að gefa 19 ára gömlum dreng grið; var hann dæmdur til lífláts fyrir það, að hann hafði sofnað á verði og átti að skjóta hann á næsta morgni. En nú varð hann ákaflega hræddur um, að skeytið mundi misfarast, fór hann því í föt og gekk inn í hermáladeildina, til þess að komast þar í beint samband við herinn á vígstöðvunum. En samt var hann ekki ugglaus, fyr en hann var búinn að síma skipun sína til 4 manna.

Dæmdur maður þurfti ekki að hafa það sér til málsbóta, að hann væri neinn afburðamaður. »Ef hann á engan vin, þá vil eg vera vinur hans«, sagði Lincoln einu sinni, er hann kom í veg fyrir, að hermaður væri skotinn.

Einu sinni kom kona til hans og bað bróður sínum griða. Þá mælti Lincoln: »Vesalings kona! Þér komið ekki hingað með neinn ríkisstjóra eða

þingmann úr efri málstofu eða annan sambandsþingmann, til þess að tala máli yðar; mér litst svo á yður, að þér séuð heiðvirð og áreiðanleg, og þér eruð ekki í svigapilsi, og eg verð flengdur sjálfur, ef eg fyrirgef ekki bróður yðar«.

»Guð blessi Lincoln forseta«, var ritað undir mynd af Lincoln forseta, sem fanst í vasa fallins hermanns eftir orustuna við Fredericksborg. Miskunsemi forseta hafði hlíft honum við óheiðarlegum dauða og gat hann því fallið á vígstöðvunum með sæmd.

Hin margsagða saga af Lincoln og hinum sofanda varðmanni er átakanlegri og hjartnæmilegri en nokkur vopnaviðskifti í orustum. Ungur hermaður frá Vermont var dæmdur í herbúðum nálægt Washington til dauða, af því að hann hefði sofnað á verði. Brotið var sérstaklega alvarlegt af því, að öruggleiki borgarinnar var kominn undir árvekni varðmannanna. Allar tilraunir til að bjarga lifi hans urðu árangurslausar; fóru þá höfuðsmaðurinn og föruneyti hans og allir nágrannar hins dæmda afbrotamanns á fund Lincolns forseta.

Skömmu seinna rak drenginn heldur í furðu; forseti Bandaríkjanna var þarna sjálfur til hans kominn; spurði forseti um foreldra hans og heimili þeirra og um líf hans og starf yfirleitt. Hann sagði þá forseta ógn barnslega sína sögu um gamla heimkynnið sitt milli »Grænu fjallanna« og tók mynd af móður sinni upp úr vasa sínum. Lincoln sagði honum þá, að hann væri of góður drengur til þess að verða skotinn, þó að hann hefði einu sinni sofnað á verði; hann kvaðst sjálfur hafa

verið upp alinn í sveitakofa og vissi því, hve erfitt það væri fyrir sveitadreng að halda sér vakandi liðlangar nætur, ókunnur siðum og skyldum hermanna. Hann lofaði að bjarga lífi hans, en í móti yrði hann að leggja mjög mikið af mörkum við sig fyrir greiðann. —

Þá ljómaði hinn ungi maður af þakklætistilfinningu. Hann var hárviss um, að faðir sinn mundi útvega alt það fé, sem hann gæti, til að launa forseta lífgjöfina, með því að veðsetja jörðina sína. Lincoln sagði, að það mundi ekki hrökkva fyrir því, sem hann setti upp; hann gæti borgað reikninginn sjálfur með því einu að sýna og sanna, að hann væri jafn hraustur og ötull og hver annar í her sambandsins. Forseti lagði hönd sína á höfuð drengnum og leit góðmannlegu augunum sínum á hreina og ráðvandlega svipinn hans, en drengurinn lagði líf sitt að veði fyrir því, að hann skyldi ekki svíkja velgjörðamann sinn.

Þess var ekki langt að bíða, að hinn ungi maður launaði forseta lífgjöfina. Það var á herferðinni til Richmond í fyrstu orustunni, sem hann tók þátt í. Í áhlaupi einu, sem herinn gjörði yfir fljót nokkurt og gegn blossandi kúlnaregni úr skotgröfum óvinanna, hljóp hann fyrstur af stað og sneri síðastur baki við fjandmönnunum. Þegar blásið var til undanhalds, komst hann heill á hófi á sundi að bakkanum »vina meginn«.

En hann fann þá, að lífgjöf forseta var ekki fulllaunuð, Hann steypti sér út í fljótið aftur og aftur og synti til og frá undir kúlnahríðinni til að bjarga særðum lagsbræðrum sínum. Þegar hann

var búinn að bjarga hinum síðasta, þá hafði hann sjálfur fengið kúlu í brjóstið holla og hugum stóra. Að því búnu var hann viðbúinn að gjöra upp alla reikninga á jörðu hér. Reikningur forseta var nú fullborgaður. Í andarslitrunum blessaði hann Lincoln fyrir það, að hann hefði verið svo miskunnsamur að treysta sér og leyfa sér að láta líf sitt fyrir sambandið með hreysti og sæmd.

Kona ein fátæk í Fíladelfíu leitaði sér færis að ná fundi Lincolns, en hafði eigi tekist það í þrjá daga.

Svo stóð á, að maðurinn hennar hafði átt að fara í herinn, en komið sér undan því. En einu sinni hafði hann drukkið fullmikið og bauð sig þá fram af fúsum vilja, en hljóp burt aftur þegar hann var afdrukkinn. Hann var þá handsamaður og átti að skjóta hann að viku liðinni.

Konan lagði af stað á mánudag með kornungt barn á handleggnum; en á laugardaginn átti að skjóta mann hennar. Þegar hún var búin að bíða þrjá daga og var orðin örkula vonar um, að hún næði fundi forseta, þá vildi svo til, að forseti gekk um gang einn, sem lá á bak við stofuna, þar sem hann tók á móti gestum. Hann var á leið til að drekka teið sitt, en þá heyrir hann barnsgrát, Hann gekk þá þegar inn í skrifstofu sína og hringdi og kallaði til þjónsins: »Er kona með barn fyrir framan?«

Þjónninn kvað svo vera og sagði, að það væri víst vel gjört að grenslast eftir, hvernig stæði á fyrir henni, því að líf manns lægi við.

Þá sagði forseti: »Látið hana koma inn til mín undir eins«.

Konan fór nú inn til hans og sagði sögu sína, og forseti náðaði manninn hennar.

Þegar konan kom út aftur, þá grét hún af gleði og varirnar bærðust, eins og hún væri að þakka Guði. Þjónn Lincolns gekk þá til hennar og sagði: »Það var barninu að þakka«.

Það var einkennilegt, að það skyldi verða hlutskifti hans, þess brjóstgóða manns, að stýra hinni ógurlegustu borgarastyrjöld, sem sögur fara af. En hvað honum var það þung raun, svo fjarri sem allur hernaður og blóðsúthellingar voru skapi hans. En með því gafst honum því fremur færi á að sýna líknarlund sína, enda lét hann engin þau tækifæri ónotuð, eins og þegar er sagt. Margir þeirra, sem komu til að tjá honum raunir sínar, ástvinamissi og annað slíkt, mintust þess síðar, að honum hefði legið við að gráta, varirnar titrað og augun vöknað.

Mikil var harðneskjan og grimdin, sem kom fram í styrjöld þessari; er hún ljóst dæmi þess, hve hinar svo nefndu kristnu og siðuðu þjóðir geta borist langt afleiðis frá allri mannúð, þegar út í hernað er komið.

En þessi grimd var sannlega ekki Lincoln að kenna, eins og nú hefir sagt verið. Hann hafði alla æfi andstygð á hernaði, því að hann ólst upp með því fólki, sem vildi eigi koma nærri neinu slíku. Það voru kvekararnir svo nefndu. Sá trúarflokkur er andstæður öllu siðleysi, hernaði, drykkjuskap og annari óhófsemi, þrælahaldi og illri meðferð á

bandingjum. Þeir skorast undan allri herþjónustu, og vinna aldrei eiða, en efna það, sem þeir lofa.

Ráðvendnin varir lengst. Sælir eru miskunsamir, bindindissamir, starfsamir og hógværir. Alt þetta hefir rætst á öllum sönnum kvekurum, svo að þeir hafa orðið salt og ljós í þjóðfélaginu, bæði á Englandi og í Bandaríkjunum. *Howard* hershöfðingi, sem síðar getur, var einn af því bergi brotinn.

## XXIX. KAPÍTULI.

### *Lincoln leysir þrælana.*

Eins og sagan sýnir, þá hataði Lincoln þrælahald alla æfi. En þrátt fyrir það vildi hann eigi afnema þrælaverzlunina á sama hátt og »afnámsmennirnir«, því að þeir höfðu jafnillan hug á stjórnarskránni og sambandi ríkjanna, eins og á mansalinu. Stjórnarskráin leyfði mansal í þrælaríkjunum og hélt vernd yfir því þar. Þess vegna kölluðu afnámsmenn hana »samband við dauðann og sáttmála við Hel«. Og þegar þeir voru orðnir vonlausir um afnám mansalsins innan sambandsins, þá mæltu þeir hástöfum með skilnaði Norðurríkjanna og Suðurríkjanna.

En það var heildareining allra ríkjanna, sem Lincoln lá ríkast á hjarta. Það var trú hans, að þær meginreglur frelsis og jafnréttis, sem sambandið hvíldi á, mundu áreiðanlega leiða smám saman af sér lausn þrælanna. Það var skoðun hans, að þjóðin mundi eigi til langframa geta þrifist svo, að helmingur hennar leyfði mansal, en helmingur-

inn ekki; annaðhvort yrði hún að hafa það öll, eða hafna því öll. Og hið síðarnefnda mundi verða ofan á, sakir stjórnarskrárinnar og lýðstjórnarskipulagsins, því að andinn í því væri gagnstæður þrælahaldi.

Afnámsmenn vildu ekki styðja Lincoln til forseta. Og er hann var kosinn, þá kallaði ræðuskörungur þeirra, Wendell Philips, hann »þrælahundinn frá Illinois«.

Lincoln var það fyrir öllu að bjarga sambandinu, því að hann sá, að ef það færi í mola, þá væri um leið týnd hin vísasta trygging fyrir öllu frelsi, svo hvítra manna sem svartra.

Ef Lincoln hefði frá upphafi beint styrjöldinni gegn þrælahaldinu fremur en viðhaldi sambandsins, þá hefðu þrælaríkin í Miðríkjunum og meiri hlutinn af hinum »frjálsu« Norðurríkjum sagt skilið við hann. Hann hélt því meira að segja fram, að undir embættiseiði sínum hefði hann engan rétt til að afnema mansalið, nema hann bjargaði sambandinu frá að liðast sundur.

Á friðartíma gat forseti eigi fremur leyst þrælana, heldur en hann hefði getað gengið inn í hús annars manns og tekið þaðan löglega eign hans. En sem yfirbjóðandi hers í opinberum ófriði gat hann leyst þá á sama hátt og hann gat látið drepa menn og brenna eða gjöra upptækar eigur þeirra, hve nær og hvar sem helzt, ef hann sá, að það gæti orðið sambandinu til bjargar og fjandmönnum þess til hnekkingar.

Lincoln sýndi jafnt hugrekki sem hyggindi í því að standa gegn hinum hvatvísu ráðum »afnáms-

manna«. Auðvitað hlaut svo að sýnast, sem hann gengi á bug við siðferðismeðvitund siðaðra þjóða og að hann skeytti nú eigi framar um það mál, sem hann hafði fyrir brjósti borið frá æsku.

En honum blandaðist ekki hugur um, að lausnarstundin var að nálgast. Eftir því þurfti enginn að reka. Suðurríkin höfðu hafið ófriðinn til að koma á ævarandi þrælahaldi hjá allri þjóðinni; bæri þau lægri hlut, þá væri mansalið um leið úr sögunni.

Herforingjunum var í fyrstu vafamál, hvað þeir skyldu gjöra við þá svertingja, sem gengu í her þeirra. Sumir skiluðu þrælunum aftur í hendur réttra eigenda; aðrir tóku svo djúpt í árinni, að þeir gáfu þeim lausn á sitt eindæmi (Freemont).

Báðar þessar aðferðir komu Lincoln í vanda. Það vakti gremju í Norðurríkjunum og jafnvel í Norðurálfunni líka, ef strokuþrælum var skilað aftur; en væru þeir lýstir frjálsir, þá stóð Miðríkjunum geigur af því og mörgum afturhaldsmönnum í Norðurríkjunum. Butler hershöfðingi fann heppilegustu úrlausnina á þessu vandamáli. Hann lýsti yfir því, að svertingjar, sem kæmu inn fyrir herlínuna, væru »bannher« og hélt þeim eins og annari bannvöru, eins og tíðkast á ófriðarárum. Strokuþrælarnir, »bannherinn«, fylktu sér nú undir sambandsfánann fleiri og fleiri og gjörðu margvíslegt gagn: grófu skurði, hlóðu hergarða og unnu hverskonar störf önnur fyrir sambandsherinn. En fyrir það voru þeir ekki frjálsir að lögum. En af því að þetta atvik flýtti fyrir afnámi þrælahaldsins, þá gjörði Lincoln sitt hið fremsta til að búa þræl-

hafendur sambandsins og þá, sem þeim voru samhuga, undir þau málalok, sem hlytu að verða. Hann barðist af alefli fyrir því áformi sínu, að greiða þrælhafendum í Miðríkjunum fullar bætur fyrir þræla sína og að fá samþykki þeirra til að veita þrælunum smám saman lausn gegn endurgjaldi frá ríkinu.

Á sambandsþinginu leitaði hann alvarlega hófanna um þetta mál við þingmenn Miðríkjanna, og þjóðina sjálfa ávarpaði hann í boðskap sínum (1862) á þessa leið: »Þér getið ekki, þótt þér vilduð, lokað augunum fyrir þessu tákni tímans«.

En samt sem áður glöptu hleypidómar þeirra gegn lausn þrælanna þeim svo sjón, að þeir gáfu þessu varnaðarorði hans engan gaum. Sambandsþingið hafði þó vald til að skipa því máli með lögum í Columbíu, og þar voru 3000 þrælar gefnir lausir gegn endurgjaldi. Það nýmæli bar Lincoln sjálfur fram í sambandsþinginu 12 árum áður; nú varð það fyrst að lögum.

En nú rak hver ósigurinn annan fyrst framan af; varð þá að gefa þrælum lausn og kveðja þá til styrktar sambandshernum. Þá mátti fyrst greinilega sjá fyrir forlög mansalsins. Lincoln ályktaði á þessa leið:

»Til þess að bjarga lífinu, verður oft að taka lim af líkamanum; en lífið er aldrei lagt í sölurnar til að bjarga einstökum lim líkamans«. Hann sá, að hann varð að afnema mansalið hjá þjóðinni, til þess að bjarga þjóðarheildinni frá skipbroti. Hann vildi ekki gefa þrælunum lausn eftir persónulegri vild sinni, því að þá hefði hann rofið

embættiseið sinn, heldur vildi hann leysa þá eingöngu af því, að hann, yfirbjóðandi hersins, teldi það hernaðarlega nauðsyn, að taka þá í herþjónustu til að bjarga sambandinu.

Engum sagði hann frá þessu mikilvæga áformi sínu, fremur en öðrum mikilsvarðandi fyrirætlunum sínum. Hann beið þess og vakti yfir því, að tækifæri gæfist til framkvæmda. Hann hlustaði á þá, sem mintust á þetta mál, og ræddi það við þá; en engum sagði hann frá áformi sínu. Það var fyrst á miðju sumri 1862, að hann skýrði ráðuneyti sínu frá þessari fyrirætlan sinni. En hann varð að láta síga úr hömlu með það þá. Her Mc Clellans var um þær mundir á undanhaldi niður skagann frá Richmond, og urðu því allir á eitt sáttir um, að ef þetta spor væri stigið þá, mundi heimurinn líta svo á, að það væri örþrifaráð. En á komandi biðtíma ritaði hann lausnarboðun sína í kyrþey.

Mánuði síðar en forseti sagði ráðuneyti sínu í trúnaði frá fyrirætlan sinni, þá ritaði Horace Greely grein í »Tribune« og eggjaði Lincoln lögeggjan að gefa nú þrælunum lausn þegar í stað. Horace var »afnámsmaður«. Lincoln svaraði Horace, en lét þó ekkert uppi um ákvörðun sína. Hann lagði sem áður alt kappið á, að brýna fyrir þjóðinni eina kappsmálið: Björgun sambandsins.

»Það er mér aðalkappsmálið«, ritaði hann Horace, »að bjarga sambandinu, en ekki annaðhvort að bjarga eða eyða mansalinu. Gæti eg bjargað sambandinu svo, að eg leysti engan þræl, þá mundi eg gjöra það, og gæti eg það, með því að

leysa þrælana, þá gjörði eg það, og ef eg gæti bjargað því með því að leysa suma, en suma ekki, þá mundi eg líka gjöra það. Það, sem eg gjöri, að því er mansalið snertir og svertingjana, það gjöri eg af því, að eg held að það geti bjargað sambandinu, og það, sem eg forðast að gjöra, forðast eg af því, að eg held, að það verði ekki til að bjarga sambandinu«.

Nokkrum vikum síðar sendu klerkar í Chicago fulltrúa á fund Lincolns, til að leggja að honum, að gefa alla þræla lausa þegar í stað; kváðust þeir vera komnir af hlýðni við guðlega skipun. Lincoln svaraði, að sér fyndist, að Guð mundi heldur birta sér vilja sinn um þetta mál en öðrum, og fullvissaði klerkana um, að ef hann gæti vitað víst, hvað Guð vildi að hann gjörði, þá mundi hann gjöra það. En lausnarboðun hans lá þá þegar ritið í borðhólfinu hans, hulin augum allra, nema hans sjálfs.

Það reyndi mjög á þolgæði Lincolns, er prestar og aðrir, sem einir þóttust hafa hina guðlegu speki, komu með sínar guðrækilegu hugleiðingar og upphvatningar. Það var einu sinni í hita og þunga dagsins, að prestur nokkur sagði við hann með hátíðlegri alvörugefni:

»Eg *vona*, að Drottinn sé vor meginn«.

Þá svaraði Lincoln hvatlega:

»Eg læt mig það alls engu skifta, en hitt hefir stöðugt verið mín þrá og bæn, að *eg og þessi þjóð* verðum *Drottins meginn*«.

Fám dögum síðar en klerkarnir heimsóttu Lincoln, vann sambandsherinn sigur hjá Antietam,

sem fyr er sagt. Fimm dögum síðar var ráðuneytisfundur. Þegar allir voru gengnir til sæta, sagði Lincoln, að Artemus Ward, kýmniskáldið, hefði sent sér síðustu bókina sína, og nú hefði hann gaman af að lesa þeim einn kafla með fyrirsögninni: »Ofbeldisverk í Utica«. Einn af riturum hans segir, að sér hafi virzt Lincoln hafa hið mesta gaman af því, sem hann las, og brosað hefðu allir ráðherrarnir, nema Stanton«.

Þegar forseti var búinn að lesa og hættur að hlæja, þá breyttist svipur hans og rómur hans alt í einu: »Herrar mínir!« sagði hann alvarlegur í bragði, »þegar uppreistarherinn var í Fredericksborg, þá fastréð eg með sjálfum mér, að jafnskjótt sem honum væri stökt burt úr Maryland, þá skyldi eg birta boðskap minn um lausn þrælanna, eins og eg tel hana verða líklegasta til að verða til nytsemdar. Eg sagði engum frá því, en sjálfum mér og skapara mínum hét eg þessu. Nú er búið að stökkva uppreistarhernum burt úr Maryland, og því ætla eg að efna heit mitt. Eg hefi nú kvatt yður saman til að heyra, hvað eg hefi ritað. Eg kveð yður eigi til ráða um meginmálið, því að það hefi eg fastráðið með sjálfum mér. Þetta segi eg nú, og hefi ekkert annað í huga en virðingu fyrir hverjum og einum af yður«.

Hann játaði, að það kynni að sýnast undarlegt, að hann hefði lagt málið undir úrskurð Drottins. »En leiðin var óljós fyrir huga mínum«, sagði hann. »Nú hefir úrskurður Drottins fallið þrælunum í hag og mér er það hið mesta fagnaðarefni, að boðskapur minn er réttur«. Síðan bað hann ráð-

herrana að athuga orðfærið á skjalinu, en ekki tilganginn, því að hann væri nú fyllilega og endanlega úrskurðaður.

Hann játaði, að aðrir í hans stöðu kynnu að gjöra betur en hann hafði gjört. Ef hann héldi, að einhver sem helzt annar ætti fyllra traust almennings, og til væri leið, samkvæm stjórnarskránni, að hann væri settur í forsetasætið, þá vildi hann glaður láta það eftir. »Eg stend hér«, sagði hann, «eg verð að gjöra, eins og eg veit sannast og réttast og bera ábyrgðina«.

Þess er hvergi getið í sögu þjóðarinnar, að nokkur atburður slíkur sem þessi, hafi gjörst á nokkurri ráðstefnu í Hvíta húsinu fyr né síðar. Hann hófst með hlátri yfir sprenghlægilegri gamansögu eftir Artemus Ward, en breytist svo í það að leysa þrjár miljónir svertingja úr ánauð, og endar svo með einfaldri og auðmjúkri játningu barnslegs trausts á bæninni til Guðs. Þessar andstæður sýna jafnsanna mynd af Lincoln eins og hún er fátíð.

Lincoln bað iðulega um þær mundir, sem vinir hans voru að leggja að honum að gefa þrælunum lausn. Ráðuneyti hans fann á honum, að hann var í stöðugum bænarhug, enda kemur það fram í niðurlagi lausnarboðunarinnar, er svo hljóðar:

»Að þessari skipan gjörðri, er eg hygg í allri einlægni að stjórnarskráin hafi heimilað mér að gjöra, þá bið eg um nærgætnislegan dóm manna og náðarsamlega hylli almáttugs Guðs«.

Hann birti þessa lausnarboðun sína, þegar hann var orðinn þess fullviss, að því yrði ekki frestað lengur. »Skoðun almennings studdi hana, hlýjustu

vinir hans og stuðningsmenn kröfðust hennar af honum og sjálfur hafði hann heitið Guði því, að hann vildi birta hana«.

Lausnarboðunin öðlaðist þó ekki gildi fyr en 1. janúar 1863, Þar var þeim svertingjum einum heitið lausn, sem ættu heima í ríkjum, sem þá yrðu á öndverðum meið við sambandið. Með öðrum orðum: Þrælhafendum í þeim ríkjum var með henni gefinn hundrað daga frestur; á þeim tíma gátu þau ríki komið í veg fyrir lausn þrælanna með því að ganga aftur í sambandið.

Nýársdagurinn (1863) rann upp. Með þeim degi hófst sú venjuathöfn að taka móti sendiherrum erlendra þjóða, hæstaréttardómurunum, þingmönnum efri málsstofunnar, herstjórum á sjó og landi, skrifstofustjórum stjórnarinnar og almenningi. — Þegar þessu þreytandi skylduverki var lokið, þá settist Lincoln niður og ritaði lausnarboðun sína, og lýsti því þar yfir, að allir þrælar í skilnaðarríkjunum skyldu upp frá því vera lausir um aldur og æfi.

Þegar hann tók pennan sér í hönd, þá var hönd hans orðin stirð af öllu þessu fyrirskipaða lófataki. Hann kvaðst nú vera orðinn svo skjálfhentur, að þegar seinni tíma menn sæju undirskriftina, þá mundu þeir segja: »Hann hefir hikað«. — En hann lýsti því yfir, að í þessu verki væri hann af allri sál og huga, og ef sín yrði að nokkru getið í sögunni, þá yrði það fyrir þetta verk, sem hann ætlaði nú að binda enda á. Þegar hann var búinn að hvíla handlegginn, þá ritaði hann nafn sitt undir boðskapinn með mikilli vandvirkni. Og

er hann var búinn að líta aftur yfir handritið, þá sagði hann: »Þetta nægir«.

Hann rétti pennann að manni frá Massachusetts. Pennaskaftið var þá alt nagað í endann, því að það var venja forseta, að hafa stöngina í munni sér, meðan hann var að hugsa málsgreinarnar, áður en hann ritaði þær.

Þetta eiginhandarskjal ætlaði hann sjálfum sér og erfingjum sínum. En nokkru seinna var hann beðinn að gefa það á markað einn mikinn, sem haldinn var í Chicago til styrktar sjúkum og særðum hermönnum; þá fór nú samt svo, að hann gleymdi sjálfum sér og lét það af hendi. Þar voru boðnir í það 3000 dalir á uppboði. En skjalið brann í brunanum mikla í Chicago átta árum síðar (1871).

Með lausnarboðuninni var meira en þremur miljónum þræla í skilnaðarríkjunum gefin lausn. En allir þeir svertingjar voru undanteknir, sem áttu heima í Tennessee og nokkrum hluta af Louisiana, af því að þau ríki heyrðu til sambandinu, því að forseti gat eigi sem yfirbjóðandi alls hersins skift sér af þrælahaldi utan uppreistarríkjanna.

Aðaltilgangur Lincolns með þessu, var það að gjöra þrælana í Suðurríkjunum ótrúa húsbændum sínum. Þeir voru verkamenn uppreistarmanna, yrktu ekrurnar og unnu að uppskerunni, sem styrkti her uppreistarmanna, og unnu þar að auki ýmsa stritvinnu við virkjabyggingar fyrir herinn. Nú var þeirra freistað með lausnarboðuninni til að hætta störfum og ganga í fylkingar sambands-

manna sér til frelsis. Hvar sem örlaði á fána sambandsmanna í Suðurríkjunum eftir þetta, þá hvarf alt þrælahald óðara úr sögunni. Allstaðar fögnuðu svörtu þrælarnir framsókn »hermanna Lincolns« svo sem lausn úr ánauð.

Næsta sporið, sem Lincoln lét stíga var að skrá svertingjana í herinn — hinn frelsandi sambandsher. Á hinum tvísýnu tímum, síðast í stríðinu, þegar liðsdráttnrinn þurfti fram að fara í sambandsríkjunum og hvítir sjálfboðaliðar fengust eigi, nema þeim væru heitin aukaverðlaun, þá voru 150,000 svartra manna komnar undir vopn og veittu sambandinu vígsgengi.

Lincoln varð að orði um þetta nýja lið, sem lausnarboðunin hafði fært stjórninni: »Haldið því, og þér getið bjargað sambandinu; hafnið því, og þá fer sambandið með því«, Hann var alsannfærður um, að lífi þjóðarinnar yrði eigi haldið uppi, nema með því að kveðja svertingjana til fulltingis.

Uppreistarmenn svimaði við þetta högg, þegar það skall á þeim til fullnustu, og leiðtogar Suðurríkjanna urðu æfir. Jeffersson Davis fór ómjúkum orðum um lausnarboðunina, sagði, að hún væri »andstyggilegasti þátturinn i glæpamanna sögunni«. Og sambandsþing skilnaðarmanna setti þau lög, að hvítan herforingja, sem stýrði svertingjaliði, mætti af lífi taka. Sumir herforingjar skilnaðarmanna birtu þann boðskap, að þeir mundu fara með her svertingja, sem þeir tækju, eins og þeir færu með aðrar herteknar eignir. Stöku sinnum kom það fyrir, að svartir bandingjar voru myrtir

eða strádrepnir og reiðileg hefndarhróp heyrðust af munni sambandsmanna. En Lincoln sagði þá, að hann hefði hina mestu andstygð á því áformi þeirra, að taka suðræna bandingja af lífi fyrir það, sem aðrir uppreistarmenn hefðu gjört. Hann kvað það vera fjarri sér að skipa, að saklaus maður væri skotinn til hegningar fyrir þá, er sekir væru.

Sú kom tíðin, að sjálfir uppreistarmennirnir sáu þann kostinn vænstan að leita fulltingis hjá hinum fyrirlitnu svertingjum og taka þá í herinn. Jefferson Davis sendi sambandsþingi þeirra skilnaðarmanna þau orð (í nóv. 1864), að þeir skyldu heldur taka svarta menn í herinn og launa þeim með frelsi en bíða ósigur sakir liðfæðar. Hershöfðingjarnir Lee og Johnston knúðu fast á með það, að þessi kostur væri tekinn. Og sama kvöldið, sem Richmond féll í hendur sambandsmanna, lét þingið loks undan og samþykti ákvæði um það, að skrásetja svarta menn undir fána skilnaðarmanna, því að það væri einmitt skilnaðarríkin, sem gjört hefðu ánauð Afríku-svertingjanna að hyrningarsteini sínum. En nú var þetta orðið um seinan. En með þessu réttlættist lausnarboðun Lincolns af beggja hálfu að því leyti, að hún væri hernaðarleg nauðsyn.

Frá siðferðislegu sjónarmiði hefði Lincoln þó heldur viljað, að lausn svertingjanna hefði farið fram smám saman, en ekki svona í einum svip. Það lét hann margsinnis í ljós, því að hann var ávalt mjög hagsýnn maður. Honum stóð geigur af öllum bráðum byltingum og gagnbyltingum, sem eru engu óbráðari. Hann óttaðist kynflokkabarátt-

una, sem af þessu mundi leiða, og vandann, sem hvers konar lausnargjöf mundi hafa í för með sér í þjóðfélaginu; úr honum yrði óhægt að ráða. Hann hallaðist jafnvel að því ráði, að reynt væri að senda frelsingja úr Suðurríkjunum til Mið-Ameríku og fá þeim þar bólstað, eða þá eitthvað annað. En þegar hann sá, að það mundi eigi verða að ráði, þá sneri hann sér að því, að skólar væru stofnaðir handa svertingjunum sérstaklega. Það mundi vera vænsta ráðið til að gjöra þá hæfa til að búa áfram í því landi, þar sem þeir höfðu búið svo langan aldur undir ánauðaroki.

Þetta varð að ráði eftir daga Lincolns. Sumarið 1866 var þegar búið að stofna 630 skóla handa svertingjabörnum og gengu í þá um 60,000 barna. Fullorðnir svertingjar áttu líka kost á skólagöngu. Sáu ferðamenn þá oft svertingja með stafrófskver í höndum og hjálpuðu þeir hver öðrum sem bezt þeir gátu í stöfuninni. Þeim voru og síðar veittar 8 miljónir ekra af landi í Suðurríkjunum til yrkingar fyrir lítið verð og mest ókeypis. —

Það var áform Lincolns að leita einhverra hægfara og viturlegrar aðferðar til að láta bæði kynin, hið svarta og hvíta, »lifa sig út úr gamla sambandinu sín í milli, svo að bæði gætu komið betur undirbúin inn í nýja sambandið«. Ekki var honum kappsmál, að svertingjar fengju almennan kosningarrétt, heldur þeir einir, sem hefðu barist fyrir sambandið og þeir, sem væru »bráðgáfaðir«. Slíkur flokkur svertingja hugði hann að mundi, ef »nýir reynslutímar kæmu, varðveita gimstein frelsisins í heimkynni frelsisins«.

Eins og áður beiddi hann Miðríkjamenn að fullna það verk að gefa þrælum lausn gegn endurgjaldi. Miljónir dala voru boðnar fram af hálfu stjórnarinnar þrælunum til lausnar. En eigendurnir vildu eigi þiggja boðið. Hið eina, sem óreynt var, var þá það, að samþykkja viðaukalög við stjórnarskrána, að þrælahald skyldi bannað í öllum Bandaríkjunum. — En því áformi varð eigi framgengt, meðan Lincoln lifði. En eftirmaður hans, Andrew Johnson, birti þá viðaukagrein á sambandsþinginu (18. des. 1865), samþykta af 27 ríkjum og þar á meðal 7 uppreistarríkjunum, svo látandi:

»Engum manni skal haldið í þrælkun eða nauðungarvinnu, nema hann hafi með glæp fyrirgjört frelsi sínu«. Þessi lagagrein var síðan samþykt af öllum ríkjunum.

Eftir alt hið illa, sem þrælahaldið hafði af sér leitt, þá varð að uppræta það, nema burtu rætur þess sem greinar, áður en endurskipun sambandsins kæmist á fót. Það var glæpsamleg heimska að láta nokkrar menjar verða eftir af því og trufla svo með því hið nýja samband ríkjanna. Þess vegna barðist Lincoln af alefli fyrir því síðustu mánuðina, sem stríðið stóð, að ofanritaðri viðaukagrein væri bætt við stjórnarskrána. Leit hann svo á, að með henni næði starf hans í þarfir frelsisins hámarki sínu.

Lincoln hafði viðtöku gesta inni hjá sér kvöldið áður en hann væri settur inn í embættið í annað sinn. Þá gaf sig fram svertingi sá, er Douglas hét og vildi ná fundi hans. Enginn svertingi hafði fyr sést við slík tækifæri í Hvíta húsinu, svo alþjóðleg

sem sú viðtaka þó var. Lögregluþjónarnir ruku til og ætluðu að reka Douglas á dyr. Einhverjir, sem á horfðu, voru því mótfallnir, og var honum þá leyft að taka sér sæti meðal gestanna. Forseti heilsaði honum hjartanlega á sínum tíma, því að þótt hann vissi hleypidóma manna sinna í þessum efnum, þá bar hann virðingu fyrir tilfinningum svartra manna jafnt sem réttindum þeirra.

»Herra Lincoln«, mælti Douglas, þér eruð eini hvíti maðurinn, sem eg hefi átt tal við eða verið samvistum við, sem hvorki hefir sýnt mér það vitandi né óvitandi, að hann tæki eftir því, hvernig eg væri á litinn«. Lincoln bauð þá Douglas til tedrykkju með sér í sumarbústað sínum. Við nýársviðtöku forseta sóttu margir svertingjar fund hans, hlæjandi og æpandi af fögnuði. Stóðu þeir þar í blóma lífsins frammi fyrir lausnargjafa sínum.

Eftir dauða Lincolns varð það hlutskifti varaforseta, Andrews Johnsons, að ráða fram úr vandanum, sem leiddi af hinni skjótu lausn þrælanna og sjá um, að henni yrði framgengt svo, að frelsingjarnir fengju hjálp og viðreisn, þar sem þörf gjörðist, skera úr misklíðum með þeim og hinum hvítu, sjá þeim fyrir atvinnu og hæfilegum vinnulaunum, kenslu, mannúðlegri meðferð o. s. frv. Til þessa starfa voru settar nefndir eða dómar í öllum ríkjunum, er nefndar voru *frelsingjanefndir* (Freedmans bureaus). Fyrir þeim öllum stóð Howard, einn af hershöfðingjum sambandsmanna, hinn ágætasti maður og mannvinur mikill, eins og Lincoln.

Áður en þessar nefndir voru kosnar, þá voru

kjör svertingjanna mjög bágborin. Þeir voru drepnir fyrir litlar sakir. eða sigað á þá hundum, ef þeim varð ekki vært í vistum, og alstaðar var fyrirlitningin á þeim söm og áður. Lausn þeirra var að vísu játuð á flestum ríkjaþingum í Suðurríkjunum, en um mannréttindi þeirra og þegnréttindi var öðru máli að gegna.

En þetta lagaðist smám saman, fyrir umsjón og kappsmuni frelsingjanefndanna. Kaupavinna þeirra gafst vel og þeir tóku sér brátt fram til menningar. Það voru þessar nefndir og ýms félög, sem stofnuðu skólana handa þeim, sem fyr er getið, til að manna þá upp; en lengi eimdi þó eftir af gömlu hleypidómunum hjá hvítum mönnum. Gamla sambandsins milli þessara tveggja kynflokka kendi lengi á eftír með ýmsu móti.

Talið er, að 50,000 svertingjar hafi fallið í stríðinu.

## XXX. KAPÍTULI.

### *Lincoln og ráðuneyti hans.*

Lincoln var annað kærara en að skipa fyrir. Hann óaði við að taka að sér stjórn ráðuneytisins, og gjörði það ekki fyr en atvikin knúðu hann til að taka á sig ábyrgðina sjálfur á gjörðum þess. Að eðlisfari vildi hann heldur vinna með mönnum en stjórna þeim. Hann gat ekki fengið af sér að gjöra nokkurn mann að undirlægju, hversu lágur sem hann var í sessi. En þó fann hann, þegar óvæntir atburðir báru að höndum, að einhver varð að ráða, og að hann bæri ábyrgðina einn fyrir

þjóðinni, þar sem hann var forseti. Hann var hugprúðari en svo, að hann leyfði sér að svíkjast undan skyldu sinni. Og svona var það, að hann tók smám saman í taumana, þangað til öll stjórnin lá í höndum hans.

Þegar fyrsta ráðstefnan var haldin, hefir víst engum þeirra í hug komið, að maðurinn, sem þá sat við borðsendann, mundi einhverntíma hafa öll ráð þeirra í hendi sér. Enginn ráðherranna þekti hann persónulega og flestum þeirra fanst víst, að þeir væru honum meiri, svo óvanur og óreyndur sem hann var. Þeir höfðu allir verið í kjörum hjá einhverjum flokki til einhverra stjórnarstarfa. Fjórir þeirra höfðu verið í forsetakjörum með honum og því keppinautar hans á Chicago-þinginu. Enginn þeirra var persónulegur vinur hans. Það var djarfræði af honum að mynda slíkt ráðuneyti. Og ekkert einingarband var milli ráðherranna sjálfra heldur. Þar sem þeir voru Lincoln ókunnir og keppinautar hans, þá voru þeir ekki bundnir af hollustu við hann. Og ekkert samræmi var í áformum þeirra, þar sem þeir voru úr andstæðum flokkum. Enginn forseti gat haldið slíku ráðuneyti saman, svona ósamhljóða að öllu, nema forseti, sem kunni með valdi að nota menn og stjórna þeim.

Fáum eða engum mun hafa komið til hugar, að Lincoln mundi ná tökum á þeim. Undanfarin 20 ár höfðu atkvæðalitlir forsetar setið á stóli, haft valdið, en engu ráðið. Forsetarnir voru ekki annað en ráðríkir flokksmenn í ráðurneyti sínu, sundurþykkir við ráðuneytið. Þess vegna héldu menn, að stjórn Lincolns yrði ekki annað en nafnið tómt.

Tveir menn í ráðuneytinu, Seward og Chase, voru fulltrúar andstæðra flokka í hinum nýja flokki þjóðvaldsmanna, og þeir keptust á um það, að hafa töglin og hagldirnar að baki forsetans. Baráttan milli þeirra um völdin hófst áður en Lincoln kom til Washington, og varð því ákafari, sem lengra leið fram. Seward var gamall og slunginn ríkisstjóri og stjórnmálagarpur frá New York og meiri hluti þjóðvaldsflokksins nefndi hann upphaflega til forseta, og leit svo á, að kosning Lincolns hefði eigi verið annað en glappaskot. Og sem utanríkisráðherra og forsætisráðherra, þá réð hann mestu. Því var það, að hann tók stjórnartaumana sér í hendur. Hann var laus á kostunum í háttum sínum og hafði lengi átt heima í Washington. Lincoln féll hann vel í geð og reiddi sig stundum á, að alþýða manna hefði reynt hann meira og hann væri reyndari i því að stjórna málefnum hennar.

Seward hafði sér það nú um stund að gamni að leika forseta. Hann lét sér ekki nægja að skipa málum sinnar deildar, utanríkismálunum, heldur fór að eiga launmök við skilnaðarríkin og gefa landher og sjóliði sínar skipanir. Að ráði hans voru engar ráðstefnur haldnar vikum saman, því að hann kaus sér heldur að vera einka-ráðgjafi forseta, og tók það upp hjá sjálfum sér að kveðja saman þá fáu ráðuneytisfundi, sem haldnir voru á fyrsta skeiði stjórnarinnar nýju.

Þegar Seward kom ár sinni svona vel fyrir borð, þá varð hann sem ær og örvita af þessu valdi sínu. Hann fastréð nú með sjálfum sér að fá forseta til að viðurkenna formlega þessa yfirstjórn sína. Þá

var það sem hann ritaði forseta hina gegndarlausu uppástungu sína, sem fyr er getið, að Bandaríkin skyldu hefja stríð gegn einhverri erlendri þjóð, til þess að vekja ættjarðarást Suðurríkja-manna, og að forseti skyldi fá sér stjórnina í hendur.

Lincoln gaf þessari illkvitnislegu árás eigi meiri gaum en hún hefði komið frá óvita barni, og vísaði þessari heimsku á bug með þeirri þolinmæði og staðfestu, sem mikilmenni sæmir, og með þeim krafti, sem þá og jafnan síðar hafði full tök á þessum metorðagjarna ráðherra.

Þegar Seward var búinn að lesa hið fáorða og góðmannlega svar forseta, þá tók hann algjörðum stakkaskiftum. Hann lét sér blátt áfram vel líka að vera þjónn forseta úr því. Hann settist nú í sitt rétta sæti í deildinni og hélt því til enda, og reyndist foringja sínum hollur og röskur liðsmaður og hljóp aldrei síðan í veg fyrir hann. Það var hann, sem skoraði fyrstur á nýja forsetann að taka við stjórninni og fyrstur gaf sig undir forystu hans. Ekkert óvildarorð fór þeim af vörum hvorugum. Lincoln hélt virðingu sinni, en lét þó Seward eigi verða sér til minkunar. Þeir urðu æ samrýndari í öllum embættis-sökum, og sá samhugur varð að hjartanlegri, persónulegri vináttu, sem ekkert haggaði síðan, meðan þeir lifðu báðir.

*Chase* var annar metorðagjarni ráðherrann. Hann varð frægur af stjórn sinni á fjármálum ríkisins, en alla sína embættistíð var hann persónulega ókunnugur Lincoln. Hann var orðinn mentamaður og afburða stjórnarmaður, þegar enginn þekti Lincoln, fyrir utan Illinois. Aldrei gat hann fengið sig

til að kannast við, að Lincoln væri yfirboðari hans. Chase var, því miður, svo skapi farinn, að fyndni og gaman átti þar ekki heima. Þess vegna gat samband þeirra aldrei orðið hjartanlegt og ekki komið til mála, að þeir yrðu sem einn maður. »Hið sanna er«, mælti Chase með hátíðlegri alvörugefni, »að eg hefi aldrei getað gjört mér gaman úr þessari styrjöld«. Hann var fastur fyrir og fann hreinskilnislega að við forseta á ráðstefnum. »Hann getur hafa verið góður formaður á fljótabáti og leikinn í því að kljúfa staura«, sagði hann í bréfi til kunningja síns, þar sem hann mintist á forseta; en stjórnvizku Lincolns kunni hann aldrei að meta.

Hinar stöðugu aðfinslur hans við forseta og lagsbræður hans urðu til þess að lokum, að upp úr slitnaði með þeim; það var þegar stjórnin var nærri að hníga undir ósigri, bæði á vígstöðvunum og við atkvæðagreiðsluna. Þingmenn efri málstofunnar ólu stöðugt þá blekkingu í brjósti sér, að Lincoln væri ófær til stjórnar og fastréðu því með sér að bjarga Lincoln undan áhrifavaldi Sewards, er þeir hugðu, að væri að sigla stjórnarfarinu til brots, og setja Lincoln undir hina viturlegu leiðsögu Chases. Þeim kom ekki í hug, að forseti gæti steypt öllum ráðherrum sínum af stóli svo, að það hefði hin minstu áhrif á stjórnaraðferð hans.

Þeir héldu undirbúningsfund og á þann fund komu fulltrúar efrimálstofumanna, og fundarefnið var það, að fá Seward rekinn frá völdum. Lincoln tók á móti þeim þykkjulaust með öllu og bauð þeim að koma aftur um kvöldið. Og þeir komu á ákveðinni stundu; en þá furðaði þá á því, að Lin-

coln hafði stefnt öllum ráðherrunum á fundinn, nema Seward einum. Fulltrúarnir og ráðherrarnir gátu því eigi annað en rætt málið augliti til auglitis. Þessu höfðu fulltrúarnir eigi búist við. En við þetta hreinsaðist loftið og sumir þingmannanna urðu orðlausir. Seward lét leggja fram afsögn sína, og þá fann Chase, að annað gat ekki átt við, en að hann sýndi hinn sama sjálfsfórnaranda. Morguninn eftir kom hann líka og hafði ritaða afsögn í hendinni. Hann var nú samt fyrst á báðum áttum um, hvort hann ætti að afhenda hana; gekk þá Lincoln nær, því að hann þóttist vita, hvert erindið mundi vera og rétti fram höndina eftir skjalinu. Chase gat því eigi annað en afhent honum það og síðan gengið úr þjónustu hans.

Lincoln var glaður af því með sjálfum sér, að honum hefði tekist að gjöra þessa tvo keppinauta jafna. Hann settist niður óðara, ritaði þeim báðum og kvaðst eigi taka afsagnir þeirra til greina, og gengu þeir svo aftur að skyldustörfum sínum hvor um sig. »Nú get eg riðið leiðar minnar«, sagði Lincoln með ánægjubrosi, »því að nú er eg búinn að fá sitt ávaxtakerið í hvorn endann á töskunni minni!« Hann hafði haldið þessum tveimur flokksmönnum í þjónustu sinni til þess, að þeir skyldu vega hvor upp á móti öðrum, og nú hafði hann myndað ráðuneyti sitt svo að nýju, að hann misti hvorugan af þessum duglegu ráðgjöfum sínum.

Eftir þessa reynslu forseta ályktuðu þingmennirnir, að hann vissi, hvernig hann ætti að ráða ráðum sínum og létu hann svo eiga sig. Þeir skildu nú, hví Horace Greely hefði tekið upp þá hyggi-

legu reglu, að koma aldrei í Hvíta húsið. »Lincoln er mér ofjarl«, sagði hinn nafnfrægi ritstjóri, »hann vefur mér um fingur sér, hve nær sem eg kem til hans«.

Með áþekkum hyggindum skifti Lincoln um hermálaráðherra, er hann sá, að það var bráðnauðsynlegt. Cameron hermálaráðherra var mikill stjórnmálagarpur, en hermálunum hafði hann ekki stjórnað svo, að yfirmanni hans eða þjóðinni fullnægði. En svo fórst Lincoln það vel, að tryggja sér fráför hans, að eigi særði hann tilfinningar hans hið minsta; í hans stað skipaði Lincoln svo E. M. Stanton, lýðræðismann, gamlan andstæðing sinn í stjórnmálum og bersöglan að marki.

Stanton var lögmaður í Washington og hafði aldrei stígið fæti sínum inn fyrir dyr í Hvíta húsinu, frá því er Lincoln kom þangað, og hafði gjört svæsnar árásir á stjórnina. Þetta mat Lincoln alt sem ekkert hjá því að geta fengið röggsamlegan, vel hæfan mann í ráðuneyti sitt. Lincoln vissi aldrei, hvað hefndarhugur var. Hann þurfti því ekki að hafa mikið fyrir því að fyrirgefa illkvitnina, sem hann varð fyrir af hendi Stantons í uppskeruvélarmálinu í Cíncinnatí fyrir nokkrum árum, né hinar sífeldu árásir hans á stjórn hans; þetta alt gat hann látið sér í léttu rúmi liggja. Nýi hermálaráðgjafinn rækti stöðu sína af mikilli þjóðrækni og hollustu, svo að nærri lá ofríki, og með þeirri dáð og rögg, sem heillaði hinar hugdeigu hersveitir. Hann gleymdi sjálfum sér, forsetanum og hverjum helzt öðrum í ákafa sínum fyrir því, að her sambandsins sigraði. »Nú, vér viljum láta berjast«, var orð-

tak hans, og þótti harðneskjulegt. Hann tróð undirferli og áhrifavald eins og höggorma undir miskunarlausum hæli sínum. Hann vildi engin launmök láta hafa við sína deild. Á hverjum degi stóð hann á ákveðinni stundu á sínum stað til að taka móti gestum sínum; efri málstofu-þingmönnum, hershöfðingjum og öllum slíkum; hann setti hjá sér hraðritara, þann er ritaði skýrslu um alt, sem bar á góma.

Nú ruddust menn í Hvíta húsið; þótti þeim heldur misboðið virðingu sinni og kvörtuðu undan ráðríki hins nýja ráðherra. Til þess að jafna hinar snurðóttu tilfinningar eins þeirra, þá sagði forseti honum sögu þessa: »Vér verðum«, sagði hann, »að fara með Stanton, eins og þeir í Vesturríkjunum eru stundum neyddir til að fara með metodistaprest, sem eg þekki. — Hann hefst svo á loft í bænum sínum og hvatningum, að þeir stinga múrsteinum í vasa hans, til að halda honum niðri«. »En eg geri nú ráð fyrir«, sagði forseti og deplaði augunum, »að við látum hann hoppa fyrst um sinn«.

Ríkisstjóri nokkur kom á fund Lincolns óður og æfur út af einhverju, sem Stanton hafði gjört; maðurinn kom aftur út frá forseta í betra skapi, og þó hafði forseti í engu slakað til. Lincoln var beðinn að segja, hvernig hann hefði farið að því að lægja í honum rostann. Hann kvaðst þá hafa gjört það á sama hátt og bóndi einn í Illinois hefði losnað við stóran bjálka, sem lá á miðjum akrinum hans: »eg plægði í kringum hann«. En eg var næstum þrjá klukkutíma að því, og eg var

alla þá stund lafhræddur um, að hann mundi uppgötva, hvað eg væri að gjöra«.

Það er enginn efi á því, uð Lincoln hefir haft með sjálfum sér gleði af ofsanum í skapi Stantons, því að þann eiginlegleika vantaði hann sjálfan, og hafi þótt dýrmætt að nota hann í þjónustu stjórnarinnar.

Manni nokkrum hafði tekist að lokka út úr forseta meðmæli með sér til Stantons; en maðurinn kom aftur hlaupandi og sagði að Stanton hefði brugðist reiður við, rifið upp bréf forseta og fleygt því svo í ruslakörfuna. Þá mælti Lincoln: »Jæja, það er rétt eftir Stanton að gjöra þetta«, — og hafði hjartanlegt gaman af þessu. —

Þingmaður einn fór til Stantons með skipun frá forseta, en kom brátt aftur, og sagði, að Stanton vildi ekki líta við skipuninni og segði, að forseti væri flón. Lincoln varð ekki annað að orði en það, að ef Stanton segði, að hann væri flón, þá hlyti hann að vera það, því að »Stanton hefir næstum alt af rétt fyrir sér og segir vanalega eins og honum býr í brjósti«.

Annar maður bað Lincoln að taka ráðin af Stanton, því að hann neitaði mönnum fararleyfis yfir herlínuna. Þá svaraði forseti vandræðalegur á svipinn: »Eg get ekkert, því að þér hljótið að vita, að eg hefi mjög lítil áhrif á þá stjórn, sem Stanton er fyrir«.

En samt sem áður gætti Lincoln þess, þótt hægt færi, að renna fáeinum múrsteinum í vasa síns vaxandi hermálaráðherra, þegar nauðsyn krafði. Hann sá, að ef enginn hemill væri hafður á hinni

miskunarlausu ástríðu hans um það, að sambandið fengi að hrósa sigri, þá mundi hann loka öllum líknarhliðum og setja járngreipaða harðstjórn á laggirnar; en það gat komið því málefninu á flæðisker, sem honum lá svo ríkt á hjarta. Lincoln stjórnaði honum með umburðarlyndi og festu, svo að stjórnin fékk að njóta hins mikla dugnaðar hans, en hamlaði honum frá að spilla fyrir áhugamáli hennar.

Þegar Lee hershöfðingi gjörði fyrstu innrásina, og höfuðborgin var í hættu, þá réð Lincoln af að kalla Mc Clellan að herstjórninni. Hann vissi, að Stanton mundi aldrei samþykkja það og spurði hann því eigi ráða. Þegar Stanton heyrði þetta, kom hann á fund forseta í ljótum ham. Forseti tók honum hið ljúfmannlegasta, en þó einbeittlega, svo að um enga tilslökun var að ræða; hann kvaðst hafa gefið skipunina og bera ábyrgð á henni fyrir þjóðinni.

Í annað sinn gaf Lincoln leyfi, en vissi eigi, að þeim var það báðum á móti, Grant og Stanton. Stanton neitaði þá, að taka það til greina. Forseti iðraðist gjörðar sinnar, en gefið leyfi varð eigi aftur tekið. Og þar sem voldugir menn áttu hlut að máli, þá hefði hann komist í vanda, ef leyfið hefði eigi náð fram að ganga. Hann sagði því: »Hr. ráðherra! Eg álít, að þér verðið að framkvæma skipunina«. »Hr. forseti!« sagði Stanton æstur. »Eg get það ekki; skipunin er óhæfileg«. »Hr. ráðherra!« sagði Lincoln og varð ákveðinn í bragði. »Það hlýtur fram að ganga«.

Þetta dugði. Enginn vildi þrátta við Lincoln, og

Stanton hlýddi án frekari mótmæla. En forseti var ávalt hreinskilinn, ritaði Grant og tjáði honum með ljósum orðum, að leyfið væri yfirsjón af sinni hálfu og eigi mætti saka Stanton fyrir það.

»Svo mátti sýnast, að Lincoln færi fram að hætti Sewards einn daginn, en Stantons hinn daginn«, sagði Grant, er hann gjörði yfirlit yfir forystu Lincolns, »en hann gekk alt af sína beinu braut og þeir urðu honum samferða. Það sem myndaði grundvöll forystu hans, var hin göfugmannlega staðfesta hans í því, að koma fram vilja sínum, röksemdalaust og mótmælalaust, án þess að beita valdi«.

Hreysti Lincolns og staðfesta olli því, að hann gat leitt aðra fyrirhafnarlaust; þolinmæðin var aðalstyrkur hans. Lundin var hógvær og undir ágætri stjórn. Hann talaði aldrei né gjörði nokkuð hvatvíslega né skifti skoðun skyndilega. Enginn ráðherranna heyrði hann nokkurn tíma mæla nokkurt átöluorð til sín fyrir yfirsjónir, eða sáu jafnvel á honum þykkjusvip.

En þó gat hann verið bersögull, ef honum þótti það við eiga. Þegar Halleck var yfirhershöfðingi, þá gjörðist hann svo djarfur að beiðast þess, að einum ráðherranna væri vikið frá völdum. Þá svaraði Lincoln afdráttarlaust: »Eg legg það til, að mér sé sjálfum ætlað um það að dæma, hvort víkja skuli ráðherra úr embætti«. En ef ráðherrarnir þráttuðu sín í milli, þá fann hann sig knúðan til að lesa þeim fyrir stranga leksíu í meira lagi, kvað sig eigi langa til að heyra meira af öðru eins »hér né annarstaðar, nú eða hér eftir«.

Ef hann var til neyddur, sakir stöðu sinnar, að koma fram sem formaður stjórnar sinnar, og jafnvel taka ráðin af undirmönnum sínum, þá skifti hann sér sjaldan af málum annarsstaðar en í hermáladeildinni, því að í málum hennar bar honum, sem yfirbjóðanda alls hersins, nauðsyn til að taka grandgæfilegan og verklegan þátt.

Hann vissi ekki, hvað öfund var. Þess vegna gaf hann ráðherrum sínum fult frelsi til að ráða, hverjum í sinni deild í þjónustu þjóðarinnar, hverjum á sinn hátt, til þess að þeir gætu hlotið hverja þá frægð, sem lángefni þeirra í stöðunni kynni að ávinna þeim. Hann skifti sér aldrei af smáatriðum í starfi þeirra og gjörði sér ekkert far um að kynna sér þau; í því efni treysti hann algjörlega dómgreind þeirra og reynslu. Hann var eigi hneigður fyrir skrifstörf; hann var stálminnugur; hann gat borið forsetadæmi Bandaríkjanna í hattinum sínum.

Þegar bankastjórar mintust á peningamál við Lincoln, þá hrópaði hann: »Peningar! Eg veit ekki vitund um þá. Eg hefi aldrei haft nóg af þeim fyrir sjálfan mig, og eg hefi ekkert vit á þeim málum á nokkurn veg. Farið þér til Chase!« Fjármálaráðherrann var jafn-ófróður um fjármál og Lincoln sjálfur, þegar hann komst í stjórnina; en vitsmunir hans í þá átt voru svo frábærir, að hann hafði búið til fjármálakerfi, sem safnaði 3 biljónum dala í ríkissjóðinn til útgjalda í þarfir hersins, og hrökk jafnframt til að reka önnur störf í þarfir þjóðarinnar. Fyrir það þrekvirki ber honum einum heiðurinn. Lincoln var skynsamari

en svo, að hann færi að eyða tímanum í að taka fram í störf, sem hann hafði sett aðra til að rækja, ef þeir lögðu fram alla sina hugsun og krafta til þess.

En því var miður, að þessir ágætu hæfileikar, sem Chase voru gefnir, gátu eigi notið sín að fullu sakir skapsmuna hans; hann var barnalega hégómlegur og ónotagepill í lund. Honum var ósýnt um að velja menn sér til aðstoðar, og hve nær sem forseta þótti tilhlýðilegt að skifta sér af því vali, þá þyktist Chase við það. Ef hann reiddist, þá var honum mjög tamt að segja af sér, til að láta reiði sína í ljós. Lincoln hafði hann með lagni út úr nokkrum slíkum illindisköstum.

»Eg fór beint upp til hans með afsögnina hans í hendinni«, sagði Lincoln einu sinni, þegar hann var að lýsa einni reynslu af þessu tagi, er hann var á leið út að húsi fjármálaráðherra, »eg lagði handlegginn um hálsinn á honum og sagði: »Chase, hérna er blaðið, sem mig langar til að hafa ekkert með að gjöra. Taktu við því aftur og vertu nú skynsamur«. Eg þurfti að eiga bænastað við hann um þetta langan tíma«.

Chase sótti eirðarlaust eftir því að verða forseti, og leit svo smáum augum á hæfileika Lincolns í forsetastöðunni, að hann leyfði sér að sækja móti húsbónda sínum. Það var um þær mundir, sem mótstöðumenn Lincolns ofsóttu hann á allar lundir og horfurnar um endurkosningu hans voru sem tvísýnastar. En Lincoln bar það alt með þögn og þolinmæði.

Chase kom sjálfur auga á þessa sviksamlegu að-

stöðu sína, og bauð að segja af sér. Lincoln kvaðst hafa leitt alt það mál hjá sér, svo sem sér hefði verið frekast unt, hefði eigi viljað lesa umburðarbréfin, sem gefin hefðu verið út fjármálaráðherra til stuðnings við forsetakjörin, og hefði engan hvatt til að ræða það mál í sína áheyrn. Lauk svo máli sínu með því að neita að taka við afsögninni.

»Hvort þér verðið fjármálaráðherra framvegis«, mælti forseti í góðu skapi, »er mál, sem eg mun eigi leyfa mér að íhuga frá nokkru öðru sjónarmiði en mínu viti á þjónustu i þarfir þjóðarinnar, og frá því sjónarmiði sé eg enga ástæðu til að skifta«.

Löngu eftir það er sú fásinna var úr sögunni dottin að kjósa Chase til forseta, og Lincoln var endurkosinn, þá misti Chase enn einu sinni þolinmæðina við forseta og sagði af sér. Þá hvíldi alvarleg hætta í fjármálum yfir þjóðinni og horfurnar voru tvísýnar um forlög sambandsins. En samt bar Lincoln áræði til að taka afsögnina gilda svo fljótt og hiklaust, að Chase furðaði á; forseti færði þá ástæðu fyrir því, að það, sem þeim bæri á milli, væri orðið svo örðugt viðfangs, að þeim væri víst bezt að skilja. »Eg var oft í talsverðum vandræðum með hann«, ritaði hinn ógæfusami ráðherra í dagbókina sína, í slæmu skapi; »en hitt get eg ekki gjört mér í hugarlund, hvaða vandræði eg hefi bakað honum«.

En hins vegar sagði Lincoln tregðulaust um Chase: »Af öllum mikilmennum, sem eg hefi kynst, þá er Chase nærfelt jafn hálfum öðrum af þeim, sem beztir eru«.

Háyfirdómaraembættið í hæstarétti Bandaríkjanna var laust. Þetta embætti veitti Lincoln Chase af göfuglyndi sínu, æðsta heiðursembættið, sem forseti getur veitt. Þá ritaði Chase í dagbók sína: »Eg finn nú, að eg þekki hann ekki«. Það felst hrein viðurkenning í þessum setningum. Hann ritaði þær um þær mundir, sem Lincoln hafði, þrátt fyrir alla misklíð milli þeirra, fastráðið með sér að krýna hina þjóðnýtu þjónustu hans með svo glæsilegum verðlaunum.

Hinir, sem sátu við ráðuneytisborðið með Lincoln, voru betur gjörðir að eðlisfari og kunnu því betur að meta hið hversdagslega, en þó háleita eðli húsbónda síns, sem sveigði ráð þeirra að sínum vilja með siðferðislegum krafti. Seward lýsti svo lunderni Lincolns, að það hefði verið »skapað og mótað af guðdómlegum krafti, til þess að bjarga þjóðinni«. Og Stanton sagði um foringja sinn, að hann hefði verið »hinn fullkomnasti stjórnari manna, sem heimurinn hefði nokkurn tíma átt«.

## XXXI. KAPÍTULI.

### *Lincoln og hershöfðingjar hans.*

Þegar styrjöldin hófst, þekti engin hina hraustu herforingja, sem ætlað var að leiða hersveitir sambandsins til sigurs.

Um þær mundir var Grant búin að segja af sér yfirforingjaembætti í hernum og orðinn aðstoðarmaður í leðurbúð föður síns í Galena í Illinois og hafði 50 dali í kaup á mánuði. Hann hafði þá eigi

aðrar skyldur að rækja en að kaupa húðir af bændum og vera bókhaldari föðurs síns. Hann var þá 39 ára, og hafði orðið lítið úr sér, þótt hann sýndi í Mexikó-leiðangrinum, að hann væri gott hermannsefni.

*Sherman* hafði líka sagt sig úr hernum, þótt hann væri orðinn yfirforingi. Ekki hafði hann tekið beinan þátt í Mexikó-leiðangrinum, því að hann var af hendingu staddur annarsstaðar um þær mundir. En er hann lagði niður hermensku, fékst hann við bankastörf og lögmensku, en hætti svo aftur við hvorttveggja. Og þegar Louisiana var í undirbúningi með að segja sig úr sambandinu, þá var hann forstöðumaður fyrir hermannaskólanum þar. Þegar ófriðurinn hófst var hann 41 árs að aldri og var þá formaður járnbrautarfélags í St. Louis.

*Sheridan* var þá þrítugur og yfirforingi þeirrar deildar, sem útvegar hermönnum samastað.

*Thomas* var líka yfirforingi í hernum.

*Meade* var þá 46 ára og hafði lengst um verið í herþjónustu, alt frá því er hann kom af skólanum í West Point, þá fyrir 25 árum.

*Mc. Pherson* var undirforingi.

En hvort sem þeir herforingjar voru í hernum eða utan, sem sigursælastir urðu, þá vissi enginn neitt af þeim að segja, þegar ófriðurinn hófst. Forsjónin geymdi þá, þangað til hennar tími var kominn. En þá komu þeir líka fram eins og leiftrandi stjörnur undan skýi.

Grant fór þess á leit við hermáladeildina og þrjá ríkisstjóra, að þeir vildu fela honum eitthvert erindi á hendur til að reka, en fékk enga áheyrn;

umsóknum hans var öllum stungið undir stól. — Sherman átti bróður í efri málstofunni og var því ekki vísað á bug með öllu, heldur var honum boðið yfirritaraembættið í hermáladeildinni. En af því að hann sá fram á, að hann mundi gera meira gagn með sverðinu en pennanum, þá afsalaði hann sér því boði og var sem áður ökumaður á strætavagni. Sheridan var gerður út til að kaupa hesta og var hann þó líklega sízt af öllu fallinn til þess starfa. Thomas hafði á sér illan grun, af því að hann var frá Virginíu. Yfirboðarar hans skildu ekki, hví hann hefði ekki gengið í lið með uppreistarmönnum og töldu því uggvænt að fela honum herstjórn.

Það var þetta, sem bar til þess, að þeir herforingjarnir, sem leiddu her sambandsins til úrslitasigurs, koma hvergi við söguna í öndverðri styrjöldinni.

Það blés þá heldur byrlegar fyrir uppreistarmönnum. Forseti þeirra var sjálfur hermaður, taminn við vopnaburð á hermannaskólanum í West Point og í Mexikó-leiðangrinum og hafði verið hermálaráðherra Bandaríkjanna.

Hvort sem það var að þakka kynnum þeim, sem Jefferson Davis hafði haft af herforingjunum persónulega eða af hermálefnum, þá fór svo, að allir helztu herforingjarnir, eins og þeir Lee, Jackson og Johnston gengu uppreistarmönnum á hönd.

Öllum bar saman um að Lee, yfirhershöfðingi uppreistarmanna, mundi bera af flestum hershöfðingjum að snarræði og kænsku. Og það sagði

Jackson eitt sinn, að »sér þætti sæmd að hlíta forystu svo ágæts foringja«.

*Jackson,* að viðurnefni *Steinveggur* (Stonewall), var sambandsmönnum hinn mesti vogestur og vann þeim hinn mesta geig á herstjórnarskeiði Mc. Clellans. Viðurnefni sitt hlaut hann af því, að einn af foringjum uppreistarmanna eggjaði menn sína með þessum orðum: »Standið fast, góðir drengir. Lítið á Jacksons-menn! Þeir standa fyrir eins og steinveggur«. Þetta gjörðist í orustunni við Manassa (21. júlí 1861). Jackson er svo lýst, að hann var hár og grannur, skarpleitur og augun eins og í otri. Hann var mikill trúmaður og bænrækinn, baðst fyrir um nætur og tók sig þá oft upp og hafði svo skjótt við um farir, að hann kom þar ávalt fram og réðst á fjandmenn sína, er þeir áttu hans engar vonir. Stundum hafði hann þau brögð við, að hann gerði að þeim harða hríð og hvarf svo frá, er óðast stóð bardaginn og hélt undan þeim sem skjótast, unz sýn faldi. Þóttust hinir þá hafa fengið sigurinn og gjörðust óvarir um sig; en á svipstundu lét Jackson fylkingar sínar snúa um hæl að þeim aftur og var þá hálfu verri viðureignar en áður.

Þau urðu æfilok Jacksons, að hann sótti móti Howard herforingja með því harðfengi, sem hann átti vanda til og rak lið hans á flótta. En að kvöldi varð nokkurt hlé og reið þá Jackson með fylgiliðum sínum fram fyrir varðlínuna til að njósna um stöðvar hinna. En er þá bar að aftur, kendu forverðirnir þá ekki aftur í myrkrinu og skutu á þá sem óðast, því að þeir ætluðu þá vera úr flokki

sambandsmanna; fékk Jackson þrjú skot í annan handlegginn og varð óvígur. Jackson beið bana af þessum sárum, því að drep hljóp í sárið, er læknar sniðu handlegginn af. Málhreifur var hann fram í andlátið og spurði mjög um öll atvik bardagans; kvað hann sambandsmenn eigi mundu hafa borgið öllu, sem undan komst, ef hann hefði mátt vera nærri. Þegar kona hans tjáði honum, að læknarnir héldu, að hann ætti skamt eftir ólifað, þá svaraði hann: »Vel má dauðann nú að bera, því að eg er að öllu leyti viðbúinn«.

»Jackson er hraustur hermaður,« sagði Lincoln, »ef vér sambandsmenn hefðum marga hershöfðingja líka honum, þá drægist styrjöldin ekki svona á langinn«.

Johnston var sá af hershöfðingjum uppreistarmanna, sem lengst hélt uppi vörninni gegn ofurefli liðs af sambandsmönnum.

Lincoln stóð alt öðruvísi að vígi en Jefferson Davis. Hann þekti ekkert til hernaðar né hermanna; var hann því algjörlega háður ráðum herforingja sinna. Scott, yfirhershöfðingi hans var þá hálfáttræður að aldri og komin á hann elliglöp. *Wool* var honum næstur að tign, foringi fyrir austurherdeildinni, og var þá 73 ára. En einn gamall herforingi, Twiggs að nafni, réð fyrir Texashersveitinni og gekk í lið með uppreistarmönnum.

Sú skylda lenti því á Lincoln, með aðstoð Scotts, að koma her á fót. Cameron hermálaráðherra hans var duglegur stjórnmálamaður, en um hermálefni var hann alls ófróður.

Ríkisstjórar og efrimálstofumenn lögðust fast á

um það, að gæðingar þeirra væru skipaðir herforingjar. Meðan svo stóðu sakir, naut Lincoln oftast að ráða Scotts hershöfðingja. Scott lagði til, að Lee væri boðin yfirhershöfðingjastaðan, en Lee fór heldur að áskorun landa sinna. Þá nefndi Scott Mc Clellan til hershöfðingja og Halleck til að vera fyrir her Vestanmanna. Og löngu eftir það, er þessir tveir hershöfðingjar höfðu týnt hylli ráðuneytis og þjóðar, þá dró Lincoln taum þeirra. Þeir Lincoln og Mc Clellan hittust fyrst í Illinois, sem fyr er sagt. Clellan var lýðveldismaður og studdi Douglas. Lincoln lét sem hann vissi ekki af, að Mc Clellan hefði verið andstæðingur hans í stjórnmálum, því að hann var ekki vanur að erfa slíkt við nokkurn mann. En hins vegar var svo að sjá, sem Mc Clellan liti svo á, sem Lincoln væri öllu heldur sami sveitalögmannsgarmurinn, eins og hann hefði verið fyr á dögum, en yfirbjóðandi alls hersins, þótt hann nú hefði hafið hann til æðstu herforingjatignar.

Her Mc Clellans mátti vera öruggur fyrir hernjósnum. Mc. Clellan mátti fyllilega treysta því, að forseti væri falslaus og ómálugur, því að þegar Lincoln hafði eigi öðrum störfum að gegna, þá fór hann sjálfur og leitaði uppi hinn unga hershöfðingja sinn, þar sem hann átti heima í Washington, til þess hann þyrfti ekki að ómaka sig á fund hans. Þá ávarpaði forseti hann ávalt ástúðlega með nafninu »Georges«.

Eitt kvöld er forseti kom að heimsækja Mc Clellan, þá var hann svo rembilátur, að hann vildi jafnvel ekki veita honum viðtal; gekk hann þá inn

í hús sitt og upp á loft og sendi þau orð niður til forseta, þar sem hann beið í allri kurteisi í fordyrinu, að hann væri genginn til rekkju og beiddist afsökunar. Eftir það komst sú regla á, að þeir hittust eigi annarsstaðar en heima hjá forseta og í embættisnafni.

En Mc Clellan sýndi þar ekki einu sinni þá virðingu yfirboðara sínum, sem honum bar að veita. Hann neitaði að viðstöddu ráðuneytinu þeirri beiðni forseta, að hann skyldi fara að ráðum hans, einmitt um þær mundir er þolinmæði þjóðarinnar var þrotin út af aðgjörðaleysi hersins.

Í annað sinn gegndi Mc Clellan alls ekki, er forseti stefndi honum á sinn fund. Þá sagði Lincoln við þá, sem biðu hjá honum og orðnir voru afarreiðir: »Það sakar ekkert. Eg vildi vinna til að halda á hesti Mc Clellans, ef hann aðeins vildi veita oss sigur«.

Mc Clellan var ungur maður og hafði fljótar hafist til svo hárrar tignar en hann hafði gott af. Hann taldi þolinmæði Lincolns við sig eigi annað en veiklyndi hjá honum. Bréfin, sem hann skrifaði konu sinni, voru full af strákslegu sjálfsáliti. »Það virðist svo sem landsstjórnin sé komin í mínar hendur«, sagði hann konu sinni í trúnaði. Og seinna, er hann var að verða »Napoleon annar« að anda sem nafni, þá ritaði hann henni: »Eg tæki mér glaður alræðisvald til að bjarga landinu, þó eg svo ætti lífinu að týna fyrir það«.

Mc Clellan var sífelt að kæra það, að hann hefði of lítið lið og of litinn herforða. Sá brestur á ráði hans var svo rótgróinn hjá honum, að hann var

ófús á að hagnýta sér það sem bezt, sem hann hafði, og tók aldrei tillit til þess, að forseti og aðrir, sem með völdin fóru, höfðu sínar skyldur og sín vandkvæði á höndum engu síður en hann sjálfur.

Þegar svo Lincoln veik honum frá völdum eftir meira en árlangan reynslutíma, þá skipaði hann þann herforingjann í stað hans, er gekk næstur honum að tign. Það var *Burnside*. Og þó sagði Burnside, að hann teldi sig ófæran til að stjórna svo fjölmennum her. Lincoln vonaði þá, að yfirlætisleysi þessa nýja hershöfðingja yrði haldbetra en sjálfsálit fyrirrennara hans. En áður en mánuður væri liðinn beið hann hörmulegan ósigur hjá Fredericksborg. Þá tók *Hooker*, næsti foringi að tign, við stjórninni.

Lincoln ritaði Hooker þá bréf og mun fátítt, að nokkur borgaralegur embættismaður hafi ritað foringja fyrir fjölmennum her slíkt bréf. Þar ritar forseti meðal annars:

»Eg hygg, að þú sért hraustur og æfður hermaður og það fellur mér auðvitað vel; það er líka ætlun mín, að þú skiftir þér ekkert af stjórnmálum í embætti þínu og það er alveg rétt. Þú treystir sjálfum þér, og það er dýrmætur, ef ekki ómissandi kostur. Þú ert metorðagjarn og það gerir heldur gott en ilt, sé því í hóf stilt. En — eg er hræddur um, að meðan Burnside hafði herstjórnina, þá hafi metorðagirnd þín ráðið meiru en góðu hófi gegndi og þú hafir gert honum þann óleik, sem þér var unt. En með því sýndir þú þjóðinni mikinn ótrúnað og rangsleitni bróður þínum í

hernum, sem á meiri heiður og meira gott skilið. Eg hefi heyrt þetta á þann veg, að eg trúi því, að þú hafir sagt, að alræðismann þyrfti að setja, bæði fyrir herinn og stjórnina. Ekki fyrir þetta, auðvitað, heldur þrátt fyrir þetta, hefi eg falið þér herstjórnina. Þeir hershöfðingjar einir, sem sigur vinna, geta verið alræðismenn. Nú beiðist eg þess af þér, að þú látir herinn vinna sigur, og vil þá leggja undir alræðisvaldið«.

Það var Lincoln einn, sem gat látið staðfestu og fyndni renna saman í eitt, í svo ljósum ávítunar- og varnaðarorðum. Og bréfið varð fremur til að lægja lund Hookers en til að móðga hann.

»Hann talar við mig, eins og hann sé faðir minn«, sagði hann, »eg vil ekki svara honum fyr en eg er búinn að vinna stórsigur fyrir hann«.

Lincoln var sárþreyttur um þessar mundir. Stríðið var búið að standa á annað ár, og enn var hann ekki viss um, að sér hefði tekist að hitta herforingja, sem dygði. Honum lá nærri við að örvílnast út af hermönnum sínum og herforingjum. Þarna kom hver af öðrum fram í mikilli dýrð og glæsilegum einkennisbúningi og útsmoginn i leyndardómum hernaðarlistarinnar. Fyrst sá hann þá ganga fram í barnslegum leikmanns-trúnaði, en eftir á mögnust þeir í ótrúnaði, sveifluðu sverðunum, og birtu hersveitum sínum ýmsan boðskap með gorti og glamri á sitt eindæmi.

Það var svo að sjá, sem þeir hefðu tekið Napóleon til fyrirmyndar í öllu þessu glamri. En metnaðurinn varð, því miður, framkvæmdunum ríkari. Mc Clellan kvaðst ætla að brjóta uppreist-

armenn á bak aftur í einni herferð«. Og einu sinni hét hann því í trúnaði: »Áður en 10 dagar eru liðnir, skal Richmond vera á mínu valdi«. Hooker var fullur af sama metnaði og talaði digurmannlega, og spjátrungslega um það, að hann skyldi hertaka Richmond. En þegar það glamur fór að leika Lincoln í eyrum, oftar en einu sinni, þá fór hann að leggja minni trúnað á það.

Og þótt Halleck yfirhershöfðingi væri Lincolns önnur hönd, sem ráðunautur í hermálum, þá varð forseti, sakir ábyrgðar sinnar fyrir þjóðinni, knúður til að taka að sér sjálfur yfirstjórn hersins. Hann sat því uppi um nætur og las bækur um hernaðarlist og hafði þá stöðugt augun á uppdráttum af vígstöðvunum. Og hann varð þess var, þótt hann hafi líklega furðað á því, að heilbrigð skynsemi hans gat líka komið að haldi í hernaðaraðferðinni; lét hann svo herforingja sína smám saman njóta af því, og gat þess þó ávalt um leið, að þeir skyldu fara varlega að sínum ráðum, því að hann hefði aldrei gengið á hermannaskóla.

Einu sinni símaði hann Freemont hershöfðingja: »Hafðu menn á varðbergi, þar sem bezt gegnir, og hafðu uppi reykjarvita á degi, en eldvita um nætur. Þá getið þér ávalt séð í tæka tíð, er fjandmennirnir nálgast. Eg veit ekki, hvort þér hafið vanrækt þetta, en eg veit, að sumir hafa lagt það undir höfuð«.

Buell hershöfðingja ritaði hann á þessa leið:

»Eg læt þá hugsun mína í ljósi við þig, að vér höfum meira lið, en hinir eigi hægra með að draga

her sinn saman, þar sem hersveitirnar mætast, og að vér bíðum lægri hlut, nema því að eins að vér getum fundið einhver ráð til að verða þeim snjallari í þessum leik. En samt lét hann þess getið, að þessi skoðun sín væri engin skipun, og að hann mundi veita hershöfðingjanum átölur, ef hann skyldi fara að þessari hugsun sinni móti sínu eigin viti.

Einu sinni er miklar rigningar gengu, símaði forseti Mc Clellan, að »hafa vakandi auga á Chickamoni-fljótinu, er væri að baki hersins, að það kvíaði hann ekki af, ef til undanhalds kæmi, sakir vaxtar, sem í það kynni að hlaupa. Gjörðu svo vel að athuga þetta«.

Banks hershöfðingja ritaði hann: »Þér mundi takast miklu betur, ef þú hefðir ekki þessar þúsundir vagna í eftirdragi. Þeir eru ekki til annars en að draga að fóður handa skepnunum, sem beitt er fyrir þá«.

Einu sinni sagði hann við Hunter hershöfðingja: »Sá, sem er foringi fyrir einni herdeild og lætur eitthvað að sér kveða, er meiri en sá, sem ræður fyrir hundrað herdeildum og hefst ekkert að«.

Þegar Lincoln var að leggja að Hooker að veita Lee eftirför, þá ritaði hann Hooker þessi varnaðarorð: »Ekki vildi eg eiga það á hættu, að eg yrði afkvíaður í fljótinu, svo að fyrir mér færi líkt og uxa, sem stekkur til hálfs yfir girðingu og er svo rifinn af hundum bæði að framan og aftan, en getur hvorki stangað að framan né slegið að aftan«.

»Ef Lee nemur staðar, þar sem hann er«, sím-

aði Lincoln til Hookers, »þá gjörðu honum ónáðir, gjörðu honum ónáðir!«

»Ef höfuðið á her Lees er við Martinsborg og halinn á plankastígnum milli Fredericks-borgar og Chancellorsville, þá hlýtur sú slanga að vera mjódregin einhversstaðar. Gætirðu ekki rofið fylkingu hans?«

Þetta hraðskeyti sendi Lincoln Hooker í öndverðri orustunni hjá Gettysborg, þar sem Hooker náði hámarki frægðar sinnar.

Þegar Lincoln var að reyna að jafna ótímabærar deilur milli þeirra Hallecks og Hookers, þá ritaði hann Hooker:

»Ef þú og Halleck vilduð vera jafn-hreinskilnir hvor við annan og við mig, eins og eg er við ykkur báða, þá félli þetta alt í ljúfa löð, sem ykkur ber á milli«. Hann kvaðst ekki heimta annað en að þeir kæmu sér saman og »gangið síðan fram að viðbættri ögninni minni, ef ykkur annars finst, að hún hafi rétt til þess, satt að segja, að nokkurt tillit sé til hennar tekið«.

Af þessum dæmum má greinilega sjá, hversu Lincoln gerði sér far um að gagnsýra ráð og framsókn herforingja sinna með heilbrigðri skynsemi og engu öðru. En þessi hin sama heilbrigða skynsemi hamlaði honum jafnframt frá að skifta sér nokkuð af þeim sjálfboðnu foringjum, sem gengu í herinn á sitt eindæmi.

Nú kom Grant til sögunnar. Lincoln skifti sér aldrei af honnm og réð honum aldrei nokkurt ráð. Grant gjörðist foringi fyrir hersveit einni í Illinois

og sveitarforingjar uppreistarmanna, sem þar voru fyrir, hrukku þegar undan honum óttaslegnir.

Enginn studdi Grant, en öfundsjúkir yfirmenn hans veittust að honum. En þrátt fyrir það kleif hann stiga herforingjatignarinnar blátt áfram með því að ganga rakleitt og hljóðalaust að störfum sínum. Hann var jafnan dulur í skapi og fámálugur og fálátur. Einhver lengsta ræðan, sem hann hélt fyrir hermönnum sínum, alla þá tíð er hann hafði herstjórnina, er orð þau, sem hann mælti áður en hann hélt hernum suður til Richmond, síðasta ófriðarárið. Þá mælti hann:

»Eg skal sækja að Sunnanmönnum, svo sem þeir standa endilangt til móts við oss, berjast við þá í alt sumar og berjast til þrautar«.

Þetta efndi Grant. Það sannaðist á honum: »Athöfn var mörg, en orðin fá«.

Aldrei beiddist Grant nokkurs frama. Hann lagði ótilkvaddur af stað. Aldrei heyrðist neitt frá honum, nema ef hann skýrði frá einhverju afreki. Hann var sístarfandi. Hann nam aldrei staðar til að kvarta yfir ónógum útbúnaði. Hann tók við því, sem honum var fengið og hélt svo viðstöðulaust áfram.

Hann tók til starfa (í febr. 1862). Hann var þegar bráðötulasti hershöfðingi sambandsmanna og hinn hugrakkasti, og náði þegar tveimur virkjum Sunnanmanna, eins og fyr getur.

Grant hlýtur að hafa komið á vígvöllinn að Lincoln fornspurðum. Lincoln hafði aldrei fyr heyrt hans getið, þó að Grant væri frá Illinois, eins og forseti. Þá fyrst, er hann var búinn að vinna oftar

en einu sinni sigur fyrir Lincoln og sambandið, fær hann fregnir af honum.

Grant var sí og æ borið á brýn, að hann væri drykkfeldur. Er mælt, að bindindisfélag eitt hafi gjörst svo nærgöngult, að það sendi menn á fund Lincolns til að biðja hann að reka Grant frá herstjórninni, því að það væri synd og skömm að láta drykkjurút hafa herstjórn á hendi. Þá er sagt, að Lincoln hafi svarað: »Þér getið, vænti eg, ekki gefið mér upplýsingar um, hvar Grant kaupir vín«. Þeir urðu glaðir við og kváðu sér mundu verða hægt fyrir að komast eftir því. »Það er ágætt«, sagði forseti, »það er mér áríðandi, því að eg ætla mér að kaupa nokkrar tunnur af sama víni handa hinum herforingjunum; vonast eg þá eftir, að þeir líkist honum og vinni sigur«. Sendimennirnir áttu að hafa farið sneyptir heim aftur.

Ekki kvað vera til sannsöguleg heimild fyrir þessu; en sagan er alkunn og sýnir ótvírætt traust forseta á Grant; en annað var honum nær skapi en að senda herforingjum sínum vín; því að hann hafði andstygð á drykkjuskap alla æfi.

Sjálfur tók Grant öllu umtali manna með þögn og þolinmæði. Hann rækti sitt starf af alhug og kærði sig svo kollóttan um, hvað um hann væri sagt. Mannkostir hans þokuðu honum hærra og hærra; hann fór hægt um metorðastigann, en hann fór beint og nam eigi staðar fyr en upp var komið svo hátt, að enginn hafði áður komist hærra.

Skömmu eftir það, er Grant hafði tekið Donelso-vígið, setti Halleck hann í varðhald fyrír smávægilegt hernaðarafbrot; en Lincoln fékk hann

leystan og settan yfir herinn aftur. Þegar fregnin barst of orustunni hjá Shilo, þá fylgdi það með, til að spilla fyrir Grant, að hann hefði stofnað liðinu í hættu með svalli sínu. og skammahríðin dundi á honum. Lincoln einn dró taum hans, og mælti: »Eg get ekki án hans verið, því að hann berst«.

Við vonbrigðin út af löngu umsátinni um Vicksborg, lifnaði aftur yfir gömlu fordómunum, sem öfundarmenn Grants kveiktu. Þá átti hann heldur engan að, nema Lincoln, og vissi Grant þó varla, hver hélt fyrir honum hlífiskildi, þar sem hvorugur þekti annan.

Þegar fregnin kom af sigri Grants hjá Vicksborg gjörði forseti sér alt far um að láta alla vita, bæði heima og erlendis, að Grant ætti allan heiðurinn fyrir það afreksverk.

»Ekki man eg til þess, að við höfum nokkurn tíma hitst«, ritaði forseti honum þá. Lauk hann síðan miklu lofsorði á hann fyrir afrekið, en viðurkendi um leið, að hann hefði verið hræddur um, að Grant hefði ófyrirsynju lagt í herför þessa. »Nú vil eg«, sagði hinn göfuglyndi forseti síðast, »viðurkenna persónulega, að þér höfðuð rétt fyrir yður, en eg rangt«.

Sherman var liðsforingi Grants í umsátinni og vart mun snarráðara manns og meira hersnillings getið í liði sambandsmanna. Fólkið vildi láta Sherman fá sinn hlut af heillaósknnum, en Sherman vildi eigi þiggja, og mælti: »Grant ber hver ögn af heiðri fyrir þá herferð. Eg var henni mótfallinn«.

Í orustunum kringum Chattanooga (haustið 1863) komst Sheridan í samband við þá Grant og Sher-

man. Þegar forsjónin leiddi þessa þrjá hershöfðingja saman, þá urðu fyrst algjör hamingjuskifti með sambandsmönnum og uppreistarmönnum. Með þeim var hið ástúðlegasta samband, innsiglað af trúnaði við Guð og föðurlandið og óflekkað af allri öfundsýki.

Nú átti sambandið loks fullskipaðan her undir forustu þriggja hinna ágætustu hershöfðingja.

Lincoln kvaddi nú hinn mikla sigurvegara, Grant, til Washington, til þess að taka á móti þeirri hertign, sem enginn í Bandaríkjunum hafði áður borið annar en Washington.

Þótt Grant væri nú orðinn frægur um alt land, þá þekti enginn hann í Washington. Hann hafði ávalt verið á sínum stað í broddi aðalhersins. Hann kom nú til Washington og leiddi son sinn ungan við hlið sér inn að skrifborðinu í aðalgistihúsinu þar. Hann hafði vindil í munni, gamlan og slitinn hermannshatt á höfði og rykfrakka um öxl sér. Þjónninn sagði honum, að ekkert herbergi væri til handa honum, nema efst uppi. Ekki var að sjá, að Grant fengist neitt um það, hvar sér væri holað niður, og gekk að borðinu og ritaði nafn sitt. Þjónninn rak heldur en ekki upp stór augu, þegar hann snéri nafnaskránni aftur rétt fyrir sér og las:

»U. S. Grant and Son, Galena, Ill.«

Og ef satt skal segja, þá hefði Grant miklu heldur kosið sér stað í dimmu loftherbergi en að verða fyrir þeim heiðri, sem allir keptust nú um að sýna honum, sem fyrir voru í gestastofunni. Aldrei hafði hann orðið jafn-smeykur fyrir byssunum í Vicksborg, eins og hann varð nú frammi fyrir öllum

hinum háværa skara, sem troðfylti forstofurnar í gistihúsinu og beið eftir að sjá honum snöggvast bregða fyrir og fá að heilsa honum. Og heldur hefði hann víst viljað vera kominn upp í sveit suður við Missisippi en að eta dagverð með öllum þessum heilsandi og fagnandi gestum, sem fyltu alveg hina víðu og stóru borðstofu í gistihúsinu.

Og er honum var fylgt til Hvíta hússins um kvöldið, þá átti hann fult í fangi með að ná fundi forseta fyrir mannþrönginni. Karlar og konur hopuðu á hæl af undrun, þegar hinn frægi hershöfðingi kom þeim fyrir sjónir, er hann var á leið til forseta. Forseti tók þéttan í hönd honum með hjartanlegasta þakklæti og hélt í hönd honum, meðan hann var að virða hann fyrir sér frá hvirfli til ilja.

Jafn skjótt sem því var lokið, barst gesturinn fyrir aðstreymisiðu háværra loftungna inn í austurherbergið í Hvíta húsinu. Þá stakk einhver upp á því, að hann stigi upp á höfðalagið á legubekk einum, sem þar var, til þess að allir gætu séð hann. Þetta gjörði hann fyrir þá, en feimnislegur var hann þá á svipinn, er fólkið einblíndi á hann, eins og tröll á heiðríkju. Þetta var fyrsta kappasýningin, sem höfð var á honum. Þegar hann var búinn að rjúfa umsát þessa, og losast við öll þessi andlit sem við honum blöstu, þá var hann orðinn sveittur af þessari hörðu raun, og kvaðst vona, að sýningarathöfninni væri nú lokið og að gott mundi af hljótast.

Daginn eftir tók hann við nafnbótinni (general-in-chief) í viðurvist ráðuneytisins. Nú átti hann að vera yfirbjóðandi allra hersveita sambandsmanna

eystra og vestra. Hann forðaðist nú, eins og hann gat að láta fólk sjá sig, það sem eftir var dagsins. Og daginn eftir hélt hann til höfuðstöðva Pótómakhersins, og á öðrum degi þar frá hélt hann vestur á leið til Tennessee. Ekkert skeytti hann um að þiggja miðdegisverð að Lincoln í Hvíta húsinu, áður en hann færi, og líkaði forseta það ágætlega.

Styrjöldin var nú orðin eitt samfleytt hvíldarlaust starf og Grant var allur eitt óslitið starf. Nú var herstjórinn ekki lengur að spjátra sig frammi fyrir heilsandi hermönnum á hersýningum, eins og á dögum Mc Clellans, og ekki átti hann nú heima í dýrðlegum sölum í Washington; nú sendi hann hernum ekki framar boðskap sinn fullan af gorti og glamri. Nýi yfirhershöfðinginn hafði alt af búið meðal hermanna sinna, tekið þátt í öllum mannraunum þeirra og hættum og barst ekki meira á í einkennisbúningi og allri framgöngu en svo, að lafhægt var að villast á honum og hverjum öðrum óbreyttum hermanni.

Svo var Grant ötull og skjótráður, að áður en vika væri liðin af maí, og meðan her Shermans var á leið suður frá Chattanooga, á Georgiu-herferðinni miklu, þá var hann lagður af stað með Pótomak-herinn í hinn blóðuga, langvinna leiðangur til Richmond. Til Richmond var nú eigi full dagleið, en förin var ein óslitin orusta og menn hans féllu hrönnum saman, eigi síður en af hinum. En þegar Grant sá Lee fram undan, þá hitti hann fyrst fyrir fjandmann, sem var stáls maklegur.

Lincoln létti nú af sér allri herstjórn og fól Grant alt á hendi og samherjum hans.

»Hin einstöku atriði í ráðagjörðum yðar, þekki eg ekki og hirði heldur ekki um að vita«, sagði forseti við Grant. Þá svaraði Grant: »Takist mér miður en eg þrái og vona, þá get eg að minsta kosti sagt, að ekki hafi það verið yður að kenna«.

Grant sendi nú Sherman leyni-skipun og sú skipun varð svo upptök hinnar frægu farar Shermans suður til sjávar, og jafnframt krafðist hann þess, að Sheridan væri fengin herdeild til forráða.

Þegar Sheridan kom til Washington, þá sagði Lincoln berlega, að bæði hann og Stanton væru mótfallnir skipun hans, af því að hann væri svo tiltölulega ungur að aldri; hann kvaðst því skipa hann eingöngu af því, að Grant hefð óskað þess.

En eftir hinar frægu sigurvinningar Sheridans í Shenandóa-dalnum, þá réttlætti hann það traust, sem Grant bar til hans, og þá sagði forseti í gamni við »Fil litla« (hann hét fullu nafni Philip H. Sheridan), »að þótt riddara-liðsforingi að sínu skapi ætti helzt að vera 6 fet og 4 þumlungar að hæð, þá væri hann nú kominn að þeirri niðurstöðu, að vel mætti duga 5 fet og 4 þumlungar, ef í hið krappasta kæmi«.

Hið eina sem Lincoln kvartaði um, að því er Grant snerti, var í rauninni ekki annað en lofköstur, sem hann hlóð honum. Hann sagði: »Grant hershöfðingi er afkastamikill starfsmaður og bardagamaður, en hann er næsta ónýtur að skrifa og síma«.

Í stjórn ráðuneytisins reyndist Lincoln leiðtogi leiðtoganna. Og í hópi hershöfðingja sinna reynd-

ist hann yfirbjóðandi yfirboðaranna. Grant sagði um hann:

»Lincoln var ómótmælanlega mesti maðurinn, sem eg hefi nokkurntíma kynst«. Og Sherman sagði: »Af öllum þeim, sem eg hefi fyrir hitt, virtist mér Lincoln eiga meira af kostum mikilmennis samfara manngæsku en nokkur annar«.

Lincoln varð ekki foringi stjórnarmanna þeirra, sem hann kvaddi í ráðaneyti sitt né hinna glæsilegu og hraustu manna, sem hann kvaddi undir merkisblæju sambandsins, af því að hann væri sjálfur glæsilegri og metorðagjarnari en allir hinir. Lincoln sigraði menn eigi með valdi einu né laðaði þá að sér með lipurð. Forystan var lögð í hendur honum, af því að fyrir honum vakti áform, sem aldrei haggaðist, og að hann hafði hjarta, sem aldrei gugnaði, trú, sem aldrei vanmegnaðist, bæði á Guði og málstað sínum, og hugrekki til að hopa aldrei undan þunga ábyrgðarinnar. Þetta var honum gefið til að bjarga þjóð sinni frá skipbroti.

Auk þessara mannkosta var hann tiginn með tignum; hann hafði göfugmennis skilning á heiðri og bar einlæga virðingu fyrir tilfinningum annara. Menn fóru úr ráðuneyti hans eða úr herstjórninni eða hann setti þá ýmist hér eða þar með frjálsmannlegum hætti; hvorki þráttaði hann við þá, né bakaði sér fjandskap þeirra.

Bréf hans og skeyti til herforingjanna eru fyrirmynd að fölskvalausri hreinskilni, góðmannlegri hæversku og ágætum smekk. »Þér höfðuð rétt fyrir yður, en eg hafði rangt fyrir mér«, sagði hann við Grant, er hann óskaði honum heilla út

af hertöku Vicks-borgar. Og þegar hann þakkaði Sherman fyrir hönd þjóðarinnar, er hann hafði tekið Savanna-virkið, þá símaði hann honum þessa viðurkenningu sína: »Þér eigið allan heiðurinn, því að eg held, að enginn af oss hafi gjört annað en að samþykkja hertökuna«. Og loks eftir uppgjöf Sunnanmanna við Appomattox, lýsti hann því yfir fyrir fagnandi þjóðinni: »Mér ber enginn heiður, hvorki fyrir áform né framkvæmdir um þetta«. Frá þeirri uppgjöf verður sagt síðar.

Það er ekki hægur vandi að finna mann, sem kemst til jafns við þann, sem enga öfund elur í brjósti sínu, því að sá maður er hafinn yfir alt, allan mannjöfnuð, alla kepni við aðra. Í eðlisfari Lincolns vottaði aldrei fyrir öfund, þessari smánarlegu tilfinningu, sem býr með svo mörgum manni. Ef honum hefði staðið ótti af, að frægð herforingja sinna mundi skyggja á sig, þá hefði hann eignað sér afrek þeirra og talið sig þeim jafnsnjallan. En ráðvendni hans var rótgrónari hjá honum en svo, að honum kæmi slíkt til hugar.

Andstæðingar Lincolns voru alt af að leita sér færis, til að rýra traust hans og vinsældir hjá alþýðu, með því að hefja einhvern hershöfðingja hans til skýjanna. Helztu átrúnaðargoð þeirra voru þeir Mc Clellan, Rosenkrans og Grant.

Lincoln var um eitt skeið hræddur um, að Grant mundi freistast til, eftir Vicksborgarasigurinn, að bjóða sig fram til forseta móti sér, því að Grant væri svo mikið barn í stjórnmálum og, ef til vill, upp með sér yfir sigrinum, og gætti sín því ekki. En vinir Grants fullyrtu við forseta, að »for-

setagröfin væri ekki grafin handa Grant«, og varð honum þá hughægra. En seinna kom það þó í ljós, að flokkur manna vildi nefna Grant til forseta. Þá varð Lincoln að orði: »Ef Grant hertekur Richmond, látið hann þá hafa forsetadæmið«. Það voru einu meðmælin með honum af hálfu forseta.

Lincoln var ekki herforingi sjálfur, enda þurfti hann ekki stöðu sinnar vegna að vera mestur herforingja sinna á vígstöðvunum. Hitt varðaði miklu meiru, að hann, sem hæstaráð lýðveldisins og yfirþjóðandi alls hersins fyrir atkvæði þjóðarinnar, væri þeim hæfileikum gæddur, að hann gæti náð tökum á herforingjum sínum og haldið þeim.

Og þessi hæfileiki var honum gefinn, þetta vald hafði hann ávalt, og það var eitt hið nytsamasta og undursamlegasta í fari hans. Aldrei kom það fyrir, að veldishöndin hans stýrði eigi hinum afarfjölmennu fylkingum, eða að penni hans væri eigi máttugri en sverðið. Aldrei tók hann svo lint í taumana, að nokkur »riddari« freistaðist til að virða vald hans að vettugi, eða kæmi það til hugar í fullri alvöru, að taka sér alræðisvald og setja landið undir herstjórn. Stjórnarskipun Bandaríkjanna er þetta til fullrar réttlætingar. Bandaríkjaþjóðin á vafalaust meiri hlutann af þeim heiðri, þó að lýðræðislund herforingjanna eigi líka ekki alllitinn þátt í honum. Ef Lincoln hefði verið lítilsigldur maður eða einráður, þá hefði lýðveldisstjórnin eigi getað hlotið þennan heiður. Atburðirnir hefðu þá borið hann ofurliði, og ríkilátir menn orðið honum ofjarlar.

Með þessari styrjöld gekk lýðstjórnarfyrirkomu-

lagið undir próf og vann frægan sigur. Ef alls er gætt, þá er þetta að líkindum eins dæmi í sögunni. Í þessari langvinnu og stórkostlegu borgarastyrjöld höfðu borgararnir sjálfir æðsta valdið með miljónum manna undir vopnum, og hinn löglega kosni foringi þeirra var óbreyttur borgari. Aldrei hafði hann séð riddarasveit á vígstöðvum, en þó reyndist hann að lokum sjálfkjörinn til að vera í fararbroddi og átti jafnvel engan keppinaut í flokki hinna sigursælu herforingja og þrautreyndu kappa, sem umhverfis hann voru.

## XXXII. KAPÍTULI.

### *Lincoln að fengnum sigri.*

Að fengnum sigri komu göfugustu eiginleikar Lincolns í ljós. Hann tók sigrinum með sömu auðmýkt og ósigrinum áður.

Jafnskjótt sem hann var orðinn þess vís (haustið 1864), að sambandinu væri borgið og Suðurríkjamenn mundu gefast upp eftir stutta viðureign á næsta vori, þá gaf hann hvorki sjálfum sér né þjóðinni nokkurt hlé til að fagna fengnum sigri, heldur snéri sér óðara að því hlutverki að binda um sár sambandsins og endurreisa það. Ekki vildi hann reka það saman í heild aftur með byssustingjum, svo að innan vébanda þess kæmi fram uppreistarland, eins og Írland eða auðnarland, eins og Pólland í þá daga. Hann taldi sér skylt að sigra uppreistarríkin með göfuglyndi

eftir það er þau hefðu verið sigruð með vopnum og valdi.

Þetta var honum þakknæmileg skylda. Í hinu göfuga og þolinmóða hjarta hans var engin beiskja í garð Sunnanmanna. Þeir voru aldrei annað en bræður hans og samlandar, hversu hart sem þeir léku hann og aðra sambandsmenn. Sanngirni hans og réttsýni aftraði honum frá að saka nokkurn einstakan mann, hvorki háan né lágan, um þessa ægilegu borgarastyrjöld.

Það átti heldur betur við létta og bróðurlega skapið hans, að segja, er Suðurríkjamenn áttu í hlut: »Þeir hinumegin,« eða þessir suðrænu herrar,« en að kalla þá »uppreistarmenn«. Tamast var honum að nefna hina tvo foringja uppreistarmanna: »Jeffy D.« og »Bobby Lee«. Þegar Jackson steinveggur féll, hraustasti kappinn í liði Lees, þá mintist eitt blaðið í Washington, þessa kappa lofsamlega. Lincoln ritaði þá ritstjóranum bréf og þakkaði honum eftirmælin um Jackson. Hann virti hreystina, hvort sem barist var með honum eða móti.

Jafnskjótt sem hann sá, að uppreistarmenn mundu bera lægri hlut fyrir her sambandsmanna, þá var honum mestur hugur á, að ná hugum og hjörtum þeirra á sitt vald. Fæstir leiðtogar þjóðvaldsmanna voru þeir skapstillingarmenn, að þeir vildu vægja fjandmönnum sínum, eftir allar ófarirnar, sem þeir höfðu farið fyrir þeim. Þeir, sem róttækastir voru, vildu láta þá uppi hanga, sem fremstir voru í flokki uppreistarmanna og gjöra upptækar eigur þeirra og láta þá svo kenna á valdi sínu með of-

ríki. Eigi voru þeir fáir af þjóðvaldsmönnum, sem svo voru blauðir, að þeir kröfðust friðar í miðju stríði; en nú er dró að ófriðarlokum, þá voru þeir fremstir í því að heimta harða friðarkosti. Lincoln varð því að heyja nýja baráttu við sambandsþingið og meiri hluta flokksmanna sinna.

Ekki geðjaðist Lincoln eiðstafur sá, sem Stanton hafði stýlað uppreistarmönnum, þar sem hann krafðist þess, að þeir lýstu því yfir, að þeir hefðu eigi »veitt óvinunum nokkrar bjargir né hagræði«. »Þetta er brot á kristilegri meginreglu um uppgjöf saka, ef iðrast er«, mælti Lincoln, »eg hygg það megi nægja, ef maðurinn gjörir eigi rangt framvegis.«

Lincoln lét bendingar hugar síns og hjarta ávalt ráða stefnu sinni. »Enginn á að eggja stjórnina til nokkurra hefnda, enginn skyldi ráða henni til að refsa aðeins til þess að refsing fari fram, hvort sem hún er verðskulduð eða ekki«. Meginregla Lincolns var þetta: »Vér skulum varast að gróðursetja þyrna í brjóstum manna«. Hann benti á sjálfs síns dæmi: »Ef einhver lætur af að veita mér árásir, þá gleymi eg óðara öllu, sem okkur hefir áður í milli borið«.

Hann synjaði þess líka þverlega, að hefnst væri á nokkurn hátt á þeim sambandsmönnum, er staðið höfðu gegn kosningu hans. »Eg vil helst hafa stutt ákvæði um takmarkanir á stjórnmálaskoðunum«.

Í ávarpi sínu til sambandsþingsins kallaði hann þá jafnt sambandsvini, sem greiddu atkvæði móti honum sem með við nýafstaðnar kosningar. Því næst benti hann á það fagnandi, að enginn þeirra, er var í forsetakjörum, hefði leitað sér stuðn-

ings með því, að láta sambandið líða undir lok; þá hefði aðeins greint á um aðferðina til að bjarga því.

Þegar leið á veturinn 1865 og hefja skyldi nýja sókn á hendur Lee, þá vildi Lincoln um fram alt ná friði, svo að eigi kæmi til vopnaviðskifta. Þó að her sambandsmanna væri vís sigur, þá var honum ekkert um þann sigur gefið, hann væri hégómi. Hann vildi svo miklu heldur laða uppreistarmenn til uppgjafar en þröngva þeim til þess með ofurefli liðs og blóðsúthellingum. Með þessa göfugu hugsjón fyrir augum, brá hann sér til Hampton Roads til fundar við Alexander Stephens, varaforseta Suðurríkjamanna, og aðra fulltrúa Richmond-stjórnarinnar.

Ekki hefði hann farið til fundar við þessa undirmenn Jefferson Davis, ef hann hefði talið það lægingu fyrir sig eða ósamboðið tignarstöðu sinni. Hann mat slíkt sem ekkert hjá því, ef hann gæti fengið þá til að gefast upp friðsamlega. Ef nokkur sigurhróður hefði getað náð tökum á tilfinningum hans, þá hefði hann virt þessa fulltrúa óvina sinna að vettugi, þar sem þeir titruðu fyrir fyrirsjáanlegum ósigri. Nei, Lincoln lét ekki tilfinningar sínar fara með sig í gönur. Það var líf hinna bláu og gráu, sem honum lá á hjarta; hann vissi, að það var í veði, ef til orustu kæmi að nýju. Hann lagði því af stað á báti alla leið til Hampton Roads í þeim erindum að bjarga lífi þeirra. —

En hann varð fyrir sárum vonbrigðum, því að hann fann, er til málaleitunar kom, að stjórn skilnaðarmanna hafði lagt ríkt á við þessa fulltrúa sína,

að játuð væri ríkishelgi Suðurríkjanna. Forseti gat auðvitað ekki fallist á, að sérstakt þjóðríki væri stofnað innan Bandaríkjanna.

Þegar einn af fulltrúunum lagði að Lincoln að viðurkenna, að Suðurríkin yrðu sérstætt ríki undir sérstakri stjórn og lögum, þá benti hann Lincoln á dæmi Karls I. Bretakonungs; hann hefði gjört svo lítið úr sér að semja við hersveit þjóðþingsins, þá er barðist gegn honum. Lincoln svaraði þeim röksemdum svo, að þær féllu um sig sjálfar. »Eg geng hér ekki undir próf í sögu Breta; í því efni vil eg biðja yður að snúa yður til Sewards. Alt sem eg man frá Karli I. að segja með vissu, er það, að hann lét höfuð sitt«. Þetta nægði til að sýna, hve óhult væri að fylgja þessu sögulega dæmi.

Nú er þetta erindi mishepnaðist svona, snéri Lincoln heim aftur til Washington og reyndi fyrir sér, hvort ekki væri hægt að girða fyrir framhald ófriðarins með öðru móti. Hann vildi þá birta þinginu þann boðskap sinn, að hann væri því hlyntur, að stjórnin byði fram 400 miljónir dala að bótum fyrir uppgjöf mansalsins, ef skilnaðarmenn vildu leggja niður vopn fyrir 1. apríl 1865. En þá varð hann fyrir vonbrigðum að nýju. Þegar hann lagði nýmæli þetta fyrir ráðuneytið, þá voru ráðherrarnir í einu hljóði á móti því. »Eg sé, að þér eruð allir á móti mér«, sagði hann þá og stundi þungan um leið og hann stakk skjalinu niður í borðhólfið, »eg ætla ekki að senda það«.

Í janúarmánuði (1865) hafði Lincoln sent mann, að nafni Blair, í friðarleitun. Jefferson Davis sendi þrjá erindreka af hálfu Suðurríkjanna til að heyra

kostina; en þeir Lincoln og Seward fóru móti þeim og hittust þeir í Monroe-víginu. En því máli lauk skjótt, er þeir heyrðu, að tilskilið var, að Suðurríkin gengi aftur í sambandið.

Það var og annað mál, sem Lincoln lá mjög á hjarta um þessar mundir. En það var að afnema mansal og þrælahald með öllu, jafnframt því sem hann endurreisti samband allra ríkjanna, því að þrælahaldið hefði einmitt verið orsök sundrungarinnar í gamla sambandinu. Þrælum hafði nú verið gefið frelsi með því, að þeir voru teknir í herþjónustu hjá sambandsmönnum, eftir það er lausnarboðun Lincolns öðlaðist gildi. Og nú var þrælahaldið að fara í mola í Suðurríkjunum líka, og þeir vildu margir taka þræla í herinn og heita þeim frelsi síðar, eins og fyr er ritað.

Sumner, þingmaður í efri málstofunni, samdi þá frumvarp til viðaukagreinar við stjórnarskrána um afnám þrælahalds í öllum þeim ríkjum, þar sem það væri löghelgað. Hann orðaði það ákvæði svo, að alstaðar í Bandaríkjunum, í hverju ríki og nýlendu, skyldu allir menn vera jafnir fyrir lögum, svo að enginn maður mætti annan hafa að þræli sínum. Lincoln vildi nú samt heldur orða ákvæðið á þessa leið: »Hvorki þrælahald né nauðungarvinna, önnur en sú, er framkvæmd er eftir dómi til hegningar fyrir drýgðan glæp, skal framvegis haldast uppi innan Bandaríkjanna né nokkursstaðar annarsstaðar í lögsagnarumdæmi þeirra«. — Fyrri hluti þessa ákvæðis var afritaður orð fyrir orð úr þeirri lögbók Indiana-ríkis, er Lincoln fékk að láni á ungum aldri í afriti. Honum féll sú máls-

grein vel í geð þá, og nú var það hjartans ósk hans, að henni væri ætlað rúm að nýju í grundvallarlögum alríkisins.

Enginn sigur í orustum fékk honum jafnmikillar gleði og það, er sambandsþingið félst á, að þetta viðaukaákvæði væri borið fram á þinginu. Löggjafarþingið í Illinois var þá háð um þær mundir og áður kvöld væri komið þennan sama dag, þá var það búið að samþykkja þennan viðauka við stjórnarskrána. Þetta var símað til Lincolns, og var honum það eigi lítið fagnaðarefni, að eitt af ríkjunum skyldi ganga á undan í því, að samþykkja þetta þrettánda viðaukaákvæði við stjórnarskrána.

Þegar Lincoln ók til stjórnarhallarinnar til innsetningar í annað sinn, þá tók fylking svartra þræla þátt í skrúðfylkingunni, honum til heiðurs. Nú voru þeir í föruneyti lausnargjafa síns og stigu nú frjálsum fótum að hermannahætti hvert sporið af öðru eftir steinlögðum strætum, þar sem þeir stigu ánauðugum fótum fyrir einum fjórum árum.

Þegar Lincoln staðnæmdist í annað sinn á þrepinu fyrir framan stjórnarhöllina veglegu, til þess að endurnýja heit sitt um að varðveita samband ríkjanna, þá var allur sá skari horfinn, sem stóð næstur honum hið fyrra sinn. Buchanan var farinn frá völdum, Breckenridge var að berjast gegn sambandinu, Taney dómari var dáinn, saddur lífdaga, og Douglas látinn á bezta skeiði og Baker fallinn í einhverri fyrstu orustunni, sem háð var á vígstöðvunum.

Og sjálfur var Lincoln orðinn annar maður að

sumu leyti. Nú stóð hann ekki í þessum sporum sem óreyndur og ókunnur maður, heldur sem trúr leiðtogi, sem naut trausts og kærleika þjóðarinnar. Það var sem styrjaldarsagan ægilega væri rúnum rituð á góðmannlegu ásýndinni hans; það var sem lesa mætti hreystilega baráttu og fórnfýsi frelsaðrar þjóðar út úr nýjum, en öflugri dráttum kringum munninn, og hrukkur áhyggju og sorgar höfðu fjölgað kringum augu hans. Hvar sem honum varð litið út yfir hljóða áheyrendur sína, fulla eftirvæntingar, þá sá hann fyrir sér sjúka og örkumlaða hermenn frá sjúkrahúsunum. Þeir voru hvorttveggja í senn: Vottar um styrjöldina og reköld úr brotsjóum hennar.

Nú var minni ótti fyrir svikum og morðtilraunum en við fyrri innsetninguna og engar sérstakar varúðarreglur við hafðar. En alþektur leikari einn, John Wilkies Booth, kom allundarlega fyrir sjónir; hann var að reyna að olnboga sig áfram, þangað sem forseti stóð, en lögreglan vatt honum á bug; var því svo ekki frekari gaumur gefinn, því að þess háttar viðburðir eru eigi ótíðir við slík tækifæri.

Rigning hafði verið um daginn og himininn var skýjaður. En er Lincoln átti að fara að vinna forsetaeiðinn, þá skein alt í einu sól úr skýjum; sagði hann síðar, að við það tákn hefði »hjartað hoppað í brjósti sér« af gleði. Síðan flutti hann innsetningarávarp sitt, og var það svo alvöruþrungið og hátignarlegt, að fólkið starði á hann, eins og hann væri spámaður, talandi af guðlegum innblæstri.

»Landar mínir! Þegar eg nú hefi unnið eið að forsetaembættinu í annað sinn, þá er minni ástæða til að flytja langt erindi en í hið fyrra skifti, því að þá þótti vel til hlýða, að eg skýrði frá stefnunni, sem eg hafði markað í smáu sem stóru. Nú er hið fyrra forsetaskeið mitt á enda runnið. Á því skeiði hefi eg stöðugt verið að flytja opinberar yfirlýsingar um hvert atriði og hvert nýtt skeið í hinni miklu baráttu, sem þjóðin hefir enn allan hugann á og eflir dáðir hennar. Eg hefi því frá litlu að segja. Viðgangur vor í vopnaskiftunum, sem alt annað veltur sérstaklega á, er jafnkunnur alþýðu og mér sjálfum. Og eg treysti því, að þær upplýsingar megi með allri sanngirni teljast fullnægjandi og séu öllum til hughreystingar. Og þó að eg gjöri mér bjartar vonir um framtíðina, þá þori eg samt engu að spá um hana. Þegar eg stóð hér í fyrra skiftið, þá beindist allur hugur vor kvíðandi að yfirvofandi ófriði. Allir óttuðust hann og allir reyndu að afstýra honum. Þegar eg flutti innsetningarávarpið á þessum stað, þá hneig alt málið að því að bjarga bandalagi ríkjanna á friðsamlegan hátt. Fulltrúar uppreistarmanna voru þá hér í borginni og gjörðu sér far um að kollvarpa bandalaginu með friðsamlegu móti — kostuðu kapps um að sundra því og skifta svo eignum þess með samningum. Hvorirtveggja beiddust undan ófriði; en annar flokkurinn vildi heldur hefja ófrið en láta þjóðina lifa, en hinn vildi heldur taka ófriði en láta þjóðina farast. Og ófriðurinn hófst.

Áttundi hlutinn af allri þjóðinni var svartir þrælar; en þó áttu þeir ekki bólfestu í öllum

ríkjunum, heldur í Suðurríkjunum. Þessir þrælar vöktu hjá eigendum þeirra einkennilega magnaða hagsmunavon. Og allir vissu, að sú hagsmunavon var að einhverju leyti orsök ófriðarins. Og ástæður uppreistarmanna fyrir því, að sundra sambandi ríkjanna, var sú, að þeir höfðu svo um hnútana búið, að hagsmunir þeirra voru samfeldir þrælaeigninni; vildu þeir því fjölga þrælunum sem mest, til þess að geta eflt hagsmuni sína sem mest.

Vér héldum hvorir um sig, að sigurinn mundi verða auðunnari og aldrei mundi koma til þeirra stórræða, sem raun hefir á orðið. Vér vorum hvorir um sig að skygnast eftir hægari leið til að ná sigri, þótt árangurinn yrði með því móti óábyggilegri. Hvorugir sáu fram á, að orsök ófriðarins, þrælahaldið, mundi hverfa, er ófriðinum lyki eða jafnvel fyr.

Hvorirtveggja lesa sömu biblíuna og biðja bænir sínar til hins sama Guðs um hjálp hvorir gegn öðrum. Það má annars furðanlegt heita, að nokkur maður skuli þora að biðja réttlátan Guð að veita sér lið til að gjöra sér sveita bróður síns að fé, þess er haldið er undir þrælaoki. En vér megum eigi dæma, að vér verðum eigi sjálfir dæmdir. Guð gat eigi svarað bænum hvorratveggja og hvorugum hefir hann svarað til fulls. Hinn máttugi hefir sín ráð í huga oss til handa. Vei heiminum vegna hneykslananna, því að óumflýjanlegt er að hneykslanir komi, en vei þeim manni, sem hneykslunum veldur«.

En ef vér gjörum ráð fyrir, að mansalið hjá oss sé eitt af þeim hneykslunum, sem að forsjón-

arráði Guðs hlýtur fram að koma, en hafi nú runnið sitt skeið á enda, og að hann vilji nú taka hana frá oss með því að láta hina ægilegu styrjöld ganga yfir hvoratveggja, Norðurbúa og Suðurbúa, svo sem það vei, er þeir eiga skilið, sem hneykslan þessari valda, — sjáum vér þá í því, að eiginleikar þeir, sem vér eignum hinum lifandi Guði, hafi breytst á nokkurn hátt? Nei, réttlæti hans mun aldrei linna.

Vér vonum og biðjum af huga og hjarta, að styrjöldinni megi nú sem bráðast létta af. En sé það vilji Guðs, að hún haldist, þangað til allur sá auður er eyddur og horfinn, er safnað hefir verið hálfa þriðju öld með kauplausri vinnu ánauðugra manna, — þangað til hver blóðdropi, sem komið hefir undan svipuhöggum er goldinn með öðrum, sem renna úr undum, sem vopn hafa vakið, þá skulum vér þrátt fyrir það játa, að »dómar Drottins eru sannir og réttlátir allir saman«.

Kostum nú kapps um að ljúka því starfi, sem vér höfum með höndum, með því að sýna engum fjandskap, en öllum kærleika, með því að vera staðfastir í því, sem rétt er, eftir því sem Guð gefur oss náð til að koma auga á það. Bindum um sár þjóðarinnar. Önnumst þann, sem á vígvellinum hefir staðið og ekkju hans og munaðarlaus börn, sem þar hefir fallið, Gjörum alt, sem gæti veitt oss réttlátan frið og varanlegan og eflt hann á einhvern veg, bæði með sjálfum oss og öllum þjóðum«.

Þetta síðara innsetningar-ávarp forseta var lagt hjá Gettysborgar-ávarpinu. Með þessum tveimur

erindum hefir Lincoln svo eftirlátið þjóð sinni tvö hin fegurstu sýnishorn amerískrar mælsku, hann sem engrar kenslu naut í æsku í þeirri grein, heldur beitti meðfæddri mælskugáfu til að halda ræðustúfa fyrir akurmönnum, sem voru að vinna með honum.

Orðin »sýnið engum fjandskap, öllum kærleika«. féll eins og máttarorð af vörum hans, því að þau komu frá hjartarótum hans, þau orð og alt niðurlag ávarpsins drupu sem blessunardaggir á mannsöfnuðinn á borgarvellinum.

Þegar hann lauk máli sínu, þá æptu sumir fagnaðaróp, en öðrum féllu tár. Og öllum þótti, er þeir gengu burt, sem þeir hefðu verið við áhrifamikla guðsþjónustu.

Þegar að þeim tíma leið, að Grant tæki sig upp úr vetrarsetu sinni, og byggist til sóknar að nýju, þá fór Lincoln til vígstöðvanna í grend við Richmond. Áður var hann búinn að senda Grant þau orð, að hann mætti engan úrskurð á leggja eða jafnvel ræða nokkurt mál við Lee, það er til stjórnarinnar kasta ætti að koma. »Þau mál«, sagði hann, »hefir forseti einn í sínum höndum og vil eg því ekki, að þau séu lögð undir úrskurð nokkurrar herstjórnarráðstefnu eða þingsins«.

Þegar forseti sá fram á, að Suðurríkjamenn voru að þrotum komnir, þá réð hann af að vera sjálfur nærri staddur, hvað sem kynni að bera til tíðinda. Hann hafðist þá við á skipi úti á Jamesfljótinu beint fram undan aðalstöðvum hersins á landi uppi. Porter flotaforingi lagði að forseta að sofa í rúminu sínu; en Lincoln vildi ómögulega gjöra

foringjanum slíkt ónæði, heldur svaf hann í rúmklefa á öðrum stað á skipinu, en klefinn var 4 þumlungum of stuttur. Morguninn eftir mælti hann við Porter brosandi: »Eg svaf vel, en ekki getur þú stungið löngu sverði í stuttar skeiðar!«

Þegar forseti var fjarverandi, fékk Porter trésmið til að bæta úr þessu; var nú rúmklefinn gjörður bæði breiðari og lengri handa hinum tigna gesti. Morguninn eftir sagði forsetinn með mestu hægð: »Kraftaverk hefir gjörst í nótt! Eg er orðinn 6 þumlungum styttri og feti mjórri«. Porter sagðist þá vera viss um, að þótt hann hefði fengið forseta tvo girðingarstaura til að sofa á, þá hefði hann ekki fundið að því minstu vitund.

Nú sendi Lincoln eftir konu sinni og Tad litla, og Róbert sonur þeirra var þá líka kominn heim frá Harward-skóla í þeim tilgangi að fá að ganga nokkra daga í herþjónustu hjá Grant. — Þessi dvöl forseta á herstöðvunum var mesta hvíldin, sem hann hafði fengið að njóta, frá því er byrði þjóðarinnar féll honum á herðar. Kona hans tók líka eftir því, sér til hinnar mestu gleði, að allar gömlu grillurnar um illan dauðdaga voru nú að mestu horfnar úr huga hans við hvíldina og fjörið, sem í hann færðist við hana. Á kvöldin sat hann við herbúðaeldana, sagði sögur og hlustað á sögur herforingja sinna. Og mjög lét hann sér ant um kisu Grants, sem þá var nýbúinn að eignast ketlinga.

Einn daginn óku þau hjónin út og bar þá að grafreit einum á fljótsbakkanum. Blöðin á trjánum voru nýsprottin og vörpuðu skugga á þennan

friðsæla stað. Vorblómin voru að spretta út á leiðunum. Lincoln varð þá svo hugfanginn af þessum stað, að þau hjónin stigu út úr vagninum og gengu milli leiðanna. Kyrðin, sem hvíldi yfir þessum helga stað. hreif svo huga hins sigursæla yfirbjóðanda miljónahersins, að hann sneri huga sínum andvarpandi frá allri þeirri viðhöfn, sem upphefð og valdi fylgir, og þráði í þess stað hinn viðhafnarlausa frið, sem þarna var umhverfis hann.

»María«, sagði hann, »þú ert yngri og munt lifa mig; en þegar eg er horfinn, þá legðu líkama minn á einhvern friðsælan stað, líkan þessum«.

Sherman kom nú að sunnan með sínu liði, og hópuðust þeir allir þrír um yfirbjóðanda sinn: Grant, Sherman og Sheridan.

»Er engin leið til að komast hjá því að úthella meira blóði?« spurði Lincoln áhyggjufullur, »er ómögulegt að sneiða hjá þessum síðasta blóðuga bardaga?« Og röddin hans, sem aldrei hafði titrað á dimmustu dögum styrjaldarinnar, titraði nú fyrir hugsuninni um þennan síðasta hildarleik, af því að honum fanst hann svo óþarfur. En hershöfðingjar hans fullvissuðu hann um það, að Lee mundi aldrei gefast upp, nema að hann væri gjörsigraður.

Lincoln reið nú með Grant stundum saman yfir mýrarflæmin; var baðmullarflókum hleypt niður, þar sem niðurhleypur voru, til þess að halda hestunum uppi. Lincoln reið jafnléttilega sem þaulvanur riddaraliðsmaður. Allstaðar gullu við fagnaðaróp hermannanna, þar sem sást til ferða forseta. Að því loknu sat hann fjórar stundir í her-

búðum forvarðaliðsins, hallaði sér aftur á bak í stól og gætti að hreyfingum manna.

Þegar síðasti marz kom, þá bjuggust Pótómakherinn og Norður-Virginíu-herinn að nýju til orustu og hófst þá 5. styrjaldarárið. Orustan átti að standa í Old-Dominin-ríkinu. Hinar bláklæddu hersveitir Grants þustu af stað til orustunnar, hugumhraustar, en hinum grákiæddu hersveitum Lees var þyngra um hjarta og hreyfingar. Kápurnar þeirra voru allar rifnar. Nú voru ekki orðnar eftir nema litlar leifar eftir af her Lees, sem einu sinni var svo glæstur og fjölmennur. Nú hópuðust þær sveitir um hinn fræga og vinsæla foringja sinn, ógn hugdaprar og þreytulegar, en fullar trúnaðar og hollustu við hann, því að hann hafði ávalt verið átrúnaðargoð þeirra. Nú stóðu þær þarna í síðasta sinni búnar til varnar þeim málstað, sem þegar var fallinn um sjálfan sig.

Lincoln beið að baki hersveita sinna og hafði vakandi auga á hverjum sendisveini, er kom frá fylkingarbrjóstinu.

»Hversu margir voru handteknir?« varð Lincoln ávalt fyrst fyrir að spyrja. Honum fanst kenna miskunnar í hverri handtekningu, því að það flýtti fyrir úrslitunum.

Fyrsta apríl vann Sheridan vígið Five Works, og var þá út séð um Richmond; hún gat þá ekki varist lengur. Enn þá blakti fáni skilnaðarmanna yfir stjórnarhöllinni þar, og áfram var haldið að selja og kaupa menn og konur og börn svertingja, þó að herfylki »frjálsu« ríkjanna væru að umkringja borgina. Enn mátti fá 100 gulldali fyrir

einn þræl. Annan apríl herti Grant á sókninni og vann hvort borgarvígið af öðru og hörfaði Lee þá undan.

Jefferson Davis sat þá í kirkjustól og hlýddi á bænir, beðnar fyrir forseta skilnaðarmanna. En þá bárust honum þau orð frá Lee, sem varið hafði borgina í samfleytt 4 ár styrkri hendi, að nú gæti hann ekki varið hana lengur. Nú yrði hann að hrökkva undan her Grants upp með Appomattox-fljótinu.

Stjórn þeirra skilnaðarmanna var nú komið í járnbrautarlest í snatri. Jefferson Davis og ráðuneyti hans flýði suður eftir á náðir Johnstons hershöfðingja. Silfurbikarar og ættargripir voru teknir með úr húsum auðkýfinganna, þar sem þeir höfðu búið mann fram af manni, og fólgnir í jörðu fyrir augunum á umsátursmönnunum og létu þeir síðan greipar sópa um alla þá jarðfólgnu dýrgripi. Sumir húsbændur söfnuðu saman þrælum sínum fram með járnbrautinni, og á flóttanum voru þeir að leitast við að koma þeirri eign sinni líka fyrir á öruggum stað. En meðan þrælarnir þeirra sátu í fjötrunum, þar sem þeir voru settir, þá leið sjálf þrælkunarstofnunin undir lok.

Sambandsmenn settust nú um báðar borgirnar: Petersborg og Richmond, daginn eftir (3. apríl). Skilnaðarmenn brendu upp allar vistir, sem hernum voru ætlaðar, áður en þeir fóru úr Richmond og kveiktu svo í borginni um leið og tók hún þegar að brenna. Vínföngum öllum heltu þeir í vatnsrennurnar, en svartir menn og hvítir jusu upp jafnóðum með pönnnm og brunnfötum og drukku

sig örvita. Öll borgin varð sem leikvöllur tryltrar eyðingar, er forvarðalið sambandshersins bar þar að á mánudagsmorguninn; gægðist það fyrst með varúð inn í skotvirkin, en þar var alt autt og tómt. Á hæla forvörðunum komu svertingafylki úr riddara-herdeildinni. Sveifluðu þeir allir sverðum til merkis um, að þeir og kynflokkur þeirra væri nú leystur úr ánauð; runnu þeir áfram við hlið hinna hvítu, sigurhróðugu riddara og æptu af fögnuði. Fáni alríkisins var nú aftur reistur á stjórnarhöllinni í Richmond og hershöfðingi sambandsmanna settist að í bústað Jeffersons Davís, sem nú var allur í burtu.

Richmond var nú hertekin, en um leið var borginni bjargað frá gjöreyðingu, því að her sambandsmanna kom eigi til að ræna né til að æpa sigurróp, því að margir af borgarmönnum voru að verða hungurmorða eftir svo langa umsát. Þeir ráku burt drukna uslamenn og ræningja, og leystu sakamenn, sem hverju heimili hafði staðið hinn mesti geigur af áður.

»Mig langar til að sjá Richmond«, sagði Lincoln. með jafnbarnslegri forvitni, eins og hann hefði verið smádrengur, þegar hann heyrði, að vígið mikla, Richmond, væri hertekin, sem hermenn hans höfðu skopað skeið að þúsundum saman, en ekki náð á sitt vald fyr en nú. Hann lagði af stað frá höfuðstöðvum Grants daginn eftir á tólfæringi, eftir fljótinu og lenti nálægt Libby-dýflizu. Ekkert herlið var þar fyrir til fylgdar við hann, og þar var heldur enginn vegur, er svo mætti heita. Hann tók þá Tad litla við hönd sér og gekk eftir strætinu

langan veg, er til borgarinnar var komið. Varðsveit hafði forseti enga aðra en bátsmennina tíu að tölu. Þegar það varð hljóðbært, að forseti væri þar kominn, þyrptust svertingjar um hann og urðu frá sér numdir, er þá sáu lausnargjafa sinn. Þeir snertu faldinn á kápu hans óttabljúgir og fleygðu sér að fótum hans. En honum var sár raun að því og jafnvel sorg, að nokkur mannleg vera sýndi honum slíka auðmýkt og lotningu. »Fallið ekki fram fyrir mér, það er rangt«, sagði hann. Þá mælti einhver þeirra, sem var eins og fyrir þeim: »Þey! hafið þið hægt um ykkur, lausnargjafi vor ætlar að tala, heyríð það!« Þá mælti Lincoln: »Þér megið eigi beygja kné fyrir neinum, nema Guði einum. Eg er ekki annað en lítilmótlegt verkfæri Guðs; en þér megið vera vissir um, að meðan eg er lífs, þá skal enginn leggja bönd á yður«.

Eins og vænta má af mönnum, sem hafa lítinn andlegan þroska, þá voru þeir mjög háværir. Þeir komu úr öllum áttum syngjandi, hrópandi og dansandi af fögnuði. Karlmennirnir köstuðu höttum sínum í loft upp, en konur veifuðu klútum og höttum, klöppuðu saman lófum og sungu;

»Dýrð sé Guði í hæstum hæðum!«

Lincoln sagði þeim, að nú væri þeir jafn frjálsir og hann sjálfur, og jafnvel frjálsari, því að þeir hefðu minni áhyggjur og vandræði við að stríða. »Guð blessi ykkur, og lofið mér að halda áfram ferðinni«. Hann gat með naumindum komist gegnum svörtu þyrpinguna. Leiðin var löng og Lincoln nam staðar til að hvíla sig. Þá bar þar að gamlan svertingja. Hann tók ofan, hneigði sig, tárfeldi og

mælti: »Góður Guð blessi þig, Lincum (!) forseti!« Lincoln tók ofan og hneigði sig þegjandi. Kona ein svört, er sá það út um glugga, sneri sér undan næsta óttaslegin, því að enginn hafði sýnt svertingjum annað en lítilsvirðingu áður. Svertingjarnir, sem voru með Lincoln, gláptu líka undrandi á það, þegar þeir sáu hvítan mann taka ofan fyrir svörtum í fyrsta sinn.

Lincoln hélt áfram ferðinni, þangað til hann kom að Hvíta húsinu þeirra skilnaðarmanna; var þá J. Davis flúinn þaðan fyrir hálfum öðrum sólarhring. Það var heitt af sólu um daginn og svitinn bogaði af forseta. Hann gekk þá inn í húsið og inn í skrifstofu Davis, og settist þar við skrifborð. »Hér hefir Davis víst setið«, sagði hann og hvíldi hendurnar á stólbríkunum og hallaði sér að hinu mjúka stólbaki.

Þarna sat hann um stund í dagdraumi og starði út í herbergið og að líkindum hefir auðnuleysi hins flýjanda forseta vakið meðaumkvun hjá honum. Þá sagði einhver, sem bar heiftarhug í brjósti til Davis: »Hann ætti að hanga uppi«! En Lincoln svaraði ekki öðru en þessu: »Dæmið ekki, að þér verðið ekki dæmdir«.

Lincoln hvarf nú aftur til herstöðvanna við fljótið um kvöldið. En daginn eftir fór hann aftur til Richmond, til að leita uppi hús Picketts hershöfðingja, þess er mesta hreystina sýndi í orustunni við Gettysborg og frækilegast varði Richmond í orustunni við Five Works, þótt hann yrði ofurliði borinn. Lincoln mintist þess ekki framar, að hann hefði verið í flokki fjandmanna hans á vígstöðv-

unum; hann mintist nú að eins fyrri tímanna, er hinn frægi herforingi kom til Illinois á ungum aldri og Lincoln sýndi honum það vináttubragð að koma honum að hermannaskólanum í West Point. Lincoln fann húsið og drap að dyrum. Kona kom til dyra með ungbarn á handleggnum. »Á Georg Pickett heima hérna?» spurði Lincoln. Hún játaði því og kvaðst vera kona hans. Lincoln sagði henni þá, hver hann væri. »Forseti?« sagði hún undrandi: »Nei, eg er ekkert annað en Abraham, hinn gamli vinur Georgs. Smábarnið hennar teygði fram litlu hendurnar, og þá tók sigurvegarinn hinn sigraða í arma sína. Svona náði þá Lincoln þessu heimilinu á vald sitt og sambandsins.

Lincoln dvaldi nú á höfuðstöðvum Grants, þangað til að morgni sunnudagsins (9. apríl), þá er Grant fékk Lee til að gefa upp vörnina með sínum fræga her og þyrma svo lífi hermanna sinna. Þá er þeir Grant og Lincoln ræddu friðarkostina, þá er Grant skyldi bjóða Lee og mönnum hans, þá sagði hann: »Fáðu þá til að plægja og safna hinu litla, sem þeir skera upp sjálfir, og eta hvellkorn að sínum eigin arni, og þá geturðu ekki fengið þá til að axla byssu hálfa öld á eftir«. — Og Lee gekk að uppgjafakostunum. Öll vopn skyldu seld fram, nema fyrirliðar máttu halda sverðum sínum. Allir skyldu þeir vinna eið að því að berjast aldrei framar gegn sambandinu. Og með þessu skilyrði skyldi frjálst um heimför og vís grið, hvar helzt sem þeir kysi sér aðsetur.

Þetta varð þjóðinni hinn mesti fagnaðarboðskapur. Í stórborgunum var haft jafnt við og á stór-

hátíðum. Og í Washington töluðu ráðherrarnir til fólksins um þau umskifti, sem orðin voru.

Sumt í ræðu Sewards þótti kýmni blandað og varð því minnisstætt, þótt ekki væri það eingöngu fyrir þá sök.

»Hvað á eg að segja Frakkakeisara? (Þá æptu sumir: »Að hann verði sem fyrst á burt úr Mexikó!») Eg ætla að segja honum, að hann geti farið til Richmond á morgun og sótt tóbakið sitt, sem svo lengi hefir verið innitept, ef uppreistarmenn eru ekki búnir að reykja það, og Russel jarli, utanríkisráðherra Breta, að nú sé þó von, að enskum kaupmönnum megi skiljast, hvort sú baðmull muni eigi miklu ódýrri, sem þeir eignast með löglegu móti, að óbrugðnum einkamálum og skildögum, sem gjörðir eru við Bandaríkin, en hin, sem þeir komast yfir fyrir aðskot skútna sinna fram hjá varðskipum vorum. Eg þarf ekki að minnast hins við Russell, að þetta stríð var háð fyrir frelsi, þjóðarforræði og mannréttindum, en eigi af drotnunargirni. Og Bretar mega halda Canada með óskertum eignarrétti, svo lengi sem þeir gæta sanns og réttar við Bandaríkin og nýlenda þeirra kýs heldur að lúta valdi hágöfugrar Bretadrotningar en að ganga í lög með oss«.

Endalok hinnar miklu borgarastyrjaldar voru nú fyrirsjáanleg, »hinna stórfeldustu vopnaviðskifta og heimsfrægasta sigurs, sem ritaður er í árbókum mannkynsins«, eins og Mommsen að orði kemst, þýzkur sagnaritari. Um öll Norðurríkin kvað við af fagnaðarópi þjóðarinnar út af því, að Richmond var unnin. Og að morgni áttu allar klukkar að

hringja fagnaðartíðindin miklu frá Appomattox. Frelsið endurborna, það er Lincoln hafði helgað þjóðina við vígslu Gettysborgar-grafreitsins, var hann nú búinn að sjá sjálfs sín augum og að »stjórn þjóðarinnar, af þjóðinni, fyrir þjóðina«, var nú bjargað frá hruni.

Þegar hann sigldi upp eftir Pótómak, þá kvað hann við raust þessar hendingar úr Machbeth, leikriti Shakespeares:

— »Duncan liggur lágt í gröf sinni og sefur vært eftir hitaköst lífsins. Drottinsvikin hafa náð hámarki sínu á honum. Ekkert nær til hans framar, hverki stál né eitur, uppreist heima fyrir né útlendur ófriður«.

Hann kvað þetta stef annað skifti til á leiðinni. Það var eins og hann væri heillaður af því. Báturinn færðist nú óðum nær Washington. Það var eins og háhvolf stjórnarhallarinnar svifi í loftinu. Kona Lincoln var með honum, og er hún sá, að leið að fararlokum, þá kom yfir hana angistarsvipur.

»Þessi borg«, sagði hún, »er full upp af óvinum vorum«.

»Óvinum!« tók Lincoln upp eftir henni, rétt eins og slíkt væri úr sögunni á þessari nýbyrjuðu friðaröld. »Það megum við aldrei láta koma fram af vörum vorum«.

Þegar Lincoln gekk nú aftur að skyldustörfum sínum, þá var það aðaláhyggjuefni hans, hversu hann mætti sigra hjörtu óvina sinna. Ekkert þráði hann heitara en það, að hann mætti sjá hersveitir

hvorutveggja leysast upp, sjá hermennina hverfa aftur á brautir friðarins. Norðuríkjamenn réðu sér ekki fyrir fögnuði út af ófriðarlokunum. Líklega hefir enginn viðburður í sögu mannkynsins verið dásamaður meira af nokkurri þjóð. Allur þorri þjóðarinnar fann, að þetta var hennar sigur, unninn af henni sjálfri, fyrir hana sjálfa.

En samt var það svo, að ef Lincoln hefði mátt sjálfur um kjósa, þá hefði engu fagnaðarskoti verið skotið né nokkurri klukku verið hringt í fagnaðarskyni yfir ósigri skilnaðarmanna. Hann mundi þá hafa hvatt þjóðina í heild sinni til að fara að dæmi Grants hjá Appomattox, er hann skipaði stórskotaliði sínu að skjóta til heiðurs Lee eftir uppgjöf hans.

Að hljóðfæraslætti, sem fór fram undir beru lofti (10. apríl), kvaddi Lincoln hljóðfærasveitina til að leika hersöng skilnaðarmanna. Tók þá undir í öllu Hvíta húsinu af hvatningarorðum og hljómi hersöngs þessa, og sló forseti takt með fætinum. Kvöldið eftir heimsótti hann fjöldi manna til að gleðjast með honum (11. apríl). Gekk hann þá út að glugga og las þar upp ræðu sína. Maður stóð við olnboga hans og hélt á lampa til að lýsa yfir handritið hans.

Hann talaði fremur til þeirra, sem undir höfðu orðið og ósigur beðið, en til hinna fagnandi sigurvegara, og með hinni mestu stillingu.

»Það er skylda mín«, sagði hann að lyktum. »að semja einhvern nýjan boðskap til Suðurríkjamanna. Eg er að hugsa um það, og skal ekki láta undir

höfuð leggjast að framkvæma það, þegar eg sé, að viðeigandi er, að eg gjöri það«.

Þetta var síðasta ræða Lincolns.

## XXXII. KAPÍTULI.

### *Síðasti dagur Lincolns.*

Árið 1865 bar föstudaginn langa upp á 14. apríl. Óvíst er, hvort Lincoln hefir komið í hug þýðing dagsins frá trúarlegu sjónarmiði, því að hann hafði alla æfi alist upp með því fólki, sem eigi telur daginn árlegan minningardag um krossfestingu frelsarans. En alt um það voru þeir margir, sem héldu daginn heilagan með bæn og íhugun.

En nú var dagurinn ætlaður til að vera almennur þakkargjörðardagur í Norðurríkjunum fyrir það, að styrjöldin var nú sama sem á enda kljáð við uppgjöf Lees. Johnston hershöfðingi var nú einn eftir með allstóra herdeild; en allir þóttust sjá fyrir, að honum mundi reiða eins af og Lee.

Þessi dagur hafði forseta líka þótt vel fallinn til þess, að fáni alríkisins væri endurreistur á Sumter-víginu. Voru þá nákvæmlega 4 ár liðin, síðan hann var dreginn niður á hinu sama vígi (14. apríl 1861), þá er uppreistin var hafin með fyrstu fallbyssuskotunum. Valdi hann nú Anderson hershöfðingja til að hefja fánann þar aftur. Við þá hátíðlegu athöfn hélt Anderson snjalla ræðu og þakkaði Guði fyrir, að Lincoln hefði auðnast að sjá starf sitt fyrir sambandið blessast.

Yfir Washington virtist hvíla hinn sami andi

og þá hvíldi yfir öllum Norðurríkjunum. Borgarmenn voru allir »veizluklæddir«, eins og einn sagnaritarinn að orði kemst.

Forseti fór á fætur um morguninn í sama mund og hann var vanur (kl. 7), og gekk til skrifstofu sinnar til að ljúka þar ýmsum störfum fyrir morgunverðartíma, eins og hann var vanur. Svefnherbergið hans og skrifstofan lágu saman og sneru gegnt suðri, og enn voru óvíða dyr opnaðar. Forseti sat við skrifborðið sitt og horfði suður yfir Pótómak og Arlingtonhæðirnar fyrir handan það.

Forseti sendi skeyti til Sewards og beiddi hann að kalla ráðuneytið á fund kl. 11 og lét hann vita, að Grant yrði á þeim fundi. Grant hafði komið til borgarinnar daginn áður.

Um þetta sama leyti mun það hafa verið, er forseti fékk bréf frá J. V. Alen hershöfðingja, þar sem hann bað forseta að hætta eigi lífi sínu að óþörfu, eins og hann hefði gert í Richmond fyrir skemstu; hann mætti eigi gjöra það sakir vina sinna og alls þorra þjóðarinnar. Forseti svaraði á þessa leið: »Eg ætla að fara að ráðum vina minna og fara tilhlýðilega« varlega« og þakkaði hershöfðingja fyrir þau orð hans í bréfinu, að »hann mætti eiga það víst að allir hinir gætnari menn meðal þjóðarinnar mundu veita honum fulltingi til að endurreisa bandalag allra ríkjanna«.

Kona Lincolns var honum samtaka um að fagna Grant, hinum sigursæla hershöfðingja og hafði boðið Grant og konu hans til leikhúss með þeim hjónum, svo sem í endurgjaldsskyni fyrir viðtökurnar rausnarlegu á herstöðvunum fyrir skemstu.

Óvenjuleg ró og ánægja virtist hvíla yfir forseta. Hann gekk til morgunverðar og þar biðu þau kona hans og Tad eftir honum. En er þau voru að tala saman, kom Róbert, elzti sonur þeirra; fögnuðu þau honum allshugar og settist hann síðan að borði með þeim. Róbert hafði verið skipaður höfuðsmaður fyrir einni hersveit Grants í brjóstfylkingunni tvo síðustu mánuðina.

Þeir feðgar töluðu saman nærfelt einn tíma; var forseta mjög ant um að fá að vita alt smátt og stórt, sem gjörst hafði í síðustu orustunni; hann hlýddi einkum með gaumgæfni á frásögn sonar síns frá uppgjöfinni við Appomatotx. Tad litli var líka óðfús að heyra.

Róbert hafði með sér mynd af Lee hershöfðingja og rétti föður sínum. Forseti tók við myndinni, lagði hana á borðið fyrir framan sig, tók grandgæfilega eftir henni og mælti síðan með djúpri tilfinningu:

»Þetta er góður svipur: það er svipur göfugmennis og hraustmennis. Feginn er eg því, að ófriðurinn er nú loks á enda kljáður«.

»Jæja sonur minn«, sagði hann og leit á Róbert, »þú ert þá kominn heill á húfi úr brjóstfylkingunni. Styrjöldinni er nú lokið. Bráðum lifum við í fullum friði við þá, sem hafa barist gegn oss. Eg treysti því, að nú séu tímar bræðralags fyrir höndum og að vér fáum að lifa í friði upp frá þessu. En heyrðu mig, Róbert, nú verður þú að afklæðast hermannsbúnaðinum þínum og hverfa til háskólans aftur. Eg vil að þú lesir lög í þrjú

ár og að þeim liðnum vona eg, að þú getir sagt mér, hvort þú vilt verða lögmaður eða ekki«.

Sá, sem sagt hefir frá þessu samtali feðganna, bætir svo við: »Þá var Lincoln glaðari í bragði en eg hefi séð hann langan tíma; mér fanst skap hans vera fult göfugleika og sáttar«.

En samt var eins og hann óraði fyrir, að eitthvað stórfelt hefði gjörst eða mundi bráðum gjörast, því að hann hafði sagt draum, sem hann dreymdi um nóttina og mintist á hann síðar á ráðstefnunni.

Þegar þau sátu þarna og voru að tala saman, þá var honum sagt, að S. Colfax, forseti neðri málstofunnar væri staddur í biðstofunni og vildi fá að finna hann hið bráðasta.

Colfax hafði í hyggju að ferðast alla leið til Kaliforníu og námuhéraðanna þar vestur frá, en kvaðst vera þangað kominn til að vita, hvort forseti ætlaði að kveðja til aukaþings á komandi sumri.

Forseti sagði honum afdráttarlaust, að það gerði hann ekki.

Þeir áttu langt og merkilegt tal saman. Forseti kvað skýrt upp úr með það, hvernig hann ætlaði að haga meðferð sinni á uppreistarmönnum framvegis, og leggja fyrir ráðuneytið á þessum sama degi. Síðan sagði hann: »Herra Colfax, mig langar til að biðja yður að flytja eftirfarandi skilaboð til námumannanna vestur frá: Eg gjöri mér miklar vonir um, að þjóð vor eigi gnótt auðæfa í skauti jarðar. Eg held að þær auðsuppsprettur séu í rauninni ótæmandi. Á öllu svæðinu milli Klettafjalla og Kyrrahafs er gnægð af þeim. Og nú er varla byrjað á að vinna þær. Meðan ófriðurinn

stóð og 2 miljónir dala bættust við þjóðarskuldina með degi hverjum, þá vildi eg ekki auka framlögin með því að auka framleiðslu vorra dýru málma. Vér urðum fyrst að bjarga þjóðinni. En nú er búið að bæla uppreistina niður, og vér förum mjög nærri um, hve skuld þjóðarinnar er nú orðin mikil. Því meira sem vér gröfum upp af gulli og silfri, því hægra veitir oss að greiða skuldina«.

Síðan mælti hann með meiri áherzlu:

»Nú ætla eg að fara að herða á þessu með öllu hugsanlegu móti. Vér höfum nú leyst hundruð þúsunda af hermönnum frá herþjónustu. Margir hafa óttast, að iðnaður vor mundi eigi standast það, er vinnuþiggjendurnir yrðu svo langt um fleiri en þörf krefur. Margir mundu þá standa uppi auðum höndum. Nú ætla eg að reyna að beina huga þeirra að hinum fólgnu fjársjóðum í fjallgörðunum, því að þar er nú rúm og verkefni handa öllum.

Hingað mun líka flytja hundruð þúsunda frá Norðurálfunni, því að þar er mannmergðin of mikil, svo að styrjöldin hefir ekki einu sinni getað heft innflutninginn þaðan. Eg ætla að benda þeim á, að gullið og silfrið bíði eftir þeim vestur frá.

Segðu námamönnunum fyrir mig, að eg skuli efla hagsmuni þeirra, eftir því sem mér sé framast unt. Hamingja þeirra er hamingja þjóðarinnar«, sagði hann og áhuginn tindraði úr augum hans. »Vér munum sanna, að mjög fáum árum liðnum, að hér verður vissulega fjárhirzla alls heimsins«.

Lincoln hafði þá um hríð haft í hyggju að taka sér fastan bólstað í Kaliforníu, þegar forsetaskeiði

hans væri lokið, til þess að synir hans ættu betri kosti fyrir höndum en nokkurt hinna eldri ríkja gæti boðið þeim. Bað hann því Colfax að taka vel eftir öllu á ferðum sínum og skýra sér síðan nákvæmlega frá því, til þess hann gæti því betur ráðið huga sinn um það, hvort hann ætti heldur að fara til gamla Springfield aftur, er forsetaskeið hans væri úti, eða til Kalíforníu.

Að loknu þessu samtali gekk A. J. Cresswell hershöfðingi (frá Maryland) inn í biðstofuna. Hann hafði komið frá Baltimore um morguninn til að hitta forseta.

Erindi hans var að biðja forseta að gefa einum bandingja úr liði uppreistarmanna lausn, því að hann væri skólabróðir sinn. Hann hafði með sér skriflega og eiðfesta yfirlýsingu um, að mannorð hans væri óskert og mikið væri í hann spunnið.

Þegar Cresswell gekk inn í skrifstofuna, þá stóð Lincoln upp og gekk til móts við hann og rétti fram höndina:

»Heilir, Cresswell! Nú er styrjöldin úti«, mælti forseti og tók fast og hlýlega í hönd honum. Cresswell gafst ekki ráðrúm til að bera upp erindi sitt, því að forseti fór óðara að rökræða við hann það efni, sem honum var þá efst í huga, en það voru endalok uppreístarinnar.

»Lítið á þetta skeyti frá Sherman«, mælti forseti og rétti Cresswell til yfirlesturs. »Styrjöldin hefir verið ógurleg, Cresswell, en nú er henni lokið«, sagði hann þakklátlega.

Loks kom forseta í hug, að hershöfðinginn mundi

hafa átt eitthvert sérstakt erindi við sig, og sagði dálítið kýminn:

»En til hvers komuð þér? Þér lagsbræður komið aldrei, nema þér viljið fá eitthvað. Og það hlýtur að vera meira en lítið, fyrst þér komið svona snemma dags«.

Cresswell bar þá upp fyrir honum erindið og rétti honum yfirlýsinguna.

»Þetta mál er ekki erfitt viðfangs«, mælti forseti, »þér gjörðuð rétt í því að rita skjalið, en ekki hirði eg um að lesa það. Eg veit, að þér kunnið að rita yfirlýsingar. En mér kemur í hug saga frá Illinois og nú ætla eg að segja yður hana:

Fyrir mörgum árum bar svo við, að hópur ungra drengja tók sig upp til að halda maí-dansleik og samát (1. maí). Þeir höfðu með sér miðdegisverðinn sinn og héldu niður að Sangamon-fljótinu, og ætluðu yfir það á gamalli ferju. Yfirferðin tókst vel og þeir átu saman og skemtu sér hið bezta. En er þeir ætluðu að hverfa heim aftur, þá varð þeim skemt, þegar þeir sáu, að ferjan var öll á burtu; þeim hafði gleymst að festa hana og hafði hún því borist niður eftir fljótinu. En að stundu liðinni fór þetta gaman að verða dálítið alvöru blandið, því að engin ferja var þar fyrir hendi, ekki svo mikið sem flatbytna. Þá leitst stúlkunum ekki á blikuna. En einn af drengjunum, sem var vitund hygnari en hinir, lagði það til, að drengirnir skyldu fara úr skóm og sokkum og svo skyldi hver þeirra taka þá stúlkuna, sem honum litist bezt á og bera yfir fljótið. Þetta var þjóðráð og dugði hið bezta, þangað til allir voru komnir yfir, nema drengur einn

lítill vexti, og hávaxin og hefðarleg meykerling. Drengurinn komst þarna í standandi vandræði og var háalvarlegur«.

»Sjáið þér nú«, sagði forseti, þér, góðir hálsar, viljið ná einum og einum úr höndunum á okkur, Jefferson Davis og mér, þangað til við verðum tveir einir eftir á flathólmanum. Og eg er hræddur um, að hann vilji ekki láta mig bera sig yfir um, og eg er líka hræddur um, að til séu þeir menn, sem mundu fetta fingur út í, ef eg gjörði það, þótt hann léti það eftir mér sjálfur«.

Cresswell hló hjartanlega að sögunni og heimfærslunni.

»Þetta er ekkert hlægilegt, það er meira en líklegt, að svona geti farið«, mælti forseti. »Verri menn eru til en Jefferson Davis, og eg vildi, að eg gæti séð einhver ráð til þess, að hann og þjóðin vildi leyfa oss að bera hann yfir. En hvað sem því líður, þá viljum vér halda áfram að bera þá yfir, einn og einn í senn«.

Því næst tók hann skjalið, ritaði nafn sitt undir það og fékk Cresswell; átti hann svo að fara með það til hermáladeildarinnar og þar mundi óskum hans verða fullnægt.

Þá kom aldavinur forseta »Dick« Yates frá Illinois til fundar við hann. Hann var þá nýorðinn þingmaður í efri málstofunni. Með honum var annar maður frá Illinois, Kellogg liðsforingi. Kellogg hafði verið í forsetakjörum og dómari með sambandsmönnum og auk þess foringi fyrir sjöundu riddarasveit frá Illinois. Nú hugði hann sig vera vel hæfan til að verða hafnargjaldkera í New

Orleans, því að nú vissi hann, að sú höfn var opin.

»Hr. forseti! hérna er maður sem þér þurfið á að halda«, sagði Yates, þegar hann var búinn að skýra frá ástæðum sínum.

»Rétt er nú það, hann er ágætur«, svaraði forseti; en síðan sneri hann sér að Kellogg og sagði: »Eg ætla að senda yður til New Orleans og gjöra yður þar að hafnargjaldkera. Þér verðið að veita tveimur þúsundum manna atvinnu, og allir eiga þeir að vera Norðurríkjamenn, því að Suðurríkjamenn eru sviftir þegnréttindum; en þó vil eg, að þér sýnið þeim mönnum kærleika, sem þar eru fyrir«. Hafði forseti þá Suðurríkjamenn í huga.

»Eg vil fá yður erindisbréfið í hendur, þegar í stað«, mælti forseti og settist niður og skrifaði það þegar og sendi fjármálaráðherra, áður en gestirnir fóru. —

Eftir þetta átti hann stutt samtal við John P. Hale, sem var nýskipaður sendiherra á Spáni.

Þegar Hale var farinn, átti forseti tal við nokkra þingmenn úr báðum málstofunum. Síðan gekk hann inn í hermáladeildina, eins og hann var vanur, til þess að taka móti síðustu fréttum frá hernum. Þetta var venja hans kvölds og morguns og stundum á nóttunni, því að hin eina símastofa í Washington, sem stjórnin átti aðgang að, var í hermáladeildar-stofunum.

Þar hefir dvöl hans auðvitað orðið að vera stutt, til þess að hann gæti komið aftur í tæka tíð til Hvíta hússins á ráðstefnuna.

Þegar honum varð litið á hermanna-fylkin, þá

sagði hann við Stanton, að Grant hefði ætlað að fara með sér til leikhúss um kvöldið, en væri nú hættur við það. En það var nú einmitt Stanton, sem hafði fengið Grant til að hætta við það, og nú réð hann Lincoln til að gjöra slíkt hið sama; en það kom fyrir ekki.

Hann lagði þá að forseta með það, að hann skyldi hafa hrausta varðmenn um sig.

»Stanton, veitstu, að hann Eckert getur brotið eldskörung á handlegg sér?« spurði forseti. Eckert þessi var símastjóri á símastofunni í hermáladeildinni, óvenju rammur að afli. En forseti hafði einmitt séð Eckert gjöra þetta inni á símastöðinni. En skörungurinn var úr steypujárni og ekki sem bezt í honum.

»Nei, en hví spyr þú mig um þetta«, svaraði Stanton forviða.

»Nú, Stanton, eg sá Eckert brjóta fimm skörunga, hvern af öðrum, á handleggnum á sér, og því kom mér til hugar, að slíkur maður ætti að fara með mér í leikhúsið í kvöld. Má eg fá hann með mér?«

Stanton svaraði, að hann hefði áríðandi starf handa Eckert um kvöldið, svo að hann gæti ekki mist hann.

»Jæja, þá ætla eg að biðja hann sjálfan að fara með mér. Hann getur gjört það á morgun, sem hann þarf að gjöra fyrir þig«. Að svo mæltu gekk forseti til Eckerts, sagði honum frá fyrirætlan sinni og kvaðst þurfa á fylgd hans að halda við sig og konu sína; hann kvaðst hafa minst á það við

Stanton, en Stanton svarað, að hann gæti ekki mist hann.

»Jæja, Eckert, komið þér með okkur. Þér getið int Stantons verk af hendi á morgun; en eg og kona mín þurfum að fá yður með okkur«.

Eckert hafnaði nú samt boðinu, af því að verki því, sem hann ætti að vinna, mætti eigi fresta til morguns, þótt hann hins vegar þakkaði forseta fyrir boðið.

»Gott og vel«, sagði forseti, »eg tek þá Rathbone yfirforingja með mér, af því að Stanton vill ekki annað heyra, en að eg hafi einhvern með mér til varðveitslu. En heldur hefði eg viljað hafa yður, af því að þér getið brotið skörung á handleggnum á yður«.

Að svo mæltu gekk forseti heim til sín, því óðum leið að ráðstefnunni.

Kona Lincolns var vön að kjósa sér sjálf sessunauta í leikhúsinu. Og eins og fyr er sagt, þá hafði hún boðið þeim Grants-hjónum til sætis með sér. Hún hafði sent orð til Ford-leikhússins um morguninn og beðið um sæti handa þeim öllum. Og leikhússtjórinn svaraði og bauð þeim öllum að horfa á gleðileikinn, er nefndist: »Hin ameríska frænka vor«, er leika átti þá um kvöldið, og skyldi þeim ætluð sérstök stúka að sitja í. Laura Keene átti að leika frænkuna.

En ekki var kona Lincolns þó alls kostar örugg um mann sinn, því að reynt hafði hún að telja hann frá því að fara; en hann vildi eigi annað en fara, því þá gæti hann, eins og hann sagði, komist hjá að taka móti og hafa lófatak við allan þann

fjölda, sem koma mundi þá um kvöldið heim til hans.

»Eg verð að unna mér dálitlrar hvíldar«, sagði hann; »verði eg heima í kvöld, þá kemur hingað heill skari, sem ekki ræður sér fyrir fögnuði. Eg er orðinn hálflama í handleggnum, af því að taka í hendur á öllum þessum fjölda. Fólkið ætlar alveg að slíta mig sundur«.

Þá sagði hann Robert syni sínnm, að hann gæti líka fengið sæti í stúkunni hjá þeim, og bað hann að vera með. En Robert afsakaði sig með því, að hann væri þreyttur og vildi heldur hvíla sig.

Litlu síðar fengu þau hjónin skeyti frá öðru helzta leikhúsinu í Washington, ásamt drengjum þeirra. Þeim var boðið að horfa á þátt úr leiknum »Aladin« (Wallack og Davenport).

Kona Lincolns svaraði, að forseta þætti leitt, að þetta boð hefði eigi komið fyr; en af því að þau væru þegar búin að taka öðru boði, þá væri þeim ómögulegt að koma. En samt þætti Tad og kenslukonunni hans vænt um, ef þau mættu koma.

En er kona Lincolns sá fram á, að þau Grantshjónin mundu alls eigi koma, þá bauð hún með sér Rathbone yfirforingja og ungfrú Harris; þau voru stjúpsonur og dóttir Ira Harris, efri málstofu þingmanns frá New York.

Grant kom stundvíslega kl. 11 til Hvíta hússins; gengu þeir forseti svo báðir saman inn í »forsetastofuna«, þar sem ráðstefnurnar voru haldnar.

Stundvíslega komu þeir ráðherrarnir Mc Culloch, fjármálaráðherra og Welles, flotamálaráðherra, Dennison póstmeistari og Speed dómsmálaráð-

herra, og Frederick W. Seward utanríkisráðherra í forföllum föður síns, sem meiðst hafði skömmu áður af byltu úr vagni sínum.

Allir óskuðu Grant heilla, en hann sagði í fám orðum frá uppgjöf Lees.

Hvaða kosti ætlar þú að setja óbreyttum hermönnum?« spurði forseti.

»Eg sagði þeim, að þeir mættu hverfa heim aftur til fólksins síns, og að þeir mundu verða óáreittir, ef þeir gjörðu ekkert fyrir sér framar«, svaraði Grant. Þá ljómaði Lincoln allur af fögnuði. Þetta voru kostir að hans skapi.

Forseti tók sér nú sæti við suðurgluggann á lestrarsalnum sínum og hafði þar forsæti, meðan á umræðunum stóð.

Þá kom til umræðu, hverja kosti skyldi setja leiðtogum hins fallna skilnaðarríkis. Þá sagði póstmeistari, að forseta mundi eigi fyrir þykja, þótt þeir yrðu gjörðir landrækir.

»Jæja«, svaraði Lincon dræmt, »mér þætti ekki að því, en hitt þætti mér leiðara, ef eg ætti að fylgja þeim eftir, til þess að ganga úr skugga um, að þeir færu«.

Grant bar yfirlætislaust síðustu titlana, þá er hann hafði hlotið fyrir það að hertaka þrjár herdeildir. Enn var her Johnstons uppi í Nyrðri-Karolínn, og var Grant óþreyjufullur út af því, að engar fregnir höfðu borist frá Sherman um hertöku, og bjóst hann við þeim á hverri stundu. Þá sagði forseti: »Fregnirnar koma bráðum, og vafalaust oss í vil, því að í nótt, sem leið, dreymdi mig drauminn, sem mig hefir venjulega dreymt því sem næst

fyrir hverjum merkisatburði í ófriðinum«. Flotamálaráðherra spurði, hvernig sá merkilegi draumur væri. Forseti svaraði, að þann draum hefði sig ávalt dreymt í deildinni hans. Hann þóttist alt af sjá hið sama: skip einstakt, er eigi væri hægt að lýsa, og á því hefði hann sjálfur þótst vera og borist óðfluga með því að einhverri ókunnri strönd, en þá strönd hafi hann séð óglögt, því að dimt hafi verið. »Þennan draum dreymdi mig, rétt áður en skotið var á Sumter-vígið, og á undan orustunum hjá Bull Run, Antietam, Gettysborg, Stone River, Vicksborg og Wilmington.

Grant var ávalt raunverulegur í sér og varð að orði, að í orrustunni við Stonc River (Grjótá) hefði enginn sigur unnist; og nú væri út um landið, ef slíkur sigur hefði unnist einu sinni eða tvisvar til.

»Hvað sem nú um það er í raun og veru, þá dreymdi mig drauminn fyrir þá orrustu. Sigur fæst eigi ávalt, en atburðirnir geta verið merkilegir fyrir því og afleiðingarnar mikilvægar. —

»Eg er ekki í neinum vafa um það«, segir forseti, »að orrusta hefir staðið eða stendur yfir og að Johnston bíður ósigur, fyrst mig dreymdi þennan undarlega draum.

Draumurinn hlýtur að lúta að Sherman, því að hugur minn er hjá honum, og mér er ókunnugt um að líkur séu til, að nokkur annar atburður geti að höndum borið. Hvað gæti það verið annað? En tökum nú til starfa herrar minir, Stanton er kominn,« sagði forseti þá upp úr miðju kafi.

Ráðherrarnir settust óðara og fóru að íhuga hin mikilvægu mál, sem fyrir hendi voru.

Aðalmálið á þessari síðustu ráðstefnu Lincolns var það, hvernig stjórnin ætti að fara að með skilnaðarríkin.

Forseti var vonglaður og fór vingjarnlegum orðum um Lee hershöfðingja og aðra valdsmenn þeirra skilnaðarmanna. Sérstaklega var honum hlýtt til þeirra, sem í herþjónustuna höfðu gengið, og lét það skýlaust í ljós, að sig langaði hjartanlega til að semja fullan frið við Suðurríkin með tilhlýðilegu tilliti til hinna sigruðu borgara þeim megin. —

En þótt forseti væri léttur í bragði, þá var sem skugga brygði yfir hann við og við, einkum þegar hann var að segja drauminn.

Rætt var um að opna tvær hafnir í Suðurríkjunum fyrir kaupmönnum. Forseti fól fjármálaráðherra og flotamálaráðherra að ráða því máli til lykta eftir samkomulagi.

Stanton var búinn að gera tillögur um skipun nýrrar stjórnar í Suðurríkjunum, og hafði forseti fengið þær daginn áður til íhugunar.

Forseti mælti: »Eg ásetti mér að bera þetta mál upp fyrir yður, þótt eg hafi haft nauman tíma til að athuga tillögur þær út í æsar, sem Stanton fékk mér í gær. En þetta mál er aðalmálið, sem fyrir liggur á þessari ráðstefnu og oft hefir verið vikið að því áður á ráðstefnum vorum. Vér þurfum ýmislegt við að auka eða af að taka; en eg bið yður alla að hugsa þetta mál rækilega, því að aldrei hefir stærra mál eða mikilvægara komið fyrir oss

og mun eigi heldur koma síðar fyrir ráðuneyti vort.

»Eg álít, að það sé ráðstöfun forsjónarinnar, að uppreistin skyldi verða bæld niður einmitt núna, undir lok sambandsþingsins. Nú getur enginn í þingmannaflokkinum hindrað oss né komið oss í vandræði. Ef vér reynumst vitrir og ráðkænir þá getum vér á eigin spýtur verið búnir að koma öllu sambandinu í rétt horf, áður en þing kemur saman næst (í des.). Það er álit mitt, að þetta atvik sé næsta mikilvægt. Vér getum gjört betur og framkvæmt meira án þingsins en með því. Á þinginu eru menn, sem hafa góðar ástæður fyrir sínu máli, en óframkvæmanlegar engu að síður. Eða þeir eru fullir haturs og hefndargirni, svo að eg get ekki orðið þeim samhuga né fylgt þeim að málum.

Eg vona, að engin ofsókn, ekkert blóðugt starf verði framið að lokinni styrjöldinni. Enginn þarf að vænta þess af mér, að eg taki nokkurn þátt í að hengja þessa menn eða drepa, ekki einu sinni þá, sem verstir eru. Gjörið þá landræka, opnið hliðið, takið lokurnar frá, fælið þá burt!« sagði forseti og lyfti upp höndum, eins og hann væri að stugga við kindum.

»Það er búið að leggja líf nógu margra manna í sölurnar. Vér verðum að slökkva í oss reiðina, ef vér búumst við samkomulagi og bandalagi. Þeir eru alt of margir í hópi vorra góðu vina, sem vilja gjörast húsbændur til að fá að blanda sér í mál þessara ríkja og segja þar fyrir siðunum og vilja eigi fara með fólkið eins og samborgara. Virðingin

fyrir réttindum þeirra er alt of lítil hjá mörgum vinum vorum. Eg get enga samhygð haft með slíku. Louisiana hefir sett sér og gefið öðrum ein hin beztu stjórnskipunarlög, sem samin hafa verið. Þó hefði eg heldur viljað, að í þeim lögum stæði, að svertingjum væri gefinn eignarréttur eða mættu læra að lesa, heldur en að þeim sé veittur kosningarréttur. Kosningarréttur er mál, sem þeir verða sjálfir að úrskurða. Samt eru það sumir, en næsta fáir, af vinum vorum, sem eru fúsir á að láta ríkin sjálf skera úr þessum málum; flestir vilja heldur láta þau kenna á gjörræði sínu, með því að brjóta fyrstu og frumlegustu meginregluna. Slíkir mannvinir brjóta niður öll ríkisréttindi og og stjórnskipuleg réttindi. Hefðu Louisiana-menn tekið svertingjana með inn í stjórnskipunarlög sín og látið þá fá að njóta sömu réttinda og aðra menn, þá hefði hr. Sumner aldrei mótmælt stjórnarskipuninni, fulltrúum ríkisins verið veitt viðtaka og ríkinu með. —

Sérhvert sambandsþing hefir tvímælalaust rétt til að taka við eða hafna þingmönnum, en stjórnin hefir ekkert vald í því efni. Hins vegar er stjórn hvers ríkis sambandsþinginu óviðkomandi; forsetinn einn viðurkennir hana og fer með hana sem stjórn annara ríkja, samkvæmt gildandi lögum, og leyfir henni að bera sín sérstöku mál upp fyrir sér til staðfestingar, svo sem póstmál, skattamál, kosning dómara, herstjóra, gjaldkera o. s. frv.

»Þeir menn eru til«, sagði forseti, »sem eru mótfallnir þessum skoðunum; en nú eru þeir ekki staddir hér. Vér verðum að hraða oss að gjöra

skyldu vora, áður en þeir koma hingað« (þ. e. þingmennirnir).

Stanton las þá upp frumvarp sitt, þess efnis, að sett væri herstjórn til bráðabirgða í Virginíu og Nyrðri-Karólínu.

Welles andmælti herstjórn, og jafnframt þá því ráði, að sett væri ein stjórn yfir tvö ríki.

»Mótbárur yðar, sumar að minsta kosti, eru réttmætar. Sumar þeirra hafa mér áður í hug komið sjálfum«. Í fundarlok sagði forseti Stanton að taka aftur skjal sitt og semja sitt frumvarpið fyrir hvort ríkið: Virginíu og Nyrðri-Karólínu; skyldi Stanton fá hverjum ráðherra eintak af þeim fyrir næstu ráðstefnu (á þriðjudag). »Þessi tvö ríki standa ójafnt að vígi. Þau þarfnast ólíkrar meðferðar. Hvað á herstjórn að gjöra í Virginíu? Hún þarfnast hjálpar vorrar. Nyrðri-Karólína er alt öðruvísi stödd«.

Síðan lagði forseti hverjum ráðherra ríkt á hjarta, hve þetta væri mikilvægt mál, og að þeir skyldu vandlega íhuga endurreisn ríkjanna; það væri nú hið mikla íhugunarmál þeirra allra; nú yrðu þeir allir að fara að byrja á því að vinna í þarfir friðarins. Og enn einu sinni þakkaði forseti Guði fyrir að sambandsþingið átti ekki setu til þess að koma þeim öllum í vanda.

Í fundarlokin lét Seward forseta vita, að ráðherra Breta, Frederick Bruce, væri kominn til Washington og spyrðist fyrir, hve nær forseta væri hentast að veita honum viðtal.

Forseti hugsaði sig um augnablik, þangað til hann segir:

»Á morgun, kl. 2«, og bætti síðan við brosandi: »Gleymdu ekki að senda ræðurnar upp fyrir fram — mér þætti gott að mega lesa þær yfir«.

Þetta sagði hann, af því að Seward yngri var þá einkaskrifari forseta.

Þegar ráðherrarnir gengu út, þá fundust þeim öllum orð um, hve forseti þeirra væri fagur yfirlitum. Þegar þeir gengu niður stigann, þá sagði Stanton við Speed: »Var ekki forsetinn okkar tígurlegur í dag?« Það er líka haft eftir Stanton, að hann hafi aldrei séð forseta glaðari í bragði en á þessari ráðstefnu; honum hefðu farist fagurlega orð um komu friðarins innan ríkis og utan, en vægðarsamlega um uppgjafir saka við þá, er til annars höfðu unnið. Og Speed sagði 20 árum síðar: »Mér er svo í fersku minni yfirbragð Lincolns, eins og það var á þeim sama degi. Hann var hreinrakaður, fötin vel burstuð, hárið og skeggið snyrtilega greitt«.

Grant varð eftir og sat litla stund á tali við Lincoln og lögðu þau hjón bæði að honum að fara með sér í leikhúsið um kvöldið. En Grant færðist fastlega undan því sem áður, sagði, að þau hjónin hefðu fastráðið að fara til Burlington í New Jersey til að finna börn þeirra og kvað konu sinni verða það sár vonbrigði, ef hann frestaði þeirri för. —

Forseti minti hann þá á, hve fólki mundi vænt þykja, ef það fengi að sjá hershöfðingja sinn á slíku almannafæri, sem leikhúsið væri og því ætti hann heldur hvergi að fara og verða sér samferða.

En Grant var alls eigi gefið um neina sjónleiki

eða sýningar. Í sama bili var borið inn skeyti frá konu Grants; var hún óðfús að leggja af stað úr borginni með lestinni kl. 4; var hún orðin óróleg út af því, að manni hennar hafði dvalist svo lengi. Grant skar þá algerlega úr, kvaðst eigi geta tekið boði þeirra hjóna, tók hjartanlega í hönd forseta og kvaddi hann. Þetta var milli kl. 1—2.

Þegar Grant var farinn, var forseta sagt, að J. B. Merwin yfirforingi (frá Connecticut) biði eftir honum. Merwin hafði verið kvaddur til fundar við forseta skömmu áður. En er forseti var svo önnum kafinn, réð Merwin heldur af að bíða en að fara og koma aftur seinna.

Þá var kominn miðdegisverðartími; var þá verðurinn borinn upp til þeirra og mötuðust þeir saman.

Merwin var gamall vinur forseta. Þeir höfðu verið á kosningaleiðangri um Illinois og haldið ræður um landsmál. Oft hafði forseti falið Merwin ýms trúnaðarerindi á hendur til hersins eða annað.

Í þetta sinn hafði forseti kvatt Mervin á sinn fund til að fara með leynitillögu til Horace Greely og eins eða tveggja merkra ritstjóra í landinu. Tillagan laut að því, hvort svörtu hermennirnir mundu geta fengið atvinnu við að grafa Panamaskurðinn, er þá var í ráði að grafa. Forseti fylgdi því máli af alhuga, að þessi skipaleið yrði gjörð. Og jafnframt var honum hið mesta áhyggjuefni, hvað gjöra skyldi við svörtu hermennina, þegar þeir væru leystir frá herþjónustunni. Það var í rauninni ekki annað að sjá, en að þeir ættu nú engan stað vísan, og eigi var líklegt, að þeir, sem voru

undir vopnum, mundu verða fáanlegir til að ganga að akuryrkjustörfum að nýju. Forseti ræddi um þetta mál við Merwin alllanga stund.

Það var ætlun forseta að vekja athygli almennings á þessu nýmæli. Benjamín Butler hershöfðingi, hafði fyrstur bent honum á þetta og þar að auki gefið honum margar upplýsingar um þetta mál. Nú vildi forseti einkum fá Greely til að styðja þetta nýmæli í blaði sínu (»The New York Tribune«), sökum þess, hve það blað var víðfleygt og áhrifamikið. Hann sagði Merwin, að hann hefði varið nærfelt þremur næturstundum til að semja þetta skjal svo, að skoðanir sínar kæmu þar skilmerkilega í ljós. Þetta skjal átti svo Merwin að afhenda blaðamönnum, sagði hann skyldi fyrst fara til Fíladelfíu og hitta einhverja af ritstjórunum þar og síðan til New York. Og jafnskjótt sem Greely væri búinn að lesa, þá átti hann að segja álit sitt á nýmælinu.

Merwin sagði það löngu síðar, að þá hefði forseti verið »glaður í anda«. Merwin stóð upp, tók við bréfunum og nýmælinu og ýmsum forsögnum að skilnaði.

Forseti mintist á kosningaleiðangur þeirra fyrir tíu árum.

»Merwin, vér höfum leyst stórfelt starf af hendi. Mansalið er nú afnumið. Þegar búið er að koma sambandi ríkjanna í rétt horf aftur, þá verður næsta málið það að stöðva og kippa fótum undan hinni löghelguðu áfengisverzlun og þú veizt, að höfuð mitt og hjarta, hönd mín og pyngja vill leggja í þennan bardaga og vinna sigur.

Árið 1842, fyrir tæpum fjórðungi aldar, þá sagði eg það fyrir, að sá dagur mundi koma, að hvorki yrði þræll né drykkjumaður í landi hér. Nú hefi eg séð aðra þá spá rætast, og vona, að eg lifi það, að eg sjái hina rætast líka«.

Merwin varð nú svo hrifinn af þessum merkilegu orðum forseta, að hann sagði:

»Lincoln, á eg að birta þennan boðskap yðar?«

»Já, gjör þú hann heyrum kunnan svo langt, sem dagur skín«, svaraði forseti.

Meðan þeir Merwin sátu að borði, kom Edward D. Neill, einn af einkaskrifurum Lincolns til að fá undirskrift hans undir skjal nokkurt. Hann heyrði þá, að forseti sat að snæðingi. Fór Neill þá að líta á skjölin, sem lágu á borði forseta, til að vita, hvort hann fyndi ekki erindisbréf það, er hann var að leita að. En er hann var að leita, gekk forseti inn í stofuna og var að bíta epli. Var þá Merwin nýfarinn.

Neill sagði honum þá, að hverju hann væri að leita; en á meðan sá hann, að forseti drap hendi á bjölluna og hringdi.

»Eftir hverjum ætlið þér að hringja?« spurði ritarinn.

»Andrew Johnson«, svaraði Lincoln og studdi hönd á herðar ritara.

»Eg kem þá seinna«, mælti ritarinn, og rétt í því er hann gekk út, var varaforsetanum vísað inn og Lincoln gekk til móts við hann og rétti honum hönd.

Þeir töluðu skamma stund saman, forsetarnir og alt tal þeirra hneig að því, hvað gjöra skyldi eftir-

leiðis fyrir Suðurríkin, nú er uppreistin var í raun og veru úr sögunni. Varaforseti vildi setja harðari og hefndarfyllri kosti en Lincoln vildi ganga að.

Þegar Johnson var farinn, gekk Lincoln að sínum síðdegisstörfum og tók á móti gestum.

Hann ritaði nafn sitt undir uppgjöf sakar, sem lá á ungum hermanni fyrir það, að hafa gjörst liðhlaupi, og sagði um leið: »Jæja, eg held að drengurinn gjöri oss meira gagn ofan jarðar en neðan jarðar«.

Þá samþykti hann bænarskrá um það, að bandingja úr liði skilnaðarmanna yrði veitt lausn að svörnum eiði: »Látið hann vinna eiðinn og halda hann«, ritaði hann á bænarskrána og nafn sitt undir.

Aldrei vildi Lincoln úrskurða nokkurt mikilsvarðandi mál, nema hann væri heill og hraustur á líkama og sál. Af þeim ástæðum frestaði hann oft úrskurði í málum lengur en undirmönnum hans þótti gott vera; en með því trygði hann því betur það, sem hann gjörði og framkvæmdi meira að lokum.

John Henderson þingmaður úr efri málstofunni (frá Missouri) sótti forseta heim til þess að fá leystan einn bandingja úr liði skilnaðarmanna (Georg Vaughn); var hann dæmdur til dauða fyrir njósnir. Henderson þótti dómurinn of strangur, því að honum var málið kunnugt út í æsar. Lincoln skipaði tvisvar að taka málið fyrir aftur, en það kom fyrir ekki. Þess vegna kom Henderson nú til að fá lausnina hjá forseta sjálfum skilmálalaust.

Henderson sagði, að nú væri styrjöldinni lokið.

»Þér ættuð að sýkna þennan mann til eflingar sáttum og friði«.

»Eg er yður samdóma«, svaraði forseti, »farið til Stantons og segið honum, að þessi maður verði að fá lausn«.

»Eg er búinn að hitta Stanton, en hann vill ekkert gjöra«, svaraði Henderson.

»Farið þér á fund hans aftur«, svaraði forseti, »og vilji hann ekkert gjöra, komið þá til mín aftur«. Henderson fór þá aftur á fund Stantons og fékk það, er hann beiddi.

Ríkisstjórinn í Maryland sótti Lincoln heim í kurteisisskyni og hafði vin sinn einn með sér. Forseti var mjög glaður í skapi yfir horfunum í landinu, og sagði: »Nú er gaman að gjöra eitthvað, sem gleður menn«.

William H. Anderson, yfirforingi úr liði Sheridans, kom með skeyti frá vígstöðvunum; hafði komið til Washington daginn áður. Hann hitti svo á, að troðfult var af gestum hjá forseta. Hann hitti þjón hans og þjónninn vísaði honum óðara inn í skrifstofu forseta; sátu þar fyrir John Hay, einkaritari Lincolns, Stanton og nokkrir aðrir herforingjar og borgarar. Forseti kom skjótt fram og tók Anderson báðum höndum.

»Guð blessi yður. Hvernig líður drengjunum mínum á vígstöðvunum?« spurði forseti, því að hann var alt af með huga og sál hjá þeim, sem voru að berjast.

Hann spurði Anderson, hvort hann vildi ekki vera þar um nóttina. Anderson játti því.

»Gjörið það fyrir mig, komið þér við hérna,

áður en þér farið«, sagði forseti og var þá samtalinu lokið.

Þá fékk kona ein aðgöngu, sem einu sinni hafði verið vinnukona hjá Lincoln í Springfield. Nú var hún gift og maður hennar í herþjónustunni. Nú var hún komin til að fá hann leystan úr herþjónustunni. Eins og auðvitað er, þá kannaðist forseti við hana og gladdist af því að sjá hana aftur. Hann lét gefa henni fulla körfu af ávöxtum og sagði henni jafnframt að koma daginn eftir; þá skyldi hún fá hjá sér vegabréf yfir herlínuna og peninga til að kaupa föt handa sér og börnunum.

Það var óvenju gestkvæmt hjá forseta þetta kvöld. En loks tókst honum þó að gegna erindum allra þessara gesta og var þá orðið næsta framorðið. Þau hjónin höfðu ásett sér að aka út og boð var gjört eftir vagninum.

Áður en þau ækju af stað, spurði kona Lincolns, hvort enginn ætti að fylgja þeim. »Nei«, svaraði hann, »eg vil heldur við ökum ein í dag«.

Þegar forseti var kominn niður fyrir stigann, þá tók hann eftir einhentum hermanni, sem þar stóð, og heyrði hann segja: »Eg vildi næstum gefa hina höndina mína til þess, að eg mætti fá að taka í höndina á Abraham Lincoln«.

Hermaður þessi hafði komið of seint til að fá aðgöngu að skrifstofu forseta og þótti mjög fyrir að fá ekki að hitta hann. Forseti gekk þá til hans og tók í einu höndina hans, og mælti: »Ekki skalt þú gjöra það, það skal ekki kosta þig neitt, drengur minn«. Síðan spurði hann hermanninn að nafni og úr hvaða herdeild hann væri, og hvar hann

hefði mist handlegginn, talaði hlýlega við hann fáein augnablik og kallaði hann hraustan dreng.

Þegar þeir skildu, gekk forseti fram eftir ganginum; tók hann þá eftir hvar tvær konur stóðu. Hann gekk til þeirra, tók í hönd þeirra og spurði þær að nafni. Önnur þeirra var frú C. D. Hess, kona forstöðumannsins fyrir þjóðleikhúsinu, en hin var systir hennar.

Forseti kannaðist við nafn frú Hess og kvað sér þykja leitt, að hann hefði ekki getað þegið boð manns hennar á sjónleikinn þar það kvöld. Þær sögðu þá, að sér væri hugur á að sjá blómsturreit Hvíta hússins það kvöld. Forseti fylgdi þeim þá þangað. Þegar þangað kom, spurði hann, hvort þær hefðu séð lemónutréð, uppáhaldið sitt; þær sögðu það ekki vera og benti hann þeim þá á það. Önnur konan hafði þá orð á því, að nú væri uppreistin stöðvuð og spurði, hvort forseta væri það ekki fagnaðarefni. »Jú, nú er það í fyrsta sinni, síðan þessi grimmilega styrjöld hófst, að eg hefi séð greinilega til vegar«, svaraði forseti. »En sú ástúð, sem skein úr hinum djúpsettu augum hans, þegar hann sagði þetta, er mér í minni«, sagði frúin síðar.

Forseti tók þá af trénu sína lemónuna handa hvorri þeirra og bað garðyrkjumann sinn að lesa nokkur blóm handa þeim. Að svo búnu skildi með þeim.

Þegar þau hjónin voru stigin í vagninn, skipaði hann ökumanni að aka rakleitt til sumarbústaðar þeirra hjá hermannahælinu.

Framan af kvöldinu var sólskin og bjart veður,

reglulegt vorveður, en er lengra leið fram, þá fór veðrið að verða fremur kalt og hráslagalegt.

Nú, er þau voru komin af stað, mælti forseti: »María (Mary), við höfum átt í ströngu að stríða, síðan við komum til Washington. En nú er styrjöldinni lokið. Og ef blessun Guðs er með, þá megum við nú vona, að við fáum að njóta fjögra ára í friði og hagsæld. En að þeim liðnum förum við aftur til Illinois og eyðum þar að líkindum því, sem eftir er æfinnar«.

Síðan mintist hann á gamla heimilið þeirri í Springfield, rifjaði upp fyrir sér fyrstu dagana þar og litla gamla húsið, lögstofuna sína og dómsalinn. Hann fór mörgum orðum um, hvað á dagana hefði drifið, þegar hann var að ríða frá einum kviðdómsstaðnum til annars með grænu töskuna, sem hann hafði í skjölin sín.

Því næst sagði hann: »Við erum búin að leggja fyrir talsvert fé og á þessu næsta tímabili reynum við að draga meira saman; en samt höfum við ekki nóg oss til uppeldis í þessari borg. Við förum aftur til Illinois og þá set eg aftur lögstofu á stofn í Springfield eða Chicago, og svo hefi eg málaflutning að atvinnu eða hefi að minsta kosti svo mikið fyrir stafni, að það nægi oss til viðurlífis«.

En samt sem áður var hann ekki viss um, hvort betra væri fyrir þau að setjast að í gamla húsinu sínu í Springfield eða flytja búferlum til Kaliforniu. Og mintist hann þá viðtalsins við Colfax.

Forseti virtist vera hinn glaðasti í anda á allri þessari för. En konu hans þótti það samt nokkuð athugunarvert. Hún var víst ekki óhrædd um, að

annað byggi undir, því hún var óvön svona miklu léttlyndi hjá honum og áhyggjuleysi. Henni fanst það óraunverulegt með sjálfri sér og mundi eigi geta varað lengi.

»Einu sinni hefir þú komið mér svona fyrir sjónir áður, en það var rétt áður en hjartkæri drengurinn okkar, Willie, dó«.

»Eg hefi ástæðu til að vera glaður, María, því að eg hygg, að styrjöldinni sé að fullu lokið einmitt í dag. Og við hljótum bæði að verða glaðari í bragði hér eftir. En frá því er við mistum ástkæra drenginn okkar og til þess, er ófriðurinn hófst, þá leið okkur aumlega.

Þegar þau hjónin óku um útjaðra borgarinnar, heilsaði fólkið þeim hjartanlega, hvar sem það bar kensl á þau.

Þegar þau sneru aftur heimleiðis um kvöldið, og forseti var að stíga út úr vagninum, þá sá hann tvo vini sína frá Illinois vera á gangi hjá fjármálahöllinni: R. Oglesby, ritstjóra og I. N. Haynie herforingja. Þeir höfðu komið til að sjá forseta, og er þeim var sagt, að hann væri úti, þá ætluðu þeir að hverfa burt við svo búið.

»Snúið til baka, drengir«; kallaði forseti og veifaði höndunum. Þeir könnuðust við málróminn og sneru aftur og hittu forseta í súlnagöngunum í Hvíta húsinu. Hann bað þá að bíða örlitla stund í biðstofunni, en forseti fór upp á loft til að bursta rykið af fötum sínum, sem á hann hafði fallið á ferðinni.

En er hann brá sér inn í lítið afherbergi, til að þvo sér um hendurnar, þá gekk Chr. A. Dana að-

stoðarritari í hermáladeildinni, inn í stofuna. En er hann sá engan þar, ætlaði hann að fara.

»Sælir, Dana! Hvað er á seiði?«

»Og það er skeyti frá Provost hershöfðingja í Portland, sem skýrir frá, að Jakob Thompson ætli að koma til Portland í kvöld og spyrst hershöfðingi fyrir um skipanir af vorri hálfu?

»Hvað segir Stanton?» spurði forseti. »Hann vill láta taka hann fastan, en eg skyldi þó bera það mál undir yður».

»Jæja«, mælti forseti dræmt og veifaði höndum, »nei, cg gjöri heldur ráð fyrir, að það verði ekki gjört. Þegar þú hefir náð í afturfót á fíl og fíllinn vill reyna að hlaupa burtu, þá er víst heppilegast að láta hann fara leiðina sína«.

Með þessa yfirlýsingu fór Dana svo aftur til húsbónda síns.

Jakob Thompson var ráðherra skilnaðarmanna í Miðríkjunum, þeim er fylgdu þeim að málum, og jafnframt foringi fyrir einu herfylki í liði skilnaðarmanna. Canada hafði hann gjört að aðalherstöð skilnaðarmanna gegn sambandsmönnum. Nú var þessi bokki að skreppa úr höndum sambandsmanna úr borginni Portland í ríkinu Maine með gufuskipi til Norðurálfu. Þennan landráðamann vildi Stanton umsvifalaust taka fastan.

Forseti fagnaði nú gestum sínum að nýju fóru þeir allir upp í skrifstofu hans. Áttu þeir þar saman glaða stund, hlóu, spjölluðu og sögðu sögur.

Að lokum náði forseti í síðustu bókina eftir kýmnisagnaskáldið Petrolenm N. Nashby. Hann var svo gefinn fyrir að lesa þá grein kýmnisagna

sér til hugarhægðar. Í þetta skifti las hann fjóra kapítula af bókinni fyrir gestum sínum og hló hjartanlega, eins og honum fyndist þar eitthvað svo sérstaklega gamansamt.

Meðan forseti var að lesa, var honum aftur og aftur gjört viðvart um, að kvöldverður væri á borð borinn, hann lofaði í hvert skifti að koma, en hélt þó áfram að lesa. Loks veik dyravörður Oglesby á eintal, og sagði houum, að þar sem forseti ætlaði í leikhúsið um kvöldið, þá væri óhjákvæmilegt að hann borðaði á þessum tíma. Gestirnir fóru þá af stað.

Lincoln mataðist aleinn með fólki sínu um kvöldið.

Að kvöldverði loknum kom Noah Brooks, einn af alúðarvinum forseta, að orðsendingu frá honum; hann var sem sé fréttaritari blaðs nokkurs. Forseti sagði honum þá, að hann hefði »haft í hyggju«, að senda eftir honum og biðja hann að fara með sér og konu sinni í leikhúsið um kvöldið; en nú væri kona sín búin að kjósa sér aðra í stað Grants og konu hans. Hann sagði Brooks þá jafnframt, að hann hefði ætlað að hafa Grant með sér; en þar sem Grant hefði fastráðið að fara til Burlington, þá »hefði sér legið við að hætta við alt saman«. En síðan sagði hann: »Nú er búið að auglýsa það í blöðunum, að einmitt eg og Grant ætlum að fara í leikhúsið; því hefir kona mín lagt að mér að fara, til þess að fólkið verði ekki að öllu fyrir vonbrigðum«.

En er fréttaritarinn var farinn, þá vildi forseti bregða sér snöggvast inn í hermáladeildina og

kvaddi þjón eða varðmann sér til fylgdar, þann er skyldur var að vera nærstaddur forseta um það leyti. Förunautur hans í þetta sinn varð W. H. Crook, og var hann þá fyrir skemstu setstur að í Washington.

Og er þeir gengu saman, þá virtist Crook forseta bregða alt í einu og verða þyngra um sporið en venjulega. En hann átti nú vanda fyrir þessi snöggu skapbrigði frá hlátri til þunglyndis. Þegar þeir fóru fram hjá hermáladeildarhúsinu, þá fór hópur drukkinna manna fram hjá þeim.

»Crook! þú veizt, að eg held, að einhverjir sitji um líf mitt«. Og síðan sagði hann til hálfs við sjálfan sig, »og það getur verið, að þeir taki mig af lífi«.

»Hví hugsið þér það, forseti«, sagði Crook og félst hugur.

»Aðrir hafa myrtir verið«, svaraði forseti.

»Eg held yður skjátlist, hr. forseti«, sagði Grook. Hann gat ekki annað sagt.

Svo gengu þeir spölkorn hljóðir. Þá sagði forseti í venjulegum róm:

»Eg ber fullkomið traust til þeirra, sem umhverfis mig eru, til ykkar allra, mínir menn. Eg veit, að enginn, sem það gjörði, kæmist undan heill á húfi. En ef það á að verða, þá er ómögulegt að komast fyrir það«.

Nú bar þá að hermáladeildinni og forseti gekk inn og átti stutt viðtal við Stanton.

Stanton hafði auðvitað eitthvað við það að athuga, að forseti skipaði svo fyrir, að Jakob Thompson mætti leika lausum hala.

»Með því að leyfa það, að honum sé slept, fyrir drottinssvikin, þá samþykkið þér þau«, sagði Stanton.

»Jæja«, sagði forseti, «út af þessu dettur mér í hug smásaga. Í sumar sem leið staðnæmdist írskur hermaður hjá efnafræðingi og sá hjá honum sóda-laug«.

»Hr. doktor«, sagði hann, »gjörið þér svo vel að gefa mér eitt glas af sódavatni, og þakklátur skyldi eg vera yður, ef þér gætuð helt í það fáeinum dropum af brennivíni, svo að enginn vissi«.

»Nú ef Jake Thompson er leyft að fara, svo að enginn viti, er það nokkur skaði? Takið þér hann ekki fastan«.

Síðan skiftust þeir á fám orðum með djúpri tilfinningu um það, að nú væru þessi blóðugu frændvíg loks á enda.

Í þetta skifti sannaði Stanton og sýndi ástarþel sitt til forseta fremur en nokkru sinni áður.

Þegar þeir kvöddust, þá lagði forseti, sem var hærri vexti, löngu armana á herðar Stanton og föðmuðust þeir að skilnaði. Og lauk svo fögnuði þeirra út af styrjaldar lokunum.

Þegar forseti kom aftur út frá Stanton, sá Crook, að allur þunglyndisblærinn var horfinn af honum. Á heimleiðinni sagði hann, að þau hjónin ætluðu í leikhúsið um kvöldið til að sjá »Hina amerísku frænku vora«.

»Það er búið að auglýsa, að eg verði þar og eg get ekki fengið af mér að bregðast vonum manna«, sagði forseti, »annars færi eg ekki, því nú kæri eg mig ekki um að fara«.

Bæði Brooks og fleiri vinir forseta urðu þess greinilega áskynja, að hann var orðinn tregur til að fara, og hafa þó engin deili fundist til, hvernig á því hafi staðið.

Þegar hann kom heim, gekk hann upp þrepin, en varðmaðurinn fór heim til sín.

»Verið þér sælir, Crook!« kallaði forseti til hans. Og er hann gekk inn, þá biðu þeir Colfax þingforseti og Georg Ashmun frá Massaschusetts eftir honum í »Rauðaherberginu«. Ashmun var forseti á þjóðþingi þjóðvaldsmanna 1860, því er nefndi Lincoln til forseta. Colfax var kominn til að kveðja forseta, því að hann ætlaði að fara með Kyrrahafs-lestinni morguninn eftir.

Þeir gengu nú allir inn í bókaherbergið og töluðust við þar. Forseti var hinn léttasti í skapi. Hann sagði gestum sínum frá för sinni til Richmond.

»Var það nú ekki helzt til óhyggilegt af yður að hætta yður þangað? spurði Ashmun. »Vér vorum mjög hræddir um yður«.

»Mér hefði nú orðið bilt sjálfum, ef einhver annar hefði verið forseti og gjört það; en eg varð þar eigi var nokkurrar hættu«, svaraði Lincoln.

Því næst sneri hann sér að Colfax og mælti: »Sumner hefir forsetahamarinn þeirra skilnaðarmanna; hann fékk hann í Richmond og ætlaði að gefa Stanton hamarinn; en eg lagði að honum að gefa yður hamarinn, og segið honum frá mér, að hann eigi að afhenda yður hamarinn. Þér eruð þingforseti og fer því vel á því, að þér hafið hann í hendi, til að kveðja yður hljóðs með honum«.

Ashmun mintist þá hamarsins, sem notaður hafði verið á þinginu 1860, og kvaðst geyma hann eins og annan dýrmætan minjagrip. — Ýmislegt fleira bar þeim á góma. En að samtalinu loknu bað forseti afsökunar á því, að hann þyrfti að ná í hatt sinn og yfirhöfn, og gekk svo inn á skrifstofu sína. En þá kom Henderson, sem fyr var getið, og kvað Stanton hafa brugðist reiðan við beiðni forseta um lausn Vaughns. Forseti ritaði þá fá orð á miða og fékk honum, og mælti: »Eg vona, að þetta vinni bug á Stanton«. Síðan fór Henderson leiðar sinnar.

Síðan ritaði hann nafn sitt undir erindisbréf Alvin Saunders, er verða skyldi ríkisstjóri i hjálendunni Nebraska.

Á leið til bókasafnsins nam hann staðar í herbergi Róberts sonar síns, og hélt hann væri, ef til vill búinn að hvíla sig og ætlaði að hafa hann með sér í leikhúsið, og mælti: »Við förum í leikhúsið, Bob, viltu ekki fara með okkur?« En hinn ungi höfuðsmaður hafði þá ekki sofið í rúmi hálfan mánuð, og sagði því föður sínum, að ef honum væri sama, þá vildi hann heldur vera heima, en »koma snemma í fyrramálið« til föður síns.

Lincoln var ávalt eftirlátur við börn sín og sagði hann skyldi gjöra sem honum þætti bezt, og bauð syni sínum hjartanlega »góða nótt«. Því næst hraðaði hann sér inn í bókastofuna aftur og átti þar enn stundar-viðtal við þá Colfax og Ashmun. En þá voru borin inn nafnspjöld þeirra W. M. Stewart þingmanns úr efri málstofu (frá Nevada) og N. Searles dómara (frá New York). Stewart þekti for-

seta vel, en hafði Searles vin sinn með sér, því að hann hafði aldrei fyr séð forseta.

Lincoln tók við spjaldinu og ritaði á það:

»Við hjónin ætlum að fara í leikhúsið í kvöld. Það læt jeg aldrei undir höfuð leggjast. Komið með vini yðar kl. 10 í fyrramálið og þá skal mér vera ánægja að hitta yður.

A. Lincoln«.

Nú var hálf stund liðin fram yfir þann tíma, er þau áttu að fara af stað til leikhússins; fór þá forseti að búast til brottferðar, en hafði þó haft við orð að staldra við svo hálftíma lengur. Gestirnir sögðu það báðir síðar, að sér hefði þótt fyrir að verða að hverfa burt frá Hvíta húsinu það kvöld.

»Eg vona, að þér viljið verða okkur samferða í leikhúsið í kvöld?« spurði forseti Colfax. En Colfax kvaðst hafa öðru að sinna, og minti forseta á ferðina, sem hann ætti fyrir hendi morguninn eftir.

Ashmun þótti mjög fyrir, að samtalið hefði orðið svo stutt og snubbótt, eins og raun varð á.

Forseti sagði, að hann mætti koma aftur í fyrramálið kl. 9. En af því að það var fyrir venjulegan heimsóknartíma, þá ritaði hann á miða og fékk honum:

»Leyfðu hr. Ashmun og vini hans að koma inn kl. 9 í fyrramálið.

A. Lincoln«.

Vinur Ashmuns var C. P. Daly frá New York.

Þegar þeir gengu út úr bókastofunni, kom enn eitt atvik fyrir. Tveir menn vildu fá vegabréf frá forseta til að fara um Richmond sem leið lægi.

Lincoln sneri til baka, tók annað spjald og ritaði á það:

»Engin þörf á því nú, að gefa nokkrum manni heimild með vegabréfi til að fara frá eða til Richmond og Petersborg. Fólk má nú fara fram og aftur, eins og fyrir stríðið.

A. Lincoln«.

Þetta spjald afhenti hann heimsækjendunum, og gekk svo aftur út að vagninum. Kona hans var þá fyrir skömmu komin og varð þeim samferða niður stigann; leiddi Ashmun hana, en forseti og Colfax gengu saman. Þegar þeir komu út í súlnagöngin, mintist Lincoln aftur á för Colfax. — »Colfax«, sagði hann, »gleymið eigi að segja fólkinu í námuhéruðunum það, sem eg sagði yður í morgun um starfrækslu námanna þar, þegar friður er fenginn«.

Þá sá hann þá Stewart og dómarann standa úti fyrir. Hann gekk til Stewarts og rétti honum hönd að skilnaði. Colfax leiddi dómarann til forseta, en forseti ítrekaði það, sem á spjaldinu hafði staðið, og bauð þeim góða nótt.

Rétt í því er forseti ætlaði að stíga inn í vagninn, sá hann I. N. Arnold, vin sinn og sambandsþingmann, vera að koma.

»Hafið þér mig nú afsakaðan«, mælti forseti, »eg er á förum í leikhúsið. Komið þér og lítið inn til mín á morgun«.

Þau hjónin settust nú í vagninn. Forseti bað ökumann að fara fram hjá húsi Harris þingmanns og taka þar Rathbone yfirforingja og ungfrú Harris, sem höfðu sammælst þeim.

»Eg síma til yðar í San Fransico, Colfax!« kall-

aði forseti til baka, er vagninn var runninn af stað. — Á leiðinni hittu þau hjónin nýtrúlofaðar persónur, ungar og hamingjusamar. Þau hjónin buðu þeim með sér í stað Grants-hjónanna. —

Nú víkur sögunni til leikarans, er fyr en nefndur, John Wilkie Booth's. Hann var um þrítugt, og þótti einkar fríður sýnum. Flestir töldu hann dulan í skapi, en meinlausan. Júníus Brútus faðir hans og Edwin bróðir hans voru alkunnir leikarar í Washington, en Booth var síztur þeirra í íþróttinni og naut því að föður síns og bróður um frægðina. Meðan á styrjöldinni stóð, lét hann mjög af vináttu sinni við uppreistarmenn, og fjandskapur hans gegn sambandinu magnaðist smám saman og fékk það vald á huga hans, að hann átti ilt með að dylja það. Lengi hafði hann haft í huga að myrða Lincoln, og nú ásetti hann sér að framkvæma þá hugsun í leikhúsinu þá um kvöldið, því að hann frétti þegar um morguninn, að forseti ætlaði að vera við kvöldleikinn. Það var auðsætt, að þær fréttir hafa hert á honum með að fremja það ódáðaverk. Hann hafði eigi allfáa bófa í ráðum með sér. Samsærið var fullráðið og fylgifiskarnir þögðu trúlega yfir því, og hefði þó mátt ætla, að vandfundnir hefðu verið menn til að þegja yfir slíku leyndarmáli.

Þegar kl. var 9, komu þau hjónin í stúkuna. Þá heilsaði söngsveitin þeim, með því að leika og syngja: »Heill höfðingja vorum!« Og þá gullu við hjartanlegar hamingjuóskir frá troðfullu húsinu. Lincoln settist í ruggustól fram við grindurnar og kona hans og föruneyti þeirra settust þar, sem

það gat notið leiksins sem bezt. Varð sá leikur seinna frægur og nefndist þá: »Dundreary lávarður«.

Booth beið þess tíma með óþreyju., sem hann hafði valið sér til að ganga í leikhúsið. Hann var á gangi fram og aftur um Pensylvaníu-götu. En er stundin nálgaðist, gekk hann inn í veitingahús eitt og æsti í sér morðhuginn með því að drekka sér þar drjúgan teyg af brennivíni. Þessi djöfullega drykkjusmuga stendur enn og má þar sjá þessa hryllilegu áletran: »Hérna var það, sem Booth tók sér í staupinu, áður en hann myrti Lincoln«. Og mynd er þar af Booth og undir henni stendur: »Hér er mynd af fríðasta manninum, sem drap ófríðasta manninn í B»ndaríkjunum«.

Úr smugu þessari gekk hann svo í hægðum sínum inn í leikhúsið og um kl. 10 sást hann stika fram með veggjunum á bak við veggsvalirnar inn þangað sem forsetastúkan var. Þar sat nú yfirbjóðandi hinna voldugu hersveita, en enginn hermaður var hjá honum til að gæta hans. Booth gekk inn í forstúkuna, lítinn klefa og lokaði hurðinni að utan með slá, sem einn af þeim, sem Booth hafði gint til samlags við sig, og var starfsmaður við leikhúsið, hafði lagt þar í þeim tilgangi. Hann gægðist nú inn um smugu, sem einhver lagsmaður hans hafði gjört fyrir hann og gat um hana séð, hvar Lincoln sat. Að svo búnu opnaði hann dyrnar hljóðlaust.

Ahorfendurnir voru allir skellihlæjandi, því að einn leikandinn lék þá svo sprenghlæilega á því augnablikinu.

Rétt áður hafði Lincoln verið að tala við konu

sína. Orð hans voru hin ástúðlegustu og dvaldi hann helzt við það, hvað þau mundu gjöra eftirleiðis og lauk máli sínu með því að segja: »Engan stað langar mig meira til að sjá en Jerúsalem«.

Þarna sat hann nú »engan hatandi, alla elskandi«, hann, sem eigi bar persónulega óvild til nokkurs manns í heiminum. Ef Booth hefði getað séð kærleikann, sem skein út úr svip hans, þá hefði það, sem gott var til í eðli hans hlotið að bera hærra hlut. En hann sá það ekki, og þessi morðóði óvísagestur nam staðar augnablik að baki honum, áður en hann framdi morðið, en læddist síðan aftan að honum og skaut kúlu í hnakkann á honum til ólífis. Það var sannnefnt bleyðiskot.

Lincoln hneig þegar niður af stólnum, og var sem örendur. Nú var hann kominn að hinni myrku strönd hins ókunna lands, er hann stefndi að á hinu hraðskreiða draumaskipi nóttina fyrir. Mikil mildi var það, að honum var hlíft við að sjá morðingjann, og að kenna nokkurs sársauka.

Ungi maðurinn í stúkunni stökk í veg fyrir morðingjann; en Booth stakk þá knífi í handlegg honum og var það svöðusár. Kona Lincolns vaknaði nú af gleðidraumnum og er hún sá, hvernig komið var, rak hún upp óp. Við það óp vöknuðu hinir áhorfendurnir af draumum sínum, til þess að sjá þann stórkostlega sorgarleik, sem nú var að gjörast í stað skrípaleiksins, sem þeir voru sokknir niður í. Þeir sáu nú framan í Booth. Augu hans loguðu af heiftareldi. Hann hallaði sér fram úr stúkunni með hnífinn í hendinni, tilbúinn að stökkva niður á leiksviðið.

Oft hafði hann stokkið niður af hærri palli, svo sem fram af 12 feta háum kletti, er hann lék »Macbeth«. Nú átti hann að stökkva 9 fet, en fataðist af fánanum, sem breiddur hafði verið framan við stúkuna og dró hann með sér, er hann datt niður á leiksviðið. Hann fótbrotnaði. En með óðs manns afli spratt hann brátt á fætur, brá hnífnum út í loftið og hrópaði: »Sic semper tyrannis«. (Þá leið skulu þeir æ fara, harðstjórarnir). Það voru einkunnarorðin á innsigli Virginíu-ríkis.

Af því að hann var vitstola, þá þótti honum þetta alt eigi annað en leikur og að hann væri aðeins að leika; nú væri hann búinn að segja það, sem hann ætti að segja, búinn að leika sinn þátt og stikaði svo óhultur út af leiksviðinu. Við leikhúsdyrnar stóð drengur og hélt þar í hest, sem Booth hafði leigt; hann hypjaði sig á bak og reið sem skjótast á brott í tunglsljósinu; hófaslátlur hestsins heyrðist svo glögt í næturkyrðinni; en riddarinn engdist sundur og saman af kvölum í brotna fætinum; beinbrotin stóðu út úr holdinu.

Booth bjó sig nú dulargervi og annar maður til (Harrold), er verið hafði í ráðum með honum, og leituðu þeir undankomu; kváðust þeir vera flóttamenn úr liði Suðurríkjamanna, létu svo fyrirberast hjá manni einum, er Garett hét. Þar voru þeir teknir og Booth skotinn. Um sömu mundir náðist annar, er Payne hét; hafði hann veitt Seward ráðherra, er þá lá rúmfastur, banatilræði í sama mund og syni hans líka. Og enn annar til átti að vinna á Johnson varaforseta. Grant átti auðvitað að fara sömu leiðina og Lincoln. Allir þessir illræðismenn,

fjórir saman, höfðu átt athvarf hjá ekkju einni í Washington, Surratt að nafni og varð hún að fylgja þeim í gálgann. Fleiri voru enn, sem eigi gátu hreinsað sig af vitorði. Læknirinn, sem sett hafði saman fótinn á Booth og tveir aðrir voru dæmdir í útlegð til eyjarinnar Dry Tortugas æfilangt, og maðurinn, sem gjörði smuguna á stúkuna, var dæmdur útlægur til sömu eyjar til sex mánaða. Sú ey er í Florída-eyjunum, afskekt og langt frá löndum og er ilt þar að búa.

Þá er frá því að segja, að menn ruddast inn í forsetastúkuna, en komu að aðalstúkunni harðlokaðri að utan. Þá kleif herlæknir einn, sem viðstaddur var, upp á herðar á öðrum manni og komst svo upp í stúkuna að framan; var þá hurðinni lokið upp og einn eða tveir læknar aðrir gengu inn.

Það sást óðara að kúlan hafði farið inn um hnakkann og inn í heilann. Það var auðsætt að forseti var særður til ólífis.

Þessi örlög höfðu vofað yfir Lincoln frá æsku; hann hafði fyrir löngu sagt það fyrir. Það var eins og það hefði verið skráð í bók örlaganna, að þessi maður mannrauna og vonbrigða skyldi eigi fá að njóta sigurgleðinnar, sem hann hafði aflað sér, né þess lofs hjá heiminum, sem hann hafði áunnið sér. Og hvað gat verið fjær sanni, en að hinn trúfasti vinur og elskaði sonur þjóðarinnar skyldi vera myrtur sem harðstjóri?

Lincoln dó fyrst kl. 7 morguninn eftir. Stjórnarmenn og hershöfðingjar voru kring um hann og blygðuðust sín eigi fyrir tárin. Kona hans var í næsta herbergi óhuggandi.

Um leið og lík forseta var borið út úr leikhúsinu, var tjaldinu fyrir leiksviðinu hleypt niður og hefir aldrei verið hafið upp síðan.

Þegar Lincoln var dáinn, snéri Stanton sér við og sagði hljóðlega:

»Nú heyrir hann öldunum til«.

Múgurinn þusti út úr leikhúsinu og niður Pensylvaníugötu og flutti þessi skelfilegu tíðindi, sem þeir allir höfðu séð og heyrt. Og innan skamms mættu þeir öðrum, sem eigi var minna niðri fyrir og sögðu, að Seward hefði verið myrtur.

Stanton hraðaði sér þá til Sewards og hafði þá illirkinn sært ráðherra á hálsi og höfði; kvaðst hann vera læknir með lyf handa honum; hann veitti og syni Sewards og þjóni hans banatilræði með hnífi, þjónninn vakti yfir húsbónda sínum og dóttir Sewards var þar líka hjá honum, þegar illræðismaðurinn kom. Þegar Stanton kom tll Seward, þá frétti hann, að Lincoln hefði verið myrtur og brá honum heldur illa við. Eins og eðlilegt var, þá óttaðist hann, að samsæri hefði verið gjört gegn öllu ráðuneytinu, lét hann því loka öllum drykkjusölum og setti fjölmennan vörð um húsið, þar sem forseti var lagður til bráðabirgða um nóttina. Hann setti alla borgina undir herstjórn og gjörðist aðalleiðtogi borgarmanna.

Beiskur grunur kom upp í huga Stantons um það, að einhver af leiðtogum skilnaðarmanna hefðu tekið ráð sín saman, blindir og hamstola út af ósigrinum, og verið í vitorði með morðingjunum. Booth hafði ætlað að gjöra skilnaðarmönnum þægt verk með morðinu; en því fór fjarri, að svo yrði;

þeim var það afskapleg móðgun, því að nú var hinn sanni og ótrauði vinur þeirra myrtur; göfuglyndið óviðjafnanlega þeim til handa bjó í brjósti honum. Það var einmitt hann, sem vildí gefa þeim upp allar sakir. Með þessu ódáðaverki Booths var áform Lincolns um frið og sátt og góðan vilja, slegið til jarðar í einum svip.

## XXXIV. KAPÍTULI.

### *Harmur þjóðarinnar.*

Laugardagurinn 15. apríl 1865 er einstæður í sögu Bandaríkjanna. Aldrei hefir nokkur annar dagur honum líkur verið. Þjóðin vaknaði með sigurgleði í hjarta til að halda áfram fagnaðarvikunni. Öll Norðurríkin voru í einu fagnaðarskrúði. En þegar minst varði, huldi flóðalda harms og reiði alt landið.

Hátíðarskrautið alt hvarf í einum svip. Nú kom enginn til að heilsa foringja sínum í virðingarskyni. Nú hörmuðu margar miljónir manna fráfall hans, og ekki aðeins sem forseta, heldur sem vinar. Hvar sem menn hittust á götum, í búðum eða torgum, þá stóðu þeim tár í augum. Á hverju heimili kom harmur í stað sigurfagnaðar. Enginn fagnaðarblær var á guðsþjónustunum á páskadaginn, eins og venja var til. Aldrei hefir dauði nokkurs manns í Bandaríkjunum snortið jafnmörg hjörtu. —

Það var eigi undarlegt, þó að Lincoln yrði svo harmdauði allri alþýðu, því að þótt hann ætti sér

jafningja að snilli og vitsmunum, þá voru fáir honum líkir að ráðspeki og ráðvendni, sálarþreki og stillingu og einurðarmiklu og prúðu lunderni. Órækasti votturinn um þetta var það, að svo stórhuga og mikilhæf þjóð tók hann til forystu, þegar hinn mesta vanda bar að höndum, og vottaði það með endurkosningu sinni, að hún fann engan hæfari til að standa í hans sporum. Nú mátti það enginn hugum hyggja, hversu miklu fráfall hans mátti skifta um málalokin, því að svo komnu þótti öllum helzt von, að Lincoln mundi takast betur en öðrum að leiða málið giftusamlega til lykta. Þótti mörgum efi á, að varaforsetinn, Andrew Johnson, færi svo hlífðarsamlega með uppreistarmenn, sem Lincoln mundi gjört hafa.

Johnson átti í því sammerkt við Lincoln, að hann var af fátækum foreldrum kominn (f. 1808) og átti örðugt uppdráttar í æsku. En hann setti sér snemma hátt mark til að keppa að og vann af kappi og aflaði sér mentunar jöfnum höndum. Kona hans kendi honum að skrifa, en lestur lærði hann að mestu af sjálfum sér og síðan las hann að jafnaði kvöld og nætur að loknum dagstörfum sínum. Kona hans var vel mentuð og kom það honum að góðu haldi. Þegar hann var kvæntur, tók hann sér bólfestu í borginni Greenville í Tennessee. Fyrst var hann kosinn í bæjarstjórn (1822) og til borgarstjóra (1830), til ríkisþingsins í Tennessee (1835), til neðri málstofu í sambandsþinginu (1843). Síðast var hann skipaður ríkisstjóri í Tennessee (1853). Hann þótti stjórnsamur og einarður, málsnjall og skorinorður.

Þetta er þá í fám orðum saga þess manns, sem vandamálinu mikla átti að ráða til lykta í stað Lincolns forseta.

Þjóðinni þótti fráfall Lincolns hafa orðið með grimdarlegu móti, svo að uppreisn gegn því ódæði og hefndarhugur til Suðurríkjanna bálaði upp í brjósti hennar.

Stanton var hræddur um, að lausafregnir af þessum atburði mundu verða ægilegar, er þær kæmi til New York. Hann lét því sem bráðast kveðja til borgarafundar í Wall-stræti. Garfield (síðar forseti), er þá var sambandsþingmaður, var fenginn til að sefa fólkið í höfuðborginni (Washington); stóð hann á þrepi hjá líkneski Washingtons, en fólkið stóð á strætinu þúsundum saman. Hélt Garfield þá ræðu til fólksins af mikilli mælsku og fullvissaði það um, að »Guð réði enn og stjórnin í Washington væri enn á lífi«.

En þrátt fyrír það, breyttust þó hugir manna og stefna. Benjamín Disraeli hélt ræðu í neðri málstofu á þingi Breta og sagði, að »morð hefðu ekki breytt neinu í sögu heimsins«. En þrátt fyrir það snerist stjórninni í Washington algjörlega hugur við morð Lincolns. Nú höfðu þeir allir frjálsar hendur, sem Lincoln hafði haldið niðri og helzt vildu láta ganga milli bols og höfuðs á foringjum uppreistarmanna. Hófust nú hryðjuverk í Suðurríkjunum og lá nærri landauðn. Ekkert Suðurríkjanna varð þó jafnhart útí og Syðri-Karólína. Þar var alt brent, sem brunnið gat, og allir gátu séð, hvar herinn var staddur af reykjarmekkinum, sem lagði upp á loftið; voru það húsin að brenna.

Stanton var nú ekki seinn á sér að skipa að taka Jakob Thompson, erindreka Suðurríkjanna, fastan, þann er Lincoln vildi láta lausan fara. Menn af háum stigum, fullir ofstækis, fögnuðu því varaforseta, sem »hann væri af Guði sendur til þjóðarinnar«. Og þegar svo nýi forsetinn lýsti því yfir, að »landráð mættu eigi vera óátalin og landráðamenn eigi sleppa óhegndir«, þá talaði hann að þeirra skapi. Þingforsetinn í efri málstofunni, Wade frá Ohio, hrópaði einu sinni upp og sagði:

»Það veit Guð, að nú verður enginn vandi að koma stjórninni af stað«.

Þjóðveldismenn í efri málstofunni héldu fund með sér eftir dauða Lincolns, og þótti þeim ráðlegast að fella allar tillögur hans um endurreisn Suðurríkjanna úr gildi. Grant barst jafnvel inn í þennan »hefndarstraum« og sendi þetta herskeyti: »Sjálfsagt er að beita hinni mestu hörku, svo lengi sem morð eru efst á baugi hjá uppreistarmönnum«.

Stanton bauð fram 100,000 dala til að handtaka Jefferson Davis, svo sem meðsekan í morði Lincolns. Sat hann síðan lengi í varðhaldi hart leikinn og voru bornar á hann margar og þungar sakir aðrar; en mál hans var ekki rannsakað og sat hann þarna án dóms og laga. En sem betur fer, kvittar sagan hann og alla aðra valdsmenn skilnaðarmanna um það, að þeir hafi verið í vitorði með eða samhuga þeim, er myrtu Lincoln. Voru þeim síðan öllum grið gefin.

Varaforsetinn reyndist betur, þegar fram í sótti, en áhorfðist í fyrstu. Eins og fyr er sagt, urðu margir hræddir um, að hann yrði harðsnúinn til

hegninganna og héldi svo hatri Suðurríkjamanna vakandi; en andi Lincolns mátti sín meira hjá honum, en hefndarhugurinn; sýndi hann hina mestu vægð að dæmi Lincolns og var svo óspar á náðunum, að hann komst ekki yfir að rita nafn sitt á uppgjafarskjölin.

Þau urðu lok styrjaldarinnar, að Johnston, hershöfðingi Suðurríkjamanna gafst upp fyrir Grant (26. apríl 1865). Í liði hans voru 66 herforingjar alls. Voru þá Suðurríkjamönnum þrotnar allar hervarnir á sjó og landi.

Því nær allir herforingjar skilnaðarmanna og embættismenn þeirra, fengu uppgjöf saka, svo sem Lee, Johnston, Evell, Pickett, Longstreet varaforseti þeirra og Alexander Stephens.

Huga Johnson forseta má nokkuð ráða af þessum orðum hans:

»Eg þykist þá rétt hafa skilið bendingar hjarta míns og hugar, er eg hefi kostað kapps um að bæta og mýkja kjör hins mikla grúa af löndum vorum, sem undir þungum kostum hafa orðið að búa. Eg hefi haft miklar annir, en eg hefi af einlægni unnið fyrir þær miklu meginhugsjónir, sem miða að alþýðufrelsinu. Eg skal eigi bregðast skyldu minni, en ávextirnir eru í Drottins hendi«. Og enn sagði hann: »Þess biðjum vér allir, að hin ósýnilega hönd Guðs, sem hefir leitt oss um myrka vegu, leiði oss enn til bróðurlegs samlags, að vér upp frá þessu megum skila eftirkomendunum og þeir aftur niðjnm sínum hinni miklu arfleifð: Óveiklaðri meginstjórn og forræðisréttindum hvers einstaks ríkis«.

Johson var lýðræðismaður eða sérveldismaður (demokrat); lagði sá stjórnmálaflokkur einkum áherzlu á frelsi og sjálfsforræði hvers einstaks ríkis fyrir sig, þjóðvaldsmenn eða samveldismenn (republicans) litu fremur á styrk aðalstjórnarinnar eða forsetavaldsins.

Nú víkur sögunni aftur til konu Lincolns og sessunauta þeirra hjóna í forsetastúkunni.

Kona Lincolns hafði ávalt taugaveikluð verið og vanstilt; en þetta áfall reið henni að fullu. Hún æddi fram og aftur alla nóttina, og um morguninn varpaði hún sér yfir lík mannsins örvita og varð hún með naumindum slitin þaðan. Líkið lá í húsi klæðskera nokkurs um nóttina. Þegar hún var leidd út að vagni forseta, sem staðið hafði þar fyrir dyrunum alla þessa skelfingarnótt, þá varð henni litið á leikhúsið. Þá hrópaði hún upp yfir sig:

»Ó, það voðalega hús!«

Eigurnar, sem maður hennar hafði skilið eftir handa henni og börnum hennar, voru eina hugnunin hennar. Voru þær meiri en margan varði, því að auk landeignarinnar, sem hann átti áður en hann fór til Washington, þá hafði honum tekist að draga saman lausafé, sem nam meira en 100,000 dölum eða jafnmiklu og öll forsetalaunin hans; hann hlýtur því að hafa haft góðan ráðunaut í fjármálum, að honum skyldi vinnast að spara svo mikið fé í öllum sínum sökkvandi önnum og áhyggjum.

Kona Lincolns ferðaðist til Englands og Frakklands og ætlaði að taka sér þar einhversstaðar bólfestu. En hún nam hvergi yndi. Svartur svipur elti

hana sí og æ, hvar sem hún fór. Það var viðburðurinn óttalegi í leikhúsinu; hann stóð hennar veikluðu sál sífelt fyrir augum. Hún gat ekki um annað hugsað né talað. Hún var um tíma á sérstöku hæli, nálægt Chicago; en síðast var hún hjá systur sinni í Springfield.

Ungu persónurnar, sem hjá þeim sátu í stúkunni, giftust; en maðurinn varð brjálaður og réði konu sinni bana.

Þá var bjartara og blíðara yfir Lincoln sjálfum. Lík hans var flutt úr húsi klæðskerans í »Grænu stofuna« í Hvíta húsinu. Þar var það lagt á skreyttan líkpall. Þarna hvíldi hann í tign og friði undir sama þakinu, þar sem hann hafði búið við sífeldar annir og áhyggjur á forsetaárum sínum. Friðurinn, sem yfir honum hvíldi, var ekki af þessum heimi, og stakk átakanlega í stúf við hinar ofsafullu ástríður, sem bjuggu í brjóstum flestra þeirra, sem söfnuðust um líkpallinn.

Seward lá í rúminu og komst nauðulega lífs af, sakir áverka þess, er hann hafði fengið. En mjög furðaði hann sig á því, að húsbóndi hans, sem var svo góður og hugsunarsamur, skyldi aldrei líta inn til hans í þessum nauðum hans. En á páskadaginn sá hann bregða fyrir fána í hálfri stöng út um gluggann sinn, og flaug honum þá í hug, hvað í efni væri.

Líkför Lincolns fór fram frá Hvíta húsinu næsta miðvikudag eftir. Sá dagur var hvervetna haldinn hátíðlegur sem sorgardagur um öll Norðurríkin með hinni mestu lotningu. Enginn ættingi þessa einstæða manns var í hópi syrgjendanna; en þar

voru menn af öllum kynflokkum og trúarflokkum og tengdust frændsemisböndum sorgarinnar um þennan sameiginlega bróður þeirra allra. Viktoría Bretadrotning sendi konu Lincolns samhrygðarskeyti »sem ekkja til ekkju«.

Líki þessa manns, sem borinn var í fátæklegum bjálkakofa, var nú sýndur meiri heiður, en þó hann hefði kouungur verið. Hann var borinn í stjórnarhöllina, og mörgum þótti tilhlýðilegt, að hann væri settur í grafhvelfinguna, þar sem bein Washingtons hvíla, eini jafninginn hans í sögu Bandaríkjanna. En Illinois-búar kröfðust þess, að hann væri greftraður þar, því að hann væri lögmæt arfleifð þeirra, gresjarnar yrðu að helgast af leiði hins fyrsta mikilmennis, sem þær hefðu af sér alið.

Borgir og ríki beiddust þess, að þau mættu sýna heiður líki hans á leið til legstaðarins. Förinni var svo hagað, að farið skyldi nærfelt sömu leiðina og Lincoln hafði sjálfur farið til Washington fyrir 4 árum. Í Fíladelfíu var »Frelsisbjallan« sett við höfuð líkkistunnar í »Sjálfstæðishöllinni« (The Independence Hall), þar sem Lincoln hafði lýst því yfir, »að heldur vildi hann myrtur vera, þar sem hann stæði, en að hann léti bandalagið undir lok líða«.

Í New-York komu menn hundruðum og þúsundum saman til að sjá ásjónu hins látna forseta. Mergð fólks kom saman í Albany úr öllum efri hluta ríkisins um hánótt og beið, meðan líkið væri sett í ríkishöllina þar. Á hverri smástöð safnaðist fólkið saman og stóð berhöfðað, meðan líkfylgdin

fór fram hjá. Bogar voru reistir yfir járnbrautarsporið. Bál voru kynt og lýstu þau upp brautina að nóttu til. Vesturríkjamenn komu saman í Chicago til að krjúpa í lotningu við líkbörur fyrsta forsetans, sem þeir höfðu gefið þjóðinni.

Springfield var hróðug mitt í sorgum sínum og tók fegínsamlega við líki hins fræga borgara síns, því að nafn hans mun uppi vera, meðan lönd eru bygð. Líkið var borið í forsal þinghússins í heiðursskyni, þar sem hin stirðnaða tunga forsetans hafði áður vakið þjóðina til baráttu fyrir frelsi sínu. Þarna hvíldi hann nú og kringum hann stóðu vinir hans og umhverfis hann voru allir þeir staðir, sem honum voru kunnir og kærir.

Stjúpan hans elskaða var enn á lífi, og syrgði nú förudrenginn úr eyðibygðinni, sem hún hafði alið upp til hinnar undursamlegu ákvörðunar sinnar; en nú var hún orðin svo hrum, að hún gat ekki verið við jarðarförina. Ekki furðaði hana neitt á því, þó að Lincoln væri myrtur, því að hún hafði alt af verið hrædd um líf hans, frá því er hann fór til Washington.

Nafnspjaldið þeirra Herndons og Lincolns sveifl- aðist enn framan á gömlu lögstofunni. Úr héraðinu kringum New Salem og Claryslund komu óbreyttir almúgamenn, karlar og konur, til að greiða honum táraskattinn sinn. En það var ekki hinn látni forseti, sem þeir grétu, heldur nágranninn góði, sem hafði hjálpað þeim á akrinum, í skógunum eða á þjóðbrautinni og þeir höfðu miðlað af molum fátæktar sinnar. Þeir þektu hann og virtu, löngu áður en hann komst í tölu mikilmenna

heimsins. Á hinni fjölmennu og stórfeldu hátíðagöngu að leiðinu var »gamli Bob« látinn ganga á eftir líkvagni húsbónda síns, hesturinn, sem hafði borið hann úr einum stað í annan á lögmannsárum hans.

Gresjan stóð í maí-blóma, þegar Lincoln var lagður til hinstu hvíldar í skaut hennar hjá litla leiðinu hans Willie og annars drengs, sem dáið hafði kornungur. Þar var Tad líka lagður skömmu seinna, og þar fann kona Lincolns og móðir drengjanna líka hinn þreyða frið að 17 árum liðnum. Landar Lincolns reistu háttstandandi líkneski af honum á leiði hans. Þúsundir svartra manna, sem hann hafði leyst úr ánauð, lögðu sinn skerf til þess af fé því, er þeir höfðu aflað sér með frjálsri starfsemi sinni. —

Þá er nú saga Lincolns sögð, einhvers hins mætasta sonar, sem Bandaríkjaþjóðin hefir átt. Allir eru á einu máli um hjartalag hans. Það mátti með sanni um hann segja, að honum varð eigi fremur þokað af vegi ráðvendninnar og réttlætisins en sólinni af braut sinni. Og hann var flestum fremri að viljaþreki og þrautseigju. En það sem gjörði hann ráðvandan og réttlátan, þreklyndan og þrautseigun, var trú hans, barnsleg og bjargföst trú á forsjón Guðs. Sú trú varð honum siguraflið, sem vann sigur í öllum þrautum.

En jafnframt þessum kostum sínum var hann svo yfirlætislaus og barnslega lítillátur, að furðu þótti sæta. Þess vegna syrgði hann líka allur landslýður, því að hann var um fram alt *vinur* þjóðar sinnar.

Lincoln bar aldrei nokkurn kvíða fyrir samsæri né fyrir dauða sínum. »Eitt sinn skal hver deyja«, mundi hann sagt hafa. »Ef þeir hafa hug á að myrða mig«, sagði hann brosandi við vini sína, skömmu fyrir dauða sinn, þegar þeir voru að biðja hann að vera varan um sig, »þá fara þeir einhvern veginn að því«. Hann lifði lífi sínu ávalt svo, að hann »horfði beint á hverja þraut«, með hug og hjartaprýði, í anda hans, sem mælti á föstudaginn langa, af kærleika til allra: »Faðir, fyrirgef þeim, því að þeir vita ekki, hvað þeir gjöra!« —

Eins og Washington var faðir þjóðarinnar, svo stofnaði Lincoln bræðralagið milli ríkjanna. Hann var allra stétta maður, og heyrði þó engri þeirra til sérstaklega.

Eins og kristin kirkja snýr ávalt aftur að barninu í jötunni lágu í Betlehem, svo verða Bandaríkjamenn, svo lengi sem nafn Lincolns er uppi, að kannast við ættmót sitt við þennan lágborna, fátæka og ólærða landa *sinn*.

---

# EFTIRMÁLI.

Þessi saga er samin eftir nýjustu og beztu heimildum, sem ég átti kost á

Meginmálið og niðurskifting efnisins er tekin eftir því ágripi af sögu Lincolns, er nefnist: »Abraham Lincoln, the boy and the man« (New York, 1916). Ágripið hefi ég svo aukið með smásögum og öðrum viðaukum eftir »The heart of Lincoln« (Philadelphia, 1915) og »Lincoln's last day« (New York 1922), þar sem ýmsar missagnir eru leiðréttar, sem staðið hafa í eldri útgáfum sögunnar. Auk þess hefi ég fært mér í nyt ýmsar greinar um Lincoln, sem eg hefi fundið í íslenzkum tímaritum á víð og dreif.

Sagan lýsir sér bezt sjálf. Hún gjörist hjá einni af stórþjóðum heimsins, en hún á líka erindi til smáþjóðanna, því að nú er þar enginn skortur á vandamálum; miklu fremur er skortur á mönnum til að ráða fram úr þeim. En þeir, sem bera hamingju til þess, verða að vera búnir kostum Lincolns: bjargfastri trú á handleiðslu Guðs, óhagganlegri ráðvendni, í stóru og smáu, hugrekki, þrautseigju og þolinmæði, þegar óvænlegast horfir, og óþreytandi fórnfýsi og starfsemi og hyggindum.

Nú þarf þjóð vor við slíkra góðra drengja.

Nú er það mín innilegasta ósk og bæn til Guðs, að þessi saga megi verða til leiðbeiningar og upphvatningar þjóðræknum Íslendingum, þeim er hug hafa á að hjálpa, þegar »Ísafold er illa stödd«.

Þetta var það, sem fyrir mér vakti, þegar eg tók mér fyrir hendur að semja söguna.

Og í þeirri öruggu von og trú, að Guð muni á sínum tíma senda þjóð vorri marga sonu og dætur með Lincolns trú og hjartalagi, þá óska eg öllum tilvonandi lesendum sögunnar allrar blessunar frá Drotni í bráð og lengd, og bið þá að taka viljann fyrir verkið.

Reykjavík, 15. des. 1923.

*Bjarni Jónsson.*